# Apocrypha.

So nefnast

Þær

# Bækur,

Hvoriar ecke eru halldnar jafnar vid Heilaga Ritning,
Og eru Þo Godar Bækur, og nytsamlegar ad lesa,

## Sem eru Þessar;

I. Judith.
II. Sapientia.
III. Tobias.
IV. Syrach.
V. Baruch.
VI. Maccabeorum.
VII. Partur af Esther.
VIII. Partur af Daniel.





For-

# Formaalenn yfer Book Judith.

Ef ad þad yrde bivijsad af sann-reyndum Sagna-Bokum, ad þesser Giørningar Judith hefde so skied, þa være þetta ein ægiæt Edla-Book, hvør med Riettu ætte j Bibliunne ad standa. Enn þetta vill varla samann koma vid Historiur Heilagrar Ritningar, serdeilis vid Jeremiam, og Esdram, þeir ed votta, Hvørnenn þad Jerusalem og allt þad Land hafe foreydt ordid, og hafe þadann j fra torvelldlega upp aptur biggst j Einvallds-Rijkis-Tijd þeirra Persa, hvørier ed øll Lønd høfdu under allt um kring. Þar þvert j moote skrifar þesse Book j Firsta Cap: Ad Nabogodonosor, Babylons Kongur, hafe þa ed Firsta teked sier fyrer Hendur ad vinna þetta Land. Og giører Mønnum þa Meining, ad þetta hafe skied fyrer Herleiding Gydinga, og fyrer þa Einvallds-Rijkis-Stiorn, þeirra j Persia. Hier a moote seger Philo, ad þetta hafe skied epter Heimkomu Gydinga ur Babylon, under Assvero Konge, þa Gydingar høfdu hvørke uppbiggt Mustered, nie Jerusalem, og ei høfdu neina Vallds-Stiorn. So er þar slijk Villa og Efasemd, bæde um Tijmann, og Nøfninn, ad eg giet þvi med ongvo moote samann komed.

Sumer vilia, ad eige hafe þetta so skied, hell dur sie þetta eirn fagur andlegur Diktur af einum Heiløgum And-Rijkum Manne samsettur, j hvørium hann hefur viliad uppmaala og fyrer Siooner setia Luckn og Sigursælld Gydinga Lyds j giegn øllum þeirra Ovinum, af GUde alla Tijma, so daudsamlega þeim giefna. Eins so sem ad Salomon j sijnu Lof-Kvæde, diktar og syngur um eina Brudur, Enn meinar þo þar med ongva Persomu nie Giørning, helldur allann Israels Lyd, Og so sem S. Johannes j sinne Opennberunar Book, og Daniel, uppmaala margvijsleg Dyr og Bijlæte, hvar med þo þeir meine ecke soddann Personur, helldur allann Christinndoomenn og Konga-Rijkenn. Og vor DROTTinn Christus sialfur j Guds-spiallenu, hefur opt-sinnis, slijka Dikta, og Epterlijkingar, og lijker Himna-Rike vid Tiju Jomfrur, Item, vid eirn Kaup-Mann og eina Perlu, vid Bakara-Konu, vid Mustards-Korn. Item vid Fiskara og Net. Item vid Hirdara og Sauder, og so vid enn fleyra.

Slijk Meining fellur mier vel j Gied, og eg hugsa, ad Diktareun hafe viliande og vilande villt Tijmann, og Nafned hier jnne, til ad aaminna Lesarann, ad hann skule hallda þetta fyrer eitn Andlegann og Heilagann Dikt.

Og Nøfninn samhlioda þessu-miøg vel, Þviad Judith kallast Judæa, þad er Gydinga Folk, hvørt ad er ein Hreinlijf Heiløg Eckia, Þad er ad skilia, Guds Folk er ætijd yfergiefenn Eckia, Enn þo Hreinlijf og Heiløg, og verdur Hrein og Helgud j Orde Guds, og Riettre Tru, þvingar sig og Bidur. Holofernes kallast Prophanus Dux vel Gubernator, eins Heidinn Ogudlegur og O-Christelegur Herra edur Høfdinge, Þad eru aller Fiand-Menn Gydinga Lyds. Bethulia (af hvørre Borg eingenn veit ad segia) kallast ein Jomfru, til Undervijsunar, ad a þeim Tijma hafe þeir Riett-Trundu fromu Gydingar verid ein hrein Jomfru, fyrer utann alla Afguda-Dijrdkan og Vantru, so sem þeir hiaa Esaia og Jeremia nefnder verda, hvar fyrer þeir voru Osigranleger, þo Þeir være j Neyd stadder.

Og skie maa, ad þeir hafe leiked og spilad þessa Dikta, so sem Menn leika hiaa oss Passiu, edur adra Heilaga Giørninga, hvar med þeir hafa viliad undervijsa Folkenu og Ungdomenum, so sem med ødru Spile, og kienna þeim, GUde ad treysta, riettferduglega ad lifa, og allrar Hialpar og Huggunar af Gude ad vænta, j øllum Mann-Raunum, j moote øllum Ovinum.

Þar fyrer er þetta ein ægiæt, good, Heiløg, nytsemdar Book, vel lesande af oss Christnum. Þvi þau Ord sem Personurnar ræda hier inne, þau skulu understandast, so sem ad taladi þaug eitt andlegt Skalld, edur eirn Prophete, af Heiløgum Anda, hvør þessar Personur frammsetur j sijnum Leik edur Spile, Og lætur oss fyrer Þær kiennt og predikad verda. Þessare Book heyrer vel til Vijsdoms Book Philonis, (hvør ed Tyrannana straffar, og prijsar Guds Hialp, hvøria hann veiter sijnu Folke, og etc.) Alijka sem Kvæde edur Vijsa, uppa slijkann Leik, Su sama Book maa vel kallast eitt almennelegt Exemplum edur Dæme.

# Judiths Book.

## I. Capitule.

Arphaxad, Kongurenn af Meden, hafde mørg Lond og Lijde brotid under sitt Valld, og hann uppbiggde eina stoora og stirkva Borg, hana kallade hann Ecbatana.

2. Hennar Murvegge giørde hann ein tomis af hoggnum Steinum, Siøtijger Alna a Hæd, og Þriatijger aalna a Þickt.

3. Enn hennar Turna giørde hann Hundrad aalner a Hædena.

4. Og Tuttugu aalna a Þicktena, a Fiora Vegu.

5. Og Portinn Stadarins giørde hann Jafnhaa og Turnana. Og hann metnadest af sijnu Vallde, og sijnum stoora Strijds-Her.

6. Enn Nabogodonosor, Kongur af Assyria, Rijkte j þeim stoora Stad Ninive, Og a þvi Tolfta aare sijns Kongs-Rijkis bardest hann vid Arphaxad. Og þær Þioder sem biuggu vid Vatnid Euphrates, Tygris og Hydaspes, þær veittu honum Lid. Og hann sloo hann a þvi Mikla Sliettlende sem kalladist Ragan, hvort fordum hafde til heyrt Kongenum Arioch af Elassar.

7. Þa efldist Rijke Nabogodonosor Kongs, og hans Hiarta metnadist.

8. Og hann sende Bodskap til þeirra allra sem biuggu j Cilicia, Damascus, uppa Libanon, Carmel, og j Kedar, Lijka eirninn til þeirra j Galilea, og j þvi stoora Sliettlende Esdrelom.

9. Og til allra þeirra j Samaria, og hinumeigenn Jordanar, allt til Jerusalem, so og j allt Landed Gesem, allt ad Fiall-Byggdum Mor-Lands.

10. Til allra þessara sende Nabogodonosor, Kongur af Assyria, Bod. Enn þeir forsmaadu þad aller, og lietu Sende-Mennena fara heim aptur med Van-Virdu.

11. Þa vard Kongurinn Nabogodonosor miøg reidur vid øll þesse Lond, og soor vid sinn Konunglegann Stool og Rijke, ad hann villde hefna sijn a øllum þeim Londum.

## II. Capitule.

A þrettanda Aare Nabogodonosor Kongs, a Ødrum og Tuttugasta Deige hins Firsta Maanadar, var su Raadagiørd j Huse Nabogodonosor Kongs af Assyria, ad hann villde hefna sijn.

2. Og hann heimte til sijn alla sijna Raadgiafa, Hofdingia, og Hofuds-Menn.

3. Og hann hafde heimuglega Raadagiørd vid þa, og sagde þeim Hvornenn hann hugsade sier øll þesse Lond ad briota under sitt Rijke.

4. Þa þetta leitst þeim øllum, þa kallade Nabogodonosor Kongur fyrer sig Holofernem, sinn Strijds-Hofdingia, og sagde.

5. Far þu ut j mote øllum Rijkium sem liggia vid Vestrenu, og sierdeilis j mote þeim sem fyrerlited hafa Minn Bodskap.

6. Þu skallt ecke hlijfa neinu Rijke, og allar sterkar Borger skalltu mier undergiefnar giøra.

7. Þa kallade Holofernes Hofuds-Mennena og Hofdingiana, yfer þvi Assyrianska Herli-

Herlide, til sijn, og briniade Folked til Bardaga, so sem Kongurinn hafde honum bodid, Hundrad og Tuttugu Þusunder Fotgangande Lids, og Tolf Þusunder Bogmanna a Hestum.

8. Og hann liet allt sitt Strids-Folk ferdast undann sier, med Oteliande Ulfallda, med miklum Vidurbunade, þar med Naut og Saude, oteliande, handa sijnu Folke.

9. Og hann liet ur øllu Syrlande flytia Korn, til sijns Herlids.

10. Enn Gull og Peninga tok hann Ogrynne med sier, ur Kongsins Fiearhirdslum.

11. Og hann reiste framm med allann þann Her, med Vagna, Riddaralid, og Bogmenn, og þeir huldu Jordena sem Eingesprettur.

12. Og þa hann var komenn yfer Landamerke Assyria-Lands, þa kom hann til þess stora Fialls Ange, til Vinstre Sijdu vid Cilicia, og vann alla þeirra Bæe, og sterkar Borger.

13. Og hann nidurbraut Melothi, eina vijdfræga Borg, og rænde allt Folk j Tharsis, og Jsmaels Børn, sem biuggu gegnt Eydemørkinne, og j Sudur-alsu þess Landsins Chellon.

14. Hann reiste og so yferum Phrat, og kom j Mesopotamiam, og nidurbraut alla hoasa Stade, þa sem fyrer honum urdu, allt fra Læknum Mambre, jnn til Sioafarins.

15. Og tok jnn Landamerkenn, allt j fra Cilicia jnnntil Landamerkia Joppe, sem liggia til Sudurs.

16. Og hann burtflutte Børn Madian, og rænte øllu þeirra Godse, og sloo med Sverds-Eggium alla þa sem honum veittu Motstødu.

17. Epter þetta reiste hann ofann j Landed Damascus, um Haust-Tijmann, og uppbrennde allt þeirra Korn, og liet høggva øll Trie og Vijngarda, og allt Landed var hrædt vid hann.

# III. Capitule.

Þa sendu Kongarner og Høfdingiarner af Syria, Mesopotamia, Syrien Sobal, Lybia og Cilicia, þeirra Bodskap, ur øllum Stødum og Londum.

2. Þeir komu til Holofernem, og søgdu, Snu þinne Reide fra oss!

3. Þvi þad er betra, ad vier þionum þeim mikla Konge Nabogodonosor, og sieum þier hlydner, og hølldum Lijfenu, helldur enn ad vier skulum deya, og vinna þo ekkert a.

4. Allar vorar Borger, Audæfe, Fioll, Hoalsar, Akrar, Uxar, Sauder, Geitser, Hestar og Ulfalldar, og hvad vier høfum, þar med vort Þionustu-Folk, þad er alltsamann þitt, Gior þu af þvi hvad þier lijkar.

5. Ioa, einninn vier, med vorum Børnum, erum þijner Þienarar, kom til vor, og ver oss noadugur Herra! og haf vora Þionustu, so sem þier lijkar.

6. Þa foor Holofernes ofan af Fiallenu, med allt sitt Herlid, og jnntok þær sterku Borger, og allt Landid.

7. Og hann utvalde sier Þienara, af þvi besta Folke sem hann fann a medal þeirra.

8. Af þessu skielfdust øll Lond so miøg, ad Stiornararner, og þeir hellstu ur øllum Borgum, med oasamt Folkenu, geingu ut j mote honum, og medtoku hann med Kronsum, Blysum, Danse, Bumbum og Hlioð-Pijpum.

9. Og kunnu þo med slijkre Æru øngva Noad ad foa.

10. Þviad hann nidur braut þeirra Borger, og upphio þeirra Lunde.

11. Þviad Nabogodonosor Kongur hafde honum so skipad, ad hann skyllde afmoa alla Gude j Londunum. So ad allar þær Þioder sem Holofernes yferynne, prijsudu hann fyrer Gud alleina.

12. Og þa hann reiste j giegnum Syrien Sobal, Apamean, og Mesopotamiam, kom hann

hann til þeirra Edomita, j Land Gabaa, og vann þeirra Borger, og var þar j Þriatijge Daga, a medann kallade hann allt sitt Strijds-Folk tilsamans.

## IV. Capitule.

Þa Israels Born, sem binggu j Gydinga Lande, heyrdu slijkt, ottudust þeir hann miog.

2. Og Skielfing og Hrædsla kom yfer þa, þviad þeir voru um þad hrædder, ad hann munde giora vid Borgena Jerusalem, og vid Mustere DROttins, lijka so sem hann hafde giort vid adrar Borger, og þeirra Afguda Hus.

3. Þar fyrer sendu þeir um allt Samaria-Land, allt ad Jericho. Og settu Strijds-Folk j allar stirkvar Borger, a Fiall-Byggdum.

4. Og giordu Murvegge j kringum sijna Bæe, og sofnudu Vistum, og Vidurbuninge til Bardaga.

5. Og Jojakim Prestur skrifade til ollum þeim sem binggu gagnvart Esdrelom, þad er, gegnt þeim vijdum Vollum, hia Dothaim, og til allra þeirra hvar Ovinerner mættu j giegnum komast, ad þeir skylldе vardveita Klettana a Fiollunum, sem liggia andspænis Jerusalem.

6. Og Israels Born giordu so sem Jojakim Kienne-Madur DROTTins baud þeim.

7. Og allt Folked kallade til DROttins alvarlega, og þeir, og þeirra Kvinnur lijtillæckudu sig med Fostum, og Bæna-Akalle.

8. Enn Prestarner klæddust Seckium, og Borninn loau ute fyrer Mustere DROttins, og Alltare DROTTins var yferbreidt med einum Seck.

9. Og þeir bаdu til DROttins Israels Guds, med einum Huga, ad þeirra Born og Kvinnur yrde ecke herteknar, og ad þeirra Borger skylldu ecke nidurbriotast, og þeirra Helgedomur skyllde eige verda saurgadur, og ad þeir ei yrde svijvirdter af Heidingium.

10. Og Jojakim, Sa Ypparste Kienne-Madur DROttins, gieck umkring, aminnande allt Israels Folk, og sagde.

11. Þier skulud vijst vita, ad DROttenn ydar Gud mun Bænheyra ydur, ef þier loated ecke af med Fostum og Bæna-Akalle fyrer DROTTne.

12. Hugsed um Mosen Þienara DROttins, Sa ei med Sverde, helldur med Heilagre Bæn slo Amaleck, hvor ed treyste a sijna Magt og Krapt, a sitt Herlid, Skiolld, Vagna, og Riddaralid.

13. Eins skal þad ganga ollum Ovinum Israels, ef þier so giored Yferboot, sem þier hafed uppbiriad.

14. Og epter slijka Aminning bаdu þeir til DROTTins, og voru fyrer DROttne, so þad Prestarner geingu j Seckium, og hofdu Osku yfer Hofde, og fornfærdu so DROttne Brenne-Forner. Og þeir bаdu aller DROttenn af ollu Hiarta, ad Hann villde vitia sijns Folks Israels.

## V. Capitule.

Og Holofernes, Strijds-Hertugenn af Assyria, fieck ad vita, ad Israels Born bingguſt vid, og villdu reisa Vorn, og hvornenn þeir hofdu innteked Klettana a Fiollunum. Þa reiddest Holofernes, og heimte til sijn alla Hofdingia og Hofuds-Menn, þeirra Moabita, og Ammonita, og sagde til þeirra.

2. Seged framm, Hvad fyrer Folk er þad sem byr a Fiallenu? Hvoriar hafa þeir storar Borger? Hvor er Stirkur þeirra, og hvad fyrer Strijds-Folk og Konga hafa þeir? Ad þeir alleina, helldur enn aller adrer j Austur-Londum, fyrerlijta oss, og hafa ecke utgeinged j mote oss, og medteked oss med Fride?

3. Þa svarade Achior, sa ed var Hofdinge allra Ammons Barna, og sagde.

4. Minn Herra! Villtu liuflega heyra þad,

þa vil eg segia þier Sannleik, hvada Folk þetta er, sem a Fiollum þessum byr, og ei liuga fyrer þier.

5. Þetta Folk er komed ur Chaldea Lande.

6. Og bio j firstu j Mesopotamia, þviad þeir villdu ecke filgia Afgudum sinna Forfedra j Chaldea.

7. Þar fyrer yfergaafu þeir sinna Forfedra Sidveniur, hvorier ad hofdu marga Afgude, So þeir giæte þionad þeim Eina Gude a Himnum, hvor ed eirnenn baud þeim ad fara burt þadann, og bua j Haran.

8. Og þa Hallære var j ollum Londum, reistu þeir ofann j Egyptaland, þar fiolgade þa so j Fiogur Hundrud Aar, ad þeir urdu ecke talder.

9. Enn þa Egyptalands Kongur aa-þioade þa med Leirburde, og Tigul-Steinagiord, til ad uppbyggia hans Borger, þa kolludu þeir til siins DROTTins, Hann slo allt Egyptaland med marghaattudum Plaagum.

10. Þa þeir Egyptsku hofdu nu burt reked þa fra sier, og Plaagunum liette af þeim, og þeir villdu naa þeim aptur, og færa þa inn j Landid j Þrældom, þa upplauk Gud a Himnum Sioonum fyrer þeim, so ad Vatnid stood fast a baadar Hendur, so sem eirn Mur-Veggur, og þeir geingu þurrum Footum a Marar-Botne, og komust þadann.

11. Enn þa Egyptsker, med ollum þeirra Her, flyttu sier epter þeim, Druckuudu þeir aller j Sioonum, so þar komst ecke eirn undann, sa þar kunne fra ad segia.

12 Og þa þetta Folk kom ur Hafinu Rauda, settu þeir siin Land-Tiolld j Eydemorkinne Fiallsins Sinai, þar sem eingenn Madur kunne aadur ad bua, nie hiaalpa sier.

13. Þa vard þad beiska Vatned sætt, so þeir gaatu drucked, og j Fiorutiigu Aar feingu þeir Braud af Himne.

14. Og hvort sem þeir foru, hafande ei Boga, Orvar, Skiolld, nie Sverd, þa striidde Gud fyrer þa, og þeir feingu Sigur.

15. Og eingenn fieck þessu Folke Skada giort, nema þa ad eins, þad gieck af Bodordum DROTTins Guds siins.

16. Þviad so opt sem þeir tilbaadu annann helldur enn þeirra GUd, þa urdu þeir ihelslegner, og med allre Svijvirding Hertekner.

17. Enn so opt sem þeir Idrudust þess, ad þeir hofdu viked j burt fra Bod-Ordum þeirra Guds, þa gaf GUd a Himnum þeim aptur Sigur-Vinning a þeirra Ovinum.

18. Fyrer þa Skulld afmaadu þeir Kongana, þeirra Cananita, Jebusita, Pheresita, Hethita, Hevita, Amorita, og alla Magtar-Menn j Hesbon, og eignudust þeirra Lond og Borger.

19. Og so leinge sem þeir syndgudust ecke a moote siinum Gude, þa gieck þeim vel, Þviad þeirra GUd hatar Raanglæted.

20. Þeir hafa og fyrer þessa Daga vered opt utrekner af morgum Þiodum, og burt flutter j Okunnug Lond, af þvi, ad þeir hofdu geinged af þeim Bod-Ordum, sem GUd hafde giefed þeim, til þess, ad lifa þar epter.

21. Enn nu fyrer litlu eru þeir aptur komner, ur þeirre Utlegd, j hvorre þeir voru, epter þad þeir hofdu snued sier til DROTTins þeirra Guds, og hafa sett sig nidur aptur a þessar Fiall-Byggder, og bua ad nyu j Jerusalem, þar sem er þeirra Helgedomur.

22. Þar fyrer, Minn Herra! Laat rannsaka, ef ad þetta Folk hefur syndgast a moote GUde siinum, þa vilium vier reisa upp þangad, og þeirra GUd mun sannlega giefa þa j þiinar Hendur, so þu munt þa yfervinna.

23. Enn hafe þeir ecke syndgast j moote þeirra GUde, þa vinnum vier ongvann Sigur a þeim, Þviad þeirra GUd mun vernda þa, enn vier munum verda ad Haadungu, ollu Landenu.

24. Þa Achior hafde talad þetta, þa reiddust aller Hofuds-Menn Holofernis, og hugsudu sier ad liiflaata hann, og sogdu siin a mille.

25. Hvor er þesse sem sliikt dirfest ad segia? ad Israels Born skule veriast fyrer Nabogo-

dono-

donosor Kongs, og hans Herlide? Er þetta ecke naked Folk, og øngver Strijds-Menn?

26. Enn so ad Achior sioae, ad hann hefur løgid, þa viliuin vier reisa upp þangad, og þa vier føngum þeirra enu bestu Menn, þa viliuin vier laata jhel stijnga Achior med þeim, so ad vita skulu allar Þioder, ad Nabogodonosor er Landsins GUD, enn einginn annar.

## VI. Capitule.

Þvi næst reiddist og eirninn Holofernes Achior, og sagde,

2. Hvornenn dirfest þu ad spaa oss, ad Israelis Folk skule faa Vernd af þeirra Gude? Enn þa vier nu jhelslaaum þa, so sem eirn Mann, þa skalltu sioa, ad þar er Einginn GUD annar enn Nabogodonosor alleina, og þa skalltu med þeim jhelslegenn verda, med Sverde þeirra Assyriansku, og allt Israelis Folk skal med þier drepeð verda. Þa skalltu verda var vid, ad Nabogodonosor er Herra yfer øllum Heime.

3. Nær þu verdur jhel stungenn med mijnu Sverde, og liggur a medal þeirra jhelslegnu Israel, og hlytur ad deya og fordiarfast.

4. Enn ef þu hyggur, ad þinn Spaadomur sie sannur, þa þarftu hvorke ad hrædast nie blikna.

5. So sem þeim geingur, so skal þier ganga, Þviad eg vil nu senda þig til þeirra, so ad eg kunne ad straffa þig under eins og þa.

6. Þa baud Holofernes sijnum Þienurum ad grijpa Achior, og flytia hann til Bethulia, j Hendur Israels Børnum.

7. Og Holofernis Þienarar gripu hann. Og sem þeir komu yfer Sliettlended, ad Fiallenu, þa runnu Bog-Menn j moote þeim.

8. Þa viku þeir sier a adra Sijdu hiaa Fiallenu, og bundu Achior vid eitt Trie, a Høndum og Footum, og hrundu hønum um koll, og lietu hann so hanga, og hvurfu aptur til sijns Herra.

9. Enn Israels Børn komu ofann fra Bethulia til hans, leystu hann, og høfdu hann til Bethulia, og leiddu hann til Folksins, og spurdu hann ad, hvornenn þetta hefde skied, hvar fyrer þeir af Assyria høfdu uppheingt hann.

10. A þeim sama Tijma voru Høfuds-Menn j Borginne, Osias, Sonur Micha, af Simeons Ætt, og Charmi, sa sem og nefndest Othoniel.

11. Fyrer þessum Ølldungum, og fyrer øllu Folkenu frammtalde Achior allt þad sem Holofernes hafde hann adspurt, og so hvoriu hann hafde svarad, og ad Holofernes Folk hefde fyrer þetta Andsvar viliad deyda hann, Enn Holofernes hafde bodid, ad hann skyllde j Hendur seliast Israels Børnum, so ad þa hann hefde jhel slegeð Israels Børn, þa villde hann straffa og jhel slaa Achior.

12. Af þvi, ad hann hafde sagt, ad GUD a Himnum munde verda þeirra Vernd.

13. Þa Achior hafde þetta talad, fiell allt Folked framm a sitt Andlit, og bad til DROttins, groatande alltsamann, og bad DRottinn segiande.

14. DROTTinn GUD Himins og Jardar! Alijttu þeirra Drambseme, og vora Eymd, og lijttu Naadarsamlega yfer Þijna Heilaga. Og syn þad, ad Þu yfer-giefur ecke þa sem Þier treysta, og ad Þu um koll kastar þeim sem stæra sig af sioalfum sier og sinne Magt!

15. Þannenn grietu þeir, og baadust fyrer, allann þann Dag, Huggande Achior, og søgdu.

16. GUD vorra Fedra, hvørs Magt þu prijsad hefur, hann mun so endurgiallda þier þad, ad þeir munu ecke fagna yfer þier, Helldur muntu verda sioande, Hvornenn ad þeir verda jhel slegner og afmaader.

17. Og þegar DRottinn Gud Vor hefur frelsad oss, þa sie GUD med þier vor a mille, Og vilier þu, þa skalltu, og aller þijner, bua a medal vor.

18. Og þa Folked skildest ad, leidde Osias

hann med sier j sitt Hus, og bio til mikla Kvolld-Moaltijd.

19. Og baud ollum þeim Ellstu til sijn, og þeir voru glader, epter langa Fostu.

20. Þar epter var Folked kallad til samans aptur, og þeir bœdu Jsraels GUD um Hiœlp j Sofnudenum alla þa Nott.

# VII. Capitule.

Annars Dags baud Holofernes sijnu Herlide, ad buast til j moote Bethulia.

2. Og hann hafde Hundrad og Tuttugu Þusunder Fotgongulids, og Tolf Þusunder Riddaralids, auk þess Fiolda er hann hafde utvaled j hvorium Stad, hvar hann hafde unned nockud Land.

3. Þesse allur Her bioo sig j moote Jsraels Bornum, og þeir settu sijnar Herbuder uppa Fiallenu, sem liggur gagnvart Dothaim, fra Belmaan, jnn allt ad Chelmon, hvor ed liggur giegnt Esdrelom.

4. Þa Jsraels Born sœu nu þennann mikla Mannfiolda þeirra Assyrianstu, fiellu þeir til Jardar, logdu Osku yfer Hofud sier, og bœdust fyrer, aller under eins, Ad Gud Jsraels villde veita sijna Miskun sijnu Folke.

5. Og þeir herklœddust, og inntoku Klettana hiœ Fiallenu, og giœttu þeirra Nœtur og Daga.

6. Enn þa Holofernes reiste um kring, merkte hann, ad þar var eirn Brunnur utan Stadar, til Sudurs, þadann var Vatne veitt jnn j Stadenn med Rennum, þessar Rennur skipade hann upp ad hoggva.

7. Og þo þeir hefdu nockra Smœ-Brunna, ei langt fra Mur-Vegglunum, hvort þeir soktu Vatn heimuglega, þa var þad þo naumlega so miked, ad þeir giœte endurnœrt sig þar med.

8. Þar fyrer komu Ammonitar og Moabitar til Holofernes, og sogdu.

9. Jsraels Born þora ecke ad beriast vid oss, heldur hallda þeir sier uppa Fiollum og Hœlsum, hvar under þeir eru Ohrœdder.

10. Lœttu þar fyrer ad eins geyma Brunnana, so ad eige kunne þeir Vatn ad sœkia, þa munu þeir deya fyrer utan Sverd, Ellegar skulu þeir neydast til ad giefa upp Borgena, hvoria þeir hallda Ovinnande, af þvi hun stendur a Fialle.

11. Þetta Rœd lijkade Holoferne, og hans Strijds-Monnum, og hann sette Hundrad ad vardveita hvorn Brunn.

12. Þa Brunnarner hofdu nu j Tuttugu Daga vered vardveitter, Þa hofdu þeir j Bethulia eckert meira Vatn, hvorke j Smœ-Brunnunum, nie annarstadar, so ad þeim mœtte duga einum Deige leingur, og Folkenu var giefed daglega Vatn af Skamte.

13. Þa komu Menn og Kvinnur, Unger og Gamler til Osiam, og til Olldunganna, Klogudu og sogdu, Dœme Gud a millum ydar og vor, ad þier komed oss j slijka Neyd, med þvi ad þier villdud ecke lœta oss giora Frid vid þa Assyrios, Þar sem GUD hefur giefed oss j þeirra Hendur.

14. Og vier hofum ongva Hiœlp, helldur hliotum vier fyrer þeirra Augum af Þorsta ad vanmegnast, og herfelega deya.

15. Þar fyrer kalled Folked til samans, so ad vier giefum oss viliuglega under Holofernem.

16. Þviad betra er, ad vier giefum oss upp, og holldum Lijfe, og lofum so GUD, helldur enn ad vier skulum fyrerfarast, og verda til Skammar fyrer allre Verolldu, og siœ uppa, ad vorar Kvinnur og Born hliota fyrer vorum Augum so hriggelega ad deya.

17. Vier vitnum j Dag fyrer Himne og Jordu, og fyrer Gudi vorra Forsedra, Sa sem nu straffar oss vegna vorra Synda, ad vier hofum beded ydur ad giefa Stadinn upp fyrer Holoferne, so ad vier mœttum fœ fliotann Dauda fyrer Sverde, enn vanmegnast ecke so leinge af Þorsta!

18. Þa

18. Pa var ein stoor Veinan og Græatur a medal alls Folksins, Sumer stodu leinge, kolludu til Guds og sogdu.

19. Vier hofum syndgast med vorum Forfedrum! Vier hofum misgiort, og hofum vered Ogudleger!

20. Enn Pu ert miskunsamur, þar fyrer vertu oss lijknsamur, og straffa oss sioalfur, og med þvi, ad vier medkiennum Þig, þa ysergief oss ecke j Heidingia Hendur, þeirra sem ecke þeckia þig, So ad þeir hæleft ecke um, og sege, Hvar er nu þeirra GUD?

21. Og er þeir hofdu nu leinge kallad og grœated, og nockud var hliodt ordid, stood Osias upp, griet og sagde,

22. Kiærer Brædur! Hafed Þolinnmæde, og bijdum enn nu j Fimm Daga epter Hioalp af GUde.

23. Ef Hann villde vera oss Nœadugur, og giora sitt Nafn Dijrdarsamlegt.

24. Fœaum vier ecke Hioalp j þessa Fimm Daga, þa vilium vier giora so sem þier hafed beded.

## VIII. Capitule.

Þetta kom fyrer Judith, hvør ed var ein Eckia, Dotter Merari, Sonar Uz, Sonar Josephs, Sonar Osia, Sonar Elai, Sonar Jamnor, Sonar Jedeon, Sonar Raphaim, Sonar Achithobs, Sonar Malchie, Sonar Enan, Sonar Nathania, Sonar Sealthiel, Sonar Simeon.

2. Og hennar Madur hafde heited Manasses, hann hafde andast þa Menn uppskaru Bygg-Korn.

3. Þviad þa hann var a Akre hioa Verk-Monnunum, kom ad honum Krœankleike, af Hita, og andadist j sinne Borg Bethulia, og vard grafenn hioa sijnum Forfedrum.

4. Hann liet epter þessa Judith, hvør ed þa hafde Eckia vered j Þriu Aar, og Sex Mœanude.

5. Hun hafde giort sier eitt lijted sierlegt Herberge, ofanverdt j sijnu Huse, þar ed hun sat med sijnum Ambœattum.

6. Og var klædd einum Seck, og fastade daglega, utann a Sabbaths-Dogum, Tunglkomu-Helgum, og odrum Hœatijdum Israels Huss. Og hun var Væn og Audug, og hafde margt Þionustu-Folk, og Garda fulla af Nautum og Saudum.

7. Hun hafde og goodann Lofstyr af hvorium Manne, þad hun være Gudhrædd, og einginn kunne ad tala Jllt um hana.

8. Þesse Judith, þa ed hun heyrde, ad Osias hafde lofad ad giefa upp Stadinn þeim Assyriis, epter Fimm Daga, sende hun til Olldunganna Chambri og Charmi.

9. Og þa þeir komu til hennar, þa sagde hun til þeirra, Hvad skal þad vera, ad Osias hefur samþyckt ad giefa upp Stadinn fyrer þeim Assyriis, ef ad oss kiemur einginn Hioalp j Fimm Daga?

10. Hvørier erud þier, ad þier freisted Guds? Ei þienar slijkt til ad utvega Nœad, helldur miklu framar Reide og Ovinœattu.

11. Vilied þier setia DROTTne Stund og Dag, epter ydar Villd, nær Hann skal hioalpa?

12. Þo er DROttenn Þolinnmodur, þvi lœatum oss þad Jlla þykia, og leita Nœadar med Grœatande Tœarum.

13. Þviad Gud reidest ecke so sem Madur, ad hann sættist ecke.

14. Þar fyrer skulum vier Lijtillæcka oss af Hiarta, og þiona Honum, og bidia med grœatande Tœarum, fyrer honum, ad hann vilie veita oss Miskun, epter sijnum þægelegum Vilia.

15. Og ad vier fœaum Fognud epter Hriggd, so sem nu hriggiunst vier af þeirra Drambseme, Ad vier ecke hofum epterfilgt Syndum vorra Forfedra, sem yfergœafu þeirra Gud, og tilbœadu annarlega Gude, hvar fyrer þeir eru giefner j þeirra Ovina Hendur, og eru j hel slegner, herteknar og af þeim skammader.

16. Enn vier medkiennum ongvann annann Gud utann Hann alleina, og vier vilium

b. med

med Audmykt vænta Hiaalpar og Huggunar af honum.

17. So mun Hann DROTTenn Vor Gud frelsa vort Blod fra vorum Ovinum, og alla þa Heidingia sem oss ossækia mun Hañ nidurlæcka, og til Skammar verda laata.

18. Enn þier, Kiærer Brædur! Þier sem erud Olldungarner, Hugged Folked med ydar Ordum, ad þad hugse, ad vorra Forfedra var og freistad, so ad þeir yrdu reynder, hvort ad þeir þionudu Gude af Hiarta.

19. Aminned þa, Hvorsu vors Fodurs Abrahams var margfalldlega freistad, og er Guds Vinur ordinn, epter þad hann var reyndur fyrer marghaattadar Freistingar.

20. So hafa þeir Isaac, Jacob, Moses, sem voru Gude Kiærer, vered stoduger, og hafa ordid ad yfervinna marga Hormung.

21. Enn hiner adrer sem ecke hafa viliad medtaka Hormungena med Guds Otta, helldur hafa mællt a moote Gude af O-þolinnmæde, og lastad Gud, þeir eru af Fordiarfaranum, og af Hogg-Ormum foreydder.

22. Þar fyrer verum ecke o-þolenmoder j þessum Mootgange, medkiennum helldur, ad þetta er eitt Straff af Gude, miklu minna enn vorar Synder eru, og truum þvi, ad vier verdum tyrtader, so sem hans Þienarar, til Betrunar, enn ecke til Fordiorfunar!

23. Þar til svarade Osias, og þeir Olldungarner, Allt er þad satt sem þu hefur talad, og þijn Ord eru ostraffanleg.

24. Þar fyrer bid þu til DROTTins fyrer oss, þviad þu ert ein Heiløg Gudhrædd Kvinna.

25. Og Judith sagde, Med þvi þier halldeb, ad þad sie af Gude hvad eg hefe talad, þa reyned og eirnenn Hvort þad er af Gude sem eg hugsa ad giora, og bidied, ad Gud villde giefa Luckt þar til.

26. Giæred ad Porte Stadarins a þessare Nottu, nær eg utgeing med minne Ambaatt, og bidied, ad DROttenn vilie hugga sitt Folk Israel a þessum Fimm Dogum, so sem þier hafed sagt.

27. Og hvad eg hugsa ad giora, þar skulud þier ecke eptergrenslast, helldur ad eins bidied fyrer mier til DROTTins Vors Guds, þangad til ad eg sege ydur framm hvad þier skulud giora.

28. Og Osias Hofdinge Juda sagde til hennar, Gack j Fride, DROTTenn sie med þier, og hefne vor a vorum Ovinum! Og þeir geingu so fra henne aptur.

# IX. Capitule.

Þvi nærst gieck Judith j sitt Svefn-Herberge, og færde sig j eirn Seck, og dreifde Osku yfer sitt Hofud, og fiell framm fyrer DROTTne, og kallade til Hans, og sagde.

2. DROTTinn Gud mijns Fodurs Simeons! hvorium þu gafst Sverded til ad straffa Heidingiana, sem Jungfruna hofdu kreinkt og skammad, Og Þu þar j mot liest Fangadar og Herteknar verda þeirra Kvinnur og Dætur, af þijnum Þienurum, sem vandlættu þijna Vandlæting, Hiaalpa þu mier Foatækre Eckiu, DROTTinn Minn Gud!

3. Þvi oll Hiaalp, sem fordum Daga og þar epter er skied, hana hefur þu veitt. Og hvad Þu villt, þad hlytur ad skie.

4. Þviad nær ed Þu villt hiaalpa, þa kann þad ecke bregdast, og þu veitst vel, hvornenn þu skuler Ovinena straffa.

5. Lijt þu nu yfer Herlid þeirra Assyrianssku, so sem þu fordum Tijd leitst til Herlids þeirra Egyptsku, þa þeir runnu epter þijnum Þienurum, med mikelltre Magt, og treystu uppa sijna Vagna, Riddara, og miked Herlid.

6. Enn þa þu leitst til þeirra, þa urdu þeir hrædder.

7. Og Diuped sloo þeim nidur, og Vatned dreckte þeim.

8. Laat

8. Loat nu so skie og þessa, DROTTinn! þeir sem treysta uppa sijna Magt, Vagna, Spiot og Skot, og þeckia Þig ecke, og hugsa ecke, ad Þu DROTTinn Vor Gud! ert Sa sem hiaalpar j Bardaganum fra Upphafe, og med Riettu kallast DROTTinn.

9. Utriettu þinn Armlegg, so sem fordum, og sundursloa Ovinena med þinne Magt, ad þeir fyrerfarest fyrer þinne Reide, þeir sem hroosa sier, ad þeir skule nidurbriota þinn Helgedom, og saurga Tialldbud þijns Nafns, og um koll sloa þijnu Alltare, med sijnu Sverde.

10. Straffa þeirra Drambseme, med þeirra eigenn Sverdum, ad hann verde veiddur med sioalfs hans Augum, þa hann sier mig, og verde prettadur, med mijnum vinsamlegum Ordum.

11. Gief mier Diorfung, ad eg ecke hræðest hann og hans Vellde, Helldur ad eg giete nidurslleged hann.

12. Pad skal vera Prijs þijnu Nafne, ad ein Kvinna hefur lagt hann vid Velle.

13. Þvi Þu DROttinn! kannt ad giefa Sigurvinning, fyrer utann Folks Fiolda, og þu hefur ecke Lyst a Styrkleika Hestsins. Þeir Drambsomu þocknudust þier enn nu alldrei, Enn alltijd hefur þu hast Þocknan a Bæn þeirra sem eru aumer og lijtelloater.

14. O DROTTinn! Gud Himensins! Þu sem skapad hefur Vatned, og ert Eirn DROTTinn allra Hluta, Heyr mijna Bæn Foatækrar! eg sem treyste alleina uppa þijna Miskunsemd!

15. Minnstu DROttenn a þinn Sattmoala, og gief mier j Hiarta, hvad eg skal tala og hugsa, og gief mier Luckn þar til, so ad þitt Hus meige standa, og aller Heidingiar meige formerkia, ad Þu ert Gud, og eingenn annar enn Þu!

# X. Capitule.

Þa hun hafde nu endad sijna Bæn, stod hun upp,

2. Og kallade a sijna Amboatt Abra, og gieck ofan j Hused, lagde af sier Seckenn, og afklæddist sijnum Eckiu-Bunade.

3. Og laugade sig, og smurde med Dyrlegu Vatne, fliettande sitt Hoar, og sette eina Husu uppa sig, og jklæddist sijnum kostulegum Klædum.

4. Og prydde sig med sijnum Fegurdar-Bunade, og sette upp allt sitt Skart.

5. Og DROttenn gaf henne Noad, ad hun var frijd Asyndar, þviad hun skartade ecke af Gyrnd, helldur Gude til Lofs.

6. Og hun fieck sinne Amboatt eirn bikadann Ledur-Belg, fullann af Vijne, og eina Vidsmiors Krus, og eirn Seck, þar ed hun hafde j Fijkiur, Miol og Braud, þeim til Matar, og hun gieck af Stad.

7. Og hun fann Osiam, og Olldungana, j Port-Dyrunum, sem bidu epter henne, so sem sagt var.

8. Og þa undrade a hennar Frijdleika.

9. Þo spurdu þeir hana ecke, hvad hun ætlade sier, helldur lietu þeir hana ut, og sogdu, Gud vorra Forfedra giefe þier Noad, og loate þitt Aform luckast, so ad Israel meige glediast af þier, og ad þitt Nafn verde reiknad a medal þeirra enu Heilogu.

10. Og aller þeir sem þar voru, sogdu, Amen, Amen!

11. Enn Judith giorde sijna Bæn, og gieck oaleidis med sinne Amboatt Abra.

12. Og sem hun gieck aarla Morguns, ofann af Fiallenu, þa mættu henne Vardhallds-Menn þeirra Assyrianisku, þeir toku hana Hendum, og spurdu hana, hvadann hun kiæme, og hvort hun villde.

13. Og hun svarade, Eg er ein Ebresk Kvinna, og eg flyde fra þeim, þviad eg veit ad þeir munu koma j ydar Hendur, af þvi ad þeir fyrerlytu ydur, og villdu ecke leita Noadar, og giefa sig velviliuglega under ydur.

14. Þar fyrer hef eg j Sinne, ad koma til Hofdingians Holofernes, ad opinnbera honum þeirra Leyndar-Moal, og skijra honum fra Hvornenn hann kunne þa audvelldlega

 yfer

yfer ad vinna, so ad hann skal ecke þurfa ad missa eirn Mann.

15. A medann hun var þetta ad tala, horfdu þeir a hana, og undrudust storlega, ad hun var so frijd.

16. Og sogdu, Þad maa þier til Hialpar verda, ad þier geingur so gott til, og þu villt koma til vors Herra.

17. Þviad nær þu kiemur fyrer hann, þa mun hann verda þier Naadugur, og þu munt þocknast honum af Hiarta.

18. Og þeir leiddu hana burt ad Land-Tiallde Holofernis, og sogdu honum fra henne.

19. Og þa hun kom fyrer hann, þa brann hann jafnsnart af hennar aast.

20. Og hans Þienarar sogdu sijn a mille. Þad Ebreska Folk er a ongva Leid forsmaaande, med þvi þad hefur so frijdar Konur. Skylldu Menn ecke beriast vegna so frijdra Kvenna?

21. Þegar ed Judith saa nu Holofernem sitiande j sijnu Tiallde, hvørt ed forkostulega var giort med Purpura, og Gulle, og med Smaragdus, og med mørgum Gimsteinum prydt, þa fiell hun nidur, og laut honum, Og Holofernes baud ad reisa hana upp aptur.

## XI. Capitule.

Og Holofernes sagde til hennar. Vertu O-hrædd, og ottast ecke, Þviad eg hefe enn nu alldrei illt giort noeckrum Manne, sem villde giefa sig under Nabogodonosor Kong.

2. Og hefde þitt Folk ei forsmaad mig, þa skyllde eg ecke hafa upplypt einu Spiote a moote þvi.

3. Enn nu segdu mier, Hvar fyrer þu ert fra þeim vikinn, og ert kominn til mijn?

4. Judith svarade honum, og sagde, Heyr naadarsamlega Ambaatt þijna, og ef þu giører so sem þijn Ambaatt seger þier, þa mun DROttenn giefa þier Lucku og Sigur.

5. GUD giefe Nabogodonosor Lucku og Farsælld, Konge alls Landsins, Sa þig hefur utsendt til ad straffa alla Ohlydna, Þvi þu kannt honum undergiefna ad giøra ecke alleinasta Mennena, helldur jafnvel oll Dyr a Jordunne.

6 Þviad þijn Skinseme og Vijsdomur er mieg vijdfrægur j allre Verolldu, og aller vita, ad þu ert sa volldugaste Hofdinge j ollu Kongs-Rijkenu, og þijn gooda Stiornan prijsast af ollum.

7. Vier vitum og Hvad Achior hefur talad, og hvad þu giorder honum j stadinn.

8. Þviad Vor GUD er so reidur ordinn, vorum Syndum, ad hann hefur laatid segia fyrer sijna Spaamenn, þad Hann vilie straffa Folked, fyrer þess Synda Saker.

9. Og af þvi, ad Israels Folk veit nu, ad þeir hafa styggt sinn GUD, þa eru þeir nu hrædder fyrer þier.

10. Þar ad auk lijda þeir stoort Hungur, og vanmegnast af Þorsta.

11. Og nu ætla þeir sier ad slaatra sijnum Fienade, ad þeir drecke hans Blood, og ad eta þad Heilaga Offur, af Korne, Vijne og Vidsmiore, hvad GUD hefur fyrerbodid ad þeir skylldu ei snerta þad, þar fyrer er vijst ad þeir mune fyrer farast, Fyrst ad þeir giordu soddann.

12. Og af þvi eg veit þetta, þa flyda eg fra þeim, Og DROTTinn sende mig til þijn, ad eg skyllde segia þier þetta.

13. Þvi þo eg sie kominn til þijn, þa hef eg þo ei þar fyrer yfergiefed minn GUD, helldur vil eg enn þiona mijnum Gude hiaa þier. Og eg þijn Ambaatt skal ganga ut, og tilbidia GUD, og hann mun opennbera mier nær GUD vill launa þeim sijnar Synder, so vil eg koma, og segia þier þad, og leida þig j giegnum midia Jerusalem, so ad þu skallt hafa allt Israels Folk, lijka sem Saude, þeir ed ongvann Hirder hafa. Og þar skal ecke Hundur þora ad geya j moote þier, Þvi GUD hefur mier þad opinnberad.

14. Af

14. Af þvi Hann er ordinu reidur þeim, og hann utsende mig ad segia þier þetta.

15. Þesse Ordræda þocknadist vel Holoferne og hans Þienurum, Og þa furdade hennar Vijsdom, og hvor sagde til annars.

16. Þessarar Kvinnu Lijke er ecke a Jordunne, ad Vænleik og Vijsdome.

17. Og Holofernes sagde til hennar, Gud hefur þvi so nidur skickad, ad hann sende þig hingad, adur enn Folked kiæme j mijnar Hendur. Ef ad þinn Gud fullkomnar nu þetta sem þu hefur talad, þa skal hann og eirninn vera minn Gud, Og þu skallt verda mikel hioa Nabogodonosor Konge, og Nafnfræg j ollu hans Kongs Rijke.

## XII. Capitule.

Þa liet hann leida hana þangad sem hans Fiearsioder voru geimder, þar sem hun skyllde vera, og baud ad giefa henne Mat af sijnu Borde.

2. Enn Judith svarade og sagde, Eige þore eg enn nu ad eta af þijnum Mat, so ad eg syndgest ecke, Enn eg hefe haft nockud lijtid med mier, þar af vil eg eta.

3. Þa sagde Holofernes sioalfur, Nær þad er uppe sem þu hefur med þier haft, hvar skulum vier utvega þier þa meira?

4. Judith svarade, Minn Herra! So vijst sem þu lifer, adur enn þijn Amboatt hefur uppeydt ollu þessu, þa mun GUd frammkvæma fyrer mig þad Hann ætlar sier.

5. Og þa Þienararner villdu leida hana j Herbergid sem hann hafde bodid,

6. Þa bad hun, ad hun mætte foa Orlof ad ganga ut Kvolld og Morgna, ad giora sijna Bæn til DROTTins.

7. Þa skipade Holofernes sijnum Sængar-Sveinum, ad þeir skylldu loata hana hafa lidugann Gang ut og jnn, j Þria Daga, ad giora sijna Bæn til Guds.

8. Og a Kvolldinn gieck hun ut, j þad Dalverpe giegnt Berhulia, og þvodde sig j Vatne.

9. Þar epter bad hun til DROttins Jsraels Guds, ad Hann villde giefa henne Lucku þar til ad frelsa sitt Folk.

10. Og hun gieck heim aptur j Tialldid, og hiellt sier hreinne, og neytte einkis fyrer Aptanenn.

11. A Fiorda Deige giorde Holofernes sijnum nærstu Þionustu-Monnum alleina eina Kvolld-Moaltijd, og hann sagde til Bagoa, sijns Sængar-Sveins, Far burt, og tala þu um fyrer þeirre Ebresku Kvinnu, ad hun neite ei ad koma til mijn.

12. Þvi þad er Skomm þeim Assyriansku, ad slijk ein Kvinna skule fara O-Legenn fra oss, og gabba so einn Mann.

13. Þa kom Bagoa til Judith, Þu frijda Kvinna, Segdu ecke nei ad koma til mijns Herra til Æru, og ad eta og drecka med honum, og ad giora þig glada!

14. Þa sagde Judith, Hvornenn þore eg ad varna mijnum Herra þess?

15. Allt hvad hann vill, þad vil eg af Hiarta giarnann giora alla mijna Daga.

16. Og hun stood upp og prydde sig, og gieck jnn fyrer hann, og stood framme fyrer honum.

17. Þa viknadist Holofernis Hiarta, þviad hann brann af Astar Hita til hennar.

18. Og hann sagde til hennar, Set þig nidur, dreck, og vert glod, þviad þu hefur Noad fundid hioa mier.

19. Og Judith svarade, Joa Herra! Eg vil vera glod, þviad um mijna Lijfs-Daga hef eg ecke soddann Æru feinged.

20. Og hun oat og drack fyrer honum, af þvi sem hennar Amboatt tilreidde.

21. Og Holofernes giorde sig gladann med henne, og drack so miked sem hann var alldrei vanur ad drecka.

## XIII. Capitule.

Enn þa miog var frammordid, geingu hans Þienarar til sinna Tiallda, og þeir voru aller druckner.

2. Og Bagoa liet aptur Holofernis Svefn=Herberge, og gieck j burt, og Judith var einsomul hiaa honum j Herbergenu.

3. Pa Holofernes laa nu j Sænginne, var druckinn, og svaf,

4. Pa sagde Judith til sinnar Amboattar, ad hun skyllde adgiæta ute fyrer Herbergenu.

5. Og Judith geck ad Sænginne, og badst fyrer j Hliode, med graatande Taarum, og sagde.

6. DROTTinn Israels GUd! Gief mier Stirk, og hiaalpa mier milldelega, ad fullkomna þetta Verk, sem eg hefe med ollu Truuadar=Trauste til Þijn, mier fyrer Hendur teked, ad þu upphefier þinn Stad Jerusalem, so sem þu hefur lofad.

7. Epter þessa Bæn gieck hun ad Sulunne sem var upp yfer Sænginne, Og took Sverded sem þar a hieck.

8. Og droo þad ut, og took j hans Topp, og sagde j annad Sinn.

9. DRottinn Gud! Stirk þu mig a þessare Stundu, Og hio Tvisvar a Hcalsinn, med ollu Afle, Þar epter skar hun Hofudid af honum, og vellte Bolnum ofann ur Sænginne, og took med sier Sængar=Klæded.

10. Þvi nærst gieck hun ut, og fieck Holofernis Hofud sinne Amboatt, og baud ad kasta þvi j eirn Seck.

11. Og þær geingu ut baadar samann epter þeirra Vana, so sem ad villdu þær ganga j giegnum Herbudernar, og bidiast fyrer, og þær geingu um kring yferum Dalinn, so ad þær kiæme leynelega ad Stadar=Portenu.

12. Og Judith kallade til Vardhallds=Mannanna, Lœted upp Portinn, þviad GUd er med oss, Hann gaf Israel Sigur=Vinningina!

13 Og er Vardhallds=Mennerner heyrdu hennar Raust, þa kolludu þeir jafn=snart a Olldunga Stadarins.

14. Þeir komu aller til hennar, Þviad þeir voru allareidu Vonarlauser um þad, ad hun munde aptur koma.

15. Pa kveiktu þeir Blys, og geingu j kringum hana allt til þess hun kom a Flotinn.

16. Og hun bad þa ad þegia, og hlyda til, og sagde so.

17. Packed þier DROttne Vorum Gude, sem ecke yfergiefur þa sem Honum treysta, og oss hefur Miskun veitt fyrer mig sijna Amboatt, so sem hann hiet Israels Huse, og hefur a þessare Nottu fyrer=komid Fiand=Manne Folks sijns, fyrer mijna Hond.

18. Og hun took upp Hofud Holofernis, synde þeim þad, og sagde,

19. Sioaed! Þetta er Hofud Holofernis Hers=Hofdingia þeirra Assyrianisku, og Sioaed! Þetta er Sængar=Klædid, under hvoriu hann laa, þa hann var druckinn, þa sloo DROttinn Vor GUd hann jhel med eirnre Kvenn=Manns Hende.

20. So Sannlega sem DROttenn lifer, þa vardveitte Hann mig fyrer sinn Eingil, ad eg er ecke saurgud ordinn, a medann eg var ute, og Hann hefur leidt mig hingad aptur aan Syndar, med stoorum Fognude og Sigre.

21. Þar fyrer Packed Honum aller, Þvi Hann er miskunsamur, og hiaalpar ætijd!

22. Og þeir þockudu aller DROTTne, og sogdu til hennar, Lofadur sie DRottenn, Sa sem j Dag hefur til Skammar giort vorn Ovin fyrer Þig.

23. Og Osias Israels Folks Hofdinge sagde til hennar, Blessud ertu Dotter! af DROTTne þeim Hærsta Gude, framm yfer allar Kvinnur a Jordu.

24. Og lofadur sie DROTTenn, sem skapad hefur Himen og Jord, sem þier gaf Lucku til ad slaa j hel Hofdingiann vorra Ovina, Og hefur giort þitt Nafn so Dijrdarlegt, ad þeir skyldu ætijd prijsa þig, aller þeir sem athuga Verk DROTTins, Af þvi, ad þu hliifder ecke þijnu Lijfe, j Angist og Neyd þijns Folks.

25. Helldur hefur þu frelsad þad fyrer

DROTTenn Vorn Gud, og allt Folked sagde, Amen! Amen!

26. Pvi nærst var Achior kalladur, Judith sagde til hans, Jsraels Gud, Hvorn þu hefur prijsad, ad hann kynne ad hefnast a sijnum Ovinum, Hann hefur a þessare Nottu fyrerkomid Hofde þeirra O-gudlegu fyrer mijna Hond.

27. Og ad þu sioaer þad, þa er hier Hofud Holofernis, sem drambsamlega lastade Jsraels Gud, og þier hotade ad sloa þig j hel, þa hann sagde.

28. Nær Jsraels Folk verdur herteked, þa villde hann loata j helstijnga þig med þeim.

29. Og sem Achior soa Holofernis Hofud, vard hann hræddur, so ad hann leid nidur.

30. Par epter, þa hann raknade vid aptur, fiell hann nidur fyrer Fætur henne, og sagde.

31. Blessud ertu af þijnum Gude, j ollum Byggdum Jacobs, þviad Jsraels Gud skal vegsamadur verda a þier, medal allra Pioda, þar þijns Nafns getid verdur.

## XIV. Capitule.

Epter þetta sagde Judith til alls Folksins, Kiærer Brædur! Hlyded mier.

2. Jafnsnart þegar lyser, þa heinged Hofuded ut fyrer Murenn, og takid ydar Vopn, og falled ut allersamann j eirne Fylkingu, og med miklu Herope.

3. Pa munu Vardhallds-Mennerner flya, og uppvekia þeirra Herra til Bardaga.

4. Og þa er Hofdingiarner koma til Holofernis Land-Tiallds, og sioa þar Lijkamann liggia j sijnu Blode, þa mun Hrædsla koma yfer þa.

5. Og þegar þier merked, ad þeir eru hræd-der ordner, og taka til ad flya, þa renned epter þeim diarflega, þviad DROTTenn hefur giefed þa under ydar Fætur.

6. Pa ed Achior soa nu, ad Jsraels Gud hafde hiaalpad, yfergaf hann Heidne, og trude a Gud, og liet umskiera sig, og er a medal Jsrael reiknadur, hann og aller hans Epterkomendur, allt til þessa Dags.

7. Og þa ed lyste af Deige, heingdu þeir Hofudid ut fyrer Murenn, toku sijn Vopn, og fiellu ut j einum Hoop og miklu Herope.

8. Og er Vardhallds-Mennerner soau þetta, hlupu þeir til Land-Tiallds Holofernis, Og þeir sem þar voru giordu Hark framann fyrer Svefn-Herbergenu, hvar af hann skyllde vakna.

9. Pviad einginn dirfdist ad klappa a Dyrnar, edur jnn ad ganga j Svefn-Herberged Hofdingians af Assyria.

10. Enn þa Hofuds-Mennerner þeirra Assyriansku komu, sogdu þeir til Svefn-Herbergis Sveinanna.

11. Fared jnn, og veked hann upp, þviad Mysnar eru uthlaupnar ur sijnum Holum, og eru diarfar ordnar, so ad þær dirfast ad roada a oss.

12. Pa gieck Bagoa jnn, og stood hioa Sparlakinu, og klappade Hondunum samann, þviad hann ætlade, ad hann munde sofa hioa Judith, og hlustade til, ef hann villde hræra sig.

13. Enn þa hann vard einkis var, þa lypte hann upp Sparlakenu, þa soa hann Lijkamann hofudlausann, liggiande a Jordu i sijnu Bloode. Pa hroopade hann og æpte hoatt, og sundur reif sijn Klæde.

14. Og hann leit j Judiths Herberge, og þa er hann fann hana ecke þar, hliop hann ut til Hersins, og sagde, Einasta ein Ebresk Kvinna hefur allt Nabogodonosors Hus af Assyria giort ad Spotte og Spie, fyrer ollum Heimenum, þviad Holofernes liggur þar daudur a Jordu, og hans Hofud er af honum hoggvid!

15. Pegar Hofuds-Mennerner af Assyria heyrdu þetta, sundur rifu þeir sijn Klæde, og urdu miog ur moata skielfder.

16. Og

16. Og þar hofst upp eitt mikid Hrædslu-Op og Skielfing a medal þeirra.

## XV. Capitule.

Þegar ad nu Herlidid heyrde, ad Holofernes hafde mißt Hofudid, hræddust þeir og urdu efasamer, og Roadlausir hvad þeir skylldu giora, so voru þeir Duglauser ordner.

2. Og þeir flydu undann, so ad þeir giæte undann komest heim Ebreſku, hvoria þeir þar skau fara a mote sier.

3. Og er Israels Born skau, ad Ovinerner flydu,

4. Flyttu þeir sier epter þeim, med stooru Heroope, og Herludra-gang.

5. Enn med þvi, ad Fylking þeirra Assyriansku var rofenn, og Israels Born foru framm j sinne Fylkingu, þa slou þeir j hel alla er þeir goatu noad.

6. Og Osias sende um allar Borger j Israels Lande.

7. Og baud, ad Menn skylldu vera uppe j ollum Borgum, og reka Flottann Ovinanna, þar til þeir være ur Landenu.

8. Enn þad Folk sem epter var j Bethulia, fiell ut j Herbuder þeirra Assyriansku, rændu og burt fluttu allt þad sem þeir af Assyria hofdu epterlaatid, og hofdu j burt þadann mikid Gots.

9. Enn hiner adrer, þa þeir komu aptur, þa hofdu þeir med sier allt, hvad hiner hofdu med sier haft, bæde Fienad og annad, og allt Landid vard Rijkt af slijku Herfoange.

10. Þar epter kom Jojakim Kiennemanna Hofdinge af Jerusalem, og aller Prestarner til Bethulia, ad sioa Judith.

11. Og hun gieck fyrer þa, Og þeir prijsudu hana aller saamt, og sogdu.

12. Þu ert Jerusalems Korona, þu ert Israels Glede, þu ert alls Folksins Prijs, ad þu hefur giort so loflegann Giorning, og hefur veitt Israel so storann Velgiorning, ad Gud hefur frelsad þa aptur, Blessud ertu fyrer Gude eylijflega!

13. Og allt Folked sagde, Amen! Amen!

14. Þa þeir hofdu nu utskipt Herfoange nu j þriatijger Daga,

15. Þa gaafu þeir Judith kostulegar Klenodiur, sem Holofernes hafde haft, Gull, Silfur, Klæde, og dyrmæta Gimsteina.

16. Og hvor Madur var gladur, Sungu og Donsudu, bæde Unger og Gamler.

## XVI. Capitule.

1. Þa saung Judith DROTTne þennann Lofsaung, og sagde.

2. Leiked fyrer DROTTne med Bumbum, og hlioded fyrer Honum med Cymbalum, Synged honum eina nya Vijsu, verid glader, og aakalled hans Nafn.

3. DROTTinn er Sa sem hioalpa kann j Bardaganum, DROTTinn heiter Hans Nafn.

4. Hann berst fyrer sitt Folk, so ad Hann frelse oss fra ollum vorum Ovinum.

5. Assur kom af Fiollunum ur Nordre, med stoorre Magt, Hans Fiolde hulde Vatned, og Hans Hestar huldu Landed.

6. Hann heitadest vid ad uppbrenna mitt Land, og ad sloa j hel mitt Karlmanna Kin, ad burtflytia Born og Jomfrur.

7. Enn DROTTinn, Sa Almaattuge Gud, hefur straffad hann, og gaf hann j eins Kvenn-Manns Hendur.

8. Þviad eingenn Karl-Madur nie Strijds-Madur j hel sloo hann, og eingenn Rise kom vid hann, helldur Judith Merari Dotter, hun fellde hann med sijnum Frijdleik.

9. Þviad hun fra sier lagde sinn Ekkiu-Bunad, og jfærde sig j sijn Fegurdar-Klæde, Israels Bornum til Glede.

10. Hun smurde sig med forkostulegu Vatne, og fliettade sijn Hoar til ad svijkia hann.

11. Hennar Fogru Skoor forblindudu hann, hennar Vænleike veidde hans Hiarta, Enn hun hioo af honum Hofudid.

12. So

12. So ad þeim Persis og Medis ognade slijkt Dirfsku-Verk.

13. Og Herlid þeirra Assyrianstu æpte, þa mijner Vesalingar komu framm; sem voru þreytter-af Þorsta.

14. Smaa-Sveinarner j giegnum løgdu þa Assyriansku, og roaku þa a Flotta so sem Born, þeir eru afmoader af Herlide DRottens Guds Mijns.

15. Loatum oss syngia eirn Nyann Saung DROTTne Vorum Gude!

16. DROTTenn Gud! Þu ert Sa Moattuge Gud, sem Stoor-Verken verkar, og Einginn fær Þier j moote staded.

17. Aller Hluter skulu þiona Þier, þvi hvad Þu seger þad hlytur ad skie, og þa Þu giefur nockrum Hug-Hreyste, þad fær Framgang, og Þijnum Ordum kann einginn Motstodu ad veita.

18. Fiollinn munu bifast, og Biorginn broadna so sem Vax fyrer Þier.

19. Enn þeim sem Þig ottast, þeim syner Þu stora Noad. Þviad allar Foorner og þeirra Feite eru miøg lijtils verdar fyrer Þier, Enn ad ottast DROttenn þad er stormiked.

20. Vei Heidingium! Sem offækia mitt Folk, þviad Sa Almoattuge DROTTinn hefner a þeim, og vitiar þeirra a Hefndar-Tijmanum.

21. Hann mun ploaga þeirra Lijkame med Ellde og Ormum, og þeir munu brenna, og groata ad Eylijfu.

22. Epter þennann Sigur for allt Folk fra Bethulia til Jerusalem, ad tilbidia DROttenn, og þeir hreinsudu sig, og offrudu Brenne-Fornum, og hvad þeir hofdu heited.

23. Og Judith uppheingde j Musterid oll Vopn Holofernis, og þad Sparlak sem hun hafde tekid af hans Sæng, ad þad skyllde vera Bolvad fyrer DROttne eylijflega.

24. Og Lydurinn var gladur j Jerusalem, hioa Helgedoomenum, med Judith, Þrioa Moanude j samt, og hielldu Hoatijd þessa Sigurs.

25. Þar epter foor hver Madur heim aptur.

26. Og Judith kom aptur til Bethulia, og var miøg heidrud j ollu Israels Lande.

27. Og ei took hun nockurn Mann epter Dauda sijns Firsta Manns Manassis.

28. Og hun vard miøg Olldrud, og var j sijns Manns Huse, þangad til hun var Hundrad og Fimm oara gomul. Og sinne Amboatt Abra gaf hun Frelse. Þar epter andadist hun j Bethulia, og var grafinn hioa sijnum Manne Manasse.

29. Og Folkid griet hana j Sio Daga. Og ollum sijnum Fioar-Hlutum utskipte hun med Ætt-Monnum sijns Bonda.

30. Og a medan hun lifde, og langa Tijma epter þad, þordi einginn ad reisa sig j moote Israel.

31. Og þessarar Sigur-Vinningar Dagur verdur hioa þeim Ebresku halldinn fyrer eina stoora Hoatijd, Og þeir hallda hann Helgann æsinnlega.

Ending Judiths Bookar.



# Formaalenn yfer Salomonis Speke.

Um þessa Book hefur leinge Agreiningur verid, Hvort hun skyllde reiknud vera med Bookum Heilagrar Ritningar hins Gamla Testamentisins, edur ei? Sierdeilis af þvi, ad Dikktarinn lætur j þinum 9. Cap: so a sier heyra, so sem ad tale Salomon Kongur alla Rædu þessarar Bookar, Sa ed vegna sinnar Vitsku hefur stooraun Forprijs j Konganna Bookum.

Enn þeir Gomlu Forfedur hafa strax skiled hana j fra Heilagre Skrift, og hafa halldid, ad hun sie under Nafne Salomonis Kongs giord, So ad hun vegna Nafns og Personu so Vijdfrægs Kongs hefde meira alit, og være meir virdt, hioa þeim Volldugu a Jordunne, hvorium hun er sierdeilis til skrifud, og

være maa skie fyrer laungu nidurtrodinn, hefde Meistarenn laatid hana under sijnu Nafne utganga, hefde hann verid lijtils-haattar Madur.

Enn þeir hallda, ad Philo skule vera Meistare þessarar Bookar, Hvør ed o-efad verid hefur einn Lærdastur og Vijsastur Gydingur, sem Gydinga Folk hefur haft epter Prophetana, so sem hann hefur med ødrum Bookum og Giørningum audsynt. Þviad a Døgum Keisarans Caligula, þa Gydingarner voru hid allra skiemmilegasta med Haadungar-Skrife og Last-Rætum Svijvirdter, af nockrum Griekium, So sem var Appion af Alexandria, og ødrum fleyrum, og þar epteraa Forlogner, rægder, og klagader j hinu versta maata fyrer Keisaranum, Þa var nefndur Philo sendur til Keisarans, af Gydinganna Lijd, til ad forsvara og afsaka Gydingana. Enn þa er Keisarinn var so miøg reidur og gramur uppa Gydinga, ad hann vijsade þeim fra sier, og villde ecke veita þeim Vidtal, Þa liet Philo heyra og merkia sijna Hughreyste, og sagde til Gydinganna sinna Fielaga, Nu vel! Gooder Brædur, vered ecke þar fyrer hrædder, helldur verid hughrauster, Þviad þa Mannleg Hiaalp Þrytur, þa kiemur vissulega Guds Hiaalp.

Af slijkre Skinjeme, og slijku Tilefne, virdest mier ad þesse Book sie upprunninn, Ad Philo snyr sier til Guds, af þvi hans Maal-Efne og Gydinganna var riett, enn hafde þo ongvann Stad hiaa Keisaranum, og hootar þeim Volldugu, og þeim vondu Lygurum, med Guds Doome. Þar fyrer talar hann so høstuglega og snarplega j Firsta og Ødrum Cap: j moti þeim Eiturlegu og vondu Tungum, sem ad offsækia og fyrerkoma þeim Riettlaatu og Saklausu, Sannleikans vegna. Og þar epteraa setur hann framm fyrer þa Megtugu, þaug Storu Dæme Gudlegs Dooms, sem Gud liet ganga yfer Pharao-Kong, og þa Egyptsku, vegna Israels Barna, og þetta giører hann med so þungum og merkelegum Ordum, so sem villde hann giarnann med sierhvørin Ordi aastunged hafa bæde Keisarann og þa Romversku, og so þær eitrudu Tungur Griekia, sem so voru Olmer uppa Gydinga, og vill so med slijkum merkelegum Dæmum hræda þa, og Gydingana hugga.

Enn þar epteraa, er þesse Book halldinn af mørgum fyrer eina rietta Book Heilagrar Ritningar, Og hun er sierdeilis halldinn so haa og merkeleg j þeirre Romversku Kyrkiu, ad sannlega er af øngre Book Ritningarinnar so mikell Saungur tekinn, so sem af þessare, Maa vera fyrer þa Grein, ad j þessare Book verda þeir Tyrannar so hardlega Avijtader og straffader, Og þar aa moot þeir Heiløgu Pijslar-Vottar vera þa hier so aagiætlega Huggader. Og af þvi, ad þeir Christnu voru ecke nockurs Stadar j allre Verolldu so offsokter og Pijnder so sem j Rom. Þvi hafa þeir mest idkad þessa Book, sem mest hlydde uppa þann Tijma, med Ognunum j moote þeim Tyrønnum, og med Huggun handa þeim Heiløgu. Þo ad þeir hafe ei skilid hana j øllum Greinum, og þo þeir hafe tijdt dreged hana aa Haarenu, so sem opt skied er allre Heilagre Ritningu, og enn nu Daglega skiedur. Enn hvørninn sem þvi er varid, þa er þo margt gott hier jnne, sem vel er lesandi. Og sierdeilis skylldu þeir stooru Herrar lesa hana, sem plaaga sijna Undergiefna, og æda j giegn Saklausum, fyrer Guds Ords Saker. Þviad til þeirra sømu talar hann j Siøtta Cap: og medkienner, ad þesse Book sie til þeirra skrifud, þar hann so seger, Þier Tyrannar, ydur snerter mijn Ræda! Og miøg vel vottar hann, ad þeir Veralldlegu Herrar hafe sitt Valld af Gude, og ad þeir sieu Guds Straffs-Menn, enn hann hotar þeim fyrer þad, ad þeir eru Raangl aater og yfergangssamer j slijkre Guds Bifalningu og sijnu Embætte. Fyrer þa skulld kiemur þesse Book j Lios j riettann Tijma, a vorum Døgum, med þvi ad Raanglaater Vallds-Menn misbrcyta nu sijnu Vallde, j giegn þeim sem þad hefur þeim giefid, og lifa þo so herfelega j sinne Afguda-Dijrdkan, og O-Christelegum Heitagleika, eins sem þad Philo hier skrifar um þa Romversku og Heidingiana, j þeirra Afguda-Dijrdkan, so ad þetta samhliodar allavega og j allann maata vorum Døgum.

Enn þessa Book kalla Menn Salomonis Speke, af þvi hun er Diktud under Nafne og Personu Salomonis (sem sagt er) og hun prijsar og miøg kostulega Spekina, og seger hvad hun sie, hvad hun formege, hvadann hun kome. Og þad lijkar mier miøg vel þar jnne, ad hun so mikelega hæler Guds Orde, og tilleggur Ordenu alla þa Hlute, og øll Daadsemdar-Verk Guds, þaug sem hann hefur giørt bæde a Ovinum og sijnum Heiløgum.

Hier ut af maa liøslega vita og merkia, ad hann kallar ecke hier Speke, þær haalærdu og Diupvitru Hugsaner, edur Mannlegann Skilning þeirra Heidnu Meistara, og Kienne-Fedra, Helldur þad Heilaga Guds Ord. Og þu skallt vita, ad hvad helst þu heyrer hier talad um Lofstyr og Prijs Spekinnar, þad er ecke talad um nockud annad utann um Guds Ord. Þviad hann seger siaalfur j 16 Cap: ad Israels Børn hafe ecke Næring haft, edur Fæde af Himna-Miølenu, og eige hafe þeir heilbrigder ordid fyrer Eirormenn, Helldur fyrer Guds Ord. So sem siaalfur Christur seger Matth: 4. Madurenn lifer ecke af einnsamann Braude, Helldur af Hvørin þvi Orde sem framm geingur af Guds Munne, Þar fyrer kienner hann, ad Spekenn kome hvørge annarstadar fra, enn fra Gude, Og þar til leider hann mørg Dæme

ut

ut af Ritningunne, og leggur Spekinne þad til, sem Skriftenn eignar Guds Ord.

Þetta hef eg þvi sagt, ad Menn skilia þetta Ordid Speke ødruvijs enn Ritningenn tiidkar þad, þviad þa Menn heyra þetta Ord Speke, þa hvarsla Menn med sijnum Hugsunum, og meina þad sie ecke annad enn følgnar Hugsaner j Hygginna Manna Hiørtum, Og a medann, og þa stund hallda þeir ecke þad ytra Ordid edur Ritningina fyrer Speke, Enn þo ad allar Mannanna Hugsaner, fyrer utann Guds Ord, eru ecke utann Lygar og falsker Draumar, þar fyrer er ei ønnur Meiningin ad þesse Book kallast Salomonis Speke, Enn so sem segda eg, Ein Salomons Book um-Guds Ord. Og Spekinnar Ande er ecke annad enn Truinn, edur Skilningurinn þess sama Ordsins, Hvørn Heilagur Ande þo gefur. Slijk Trua, edur Ande, orkar og giører alla Hlute, so sem ad þesse Book hrossar af j hinum Siøunda Capitula.

Med sijdarsta er þesse Book ein riett Utlegging og Epterdæme hins Fyrsta Bodords, þviad hier sier þu, ad hann avallt, j þessare Book, kienner ad ottast Gud, og a Hann ad vona. Og hann skielser þa hina adra med Epterdæmum Gudlegrar Reide, sem ei ottast Hann, helldur forsmaa Gud. Hier aptur amot huggar hann þa med Epterdæmum Gudligrar Naadar, sem a Hann trua og treysta, og þetta er riettur Skilningur hins Fyrsta Bodordsins. Hvar af merkia maa ad allur Vijsdomur uppsprettur og utflyt'ur af þvi Fyrsta Bodorde, so sem af annare Høfud Uppsprettu, og þetta sama Bodordid er ad vijsu sa rietta Soolenn, fyrer hvøria aller Vijsdoms Menn siaa þad sem þeir siaa. Þviad hvør hann ottast Gud, og er Riett-truadur, hann er fullur Vitsku, og alls Heimsins Meistare, og hefur øll Ord og Verk j sijnu Wallde, og er eirn Domare yfer øllum Lærdome og Lifnade, sem fyrer Gude gillder og duger. Hier þvert a mot, Hvør hann hefur ei þad Fyrsta Bodordid, og hvørke ottast Gud nie truer a Hann, hann er fullur Heimsku, kann eckert, og er eckert. Þetta er su sierlegasta Skinseme, hvar fyrer þesse Book er vel lesande, so ad vier lærum Gud ad Ottast, og Honum ad Treysta, Hvar til Hann hiaalpe oss øllum med sinne Naad, Amen!

# Salomonis Speke
## Til
## Tyrannanna.

### I. Capitule.

Þier Stiornendur a Jordunne! Elsked Riettvijsena. Hugsed þad, ad DROttenn kann ad hiaalpa, og hrædist Hann alvarlega.

2. Þviad Hann lætur þa finna sig sem ecke freista hans, og hann birtist þeim sem honum ecke mistreysta.

3. Enn Hirdulauser Þankar eru langt fra GUde, Og þa Stroffuninn kiemur, þa audsyner Hann hvilijker Pussar hiner adrer hafa verid.

4. Þviad Spekenn kiemur ecke j eina hreckvijsa Saal, og byr ei j þeim Lijkama sem Syndinne er undergiefinn.

5. Þviad Heilagur Ande, Sa sem riett kienner, hann flyr fra Skurgoda Piemurum, og vijkur fra þeim Hirdulausu, Hvorier straffader verda med Syndunum, sem leyst mun verda yfer þa.

6. Þviad Spekinn er so good, ad hun ecke lætur Lastarann ohegndann. Þviad GUD er Vitne allra Hugrenninga, og kienner ad vijsu øll Hiørtu, og heyrer øll Ord.

7. Þviad Veralldar-Kringlann er full med Anda DROTTens, og Sa sem Rædurnar þecker, Hann er allstadar.

8. Þar fyrer kann sa ecke ad dyliast sem O-riett talar, og Sa Riettur sem hann skal straffa, skal honum ei bregdast.

9. Þviad Raada-giørd hins Ogudlega skal koma fyrer Doomenn, og hans Ord skulu koma fyrer DROTTenn, so ad hans Raanglæte verde straffad.

10. Þviad Eyra (a) Vandlætarans heyrer allt, og Spie-Skapur Lastarans skal ecke vera hulenn.

(a) (Vandlætarans) Þad er Guds Eyra.

11. Þvi fordest nu þa Skadsamlegu Lastan, og hepted ydar Tungu fra Bloote. Þviad þad sem þier heimuglega taled hvor j annars Eyru, þad mun ei ganga so liett af, Þviad Sa Munnur sem lygur, hann deyder Saalena.

12. Stunded ecke so epter Daudanum, med ydvare Villu, og sæked ecke so aakaflega epter Fordiørfuninne, med ydar Handa-Verkum.

13. Þviad GUD hefur ecke giort Daudann, og hefur ei Þocknan a Fordiørfun þeirra Lifendu.

14. Helldur skapade Hann alla Hlute, ad þeir skylldu vera j þeirra Veru, Og hvad j Verølldenne er skapad, þad er gott, og þar j er eckert skadligt. Þar til er Helvijtis Rijke ecke a Jørdu.

15. (Þviad Riettvijsenn er Odaudleg.)

16. Helldur sækia þeir Ogudlegu þar epter bæde med Ordum og Verkum, Þviad þeir hallda (b) Hann fyrer Vin, og fara j burt þangad, og giora Samband vid hann, Þviad þeir eru þess makleger, ad þeir verde hans Hlutskipte.

(b) (Hann) Þad er Daudann.

## II. Capitule.

Þviad þeir eru Hirdulauser Menn, og segia, Stuttur og leidennlegur Hlutur eru voorer Lijfs-Dagar, Og þa Madurinn er j burtu, þa er þad olldungis utgiort um hann, Eige vita Menn nockurn þann sem aptur er komenn fra Helvijte.

2. (a) Oforvarandis erum vier fædder, og førum burt aptur, so sem hefdum vier alldrei vered, Þviad Andar-Dreattur vorra Nasa er Reykur, og vort Maal er eirn Neiste, sem hrærer sig af vorru Hiarta.

(a) (Oforvarandis) Þad er, Vier verdum fæddir fyrer utann Forsion Guds og Raad.

3. Þegar sa Neiste slocknar, þa er Lijfed j burt sem eirn Følske, og Andenn hverfur j burt sem eirn lijtill Blær.

4. Og vort Nafn forgleymest um sijder, so ad eingenn minnest vorra Verka. Vort Lijf lijdur j burtu lijka sem hefde þad vered eitt Skij, og forgeingur lijka sem ein Þoka, hvoria Soolskin burt rekur, og Su sem forgeingur fyrer þess Hita.

5. Vorer Tijmar eru lijka sem lijde framm eirn Skugge, og þa vier erum j burtu, þa er einginn Apturkoma, Þvi þad er fastlega innsiglad, ad þar skal Einginn aptur koma.

6. Komid nu hingad, og høfum goda Daga, a medan þad er, og neytum vors Lijfs j Ungdomenum!

7. Vier vilium fylla oss af þvi besta Vijne og Salve. Laatum oss ecke forsoma Blomstur (b) Maji Maanadar.

(b) (Maji Maanadar) Þad er, Vor Dægelegur og Fagre Ungdoomur, aadur enn vier verdum gamler og ohentuger. Utendum est Ætate.

8. Laatum oss bera Kransa af ungum Roosum, aadur enn þær visna.

9. Einginn af oss laate nockud vanta a neina Ofneytslu, So ad Menn meige alla vega frietta Hvorsu þad vier høfum verid glader, Þvi vier høfum ecke þar meira af, enn þetta.

10. Laatum oss yfervalla þann Faatæka Riettlaata, og hlijfum hvorke Eckium nie Olldrudum Mønnum, Laatum oss ecke hirda um Hirting hins Gamla Graa-Hærda.

11. Hvad hellst vier kunnum ad giora, þad skal vera riett, Þvi hvor hann kann ei ad giora hvad hann lyster, Hann er einkis verdur.

12. Þvi laatum oss umsitia þann Riettlaata, þviad hann giorer oss miklar Onaader, og reiser sig j moote vorum Verkum, og aavijtar oss, ad vier syndgunst j moote Logmaalenu, og uthroopar vort Athæfe fyrer Synd.

13. Hann segist þeckia GUD, og hrosar sier af þvi, ad hann sie Guds Barn.

14. Og straffar þad sem vier høfum j Hiarta.

15. Vier gietum hann ecke lidid, og ecke sied hann, Þviad hans Lifnadur samhlyder ecke ødrum, og hann hefur med øllu annad Frammferde.

16. Hann

16. Hann helldur oss Oduganlega, og fordast vor Verk so sem Ohreininde, Og lætur af sier heyra, hvorninn þeim Riettloatu skule med þad seinarsta vel vegna, og hroosar þvi, ad GUd sie hans Fader.

17. So loated sioa Hvort hans Ord er satt, og reynum til Hvilijka Ending hann fær!

18. Sie Sa hinn Riettloate Guds Sonur, þa hioalpar Hann honum, og frelsar hann af Motstodu-Mannsins Hende.

19. Vier vilium Fiotra hann med Smoan og Harmkvælum, so ad vier meigum sioa hvorsu Riettloatur hann er, og merkia hvorsu Polinn-moodur hann er.

20. Vier vilium fordæma hann til Herfeligs Dauda, þa munu Menn þeckia hann af hans Ordum.

21. Þetta oasetia þeir, enn þad mun þeim bregdast, þeirra Illska hefur blindad þa, so ad þeir þeckia ecki Guds Leyndann Doom.

22. Þvi þeir hafa ecke þa Von, ad Heilagt Lijferne mune verda launad, og þeir skeyta ecke um þa Æru, sem Ostraffanlegar Soaler munu hafa.

23. Þviad GUd skapade Manneenn til Eylijfs Lijfs, og giorde hann ad einu Bijlæte, ad hann skyllde vera lijkur þvi sem hann er.

24. Enn fyrer Diofulsins Øfund er Daudenn kominn j Heiminn.

25. Og þeir sem af hans Parte eru, þeir hioalpa þar eirnenn til.

## III. Capitule.

Enn Soaler Riettloatra eru j Guds Hende, og einginn Pijna snerter þær.

2. Þeir synast fyrer þeim Oskinsomu, so sem þeir deye, og þeirra Ending reiknast fyrer Pijnu.

3. Og þeirra Burtfor fyrer Fordiorfun, Enn þeir eru j Fride.

4. Þo ad þeir hafe margt ad lijda fyrer Monnunum, þa eru þeir þo j vissre Von, ad þeir mune alldrei deya.

5. Þeim er hægt refsad, enn þa skal skie mikid Gott, Þviad GUd freistar þeirra, og finnur þa, ad þeir eru Honum verduger.

6. Hann reyner þa sem Gull j Ofne, og tekur þa til sijn, so sem eitt fullkomlegt Offur.

7. Og a þeim Tijma, nær GUd verdur lijtande þar til, þa skulu þeir skijna skiært, og lijda framm sem Loge yfer (a) Stroa.

(a) (Stroa) Eru þeir Heidnu og Ogudhræddu.

8. Þeir munu dæma þa enu Heidnu, og drottna yfer ollum Þiodum, Og DROttenn mun drottna Eylijflegana yfer þeim.

9. Þviad þeir sem Honum treysta, þeir skulu finna ad Hann er Tru-fastur, Og þa sem eru Tru-faster j Kiærleikanum lætur Hann ecke fra sier taka. Þviad Hans Heilager eru j Noad og Miskun, Og Hann sier til med sijnum Utvoldum.

10. Enn þeir Ogudlegu munu verda straffader, eins lijka so sem þeir ottast til, þvi þeir virda þann Riettloata ad ongvu, og vijkia fra DROTTne.

11. Þviad hvor hann fyrerlijtur Vitskuna og Hrijsed, Sa er Vesæll, og þeirra Von verdur ad ongvu, og þeirra Erfide er Onytt, og þeirra Giorder til einkis.

12. Þeirra (b) Kvinnur eru heimskar, og þeirra Born Hreckvijs, Bolvad er þad sem af þeim fædest.

(b) (Kvinnur) Þad sem hier talast ut Capitulann a Enda, um Kvinnur og Born, skal skiliast uppa Propheta vissu um Lond og Lyde, so sem Prophetarner kalla Jerusalem, Israel, Babylon, eina Dottur edur Kvinnu. Afguda-Dijrdkaner, Hooraner. Kyrkiuna og Alltared eina Sæng.

13. Þvi Sæl er hin Obyria, sem er flecklaus, Su sem ad er saklaus af syndsamlegre Sæng, Hun mun niota þess a þeim Tijma, þegar Soalernar skulu dæmast.

14. Somuleidis Su Ofriosama, sem eckert giorer Oriett med sinne Hende, og ecke hugsar illt j moote DROTTne, Henne mun giefast sierlig Goafa fyrer sijna Tru, og eitt betra Hlutskipte j Musteri DROTTins.

 15. Þvi-

15. Hviad gott Erfide fær good Laun, og (c) Rootinn Skinsemdarinnar funar ecke.

(c) (Rootinn) Hvør sem vel er forfareñ j Guds Orde, og hefur miked lidid, hann mun Grænka og Blomgast æfennlega, Psalm: 1.

16. Enn Hoordoms-Borninn skulu ecke luckast, og Sædid ut af þeirre oriettu Sænginne mun eydeleggiast.

17. Og þo ad þeir lifdeleinge, þa skulu þeir þo um sijder til Skammar verda, og þeirra Alldur skal ad sijdurstu vera aan Æru.

18. Enn deye þeir fliott, þa hafa þeir þo ongva Von, nie Huggun, a Domsins Tijma.

19. Hviad þeir Rangloatu fa eirn herfelegann Enda.

Cap: IV. 1. Betra er ad eiga einginn Born, Ef Madur er Fromur, Hviad þad sama leider epter sig Eylijfann Ord-Styr, þvi þad mun Loflegt verda bæde hia Gllde og Monnum.

2. Hvor sem slijkur er, þann take menn til Epterdæmis, Enn sa sem þad hefur ecke, hann Oskar þess þo, og bramlar j eylijfum Kranse, og helldur Sigre þess hreinferduga Strijds.

3. Enn Avaxtarsamlegur Fiolde þeirra Ogudlegu er til einkis, og hvad sem plantast af Saurlifnade, þad skal eige diupt Rootfestast, og eige fa stadfastann Grundvoll.

4. Og þo Greinernar Blomgest um stundarsaker, þa veifar Vindurinn þeim, og med þvi þær standa so laust, þa mun sterkur Stormur upprickia þeim.

5. Og þær Otijma-Greiner munu verda j sundurbrotnar, og þeirra Avextur er til einkis Gagns, ofullvaxenn til ad eta, og til einkis dugannligur.

6. Hviad þaug Born sem fædast fyrer utann Ecktaskapar Samband, þau hliota Vitne ad bera um Ranglæte sinna Forelldra, þa þaug verda adspurd.

## IV. Capitule.

7. Enn þo hinn Riettloate deye ofsnemma, þa er hann þo j Hvijld.

8. (Hviad Ellinn er heidarleg, ei su sem leinge lifer, edur aarafioldann hefur.

9. Vijsdomurinn a medal Mannanna er þær riettu Hærur, og Oflecka Lijferne er sa riette Alldurdomur.)

10. Hvi hann Hocknast Gude vel, og er Honum kiær, Og hann verdur burt tekinn, fra þessu Lijfe a medal þeirra Syndugu.

11. Og honum er j burt svipt, so ad Ranglætid skule ecke umsnua hans Skilninge, og ei helldur Fals-Lærdomur hans Sal svijkia.

12. Hviad vond Epterdæme villa og fordiarfa þad Goda, og su oahvetiande Lyst umsnyr Hiortum Saklausra.

13. Hann vard snart algiordur, og hafde fyllt morg Aar.

14. Hviad hans Sal þocknast Gude, þar fyrer took hann hann so snart fra þessu vonda Lijfe.

15. Enn þeir Menn sem þad sia, hyggia þar ei ad, og taka sier þad ei til Hiarta, sem er, Ad Guds Heilager eru under Naad og Miskunseme, og ad Hann hafe Umsion fyrer sijnum Utvoldum.

16. Hviad sa hinn frammlidne Riettloate fordæmer þann O-gudlega lifanda, og sa hinn Unge, sem snarlega verdur fullkomenn, langann Alldur hins Oriettloata.

17. Þeir sia ad sonnu Afgang hins Vijsa, Enn þeir merkia ei hvad DRottenn hugsar um hann, og hvar fyrer hann vardveitte hann.

18. Þeir sia þad vel, og giæta þar ecke ad, þvi DROTTinn hæder ad þeim.

19. Og þar epter munu þeir skiemmelega falla, og vera ein Smaan a medal þeirra Frammlidnu eylijflega. Og hann mun fella þa oforvarandis, og upprickia þeim med Rootum, so ad þeir verde olldungis ad ongvu. Og þeir munu vera j Angist, og þeirra Minning skal gleymast. Enn þeir munu koma efasamer med Samvitsku sinna Synda, og þeirra eigenn Synder skulu straffa þa under Augunn.

V. Ca-

# V. Capitule.

Þa mun sa Riettloate standa med mikille Hugar-hreyste, j giegn þeim sem ad honum þreyngdu, og j burt kostudu hans (a) Erfide.

(a) (Erfide) Hans Lifnade og Lærdome.

2. Þa er þeir sioa slijkt, munu þeir hræðelega skielfast, vegna slijkrar Sælu, sem þeir ecke hugdu þeim.

3. Og munu mæla hvor vid annann med Angre, og af Hugar Angist andvarpa. Þesse er Sa sem vier fyrre dvarudum, og hofdum ad Athloatre.

4. Vier Gicker hielldum hans Lifnad fyrer Vitleysu, og hans Afgang smoanarlegann.

5. Hvornenn er hann nu reiknadur a medal Guds Barna, og hans Arfskipte er a medal Heilagra?

6. Þar fyrer þa hofum vier ecke funded þann rietta Veg, og Lios Riettlætesins hefur ei skined yfer oss, og Soolenn er oss ei upprunnenn.

7. Vier hofum æ geingid ranga og skadsamlega Vegu, og hofum voafad Villustiguna, Enn af Veige DROTTens hofum vier eckert vitad.

8. Hvad hioalpar oss nu vor Hoffrackt? Hvad hofum vier nu af voru Rijkedæme og Metnade?

9. Þad er allt burt lidid sem Skugge, og so sem eirn Hliomur sem hioa lijdur.

10. So sem Skip skrijdur a Vatns-Bylgium, hvors Fotspor einginn kann ad finna, og eige helldur þess Farveg j Vatnenu, þa þad er framm-um komid.

11. Ellegar sem eirn Fugl, þar flygur um Loptid, af hvors Veige eckert Spor finnast kann, þviad hann hræirist og slær j þvi lietta Lopte, Drijfur og sundurklyfur Vedrid med sijnum blæktande Vængium, Og þar eptera gietur eingenn þar inne fundid nockurt Teikn slijks Flugs.

12. Edur so sem nær Pijlu er skotid til Moals, þar er sa sundurklofne Vindur fellur strax samann aptur, so ad einginn kann ad finna hennar Veg þar j giegnum.

13. So erum og vier, epter þad vier fæddunst, feingum vier eirn Enda.

14. Og hofum ecke synt a oss neitt Mannkostar merke, Helldur erum vier foreydder j vorre Illsku.

15. Þviad Von hins O-gudlega er so sem Dupt þad Vindur burt feyker, og so sem þunnt Hrijm-Frost feykest j burt af Storme, og so sem Reykur, sem burt verdur bloasinn af Vinde, og so sem þeim verdur gleymt sem ei er utan eins Dags Giestur.

16. Enn þeir Riettloatu skulu lifa eylijflega, og DRottinn er þeirra (b) Verdlaun, og Sa Hinn Hæste hefur Umhyggiu fyrer þeim.

(b) (Verdlaun) Þeirra Gods og Rijkdomur.

17. Þar fyrer munu þeir odlast eitt Dijrdarlegt Rijke, og Fegurdar Koronu af Hende DROTTins. Þviad Hann mun hlijfa þeim med sinne Hægre Hende, og forsvara þa med sijnum Armlegg.

18. Hann mun taka sitt Vandlæte til Harneskiu, og utbrynia Skiepnurnar til Hefndar yfer Ovinunum.

19. Hann mun jklædast Riettlætenu fyrer Bryniu, og setia þann alvarlega Dom a Hofuded fyrer Hioalm.

20. Hann skal taka Heilagleikann fyrer O-yfervinnanlegann Skiolld.

21. Þa straungu Reide mun hann bryna til Sverds, Og Heimurinn mun draga ut med honum til Strijds a mote þeim Foavijsu.

22. Reidarslog munu hæfa under eins, og falla af Skijunum til Moals, so sem af odrum hardspenntum Boga.

23. Og þickt Hagl mun falla ut af Reide Reidar-þrumunnar. So mun og Vatnid Sioafar-Hassins upp þioota j mote þeim, og Vatns-Straumarner skulu af ollum Krapte giefa sig upp til samans.

24. Og

24. Og so skal eirn sterkur Stormur reisa sig upp j mote þeim, og twijstra þeim j sundur sem Hvirfil-Vindur.

## VI. Capitule.

Nanglæted eyder øllum Londum, og Vondur Lifnadur um koll kastar Stoolum Volldugra.

2. So heyred nu þier Kongar! Og hygged þar ad, Læred, þier Domendur a Jordunne!

3. Hlusted til Þier sem drottned yfer Mørgum, þier sem ad uppheſied ydur yfer Folked!

4. Þviad ydur er Valldid giefid af DROTTne, og Magtinn af þeim hinum Hæsta, Hann mun spyria ad, Hvorninn þier breyted, og rannsaka hvad þier skicked.

5. Þviad þier erud Starfs-Menn hans Rijkis, Enn þier standed ei vel j ydar Starfe, og hallded ongvann Riett, og þier giorid ecke epter þvi sem DROTTenn hefur skickad.

6. Hann mun koma yfer ydur grimmlega og skiotlega, og þar mun olldungis eirn Snarpur Domur ganga yfer þa sem eru Yfer-Herrarner.

7. Þvi þeir minne-hoattar munu ødlast Noad, Enn þeir Volldugu munu volldugl ega straffader verda.

8. Þviad Hann, sem ad er allra DRottenn, mun ei hrædast nockurs Personu, nie fordast Magtina. Hann hefur giort bæde þann smoa og stora, og hann forsorgar øllum eins.

9. Enn yfer þa Megtugu mun ganga eirn strangur Domur.

10. Til ydar Tyranna! Tala eg, so þier læred Vitskund, og ad þad bregdist ydur ei.

11. Þviad hvor hann vardveiter Heilaga Kienning heilaglegana, hann verdur heilagur halldinn, Og hvor hann lærer hana vel, hann fær vel stadist.

12. So loated ydur lijka mijna Rædu, Girnist hana, og loated Undervijsa ydur.

13. Þviad Spekinn er Væn og O-forgeingeleg, og lætur sig giarnann sioa af þeim sem hana elska, og lætur sig finna af þeim sem hennar leita.

14. Joa, Hun mætir þeim sem hana vilia giarnann hafa, og seger sioalf til sijn.

15. Hvor hann vill fliotlega giarnann hafa hana, hann þarf ecke ad hafa mikid Omak, hann finnur hana takande Vara a Hønum fyrer hans Dyrum.

16. Þviad epter henne ad stunda þad eru þaug Riettu Hygginden, og hvor hann er vakande epter henne, hann þarf ecke leinge ad kvijda.

17. Þviad hun geingur um kring, og leitar ad þeim sem hennar er maklegur, og hun opinnberast hønum giarnann a Veigenum, og giæter ad hønum, so ad hun kunne ad mæta hønum.

18. Þviad hvor sem liuflega lætur sier undervijsa þar er sannlega Spekinnar Upphaf. Og hvor sem giæter hennar, lætur giarnann undervijsa sier.

19. Hvør sier lætur giarnann undervijsa, hann helldur hennar Bodord, enn hvar sem hennar Bodord eru halldinn, þar er vissulega eitt heilagt Frammferde.

20. Enn hvor sem lifer j heilogu Frammferde hann er Gude noalægur.

21. Hvor nu sem Lyst hefur til Vijsdoms, þann giorer hun ad einum Herra.

22. Vilied þier nu, þier Tyrannar a medal Folksins! giarnann vera Kongar og Hofdingiar,

23. Þa hafed Vijsdomenn j Heidre, uppa þad, ad þier meiged drottna eylijflega.

24. Enn hvad Vitskann er, og hvadann hun kiemur, vil eg kunggiora ydur, og eg vil þess Leyndardoms ei dylia ydur, helldur rannsaka fra Upphafe Skiepnanna, og avijsa hana opinnberlega, og hlijfa ecke Sannleikanum.

25. Þvi eg vil ecke Þar hafa ad giora vid þa Eitrudu Ofund, þviad hun hefur ei Þar ad giora med Vitskuna. 26.

26. Enn þa þeir Vijsu eru marger, þad er Lucka Heimsins, og eirn hyggenn Kongur er Folksins Giæfu-Loan.

27. Af þvi leated ydur undervijsa med mijnum Ordum, þad skal vera ydart Gagn.

## VII. Capitule.

Eg er og so ein daudleg Manneskia, lijka sem adrer, fæddur af Slekte hins First skapada Manns.

2. Og eg er mindadur j Kiøt, samannrunnenn j Blood um Niju Moanude, af Manns-Sæde, fyrer Lysting, j Samrædenu.

3. Og eg fieck eirninn, þa eg var fæddur, Andar-Droattenn af almennilegum Vinde, Og eg fiell eirnenn a Jordina sem oss alla ber, Og Groaturinn var mitt Firsta Hliod, lijka sem annara.

4. Og eg er j Reifum uppfæddur med med Sorg.

5. (Þvi einginn Konganna hefur annad Fædingar Upphaf.

6. Helldur hafa þeir aller eins Inngang j þetta Lijf, og eins Utgang.)

7. Þar fyrer bad eg, og mier var Vitskann giefenn, Eg kallade, og Spekinnar Ande kom til mijn.

8. Og eg hiellt hana Dijrmætare enn Konga-Rijkinn og Hertuga-Doomana, og Rijkdoom hiellt eg einkis verdann hioa henne.

9. Eige jafnade eg henne vid nockurn Gimstein, þviad allt Gull er hioa henne so sem lijtilmotlegur Sandur, og Silfur er hioa henne ad reikna so sem Saurinde.

10. Eg elskade hana meir enn heilbrigdann og fagrann Lijkama, og eg utvalde mier hana til eins Lioss, þviad sa Liome sem af henne geingur hann sloknar ei.

11. Allt Gott kom mier med henne, og Oteljanlegur Rijkdomur j hennar Hende.

12. Eg var gladvær j øllum Hlutum, þad skiede af þvi, ad Spekinn gieck fyrer mier j þeim somu, Enn eg visse ecke, ad soddann kom af henne til.

13. Eg lærde þad einfalldlega, rijflega utskipte eg þvi, eg vil ecke fela hennar Rijkdom.

14. Þviad hun er Mannenum eirn Oendannlegur Fioarsiodur, Hvorier hans neyta þeir verda Guds Viner, og eru þacknæmeleger þar fyrer, ad þeim er giefid ad lꜳta undervijsa sier.

15. Gud hefur giefed mier hyggelega ad tala, og ad hugsa riettelega epter slijkum Spekinnar Goafum. Þviad Hann er Sa sem leider a Spekinnar Vegu, og Sa sem stiornar þeim enu Vijsu.

16. Þvi bæde sioalfer vier, og vor Ræda, er j hans Hende, þar med øll Vitska og Kunnꜳtta j allskins Verkum.

17. Þviad Hann hefur giefed mier vissa Þecking allra Hluta, So ad eg veit Hvornenn Heimurinn er giordur, og Krapt Hofud-Skepnanna.

18. Upphaf Tijmans, Enda, og Mided, hvornenn Dagenn leinger og stytter, hvornenn Aarsins Tijmar umskipta sier.

19. Og hvornenn Aared velltest um kring, hvornenn Stiornurnar standa.

20. Nꜳtturu þeirra Tomdu og Villudyranna, Hvornenn ad Vindurinn bloase so, og hvad Mennerner hugse, marghꜳttada Tegund Jurtanna,* og Krapt Rootanna.

* Øll Verølldenn þecker mestann Part af þessum Hlutum, enn þeir einer sem trua, vita ad þeir eru Guds Skiepna, og skapader fyrer Guds Ord og Vijsdoom.

21. Eg veit allt hvad leynt og folgid er, þviad Spekinn, sem er Meistare allra Lista, kiennde mier þad.

22. Þviad j henne er Ande, sem er Skilninssamur, Heilagur, Alleina, Margfalldur, Skarpur, Sliingur, Moalsniallur, Hreinn, Kloar, Hooflyndur, Vingiarnlegur, Alvarlegur, Frioals, Goodgiordasamur.

23. Manngiædsku-fullur, Stødugur, Stadfastur, Ohræddur, Sa er allt gietur giørt, Sier alla Hlute, og geingur j giegnum alla Anda, hvorsu Hyggner, Skiærer og Skarper sem þeir eru.

24. Hviad Spekinn er hin allra Slijngasta, hun fer og geingur j giegnum allt, so er hun olldungis skiær.

25. Hviad hun er Liome Guddoomsins Kraptar, og eirn Geisle Dijrdar hins Almaattuga. Þar fyrer kann eckert Ohreint ad koma til hennar.

26. Þvi hun er Birte þess Eylijfa Liossins, og ein skiær Skuggsio Guddomligs Kraptar, og ein Mind hans Giædsku.

27. Hun er Ein, og verkar þo alla Hlute, Hun er þad hun er, og endurnyar þo alla Hlute, Og hun giefur sig æ og alla Tijma j Saaler þeirra Heilogu, og giorer ad Guds Vinum og Prophetum.

28. Hviad Gud elskar ongvann, nema hann blijfe vid Spekena.

29. Hun frammgeingur vegligar enn Soolenn og allar Stiornur, og hiaa Liosenu ad reikna, þa geingur hun langt yfer.

30. Hviad Liosid hlytur fyrer Nottinne ad vijkia, Enn Vondskann yfervinnur alldrei Spekena.

Cap: VIII. 1. Hun naaer vollduglega fra einum Enda til annars, og styrer vel ollum Hlutum.

## VIII. Capitule.

2. Þessa hina somu hef eg elskad, og epter henne leitad fra mijnum Ungdome, og eg hugsade ad taka hana mier til Brudur, þvi eg hefe feinged oast til hennar Vænleika.

3. Hun er af kostulegum Adli, þviad hennar Umgeingne er hiaa Gude, og DRottenn allra Hluta elskar hana.

4. Hun er þad heimuglega Raad j Guds Vidurkienningu, og framkvæmer Hans Verk.

5. Er Rijkdomurinn Agiætur Hlutur þessa Lijfs? Hvad er Rijkara enn Spekinn sem skapar alla Hlute?

6. Giorer þad Virskann? Hvor er merkelegre Meistare a medal allra enn Hun?

7. Enn elskar nockur Riettvisena? Hennar Erfide er eckert utann Mannkoster, þvi hun kienner Hæversku, Hygginde, Riettvijse og (a) Stirkleika, hverier Hluter nytsamlegaster eru j Mannsins Lijferne.

(a) (Stirkleika) Þad er, ad vera Karlmannlegur, Hughraustur, Diarfur, og Ohræddur.

8. Ef girnist nockur margt ad vita þa kann hun ad hitta uppa, Bæde þad Umlidna og Okomna, Hun skilur Dulmæli, og kann ad leysa ur mirkvum Raadgaatum. Hun veit Teikn og Stormerke fyrer framm, og hverninn þad mune tilganga a hverre Stund og Tijma.

9. Eg hefe aalyktad ad taka mier Hana til ad lifa med, þviad eg veit, ad hun mun vera mier godur Raadgiafe, og Huggare j Sorg og Motgange.

10. Fyrer hana hefur Yngis-Madurinn Priis a medal Folksins, og Heidur hiaa þeim Gomlu.

11. Eg mun finnast Snarpvitur j Doomenum, og hiaa þeim Volldugu skulu Menn furda um mig.

12. Þa eg þege þa munu þeir bijda mijn, þa eg tala munu þeir þad athuga, þa eg framm sege mijn Ord, þa munu þeir leggia Hendur a sinn Munn.

13. Eg mun faa odaudlegt Nafn af henne, og laata epter mig eylijflega Minning hiaa mijnum Epterkomendum.

14. Eg skal stioorna Folkenu, og þeir Heidnu munu verda mier undergiefner.

15. Grimmer Tyrannar skulu verda hræder, þa þeir heyra til mijn, og eg mun finnast a medal Folksins Godur, og j Bardaganum ein Hetia. Þa eg er heima þa hef eg Unadsemd af henne.

16. Þvi þad er ei leidegiarnt ad hafa Umgeingne med heñe, ei helldur leideñlegt ad vera hiaa henne, helldur Lyst og Glede.

17. Um þad hugsade eg, og lagde þad a Hiartad, þviad þeir sem henne tilheyra, þeir hafa eylijfa Veru.

18. Og þeir sem hennar Viner eru þeir

hafa hreinferduga Vellysting. Þar kiemur Odendanlegur Rijkdomur af (b) Erfide hennar Handa, og Hygginde af heñar Sam-Vistum og Rædum, og eitn goodur Losstyr af hennar Umgeingne og Vidrædu, Eg gieck umkring ad leita hennar, ad eg kynne ad koma henne til-mijn.

(b) (Erfide) Þad er, Fyrer hennar Lærdom og Raad.

19. Þvi eg var eitt Barn goodrar Natturu, og fieck fagra Saal.

20. Enn þa eg var uppfæddur og eg, og vard osaurgadur Lijkame.

21. Enn þa eg merkta, ad eg kunne ecke med ødru mote kurteis ad verda, utan Gud giæfe mier þad (og þad kiennde eirninn Skilnings, ad vita hvørs Raad þad er) þa gieck eg fyrer DROTTenn, og bad Hann, og sagde af øllu mijnu Hiarta.

## IX. Capitule.

O Gud minna Forfedra! og DROttenn allrar Giædsku, Þu sem alla Hlute giørder fyrer þitt Ord!

2. Og fyrer Þijna Speke hefur Mannenn tilreidt, ad hann skyllde drottna yfer Skiepnunum, sem þu hefur skapad.

3. Ad hann skyllde styra Heimenum med Heilagleika og Riettlæte, og dæma med riettvijsu Hiarta.

4. Gief mier þa Speke sem ætijd er j kringum þinn Velldis-Stool, og utkasta mier ei fra þijnum Børnum.

5. Þvi eg er þinn Þræll, og Sonur Ambaattar Þiñar, ein Ostirk Manneskia, og med stutta Lijfdaga, og Of skilnings-veik j Þijnum Riettindum og Logmaale.

6. Og þo ad nockur a medal Mannanna Barna være fullkomenn, þa gillder hann eckert, ef hann hefur ei þa Speke sem (a) fra Þier kiemur.

(a) Siaa! Spekenn kiemur alleina fra Gude, og aan hennar kann eingenn Madur ad duga.

7. Þu utvalder mig til Kongs yfer þinn Lyd, og ad vera Domare yfer Sonum Þijnum og Dætrum.

8. Og baudst mier ad byggia eitt Mustere a þijnu Heilaga Fialle, og eitt Alltare j þeim Stad sem Þu byr, hvørt ad vera skyllde lijkt þeirre Heilogu Tialldbud, sem Þu lietst fordum giøra.

9. Og þijn Speke med þier, hvør ad veit Þijn Verk, og þar var naalæg, þa Þu giørder Himinenn, og veit hvad Þier vel lijkar, og hvad riett er j Þijnum Bodordum.

10. Send hana hingad ofann af Þijnum Heilaga Himne, og af Þijnu Dijrdar-Velldis Sæte! Send hana, so ad hun sie hiaa mier, og erfide medur mier, So ad eg kunne ad skilia (b) hvad Þier vel þocknast.

(b) Fyrer utann Guds Ord kann Madur eckert ad vita, hvad Gude er þecknanlegt, helldur anar hann æframm, og giører allt j Tvijsle og Efaseme.

11. Þviad hun veit alla Hlute, og skilur þad, Og laat hana leida mig skickanlega j mijnum Verkum, og vardveita mig fyrer sijna Vegsemd.

12. Þa munu Þier þocknast mijn Verk, og eg mun dæma þitt Folk riettelega, og maklegur vera mijns Fødurs Haasætis.

13. Þvi hvør er sa Madur sem veit Guds Raad? Eda hvør kann ad hugsa hvad Gud vill?

14. Þviad Daudlegs Manns Hugsaner eru efasamar, og vort aaform er haaskasamlegt.

15. Þviad daudlegur Lijkame þynger Saalena, og þetta Jardlegt Hreise nidur þricker (c) tvijstrudu Hugskote.

(c) (Tvijstrudu) Fyrer utann Guds Ord leitar og upp helnker vor Skinseme marga Vegi og Maata, tvijstrar sier so j margre Rædu, enn hun hitter þo ecke uppa þad rietta.

16. Vier hittum naumlega a þad sem a Jordunne er, og finnum þad varla sem mille Handanna er. Hvør vill þa rannsaka þad sem er a Himnum?

17. Hvør vill vita Þitt Raad? utann so sie

sie ad Þu giefer Spekena, og sender Þinn Heilagann Anda af Hædinne.

18. Og ad Verkenn a Jordu verde riettvijs, og Mennerner lære hvad þier vel þocknast.

19. Og verde Saaluhiaalpleger fyrer Spekena.

## X. Capitule.

Þesse Speke vardveitte hann sem first var giordur, og alleina var skapadur, Verolldinne til eins Fodurs, Og leidde hann ur sijnum (a) Syndum.

(a) (Syndum) Fyrer þetta Ord, Gen: 3. Kvinnunnar Sæde skal sundur meria þitt Hofud.

2. Og gaf honum Magt ad drottna yfer ollum Hlutum

3. Fra hvorium þa sa hinn Ranglaate affiell fyrer sijna Reide, Fordiarfadist hann vegna sijns grimmlega Brodur-Draaps.

4. Og þa Jordenn var fordiorfud þess vegna med Vatns-Flodenu, þa hiaalpade (b) Spekenn aptur, og stijrde þeim Riettlaatu med einu litlu Trie.

(b) (Spekinn) Þad var Guds Ord og Skipun, ad Orkinn yrde smijdud.

5. Þesse Sama fann þann Riettlaata, þa Heidingiarner lifdu so vondslega aller (c) til samans, j Villunne, og hiellt honum Ostrafanlegum fyrer Gude, Og liet hann vera stodugann, j giegn þvi Fodurlega Hiarta til Sonarins.

(c) (Til samans) Þad er, Hvort helldst hann kom, þa fann hann illt Afguda, Dijrdkunar Folk, sem Abrahams Lijfsaga utvijsar.

6. Þesse frelste þann Riettlaata, þa þeir Ogudlegu forgeingu, þa hann flyde undann Elldenum sem fiell yfer þær Fimm Borgernar.

7. Hvorra Eyde-Land enn nu giefur Reyk af sier, til Vitnisburdar Illskunnar, og þaug Trien sem bera (d) Ofullvaxenn Avoxt, og Su Sallt-Sula, sem þar stendur til Aminningar þeim Van-Truudum Saalum.

(d) (Ofullvaxenn) Skulu vera þau Eple hiaa þvi Dauda Hafenu, sem utann til eru fogur, enn innann til Aska, þaug kallast Sorba.

8. Þviad þeir sem ecke hirda um Spekena, hafa ecke ad eins þann Skada, ad þeir þeckia ei þad gooda, Helldur laata þeir epter sig eina Aminning til þeirra lifendu, so ad þeir giete ecke dulest j þvi sem þeir sooru villt.

9. Enn Spekinn Frelsar þa af ollum Mootgange, sem sier hallda vid hana.

10. Þesse leidde þann Riettlaata a riettum Veige, sem vard ad flya Reide Brodur sijns, og vijsade honum Guds Rijke, og sagde honum hvad Heilagt er, Og hiaalpade honum j hans Erfide, so ad hann audgadest, og aflade mikillra Fiaar-Hluta, med sijnu Erfide.

11. Og hun var med honum, þa hann var svikinn, af þeim sem honum giordu Oriett.

12. Og hun giorde hann triggvann fyrer þeim sem ad soktu epter honum. Og hun gaf honum Sigur j einu sterku Strijde, so ad hann skyllde merkia, ad (e) Gudhrædslann er sterkare enn aller Hluter.

(e) (Gudhrædslann) Þad er Truenn a Guds Ord edur Spekina.

13. Þess yfergaf ecke þann Riettlaata sem selldur var, helldur vardveitte hann fra Syndinne, foor med honum nidur j Mirkvastofuna.

14. Og yfergaf hann ecke j Fiotrunum, þangad til hun fieck honum Stiornar-Sprota Rijkesins, og Valld yfer þeim sem honum hofdu giort Ofbellde, Og hun giorde þa ad Lygurum, sem hann hofdu straffad, og gaf honum eirn Eylijfann Heidur.

15. Þesse frelste þad Heilaga Folk, og þad ostraffannlega Sæde, fra Heidingiunum, sem plaagudu þa.

16. Hun kom j Saal DROTTins Þienara, og stood j moote þeim Grimma Konge med Ododsamlegum Verkum og Taaknum.

17. Hun launade þeim Heilogu þeirra Erfidi, og leidde þa j giegnum Furdannlegann Veg, Og hun var þeirra Hlijfd a Deiginum, og eirn Loge a Nottunne, lijka sem Stiornur.

18. Hun

18. Hun leidde þa j giegnum þad Rauda Haf, og leidde þa j giegnum stoor Vatn.

19. Enn þeirra Ovinum dreckte hun nidur, og þessa droo hun af Diupsins Grunne.

20. Þar fyrer ræntu þeir Riettlaatu þa Ogudlegu, og prijsudu Þitt Heilaga Nafn DROTTenn! Og lofudu med Eindrægne Þijna Sigursæla Hond.

21. Þviad Spekenn upplauk Munne hins Maallausa, og giorde Smaa ⸗ Barnanna Tungur talande.

## XI. Capitule.

Hun greidde þeirra Verk fyrer Hond þess Heilaga Propheta.

2. Og Hun leidde þa j giegnum Eydemørkena, so ad þeir settu sijn Land⸗Tiolld j Eyde Stedum.

3. Og stoodu j giegn sijnum Ovinum, og hefndu sijn a þeirra Motstodu⸗Monnum.

4. Þeir kolludu a Þig þegar þa þyrste, og þeim vard giefid Vatn af þvi haafa Berge, og þeir slocktu sinn Þorsta af þeim harda Steine.

5. Og þad sama sem þeirra Ovinum vard ad Plaagu,

6. Þad vard þeim til gooda, þa þeir lidu Neyd.

7. Þviad lijka sem þeir adrer hræddust fyrer Bloodenu, sem kom j Stadinn þess rennanda Vatns,

8. Þeirre Skipun til Strøffunar, þa ed Menn urdu Bornenn ad deyda, So gafstu þessum Nægd Vatnsins oforvarandis.

9. Og aavijsader þar med, med þeirra Þorsta, Hvornenn þu plaagader þa Þverbrotnu.

10. Þviad þa þessara var freistad, og þeir urdu med Naad hirter, þa underskoodu þeir hvornenn ad þeir Ogudlegu verda med Reide dæmder og plaagader.

11. Þessa hefur Þu aaminnt, og reynder þa so sem eirn Fader, Enn hina adra straffader Þu og fyrerdæmder sem eirn strangur Kongur.

12. Og þeir urdu eins plaagader, þeir sem þar voru hiaa, so sem hiner er þar voru ecke.

13 Þviad þar kom Tvofolld Hormung yfer þa, Þar med andvarpudu þeir, þegar þeir hugsudu um þad umlidna.

14. Þvi þa þeir heyrdu ad þessum var þad til Gooda, sem hinum vard til Plaagu, þa fundu þeir til DROTTins.

15. Þvi Sa, Hvorium þeir hofdu aadur Forsmaanarlega burt skufad, og kastad, og hann spottad, hans vegna maattu þeir ad sijdurstu undrast, þa þad fieck þann Enda, ad þeirra Þorste var ecke lijka sem þeirra Riettlaatu.

16. Lijka og eirninn fyrer þußlegar Hugsaner þeirra orietttvijslegu Hondlunar, hvar med þeir urdu svikner, og tilbaadu Skinlaus Skridkvikende, og fyrerlitleg Dyr, þa sender Þu a medal þeirra Fiolda Skinlausra Dyra, þeim til Straffs.

17. So ad Þeir mætte skilia, Ad Hvar med eirn hann syndgar, Þar med verdur hann og Refstur.

18. Þviad eige skortade þad Þijna Almættis Hond, (Hvor ed Heimenn hefur af O⸗frijdu Efne skapad) ad senda Fiolda Biarn⸗Dyra yfer þa, edur diorf Leon.

19. Edur nyskopud, grimm, okunnug Dyr, edur þaug sem Elldi spye, edur hrædeligum Reyk utbliese, edur þaug, hvorium ad Elldur ur Augum tinnade.

20. Hvor ecke ad eins giæte j sundurmarid þa med Fordiorfun, helldur og so eirnenn dræpe þa med sinne hrædelegre Syn.

21. Jaa, aan þessa þa kunna þeir ad falla fyrer eirn einasta Anda, offækiast med Hefnd, og fyrer Anda Þijns Kraptar sundurtvijstrader ad verda.

22. Enn Þu hefur skickad alla Hlute med Mæler, Tolu, og Vikt, Þviad ætijd er stoor

Formegan hia Pier, Og Hvor kann ad standa j moote Magt Pijns Armleggs?

23. Þviad Heimurinn er fyrer Pier, so sem (a) Lijtil Tunga j Voginne, og so sem Dropi Morgun-Daggar, sem fellur a Jordina. Enn Pu miskunar ollum Hlutum.

(a) (Lijtil Tunga) So sem þad kann audvelldlega ad skie, ad ein lijtil Tunga kann ad hallast, so er Heimurinn lijtils verdur Hlutur a moote Gude ad reikna.

24. Þvi Pu hefur Magt yfer ollum Hlutum, og umlijdur Mannanna Synder, so ad þeir skule betra sig.

25. Þvi Pu elskar allt þad sem til er, og eigi hatar Pu neitt af þvi sem Pu hefur giort, þviad Pu hefur Sannlega þad ecke neitt giort, þad Pu hefur Hatur til.

26. Hvornenn kann nockud ad standast ef ad Pu villder ecke? Edur hvornenn kynne þad ad vardveitast, sem Pu ei kallad hefur?

27. Enn Pu hlijfer ollum Hlutum, þviad þeir heyra Pier til DROTTenn! Pu sem elskar Lijfed,

Cap: XII. 1. Og Pinn O-forgeingelegur Ande er j ollu.

## XII. Capitule.

2. Par fyrer hirter Pu med Hoofseme þa sem falla, og aaminner þa med Ognun hvar med þeir syndge, So ad þeir verde lauser vid Rangløtid, og true a Pig DROTTenn!

3. Þvi þa Pu varst Ovinur þeirra fyrru, sem biuggu j Pijnu Heilaga Lande.

4. Af þvi þeir drijgdu Haturleg Verk, med Golldrum.

5. Og Pu villder fyrer Hendur vorra Forfedra afmaa þa Ogudlegu Foornfærara, og þa Miskunarlausu sem myrdtu sijna Syne.

6. Peir ed aatu Manna Slaatur, og drucku hrædelegt Blood, hvar med þeir villdu giora þier þetta til Guds-Pienustu, og þeir sem Forelldrarner voru myrdtu þær Saaler sem ongva Hiaalp hofdu.

7. Uppa þad, ad Landed, sem fyrr var þad Besta a medal allra, skyllde vera eirn maklegur Bustadur Guds Bornum.

8. Po hlijfder Pu þeim samt, so sem Monnum, og sender Pijna Fyrer-Rennara fyrer Pier, sem er Pitt Herlid, stijngande Flugur, Uppa þad, ad þeir skyllde fyrerkoma þeim med Tijdenne.

9. Ad vijsu var Pier ecke Omogulegt, ad varpa þeim Ogudlegu under þa Riettlaatu j Bardaganum, edur sundur meria þa alla, eins og fyrer Olmum Dyrum, edur og annars med Hast-Yrde.

10. Helldur dæmer Pu þa med Tijdenne, og gafst þeim Bidlund til Betrunar, þo ad Pu vel visser, ad þeir hefdu Illa Natturu, og þeirra Hreckvijse var þeim medfædd, og ad þeir mundu alldrei umskipta sijnum Hugrenningum.

11. Þviad þeir voru eitt Bolvad Sæde j Upphafe, So þurfter Pu ongvann ad fordast, þo Pu fyrergiæfer þeim þad, hvar med þeir hofdu syndgast.

12. Þviad hvor vill segia til Pijn, Hvad giorer Pu? Edur hvor vill j moote standa Pijnum Doome? Eda hvor vill skullda Pig fyrer þa foreyddu Heidingia, hvoria Pu hefur skapad? Ellegar hvor vill setia sig til Hefndar vid Pig, vegna þeirrar Oriettlaatu Manneskiu?

13. Þvi þar er Eingenn Gud utann Pu, Pu sem Umhyggiu hefur allra Hluta, So ad Pu þar med audsyner, ad Pu dæmer ecke rangt.

14. Þviad hvorke Kongur, nie nockur (a) Tyranne, kann ad ganga þier under Augunn fyrer þa, sem Pu straffar.

(a) (Tyranne) Slaa! Hvorsu hann hagar ollum sijnum Ordum, so ad hann kunne ad skielfa Tyrannana.

15. First Pu ert Riettlaatur, þa stiornar Pu ollum Hlutum riettelega, og helldur þad ecke (b) sooma Pijnu Majestatis Vallde, ad for-

fordæma nockurn, sem ei hefur forþienad Straff.

(b) (Sooma) So sem Tyrannar laata sier þykia þad þeir meige bruka sijna Magt odrum til Skada.

16. Þviad Þinn Stirkleike er Hofdingsskapur Riettvijsinnar, Og med þvi Þu stiornar ollum, þa hlijfer Þu og so ollum.

17. Þvi Þu hefur audsynt Þinn Stirkleika, a þeim sem ecke trudu, ad Þu varst so olldungis Megtugur, og Þu audsynder Þig a þeim, sem vissu sig ad vera (c) Diarfa.

(c) (Diarfa) Þad er a moote þeim Egyptskum j Hafenu Rauda.

18. Enn Þu hinn Vollduge Drottnare! dæmer med Hogværd, og stiornar oss med mikille Lijnkind, þvi Þu megnar allt þad sem Þu villt.

19. Enn med soddann Giorningum kienner Þu Þijnu Folke, ad Menn skulu vera Riettlaater og goder, Og Þu lætur Þijn Born þar af læra, ad þau skule hafa gooda Von, þad Þu vilier medtaka Yferbot, fyrer Syndernar.

20. Þvi þar Þu straffader Ovine Þinna Barna, og þa sem Daudann hofdu verdskulldad med slijkum Undanndrætte og Lijnkind, og gafst þeim Stund og Toom, hvar med þeir kunne ad laata af sinne Vondsku.

21. Med hvad meira Athuga dæmer Þu þa Þijn Born, vid hverra Fedur Þu uppreister eirn Eid, og Saattmaala, uppa morg good Fyrerheit.

22. Þar fyrer, So opt sem Þu straffar vora Ovine, þa giorer Þu oss til Hirtingar, So ad vier hefdum gleggvar Giætur a Þinne Giædsku, ad þo vier verdum dæmder, þa skulum vier þo treysta uppa Þijna Miskunseme.

23. Hvar fyrer Þu og straffader þa (d) Rangloatu med þeirra eigenn Svijvirding, sem þo lifdu þusslega.

(d) (Rangloatu) Þeir Egyptsku, sem tilbædu þau Dyr sem Hydingar þeirra Oviner Forsmaadu.

24. Þvi þeir voru Olldungis so langt burt j Villuna fallner, ad þeir hielldu þaug Dyr fyrer Gude, sem voru fyrerlitenn hiaa þeirra Ovinum, svikner lijka sem Skinlaus Born.

25. Þar fyrer hefur Þu og athlæilegt Straff laatid yfer þa ganga, so sem yfer Skilningslaus Born.

26. Enn þa þeir oktudu ecke soddann spottlegar Aminningar, þa feingu þeir ad finna Alvarlegt Guds Straff.

27. Þvi þeir urdu af þeim Hlutum plaagader, sem þeir hielldu fyrer Gud, Hvad þa angrade med ollu, þa þeir saau þann sem þeir aadur villdu ecke þeckia, og maattu þeckia hann fyrer eirn Gud, þar fyrer kom Fyrerdæmingenn um sijder yfer þa.

## XIII. Capitule.

Sannlega eru aller Menn af Natturunne Hiegomleger, sem eckert vita af Gude, og af synelegum godum Hlutum ei þeckia Hann, sem hann er, og ei siaa a Verkenu hvor Meistarinn er.

2. Helldur hallda annadhvort Elld, edur Vind, edur Hvatskeitlegt Vedur, edur Stiornur, edur Strijd Votn, edur Liosenn a Himnenum, sem Verolldinne styra, fyrer Gude.

3. Enn ef þeir hefde Þocknan a þeirre frijdre Skopun, og hiellde þa so fyrer Gude, þa skylldu þeir med riettu hafa vitad, Hvad alldeilis miklu betre Sa sie sem er DRottenn yfer þessu, þvi Hann sem er allrar Fegurdar Meistare, hann skapade allt þetta.

4. Og þar sem þa furdade þeirra (a) Maattur og Kraptur, þa skylldu þeir med Riettu hafa markad þar af, hversu Megtugre Hann er sem allt þetta tilreidde.

(a) (Maattur) Þad er margfalldar Verkaner og Dygder Skiepnanna.

5. Þviad ut af þeirre miklu Fegurdar Pryde, og Verkum Skaparans, þa maa Hann þeckia, so sem af ann re Mind.

6. Enn þo ad þesser sie ei alldeilis fastlega Avijtande, þviad þeir kunna og vel ad fara villt, þa þeir leita Guds, og vilia giarnann finna hann. 7. Þviad

7. Hviad nær ed þeir umgangast med Hans Skiepnur, og hugsa þar um, þa verda þeir fangner j Skodunenne, epter þvi ad Skiepnurnar eru so fagrar, þær sem Menn sioa.

8. Þo eru þeir ecke assakader.

9. Hviad hafe þeir so miked kunnad ad þeckia, ad þeir kunnu Hvatt ad akta Skiepnuna, Hvar fyrer hafa þeir þa ei miklu fyrre hennar DROTTenn fundid?

10. Enn þeir eru Vesæler, og þeirra Von moa vel reiknast a medal þeirra Daudu, sem kalla Mannanna Verk Gud, So sem ad er Gull og Silfur, Meistarlega tilbuid, og Dyra Minder, edur gagnlauser Steinar, sem eru giorder fordum.

11. So sem þa, nær eirn Trie-Smidur leitar Erfidis, hoggur einhvor-stadar Tried, og utsnickar og sliettar þad vel, og giorer eitthvad Smijdislegt og Fagurt þar af, sem Gagnlegt kann ad vera j þessu Lijfe.

12. Enn Spænina af þvi sama Smijde, hefur hann til þess, ad sioda Mat med, so ad hann kunne ad verda mettur.

13. Hvad sem Afgangs er, sem annars er ei til Gagns, sem er þad Bogna og Kvistotta, þad tekur hann og utskier þad vandlega, þa hann hefur ecke annad ad giora, og hann smijdar þad Meistarlega med sijnum Hagleik, og giorer þad lijka sem eins Manns, edur fyrerlitlegs Dyrs Mind.

14. Og hann litar þad med Raudum og Hvitum Color, Raudt og Fagurt, og hvar sem þad verdur blettott, þa ber hann þar Color a.

15. Og hann giører eitt Fagurt Huskorn, handa þvi, og setur þad a Vegginn, og negler þad fast med Jarne.

16. So þad skule ecke falla, Slijka Ahyggiu hefur hann fyrer þvi, þviad hann veit ad þad getur ecke hialpad sier sialft, þvi þad er eitt Lijkneske, og þarf vel Studnings vid.

17. Og nær hann bidur fyrer sijnu Gotse, fyrer sinne Kvinnu, og fyrer sijnum Bornum, skammast hann sijn ecke ad tala til þess Dauda.

18. Og hann akallar þann Veika um Heilbrigde, bidur þann Dauda um Lijf, beidest Hialpar af þeim sem eckert duger.

19. Og um luckusama Reisu af þeim sem ecke kann ad ganga, og hann bidur hann um sinn Avinning, Erinde og Utvegu, ad þad skule vel luckast, þann sem eckert formoa.

## XIV. Capitule.

Eins giorer og Sa sem vill sigla, og hyggur sier ad fara j giegnum þær grimmu Bylgiur, og hann tilbidur eitt miklu slæmra Trie enn þad Skip er sem hann fer a.

2. Þvi þad er funderad til þess, ad sækia sijna Næring þar med, og Meistarenn hefur smijdad þad med Hagleik.

3. Enn Þijn Fyrersion, O Fader! Styrer þvi, Þvi Þu giefur Veginn j Hafinu, og oruggvann Gang a medal Bylgnanna.

4. Hvar med Þu bivijsar, hvorninn þu kannt ad hialpa allstadar, og eirninn lijka þo nockur giefe sig j Hafed oan Skips.

5. Þo epter þvi, ad Þu ecke villt, ad þad skal liggia til Einkis, sem Þu hefur skapad, fyrer Þinn Vijsdom, Þvi skiedur, ad Menn trua so litlu Trie til sijns Lijfs, og eru holpner jnnann Skip-Bords, hvar med þeir fara j giegnum Hassins Bylgiur.

6. Þviad og so fordum Daga, þa þeir Drambsomu Risar voru nidursslegner, þa flydu þeir a hvorium Voneun var til ad Fiolga Mann-Kined, j eitt Skip, hvoriu Þijn Hond styrde, og lietu so Verolldunne Sæde epter sig.

7. Þviad slijkt Trie er Blessunar verdt, sem Menn hondla riett med.

8. Enn hitt er Bolvunar verdt, sem utskierst med Hondunum, so vel sem sa er þad utskier, þesse af þvi hann giorer þad, Hitt annad þar fyrer, ad þad kallast Gud, med þvi ad þad er eirn forgeingelegur Hlutur.

9. Þviad Gud hatar eins, bæde þann Ogudlega, og hans O-gudleg Verk.

10. Og

10. Og Verkid skal ploagad verda med Meistaranum.

11. Par fyrer skal Heidingianna Afguda vitiad verda, þvi þeir eru ordner af Guds Skiepnu, til Svijvirdingar, og til Hneixlunar Mannanna Saalum, og til Snoru þeim Faavijsu.

12. Þviad Skurgod upp ad reisa, er sa stærste Hordomur, og þad upp ad hugsa, er eitt skadsamlegt Epterdæme j þessu Lijfe.

13. Þaug hafa ecke verid fra Upphafe, þau munu og ecke eylijflega vara.

14. Helldur eru þaug uppkominn j Heimenum fyrer faanyta Mannanna Vegsemd, og af þvi upphugsud, ad Menn eru skammlijfer.

15. Þviad eirn Fader soa sem griet, og hafde Harm epter sinn Son, sa honum var fyrer Tijmann fratekeun, hann liet giora eitt Lijkneske, og took til ad hallda nu þann fyrer Gud, sem var frammlidinn Madur, og stickade a medal sinna eina Guds-Pionustu og Offur.

16. Þar epteraa var slijk O-gudleg Vijsa halldinn fyrer eitt Logmaal, ad Menn urdu ad vegsama Lijkneske fyrer Skickun Tyrannanna.

17. Somuleidis þeirra sem ecke gaatu heidrad Menninna, j þeirra Augsyn, fyrer Fiarlægdar Saker, þa lietu þeir utmaala þeirra Andlits-Minder ur fiærlægum Londum, og giordu eitt forprydelegt Lijkneske epter þeim Hermannlega Konge, so ad hann feinge sijna Hræsne synt, so þeim Fiærlæga sem Naalæga.

18. Og Vegsemdar-Gyrndenn Hagleiks-Mannsins kom þeim Faafrodu til ad stadfesta soddann Guds-Pionustu.

19. Þviad hvor hann villde einum Hofdingia vel þiona, hann giorde fegurst Lijkneske med allskins Hagleik.

20. Enn Alþijdann, hvor med soddann Hagleiks-Smijde var tilteygd, Hun took til ad hallda þann fyrer Gud sem litlu einu fyrr var Vegsamadur sem Madur.

21. Af slijku kom su Villa j Heiminn, ad nær Monnum laa nockud a, edur villdu hræsna fyrer Magtar-Monnum, þa gaafu þeir Stockum og Steinum soddann Nafn, sem þeim hæfde ecke ad hafa.

22. Þar epter lietu þeir sier þad ecke nægia, ad þeir villtust j riettre Þeckingu Guds, helldur þo ad þeir være j slijkum blindum Lifnade Faavitskunnar, þa kolludu þeir þo slijka Illsku og Baraattu, eirn Frid.

23. Þviad annad-hvort draapu þeir sijn Born til Offurs, edur giordu þa Guds Pionustu sem ecke er fra-segiande, edur sloust j ohoflegar Ofneytslur, epter Ovanalegum Hætte.

24. Og hofdu sijdann hvorke Hreinferduglega Umgeingne, nie Hiuskapar Lifnad, Helldur drap hvor annann med Svikum, edur hugmodade hann med Hordome.

25. Og a medal þeirra geingur framm, Blood, Mord, Þiofnadur, Falskleike, Svik, O-Tru, Ognan, Meineydar.

26. (a) Onaadan hinna Riettlaatu, O-þacklæte, Hneixlauer ungra Hiarta, Hroopande Synder, Blod-Skammer, Hoordomar, Saurlifnadur.

(a) (Onaadan) Ad þeir giora þeim godu allrahanda Onaad og Plaagu.

27. Þviad su skiemmelega Afguda-Pionusta, er Upphaf, Ender, og Efne til alls Ills.

28. Hallde þeir Heilagt, þa breyta þeir so sem være þeir galder, Spaae þeir, þa eru þad einsamlar Lygar, þeir lifa ecke Riettferduglega, Sveria framm-hleyppelega falska Eyda.

29. Þviad, med þvi ad þeir trua a þaug Steindaudu Skurgod, þa ottast þeir ongvann Skada, þegar þeir sveria rangt.

30. Þo skal Riettur koma yfer þa fyrer hvorutveggia, bæde fyrer þad, ad þeir hallda ei riettelega ut af Gude, first þeir giefa vakt Skurgodunum, so og fyrer þad, ad þeir sveria rangt og falsklega, og akta eckert þad Heilagt er.

31. Þviad Illska þeirra Ranglaatu fær

Enda, ecke epter þeirre Magt sem þeir hafa, þegar þeir sveria, helldur epter þvi Straffe sem þeir verdskullda med sinne Synd.

# XV Capitule.

Enn Þu, Vor Gud! ert Astudlegur, og Trufastur, og Þolinnmodur, og Þu stiornar ollum Hlutum med Miskunseme.

2. Og þo vier syndgunst, þa erum vier þo samt Þijner, og vidurkiennum Þijna Magt: Epter þvi, ad vier vitum slijkt, þa syndgunst vier ecke, þvi vier reiknunst Þijner.

3. Enn Þig ad þeckia, þad er þad fullkomna Riettlæte, og þijna Magt ad vita, er Rot þess eylijfa Lijfsins.

4. Þviad Mannanna vondar Fundningar villa oss ecke so, og eige helldur þad foanyta Erfide Moalarans, sem er eitt mislitad Lijkneske, med marghoattudum Lit.

5. Hvors Asynd ad hneixlar þa Foavijsu, og þeir sem giarnann giora þad Illt er, þeir hafa Lyst til þeirra Lijfs-Vana og daudu Skurgoda.

6. Þeir eru og makleger slijks Avaxtar, bæde þeir sem þaug giora, gyrnast og vegsama.

7. Og eirn Leir-Potta-Smidur, sem hnodar þann blauta Leir, med Erfide, hann giorer allrahanda Kier, oss til Þarfenda, Enn hann giorer af sama Leirnum hvorutveggiu Kierinn, bæde þau sem til Hreinrar, og þaug sem til Ohreinrar Þionustu heyra. Enn hvar til sierhvort þeirra er haft, þad stendur j Leir-Kiera-Smidsins Vallde.

8. Enn þad er eitt Aumlegt Erfide, nær ed hann giorer ur þeim sama Leir eirn Onytann Gud, Hann sem sioalfur, eige oadur alls fyrer laungu, var af Jordu giordur, og þangad fer aptur innann lijtils Tijma, sem Hann er aftekinn, þegar Soalenn, su sem Hann haft hefur, verdur fra Honum tekinn.

9. Enn Hans Ahyggia er ecke þar uppa, ad Hann skule erfida, eige helldur ad Hann hefur so stutta Lijf-Daga, helldur þad, ad vedia vid Smijdar vid Gull-Smidinn og Silfur-Smidinn, og ad Hann giete giort þad epter Kopar-Smidnum. Og Hann helldur þad fyrer Hroosun, ad Hann smijdar falskt Smijde.

10. Þviad hans Hiartans Hugrenningar eru sem Aska, og hans Von minne enn Molld, og hans Lijf leidara enn Leir.

11. Med þvi hann ecke þecker þann sem Hann hefur skapad, og Soalinne hellte j hann, su ed arfidar j Honum, Og j hann blies þeim Lifanda Anda.

12. Þeir hallda Mannsins Lifnad fyrer Gaman, og Mannsins Athæfe fyrer eina Kaupstefnu. Og segia, ad Menn meige allsstadar leita Avinnings, og jafnvel fyrer Vonda Hlute.

13. Þesser vita fyrer ollum, ad þeir syndga, þegar þeir giora soddann Hiegoma, og Myndar af Jardar Leir.

14. Enn þeir eru Foavijsare og aumare enn eitt Barn (sem eru Oviner þijns Folks, hvoriu þeir nidur þrickia.)

15. Ad þeir hallda allra-handa Heidingia Skurgod fyrer Gude, hvorra Augu ei kunna ad sioa, þeirra Naser ei ad draga ad sier Vedrid, þeirra Eyru ecke ad heyra, ei helldur Fijngur a þeirra Hondum ad þreifa, og þeirra Fætur eru med ollu later ad ganga.

16. Þviad ein Manneskia giorde þaug, og sa sem Anda hefur af odrum, hann hefur myndad þau. Enn Madur kann ecke ad giora þad honum sie lijkt, og sie samt Gud.

17. Þviad med þvi hann er daudlegur, þa giorer hann visselega þad daudt er, med sijnum Ogudlegum Hondum. Hann er vijst betre, enn þad hvoriu hann veiter Guds Þionustuna, Þviad Hann er lifande, enn þau hin alldreige.

18. Hier ad auk heidra þeir þau allra hatursleguftu Dyr, og ef þeim er samann jafnad vid onnur Skinlaus Dyr, þa eru þau miklu verre.

19. Þviad þau eru ei fogur Asyndar, so sem onnur Dyr, sem fegur eru a ad lijta, Og þaug

þaug eru hvorke (a) Lofud nie Blessud af Gude.

(a) Pad eru þeir Hogg-Ormar, hvorium Bolvad var.

# XVI. Capitule.

Par fyrer urdu þeir og tilheyrelega med sliiku Plaagader, og urdu Piijnder, af Fiolda Jllra Orma.

2. J moote hvorium Plaagum Pu giorder Piijnu Folke gott, og tilbioſt þeim eina nya Fædu, sem er, Vaktelur þeim til Næringar, epter hvorium þa lyſte.

3. So ad þeir sem Girnd hefdu til sliiks Matar, skylldu og so læra af þessum giefnum og til ſkickudum Vaktelum, ad stilla Naatturlega Naudþurft. Enn þeir adrer, sem um litla Stund Naud lidu, skylldu og niota nyrrar Fædu.

4. Pviad þad oatte so til ad ganga, ad sliik Neyd, sem ecke kunne ad hindraſt, hun skyllde koma yfer þa adra, sem Tyrannalega hondludu, Enn þessum skyllde þad vera ad eins ein Undervijsun Hvornenn þeirra Oviner yrde plaagader.

5. Sannlega, þar komu og vond Olm Dyr, yfer þessa, og þeir urdu bitner og fordiarfader af Biugum Hogg-Ormum.

6. Po varde Su Reide eigi til Enda, Helldur urdu þeir um stundar saker hrædder, til Vidvorunar. Pvi þeir hefdu eitt Hialpar (a) Teikn, so ad þeir skylldu hugsa uppa Bodordid Piijns Logmaals.

(a) Eyr Ormurinn var þetta Teikn a moote þeim gloandi Hogg-Ormum.

7. Pviad hvorier sem sneru sier ad þvi Teikne, þeir urdu Heilbrigder, Ecke fyrer þad a hvort þeir horfdu,

8. Helldur fyrer Þig, Pu Frelsare allra! Og þar med audsynder Pu vorum Ovinum, ad Pu ert Sa sem hialpar fra ollu Jllu.

9. Enn hiner urdu bitner jhel af Engespretturn og Flugum, og kunnu eigi neina Liifs-Hialp ad finna, þviad þeir voru þeirrar Plaagu makleger.

10. Enn þær eiturlegu Dreka Tennur kunnu og ecke ad skada Piijn Born, þviad Piijn Miſkunseme vardveitte þaug, og giorde þaug heilbrigd.

11. Pviad þaug voru þar fyrer strossud, og strax aptur læknud. So ad þeir skylldu læra ad hugsa uppa Pitt Ord, og falla ei ofdiupt j Gleymskuna, helldur vera O-frasnuanleger fra Piijnum (b) Velgiorningum,

(b) (Velgiorningum) Ad þeir skyllde ecke gleyma þeim Daudsemdar Teiknum, sem þar hefdu skied.

12. Pviad hvorke Jurter nie Plaastur læknade þa, helldur Pitt Ord DROTTinn! sem læknar alla Hlute.

13. Pvi Pu hefur Makt, bæde yfer Liifenu og Daudanum, og Pu leider nidur til Helvijtis Porta, Og Pu leider burt þadan aptur.

14. Enn þar sem nockur Madur vegur annann af sinne Jllsku, þa kann hann ecke þann ut farna Anda aptur ad færa, og eige þa fraskildu Saal aptur ad leida.

15. Enn Omogulegt er ad komaſt undann Pinne Hende.

16. Pviad þeir Ogudlegu, sem ecke villdu þeckia Pig, þeir urdu strijkter fyrer Pinn megtuga Armlegg, þa þeir voru yferfallner med oveniulegu Regne, Hagle, Vatne, sem þeir kunnu ei undann ad komaſt, og urdu af Elldenum uppetner.

17. Og þad var meſt furdande, ad Elldurinn brann meſt j (c) Vatnenu, hvort ad þo utslockur alla Hlute, þviad Verolldinn strijdde fyrer þa Riettlaatu.

(c) (Vatne) J Felle-Regnenu.

18. Stundum stillte Logenn sig, so ad hann ecke uppbrennde þaug Dyr sem send voru a medal þeirra Ogudlegu, helldur ad þeir skyllde sioalfer kunna ad sioa, Hvornenn þeir urdu fyrer Guds Doom plaagader.

19. Enn Stundum logade Elldurinn j Vatnenu, framm yfer Elldsins Krapt, so ad hann j Eyde legde þa Rangloatu.

20. Par j moot fædder Pu Pitt Folk med

med Eingla Fædu, og sender þeim tilbued Braud af Himnenum, oan Erfidis, hvort alla (d) Lysting veitt gát, og var sierhvorium riett epter sijnum Smeck.

(d) (Lysting) Þad er, Menn kunnu ad bua Pad til sem þeir villdu, bæde ad baka, steikia, siuda, og kocka og upphurka þad.

21. (Þviad ef ad Menn bijda epter Þier, þad opinnberar Þijnum Bornum Hvortu sætur Þu siert) þviad hvor giorde þar af hvad hann villde, epter þvi sem hann fieck Lysting til ad smacka, so edur so.

22. Enn þar var Snior og Hagl j Elldenum, og smelltist ecke, so ad þeir skylldu vita, Hvornenn ad Elldurinn, sem og eirninn brann j Haglenu, og lysti j Regnenu, fordiarfade Ovinanna Avoxt.

23. Sa sami Elldur hlaut ad gleyma sijnum eiginn Krapti, uppa þad, ad þeir Riettlaatu skyllde snua sier.

24. Þviad Skiepnann, su sem Þier þionar, sem sijnum Skapara, er reidubuinn ad ploaga þa Ranglaatu, og hun mykist tu ad giora þeim gott, sem treysta uppa Þig.

25. Þar fyrer liet hun og umbreyta sier alla vegana, a þeim Tijma, og þionade j þeirre Gaafu, sem fædde alla, hvorn epter sijnum Vilia, sem hann medþurfte.

26. So ad þijn Born skylldu læra, hvor Þu elskar DRottenn, Ad varinn Avoxtur fæder ei Mannenn, helldur Þitt Ord vid Magt helldur þeim sem truer a Þig.

27. Þviad þad sem ei foreyddist af Elldinum, þad vard strax heitt af litlu Soolskine, og broadnade.

28. So þad yrde Heyrum kunnugt, ad Menn ættu ad þacka Þier aadur enn Solinn uppgieck, og koma framm fyrer Þig þegar Lioosid geingur upp.

29. Þviad Von hins Oþackláta skal forganga sem Hrijm-Frost a Vetre, og burt renna sem gagnlaust Vatn.

# XVII. Capitule.

Mikler og Omælanlleger eru Þijner Doomar DROTTinn! Þar fyrer (a) broast þad þeim Faavijsu Monnum.

(a) (Broast) Þad er Aform þeirra a moote þeim Riettferdugu giecк til baka.

2. Þvi þa þeir hugsudu under ad þrickia þad Heilaga Folk, þa voru þeir bundner med Myrkrum, so sem þeir Ranglaatu, og sem Fangar Laang-Nætursins, Og þeir laau inne byrgder under Þekiunum, so sem Flotta-Menn fyrer þeim Eylijfa Vijsdoome.

3. Og þa þeir meintu, ad sijnar Synder mundu vera huldar, og forgleymdar under eirnre blindre Skylu, þa urdu þeir hrædelega adskilder, og skielfder af Vofum.

4. Þviad Sa Afkiminn þar þeir voru j, hann kunne ecke ad hallda þeim ohræddum. Þar var Nydur j kringum þa, sem þa hrædda giorde, og þeim syndist oskaplegar Ovætter, fyrer hvorium þeir voru hrædder.

5. Og Elldurinn kunni med ongre Magt ad lysa þeim, og eige helldur þa kunne leiptrande Loge Stiarnanna ad uppbirta þa aumlegu Nott.

6. Enn þeim birtest vel eirn Elldur, brennande af sioalfum sier, fullur af Ogn, Þa hræddust þeir soddann Vofur, sem þo Eckert var, og hugsudu, ad þar munde vera enn verra epter, enn þad sem þeir saau.

7. Þær Missyningar og Galldrarner voru og nidur lagder, og þad stoora Raup þeirra Kunnaattu vard ad Spotte.

8. Þviad þeir sem tooku sier fyrer ad burtreka Hrædsluna og Ottann, fra þeim siuku Saalum, þeir urdu sioalfer siuker, so ad Menn daarudu þeirra Hrædslu.

9. Og þo þeir hefdu af ongre soddann Hrædslu hrædder ordid, þa hefdu þeir þo maatt ad ongvu verda af Hrædslunne, þa Dyrenn foru a medal þeirra, og þa Hoggormarner hvæstu Flockum samann, so ad þeir

þeir ogiarnann litu uppi lopted, hvors þeir moattu þo ecke missa.

10. Þviad þa nockur er so ekablandinn, þad giorer hans eiginn Illska, sem ber Vitne yfer honum, og fordæmer hann.

11. Og ein hrædd Samvitska vænter ætijd hins Versta.

12. Þviad Hrædslann kiemur þar af, ad eirn treyster sier ecke til ad forsvara sig, og veit sier ongva Hioalp.

13. Enn hvor sem lijtid Traust hefur j sijnu Hiarta, hann giorer Vijlsemdena stærri enn Ploagann sioalf.

14. Enn þeir sem under eins svoafu, a þeirre Nottu (hvor ad var ein hrædeleg og ein riett Nott, og komenn var ur Afkima þess hrædelega Helvijtis) þa urdu nockrer af ognarlegum Sionum um kring drifner.

15. Nockrer fiellu nidur, so ad þeim var Lifs orvænt.

16. Þvi þar kom fliot oforvarandis Hrædsla yfer þa, so ad hvar sem hvor var staddur, sem var gripinn j þvi, hann var so sem være hann innebyrgdur j Dyblyisu, og geymdur van Fiotra.

17. Hvad hellst hann var fyrer eirn, Akurverks-Mann, edur Hirder, edur einn Vinnumadur j Eydemorkenne, helldur blaut hann ad bera slijka Neyd, undann hvorre hann gat ei komest, sem so hroadlega greip hann.

18. Þvi þeir voru allersamann Hertekner, med eins hoattar Mirkranna Fiotrum.

19. Þar sem j nockrum Stad blækte Vindur, edur Fuglar sungu sætlega under þickvum Greinum, ellegar Vatned rann med fullre Roas, edur Steinarner fiellu med sterkum Hliodum, edur stockvande Dyr hlupu, sem þeir ei kunnu ad sioa, edur þau Olmu Dyr Illa lietu, edur Dvergmoaled gall ur holum Klettum, þa skielfde þad þa og hrædda giorde.

20. Þviad oll Verolldenn hafde skiært Lios, og gieck j oforhindrudum Verkum.

21. Alleinasta yfer þessum var ein diup Nott. Hvor ed var Mind þeirra Mirkra, sem yfer þa koma skylldu. Enn þeir voru sioalfsum sier þyngre, enn Mirkurenn voru.

## XVIII. Capitule.

Enn þijner Heilager hofdu eitt Lios, og Ovinerner heyrdu þeirra Hliod, enn þeir soau ei þeirra Mind.

2. Og þeir lofudu þad, ad þeir lidu ecke slijkt, og þeir þockudu þad, ad þeir hinu somu sem fyrr hofdu Skada af þeim feingid, hefndu sijn ei a þeim, og oskudu, ad þeir mættu vera langt fra þeim.

3. Þar a mot gafstu þessum eirn elldlegann Stolpa, sem þeim vijsade okunnungann Veg, og þu lietst Solena ecke skada þa a þeirre dyrlegre Reisu.

4. Þviad hiner voru og þess verduger, ad þeir skylldu Liosed missa, og liggia fangader j Mirkrunum, so sem j annare Mirkvastofu, þeir sem hielldu þijn Born Hertekinn, Fyrer hvor þad Oforgeingelega Logmoalsins Lios, skyllde Heimenum giefed verda.

5. Og þa þeir þeinktu Born þeirra Heilogu ad drepa (og (a) eitt af þeim, sem ut var borid, og þeim til Straffs vardveitt) þa tokstu þeirra Born burt, Hopum saman, og þu fordiarfader þau j einu Megtugu Vatne.

(a) (Eitt) Þad er Moyses.

6. Sannlega, Su sama Nott vard oadur kunngiord vorum Forfedrum, so ad þeir være oefader, og gleddu sig af þvi Fyrerheite, a hvort þeir trudu.

7. Og þitt Folk beid epter Hioalpræde þeirra Riettloatu, og Fordiersun Ovinanna.

8. Þviad riett a þeim Tijma þa Þu straffader Motstodu-Mennena, þa giorder þu oss dijrdlega, hvoria þu til þijn kallader.

9. Og þa þaug Heilogu Born þeirra Riettloatu offrudu þier heimuglega, og hofdu þad Guddomlega Logmoal einhugader um Hond, þa medtoku þeir þad, so sem

Heilager, ad lijda bæde Illt og Gott til samans, og Fedurner sungu Lof-Saungenn fyrer.

10. Enn hier j mot hlydde Ovinanna Oop langtum Odruvijs, og Menn heyrdu Hormungar Groat aptur og framm yfer Bornunum.

11. Þvi þar gieck eins Hefnd yfer Herrana og Sveinana, og Kongurinn hlaut ad lijda lijka med Alþydunne.

12. Og þeir hofdu aller otelianlegann Fiølda Daudra Manna, sem dou af einu Sottar-Ferle, so ad þeir lifendu voru ecke nogu marger til ad grafa þa. Þviad a einum Tijma fyrerforst þeirra beste Burdur.

13. Og þa þeir villdu ei trua fyrre, þa þeir voru af Galldra-Monnunum forhindrader, þa urdu þeir ad medkienna, þegar aller Frumburder urdu drepner, ad þetta Folk sie Guds Born.

14. Þviad þa aller Hluter voru kirrer og hvijldust, og þar var riett Midnættis-Tijd,

15. Þa for þitt Almættis Ord ofann af Himnum, fra þvi Konglega Tignar-Sæte, lijka sem hugadur Strijds-Madur, midt j þad Landid sem fordiarfad skyllde verda.

16. Sem var þad bitra Sverd, sem hafde alvarlegann Bodskap, stood og fyllte allavegana med dauda Lijkame, Og þo ad þat stæde a Jordunne, þa noade þad þo allt j Himeninn.

17. Þa hrædde þa snogglega ein Syn hrædelegra Drauma, og þar kom oforvaran dis Otte yfer þa.

18. Og hier laa eirn, annar þar, hoalfdaudur, so ad Menn kunnu vel ad merkia a honum, af hvoriu Efne hann so andadist.

19. Þviad þeir Draumar sem þa hofdu oadur hrædda giort, vottudu þad, hvar fyrer þeir voru so Illa Ploagader, so ad þeir skylldu ecke oan Vidvorunar fordiarfast.

20. J þann Tijma kom og Daudans Freisting yfer þa Riettloatu, og þar vard eitt Skard j Mann-Fiøldann j Eydemorkinne, Enn su Reide varde ecke leinge.

21. Þvi sa ostraffanlege Madur sem strijdde fyrer þa, kom strax med Vopn sijns Embættis, sem var Bænenn og Forlijkunenn med Reykelse, og stood j mote Reidinne, og giorde einn Enda a Hormungunne, þar med audsynde hann sig ad vera þinn Þienara.

22. Hann yfervann þad hrædilega Athæfi, ei med holldlegre Makt, ei helldur med Stirkleik Vopnanna, helldur med Ordenu varpade hann Ploagaranum under sig, þa hann framm setti þann Eid og Sattmoala sem Fedrunum var fyrerheitid.

23. Þviad þa þeir daudu fiellu nu Hrønnum hver um annann, þa stod hann j mille, og stillte Reidena, og bannade honum Veginn til þeirra Lifendu.

24. Þviad j hans sijda Kyrtle var oll (b) Þrydenn, og Fedranna (c) Heidur var utgrafenn j þeim Fiorum Rodum Steinanna, og þijn Dyrd a hans Hofud-Klæde.

(b) (Þrydenn) Sa dyrlege Presta Klædnadur.
(c) (Heidur) Tolf Nofn Tolf Israelis Ættkvijsla.

25. Fyrer slijkum Hlutum hlaut Fordiarfarenn ad vijkia, og slijkt hlaut hann ad ottast. Þviad þad nægdist, ad þad var Freisting Reidennar.

## XIX. Capitule.

Enn yfer þa O-gudlegu fiell Reidinn vægdarlaust, allt til Enda.

2. Þvi hann visse oadur vel, hvad þeir mundu giora eptera seinna, sem var, þa þeir hofdu bodid þeim j burt ad fara, og loatid þar med vandlega vijsa þeim Veginn, þa munde þa angra þad, og renna epter þeim.

3. Þvi þa þeir voru enn nu ad syrgia og groata yfer Leidum þeirra Framlidnu, þa tættu þeir uppa eirn annann doarlegann Asetning, ad þeir villdu elta þa so sem Flotta-Menn,

Menn, hvoria þeir hofdu þo oadur utrekid med Groatbeidne.

4. Enn þad hlaut so ad ské, so ad þeir feinge þann Enda sem þeir hofdu verdskulldad, og urdu þvi ad gleyma, sem þa hafde skied, So ad Straffed, þad sem enn nu var epter, skyllde fullkomlega koma yfer þa.

5. Og ad þitt Folk skyllde ferdast undarlega Reisu, enn hiner adrer skyllou finna Nyann Hoatt Daudans.

6. Þviad oll Skiepnann, sem hafde sijna eiginn Tegund, umskipte sier aptur, epter þinne Skipan, hvorre hun þionar, uppa þad, ad þijn Born yrde skadlaus vardveitt.

7. Þar voru Skijinn, og skygdu a Herbudernar, þar sem oadur voru Votn, þar soau Menn þurt Land uppkoma. Þar vard af Hafenu Rauda hindranarlaus Vegur, og grænar Grunder af miklum Votnum.

8. Hvar j giegnum allt Folkid gieck, hvoriu þijn Hond hlijfde, sem soa soddann miog furduleg Undur.

9. Og þeir geingu sem Hestar j Gras-Haga, og stucku upp so sem Lomb, lofande þig DROTTenn! sem þa hafde frelsad.

10. Þvi þeir minntust enn nu þar a hvorninn þeim hafde geinged j Eymdinne, Hvorninn Jordinn gaf af sier Flugur, j Stadinn fæddra Dyra, og Vatnid gaf marghoattadar Poddur, j Stadinn Fiskanna.

11. Enn þar epter soau þeir eina nyrra Fugla Tegund, þa þeir feingu Lysting, og bádu um Kræsingar Mat.

12. Þvi þar komu til þeirra Vacktelur upp ur Hafenu, ad stilla þeirra Lysting.

13. Þar kom og Straff yfer þa Syndugu, fyrer Teikn, þaug sem skiedu med miklum Elldingum, þvi þad var riett, ad þeir lidu slijkt vegna sinnar Illsku, med þvi þeir hofdu Illa breitt vid Gestena, Sumer medtoku þa ecke sem komu, so ad þeir og vissu ecke hvort þeir skylldu. Enn sumer þvijngudu Gestena til Prælkunar, sem þeim hofdu gott giort.

14. Og ei ad eins þetta, helldur mun þar og eirnenn onnur Tilsion yfer þeim hofd vera, af þvi þeir breittu so Illa vid þa Framande.

15. Enn nockrer sem þa hofdu medtekid med Glede, og unnt þeim Borgar-Rettsins med sier, þa ploagudu þeir med storre Pijnu.

16. Enn þeir urdu og slegner med Blindleik (so sem hiner fyrer Dyrum þess Riettloata) og med so þickvum Mirkrum yferfallner, ad hvor eirn leitade epter Gaungum til sinna Dyra.

17. Hofud-Skiepnurnar geingu hvor j giegnum adra, so sem Streinger a Hliodfære, og hlioda þo til samans, so sem ad Menn meiga vel sioa þar uppa.

18. Þviad þad sem vant var ad vera a þurru Lande, þad var j Vatnenu, og þad sem j Vatnenu var vant ad vera, þad gieck a þurt Land.

19. Elldurinn var megtugur j Vatnenu framm yfer sinn Krapt, og Vatnid gleymde sinne Noatturu ad slockva.

20. Þar þvert a mot, þa uppbrennde Logenn ecke Holld dauðlegra Dyra, sem þar jbland geingu, og hann brædde ecke þann Odaudlega (a) Mat, sem þo audvelldlega broadnade so sem Jis.

(a) (Mat) Himna-Misled þad af Solunne broadnade, og etc.

21. DROTTinn! Þu hefur Vegsamlegt og Dijrdarlegt giort þitt Folk allstadar, og hefur ei fyrerlited þad, helldur stadid hioa þvi ætijd, og j ollum Stodum.

Ending Bookar Spekinnar.

# Formaalenn yfer Tobias Book.

Þad sem talad er um Judiths Book, þad sama maa og sagt vera um Tobias Book, hafe þetta so tilborid, þa er þad ein Agiæt Heilog Historia, Enn sie þad eirn Diktur, þa er þad og so j Sannleika eirn Agiætur, Heilnæmur, Nytsamlegur, Diktur, og eins Skaallds Leikur og Spil, sem hefur haft rijkulega Andagipt, og er trulegt, ad slijker kostuleger Diktar og Spil, hafe marger verid hiaa Gydingum, hvøria þeir hafa Jdkad og Leikid a þeirra Haatijdum og Sabbaths-Døgum, Og hafa so kiennt og undervijsad Ungu Folke med Lyst, Guds Ord og Giørninga, Sierdeilis þa þeir høfdu goodann Frid og Rijkis Stiornan. Þvi þeir høfdu miøg merkelega Menn, sem voru Prophetar, Saung-Menn, og Diktarar, og adrer fleyre, þeir sem frammfijlgdu kostgiæfelega Guds Orde j adskilianlegann Maata.

Og GUd giæfe! Ad þeir Gricker hefde af Gydingum teked þeirra Sidveniu a þennann Haatt, ad spila og leika þeirra Comediur og Tragediur, so sem annann Vijsdoom og Guds Þionustu-giord. Þviad Judiths Book frammsetur eina goda alvarlega og kostulega Tragediu. So giefur og Tobias Book eina lystelega fijna og gudlega Comediu. Þviad lijka so sem Judiths Book aavijsar, Hvørniñ ad Londum og Lydum optlega stirdlega vegne, og hvørsu ad Tyrannar og Vijkingar æde j Firstu framm med Metnadar Drambseme, Enn verda þo um sijder med Skømm eydelagder, so kienner og aavijsar Tobias Book, hvørnenn ad einum goodum Borgara edur Bonda stirdlega vegne, og ad þar sie mikill Mootgangur j Ecktaskapar-Stiettinne, Enn GUd hiaalpar ætijd Miskunsamlega, og giefur ad Endalyktunum Fognud og Glede. So ad Hionenn lære ad hafa Þolinnmæde, og ad lijda giarnann allskins Mootgang j riettum Otta DROTTins, og stødugre Tru uppa tilkomande Von.

Og þad Griska Exemplar er so ad sia, so sem hafe þetta verid eirn Leikur edur Spil, Þvi þar talar allt under Tobias Personu, lijka sem þad Personur plaga ad giøra j soddann Leik. Þar epter er eirn Meistare kominn sem snuid hefur þessum Leik j eina skickannlega samfellda Rædu. Þessu verda og Nøfnenn vel samhliodande. Þvi Tobias þydist goodur Madur, hann gietur og annann Tobiam. Og hlytur ad lifa j Haaskasemdum og Mootgange, bæde vegna þeirra Tyranna, og so fyrer sinna Naagranna Sakir. Hann verdur og so þar med blindur (so sem þad skiedur, ad einginn Ogiæfa er einsømul) Og ad sidurstu Osamþyckur vid sijna kiæru Hus-Fru Ønnu, og þau sendu burt þeirra Son fra sier, Og þad er ad Sønnu eirn eymdarlegur Sorgfullur Lifnadur. Enn hann var fastur j Trunne, og Þolinnmædenne, og goodum Verkum.

Anna þydist Blijd, þad er, ein Elskuleg Eigenn-Kvinna, Su sem j Elsku og Kiærleika lifer med sijnum Manne. Asmodeus Diøfull heiter Eydeleggiare, edur Fordiarfare, þad er, Hus-Diøfull, Sa allt hindrar og fordiarfar, so ad Menn raada øngvu, hvørke vid Børnenn, nie Hiuenn. Sara kallast Hetja, edur Su sem sigrar, sem ad sijdurstu Yfervinnur. So er Eingellenn Raphael, þad er Læknare edur Heilsu-Giafare, og Hann nefner sig Asaria, þad er, Hiaalpar Mann og Fulltijngiara, Son hins Mikla Asaria, þad er, Guds, sem er Sa ædste Hiaalpar-Madur, Utsendare edur Sende-Bode, Þviad GUd stirker til Buskapar-Lagsins, og hiaalpar Hionunum, ellegar kynne þau hvørge ad vera fyrer þeim Asmodeus.

Þar fyrer er þesse Book oss Christinum Mønnum vel lesande, og ein Nytsemdar-Book, so sem eins Ebresks Poeta Agiætlegur Diktur, Sa sem øngvann Hiegoma hefur jnne ad hallda, helldur þa riettu Søkena miøg vel og Christelega frammsetur og utmaalar. Og til slikrar Bookar heyrer med Riettu Jesus Syrach, so sem Sa, sem er riettur Kienne-Fader og Huggare Almugans, og sierhvørs Buanda, j øllum Greinum, og Tobias er so sem eitt Epterdæme slykrar Bookar.

Tobias

# Tobias Book.

## I. Capitule.

Þar var eirn Madur, ad Nafne Tobias, af Kine Nephthali, ur eirne Borg j Efre Galilea, fyrer ofann Aser, a Vegenum til Vinstre Handar vid Hafed.

2. Þesse same Madur var og med Herteküm a Dogum Salmanassar, Kongs af Assyria. Og þo hann være med framanda Folke Hertekenn, so er hann þo ecke ad hellbur fra-horfenn Guds Orde.

3. Og allt þad hann hafde þvi skipte hann med sijnum Herteknum Brædrum og Nꜵungum.

4. Og þo hann være Madur yngstur af Kine Nephthali, hiellt hann sig þo Obernsklega.

5. Og þa hvor Madur þionade þeim Gull-Kalfum, sem Jeroboam Israels Kongur hafde giora lꜵted, fordadest hann sodbann Svijvirding.

6. Og hiellt sig til Musteris og Guds Þionustu j Jerusalem, og þionade þar DROTTne, og aakallade GUD Israelis, gaf og sinn Firsta Avꜵrt og Tijunder hardla Trulega.

7. So hann gaf alltijd a Pridia Aare Utlendum Mꜵnnum, Eckium og Fodurlausum, þeirra Tijunder.

8. Þessu hiellt hann fra Barnæsku, epter Logmꜵale DROTTins.

9. Og þa er hann var vaxenn, fieck hann sier Hus-Fru af Kine Nephthali, sem hiet Anna, og gat hann vid henne Son, hvorn ad hann nefnde og so Tobiam.

10. Og kiennde honum Guds Ord, upp fra Ungdoome, ad hann ottadist GUD, og fordadist Synder.

11. Og so sem hann var med ollu sijnu Frændlide, Hus-Fru og Bornum, medal annara Hertekinna fluttur j Borg þa er heiter Ninive.

12. Og hvor Madur aat af Foornum og Fædslum Heidinna Manna, vardveitte hann sig, og saurgade sig ecke med þvijlijkre Fædslu.

13. Og med þvi, ad hann ottadist DROttenn af ollu Hiarta, veitte GUD honum Miskun j Auglite Salmanassar, Kongs af Assyria.

14. So ad hann leyfde honum j Frelse ad fara hvort hann villdi, og ad frammkvæma þad hann hafde ad giora.

15. So foor hann nu til allra þeirra sem j Hertekning voru, og veitte þeim Huggun med Guds Orde.

16. Og þa er hann kom j Borgena j Meden, er Rages heiter, og hafde hiaa sier Tiju Pund Silfurs, þar Kongurenn hafde bigꜵfad hann med.

17. Og sem hann sꜵa eirn medal Israels Sona, Gabel ad nafne, af sinne Ætt, miog þurfande, fieck hann honum þad sama Silfur, og took af honum eina Handskrift þar uppa.

18. Enn laungu epter Dauda Salmanassar, þa Sonur hans Senacherib epter hann rijkte, hvꜵr ed var Fiand-Madur Israels Barna,

19. Gieck Tobias til allra Israels Manna, hann huggade þa, og skipte sierhvorium nockru af sijnum Audæfum, sem hann mꜵatti.

20. Hann nærde Hungrada, og klædde Nakta, þeim ed voru slegner og drepner, veitte hann Groft.

21. Enn Senacherib Kongur hafde fluid af Gydinga-Lande, þar GUD hafde losted hann Saker sinnar Gudlastanar. Þa be-

gar hann kom nu aptur, grimmadist hann, og liet drepa marga af Jsraels Folke, þeirra somu Lijkame liet Tobias grafa.

22. Enn þegar Kongurinn friette slijkt, baud hann þa ad hann skyllde drepa, og took fra honum alla hans Eigu, Enn Tobias flude a burt med Hus-Fru sinne og Syne, og leyndest heimuglega med goodum Vinum.

23. Enn epter Fimm og Fiorutijgu Daga, var Kongurenn af sijnum eiginn Sonum drepinn.

24. Pa foor Tobias heim aptur, og aller Fioar-Hluter hans voru honum aptur skipader.

## II. Capitule.

Epter þad, ad Hoatijdar Dege DROTTins, þa Tobias hafde mikinn Snæding j Huse sijnu tilreidt, talade hann til Sonar sijns, Far þu, og kalla a Gudhrædda Menn af vorre Ætt, ad þeir ete med oss.

2. Og so sem hann kom aptur, sagde hann sijnum Fodur Tobiæ, ad hann fann liggiande Mann daudann a Strætinu.

3. Þegar jafnsnart stood Tobias upp fra Bordinu, fyrer Maaltijdena, og gieck til þess Dauda Lijkama, took hann upp, og bar leynelega heim j Hus sijn, so ad hann græfe hann leynelega a Nattar-Þele.

4. Og sem hann hafde falid Lijkid leynelega, aat hann sitt Braud med Sorg.

5. Og hugsade til Ords þess er DROttenn hafde mællt, fyrer Amos Spaa-Mann.

6. Hoatijder ydar skulu snuast j Sorgar-Daga.

7. Og a þeirre Nott foor hann til, og groof hinn Dauda.

8. Enn hans Viner og Frændur, ásokudu hann aller, so segiande, Kongurinn hefur nu fyrer stuttu skipad, ad drepa þig fyrer þessa Sok, og komstu naumlega undann, þo grefur þu enn dauda Menn.

9. Enn Tobias ottadist meir GUD enn Kongenn, og bar þa samann Leynelega er drepner voru, Og leynde i Huse sijnu, enn a Nætur groof hann Lijkame þeirra.

10. So bar til a einum Deige, sem hann kom heim miog mæddur af þessu Verke ad grafa Dauda Menn, kastade hann sier nidur vid Vegginn, og sofnade.

11. Og ein Svala dreit ur Hreidre sijnu, þad kom so heitt j hans Augu, þar af vard hann Sion-laus.

12. Enn soddann Hriggd liet GUD yfer hann koma, til þess, ad Epterkomendurner hefde Þolinmædinnar Epterdæme, so sem a hinum Heilaga Job.

13. Og af þvi, ad hann hafde af Æsku Alldre ottast GUD, og hallded Hans Bodord, reiddist Hann hvorke, nie moglade j moote Gude, fyrer þad Hann liet hann blindann verda, helldur stood hann stodugur j Guds Otta, giorde Gudi Packer a øllum Døgum Lijfs sijns.

14. Og lijka sem Kongarner hæddu ad hinum Heilaga Job, so komu og Viner Tobias, og spottudu hann, so segiande.

15. Hvar er nu þitt Traust, þar fyrer ad þu hefur þijnar Ølmosur giefed, og so marga dauda Menn grafed?

16. Enn Tobias aavijtade þa, og svarade.

17. Talid ei so, Þviad vier erum Syner Heilagra Manna, og væntum eins Lijfs,

18. Sem GUD mun giefa þeim er j Trunne standa, Sterker og Stoduger, j hans Auglite.

19. Enn Anna Kona hans vann þrifsamlega med sijnum Høndum, og nærde hann med sijnum Spuna.

20. So skiede og, ad hun bar eitt Kidling heim j Hus sijn.

21. Og þa Bonde hennar Tobias heyrde hann jarma, sagde hann, Sioaed til, ad hann sie eige stolinn, og afhended þeim rietta Eiganda hann aptur, þviad oss sømer ecke ad eta stoled Goots, edur þad sama ad snerta.

22. Vid þesse Ord reiddist Husfru hans, svarade og sagde, Þar meiga Menn sioa ad þitt Traust er einkis verdt, og ad Ölmosur þijnar eru glatadar.

23. Med þessum Ordum, og ödrum fleyrum, brijxlade hun honum um sijna Eymd.

## III. Capitule.

Þa Andvarpade Tobias diupt, og tok til ad grcata, og bidiast fyrer, og sagde.

2. Riettlaatur ertu, DROTTenn! og Allar Giörder Þijnar eru riettar, og einsaman Goodgirne og Triggd.

3. Og nu, DROTTenn Minn! Vert mier miskunsamur, og tak ei Hefnd a Syndum mijnum, Endurminnstu ecke minna edur Fedra minna Misgiorda.

4. Þviad first vier hösum Þijn Bodord ei hallded, So erum vier og j burt giefner j Walld Ovina vorra, ad þeir ræne oss, Herteknum hallde, og drepe, og erum vier til Skammar, Spotts og Hoadungar ordner þvi Framanda Folke, þangad sem Þu hefur dreist oss.

5. Og nu DROTTenn! Hrædeleger eru Þijner Domar, af þvi vier hösum ecke halldid Þijn Bodord, og ecke riettelega frammgeingid fyrer Þier.

6. O DROTTinn! Syn mier Miskun, og taktu j burtu j Fride minn Anda. Þvi eg kys miklu helldur ad vera daudur, enn ad lisa.

7. So bar til þann sama Dag, ad Sara, Dotter Raguel, j Borginne Rages j Meden, vard og so af eirnre Ambáatt Fodurs hennar jlla skammyrdt, og löstud.

8. Þeirre somu hösdu giesner verid Sio Menn, hvor epter annann, og eirn Illur Ande, Asmodeus kalladur, hafde drepid þa alla, jafnsnart sem þeir skylldu hioa henne hvijla.

9. Þar fyrer hroopade hana hennar Fodur Amboatt, og sagde,

10. Gud giefe, ad alldrei sioaum vier af þier a Jardrijke, hvorke Son nie Dottur, þu Manna-Mordingiann þijn.

11. Villtu drepa mig eirnenn, Lijka sem þu hefur drepid þa Sio Menn?

12. Epter soddann Ord gieck hun j eitt Herberge uppi Husinu, og oat hvorke nie drack uppi Þria Daga, og Þriar Nætur, og liet ecke af Bæn nie Toarum, bad Gud, ad hann frelsade hana af þvi Brijxli.

13. A hinum Þridia Deige þar epter, þa hun hafde lokid Bæn sinne, Lofade hun Gud, og sagde.

14. Blessad sie Þitt Nafn, DROTTinn! sem ert Gud Fedra vorra, þviad þegar Þu reidest, þa tioaer þu Noad og Goodgirnd, og j Hriggdinne fyrergiefur Syndernar, þeim er Þig oakalla.

15. Til Þijn, DROTTinn Minn! sny eg minne Asionu, Til Þijn upplypte eg mijnum Augum.

16. Og bid Þig, ad Þu frelser mig af þessu þunga Brijxle, edur taker mig j burt hiedan.

17. Þu veitst, DROTTenn! ad eg hefe ecke nockurn Mann girnst, og eg hefe vardveitt mijna Saal flecklausa af öllum vondum Losta.

18. Og hefe ecke nockurn Tijma samlagad mig Ohæfverskum og lausloatum Selskap.

19. Enn eirnum Manne ad giptast hefe eg samþyckt ordid j Þijnum Otta, enn ecke af Wellysting.

20. Og hefe eg annadhvort verid þeirra, edur þeir mijn overduger, og moa vel skie, ad Þu hafer mig vardveitt ödrum Manne til handa.

21. Þviad þitt Road stendur ecke j nockurs Manns Walldе.

22. Enn þad veit eg sannarlega, þeim sem Gude þionar, mun epter Freistingina veitast Huggun, og mun hann af Hriggdinne frelsadur verda, og epter Hirtingena finnur hann Miskun.

23. Þvi Þu hefur øngva Þocknan a vorre Glotun, þvi epter O-Vedrattuna lætur Þu Soolena skijna, og epter Groat og Kveinan bigoaf ar þu oss med Fognude rijkuglega. Þijnu Nafne sie Eylijft Lof og Dijrd, Þu Gud Israel!

24. Og a þeirre somu Stundu urdu beggia þeirra Bæner heyrdar af DROTTne a Himnum.

25. Og Eingell DROTTins, hinn Heilage Raphael, var sendur ut til Hioalpar boadum þeim, af þvi ad þeirra Bæner komu fyrer DROTTenn, riett a somu Stundu.

## IV. Capitule.

Þegar nu ad Tobias hugsade, ad sijn Bæn være heyrd, j þann Moata, ad hann munde deya, kallar hann til sijn Son sinn, og sagde til hans.

2. Son minn Elskulegur! Heyrdu mijn Ord, og hallt þeim fast j Hiarta þijnu.

3. Þegar Gud tekur j burtu mijna Ond, þa graf þu minn Lijkama. Og heidra Modur þijna alla þijna Lijfdaga.

4. Hugsa þar uppa, j hvilijkum Hoaska hun stod, þa hun bar þig under sijnu Hiarta.

5. Og þegar hun er Ondud, grafdu hana hioa mier.

6. Og haf Gud fyrer Augum þier, og i Hiarta, alla þijna Lijfdaga, og fordast þu ad þu siert Nockurn Tijma samþyckur j nockre Synd, og giorer a mote Guds Bode.

7. Af Fioarhlutum þijnum hioalpa þeim Foatæku, og snu þier ecke fra þeim Foatæka, So mun Gud Miskunsamlega aptur til þijn lijta.

8. Hvar þu kannt, þa veit þu Hioalp Naudstoddum.

9. Hafer þu miked, so veittu rijkuglega, Enn ef þu hefur lijted, so veittu þo af þvi litlu med truu Hiarta.

10. Þviad þu munt safna þier goodre Umbun j Neyd.

11. Þviad Olmosur frelsa fra ollum Syndum, og af Dauda, og yfergiefa engvann j Neydinne.

12. Olmusann er Traust miked fyrer þinum Hæsta Gude.

13. Fordast þu, Son minn, allra handa Saurlijfe, og hallt þig til øngrar annarar, utann alleina þinnar Hus-Frur.

14. Drambseme loattu alldrei drottna, hvorke j þijnu Hiarta, nie j þijnum Ordum, þviad hun er Upphaf allrar Glotunar.

15. Ef Madur starfar eda vinnur fyrer þig, giallt þeim skiotlega Verdkaup, og halltu ecke fyrer neinum Manne verdskulldudum Launum.

16. Hvad þu villt Menn giore þier, giordu þad og odrum.

17. Skiptu Braude þijnu med Hungrudum, og hyl þa Nøktu med Klædum þijnum.

18. Gief þu Olmosu af þijnu Braude og Vijne, yfer Grefttre Riettloatra Manna, og et ecke nie dreck med Syndugum.

19. Leita alltijd Roada hioa Hyggnum Mønnum.

20. Og gior alltijd Þacker Gude, og bid, ad Hann styre þier, og ad þu epter filger hans Orde, j ollu þijnu oaforme.

21. So og skalltu vita, Son minn! ad þa þu varst Barn ad Alldre, loanade eg Tiju Pund Silfurs, einum Manne þeim er Gabel heiter, j Borgenne Rages j Meden, og hans Handskrift hef eg hioa mier. Og þar fyrer hugsadu Hvornenn þu kunner ad finna hann, og krefia slijks Fioar, og foa honum aptur sijna Handskrift.

22. Kvijd ecke Son minn! Vid erum Foatæker, Enn vid munum miked Gott hafa, ef vid erum Gudhrædder, fordunst Synder og giorum gott.

## V. Capitule.

Þa svarade Tobias hinn Unge Fodur sijnum, og mælite, Allt vil eg giora epter þvi sem þu hefur sagt, Minn Fader! 2.

2. Enn eige veit eg hvorninn eg skal heimta þessa Peninga, hann þecker mig eige, og eige helldur þecke eg hann. Hvad skal eg færa honum til Marks, ad hann true mier? So og veit eg ecke Veg þangad.

3. Pa svarade Fader hans, og sagde, Eg hefe hiaa mier hans Handskrift, þegar þu sy'ner honum hana, so mun hann strax giallda þier Peningana.

4. Far þu nu, og leita þier ad truum Fielaga, sem ferdest þangad med þier, fyrer sitt Kaup, ad þu faaer aptur þessa Peninga, medann eg life.

5. Pa gieck hinn Unge Tobias ut, og fann eirn fijnann ungann Mann standa, sa hafde klædt sig, og buest til ad ferdast.

6. Og hann visse ecke, ad þad var Guds Eingell, heilsade honum, og sagde, Hvadann ertu ad hinn goode Mann?

7. Hann svarade, Eg er eirn Israels Madur.

8. Tobias sagde til hans, Veitstu þann Veg sem liggur j Land Meden?

9. Hann svarade, Vel veit eg hann, og eg hefe hann opt fared, og vered til Herbergis hiaa Brodur vorum Gabel, sem byr j Borg Rages j Meden, þeirre er liggur a Fialle Ecbatana.

10. Og Tobias sagde til hans, Minn Kiære! Dvel litla Stund, so leinge, ad eg seige Fodur mijnum þetta aptur.

11. Pa gieck Tobias jnn, og sagde þetta Fodur sijnum, og Faderenn undradest, og bad hinn Unga Mann ad ganga jnn þangad.

12. Og hann gieck þa jnn til hins Gamla, og heilsade uppa hann, og sagde, Gud giefe þier Fognud.

13. Og Tobias sagde til hans, Hvilijkann Fognud skyllde eg hafa, eg sem blijt ad sitia j Mirkrum, og kann ecke ad siaa Lios Himensins?

14. Pa mællte hinn Unge Madur til hans, Haf Þolennmæde. Gud mun snarlega hiaalpa þier.

15. Tobias talar þa til hans, Villtu filgia Syne mijnum j Borgena Rages j Meden, til Gabels? Pa vil eg giallda þier þitt Kaup, þegar þu kiemur aptur.

16. Og Eingellenn sagde til hans, Eg vil fara med honum, og færa þier hann hingad aptur.

17. Og Tobias sagde til hans, Eg bid ad þu seger mier, af hvorre Ætt edur Kine þu ert?

18. Og Eingellenn Raphael svarade, Vertu til Frids, næger þier þad ei, ad þu hefur Sendeboda, Hvad gioreft þier Þorf ad vita Hvadann eg er ad?

19. Þo til þess, ad þu siert þess sijdur Ahyggiufullur, þa vil eg segia þier þad, Eg em Azarias, Son hins Mikla Ananias.

20. Og Tobias sagde, Þu ert af godre Ætt.

21. Eg bid ad þu reidest ecke þo eg hafe spurt af þinne Ætt.

22. Og Eingellenn sagde, Eg vil filgia Syne þijnum Heilbrigdum framm og aptur hingad.

23. Tobias svarade, Farid þa, Gie Gud j Filgd med yckur, og hans Eingell leide yckur.

24. Pa bio Tobias sig, og allt þad hann villde med sier hafa, og blessade Fodur sinn og Moodur, og foor af Stad med sijnum Forunaut.

25. Enn Moder hans took ad græta, so segiande.

26. Huggun Elle ockar hefur þu tekid fra ockur, og j burt sendt, Eg villde ad alldrei hefde verid þeir Peningar, fyrer hvorra Skulld þu sender hann j burt.

27. Vier hefdum vel latid oss nægia med vora Fatækt, Pad være stoor Audæfe ef Sonur ockar være hier hiaa ockur.

28. Og Tobias sagde, Graat þu ecke, þviad Sonur ockar mun Heill og Hraustur fara, og aptur koma, og þijn Augu munu siaa hann.

29. Yviad eg true, ad Guds goodur Eingell filge honum, og mun ollum þeim Hlutum vel skicka, sem hann aaformar, So ad med Fagnade mun hann aptur til Ockar koma. Þa þagnade Mooder hans, og gaf sig til Frids.

## VI. Capitule.

Og Tobias ferdadist a burt, og eirn lijtill Hundur rann med honum. Hinn Firsta Nætt-Stad hafde hann hiaa þeirre Aa er Tygris heiter.

2. Hann foor a burt ad þvo fætur sijnar, Og siaa þu! eirn mikell Fiskur skaut sier upp ad gleypa hann.

3. Hvørn ad Tobias hræddist, og kallade upp med hvarre Raust, og sagde, O Herra! hann vill svelgia mig.

4. Þa sagde Eingellenn til hans, Tak þu j Ugga hans, og drag hann upp.

5. Og hann kippte honum uppa þurt Land, þar sprikladе hann fyrer Footum honum.

6. Þa seger Eingellenn, Sundra þu Fiskinn, Enn Hiartad, Gallid, og Lifrena geym þu hiaa þier, þvi þau eru miøg good til Lækninga.

7. Enn nockur Sticke af Fiskenum steiktu þeir, og hofdu med sier a Veginn, Enn sumt logdu þeir j Sallt, ad hafa uppa Veginn, þar til þeir kiæmi j Borgena Rages j Meden.

8. Þa spurdi Tobias Eingelinn, og sagde til hans, Azaria minn Broder! eg bid þig ad þu viller segia mier, hvad fyrer Lækning ad Menn meige giora af þeim Stickium er þu baudst ad geyma?

9. Þa svarade Eingellenn, Þa þu leggur lijtinn Part af Hiartanu a gloanda Kol, þa burtrekur Sa Reykur allar illar Vofur, fra Karlum og Kvinnum, so ad þær kunna þeim framarmeir ongvann Skada ad giora.

10. Og Gallid ur Fiskenum er gott ad smyria med Augu, til ad burt drijfa Blindleika.

11. Tobias mællte, Hvort vilium vid fara til Herbergis? Eingillenn svarade, og sagde,

12. Hier er eirn Madur, hann heiter Raguel, þinn Vinur, af þinne Ætt, hann a sier eina einka Dottur, hun heiter Sara, og eingenn Born fleyre.

13. Þier eru otlud oll hans Audæfe, og þu munt faa Dottur hans.

14. Þar fyrer haf þu upp Boon-Ord um hana vid Fodur hennar, Þa mun hann giefa þier hana til eiginn Konu.

15. Þa svarar Tobias, Eg hefe heyrt, þad hun hafe verid allareidu trulofud Sio Monnum, og eru þeir aller dauder, Þar med mæla Menn, ad eirn illur Ande hafe drepid þa.

16. Þar fyrer ottast eg, ad mier mune eins ganga, Og mundu þa Foreldrar mijner deya af Harmе, þar sem eg er þeirra einka Son.

17. Þa sagde Eingellenn Raphael, Hlyd þu til, og skal eg segia þier, yfer hvorium Diofullinn hefur Vallд.

18. Sem er, yfer þeim sem GUD forakta, og alleina faa sier Kvenna fyrer Saurlijfis Saker, lijka sem skinlaus Kvikinde.

19. Enn þegar þu kiemur j Sængar-Herbergid med þinne Brudur, skalltu hallda þier fra henne j Þria Daga, og vera a Bæn med henne.

20. Og a þeirre somu Nottu, þegar þu leggur Lifrena ur Fiskenum a Glood, mun Diofullinn verda burt rekinn.

21. Enn a annare Nott skalltu hæfisklega til hennar ganga, so sem Heilager Patriarchar.

22. Enn a Þridiu Nott muntu odlast Blessan, ad heilbrigd Born af yckur fædist.

23. Enn ad lidinne Þridiu Nott, skalltu hallda þig til Jungfruarinnar med Gudhrædslu, meir fyrer Gyrndar-Saker til Afkvæmis, helldur enn vondrar Lostagyrndar, So ad þu og þijn Born odlist þa Blessan, sem Sæde Abrahams er fyrerheitinn.

## VII. Capitule.

Og þeir komu til Raguel, og Raguel took vid þeim med Glede.

2. Og hann starde a Tobias, og mællte til sinnar Hus-Fru Onnu, Hvad lijkur ad Sa unge Sveirn er vorum Frænda ad Yferlitum!

3. Og sem hann sagde þetta, þa mællte hann, Hvadann erud þid Kiærer Brædur?

4. Þeir svorudu, af Kine Nephthali erum vid, af Tolu þeirra Herleiddu j Ninive.

5. Raguel sagde þa til þeirra, Þeked þid Brodur minn Tobias? Þeir sogdu, Jaa, vid þeckium hann vel.

6. Og sem hann talade nu margt gott af Tobias, sagde Eingellenn til Raguel, Tobias, Sa er þu spurder epter, er Fader þessa unga Manns.

7. Þa hneigde Raguel sig ad honum grꝍatande, og fiell um Hꝍals honum, og kyßte hann, segiande, O minn kiære Son! Blessadur siertu, Þviad þu ert eins Agiætasta Manns Sonur.

8. Og þær Hus-Fru hans Anna, og Sara Dotter þeirra, tooku eirninn til ad grꝍata.

9. Sijdann baud Raguel, ad einum Saud skyllde slꝍatra, og bua til Giesta-Bod.

10. Og sem þau bꝍadu þa ad setiast nidur til Bords, sagde Tobias, Þennann Dag vil eg hvorke eta nie drecka, nema þu veiter mier eina Bæn, og heiter ad gipta mier Sara Dottur þijna.

11. Þa Raguel heyrde þetta, vard hann hrædduR, Þviad hann minntist a, hvorninn þeir Sio Menn hofdu farid, sem aadur fyrri hefde hann gipt Dottur sijna, og ottadist, ad þesse munde eins fara.

12. Og sem hann villdi þar ecke neitt Svar tilgiefa, talade Eingellinn til hans, Ottast ecke ad giefa Meyuna honum, Þviad Dotter þijn er etlud honum til eiginn Konu, af þvi hann er Gudhræddur, Þar fyrer hefur ongvum odrum-ordid audid ad fꝍa Dottur þinnar.

13. Þa mællte Raguel, Eg efa ecke, þad GUD muni hafa heyrt mijn heitu Tꝍar, og Bæn.

14. Og true, ad þar fyrer hafe hann lꝍatid yckur til mijn koma, so ad Dotter mijn feinge þessa Manns, af hennar Ætt, epter Moyses Logum, Þvi haf ongvann Efa þar um, eg vil gipta þier hana.

15. Og hann took j Hond sinnar Dottur, og lagde hana j Hond Tobias, og sagdi, GUD Abrahams, GUD Isaacs, GUD Jacobs, vere med yckur, og hiꝍalpi yckur til samans, og giefe sijna Rijkuglega Blessan yfer yckur!

16. Og þeir tooku Brief, og skrifudu þennann Ecktaskaps Giorning.

17. Og lofudu GUD, og hielldu Mꝍal-Tijd.

18. Raguel kallar til sijn Hus-Fru sijna Onnu, og bydur henne ad bua til annad Svefn-Hus.

19. Og hann leidde þangad Dottur sijna Saram, og hun griet.

20. Hann talar þa til hennar, Vert þu med godu Giedi mijn Dotter! Himna DROTTenn giefe þier Glede fyrer þinn Harm, sem þu hefur bored!

## VIII. Capitule.

Epter Snædinginn filgdu þeir hinum Yngra Tobias til Meyarinnar j Svefn-Herberged.

2. Minntist Tobias þa a Rædu Eingelsins, og took eitt Sticke af Lifrenne ur Punge sijnum, og lagde þad a Kola Glood.

3. Enn Eingellinn Raphael fangade Andann, og batt hann j eirnre Eydemerk, j Fiarlægd a Egypta-Lande.

4. Sijdann giorde Tobias Meyunne Aminning, og mællte, Stattu upp Sara! og bidium til Guds j Dag og Morgun, Þviad þessar Þriꝍar Nætur skulum vid a Bæn vera, Epter þad skulum vid halldꝍa ockur til samans, so sem Eckta-Hion.

5. Þvi-

5. Þviad vid erum Heilagra Manna Børn, og ockur heyrer ecke þvilijka Stiett ad uppbiria sem Heidner Menn, þeir ed forsmaa GUd.

6. Þaug risu upp, og boadu bæde samann jnnelega, ad GUd villde giæta þeirra.

7. Tobias bad og sagde. DROTTenn GUd minn! Sem ert GUd Fedra vorra, þig skylldast ad lofa Himen og Jord, Sioor og Votn, og allar Uppsprettur, og allar Skiepnur, og hvad j þeim er. Þu skapader Adam af Jardar Hnaus, og Evu gafstu honum til Medhioalpar sier.

8. Og nu veitstu DROTTinn! Ad fyrer illrar Lystingar Saker hef eg ei feingid þessarar minnar Systur, nier til Hus-Frur.

9. Helldur til þess, ad eg meige Born eiga. Þar fyrer ad Nafn Þitt dijrdkest og lofad verde ad Eylijfu.

10. Og Sara mællte, Miskuna ockur DROTTinn, ad bæde vid heilbrigd odlunst ad noa ockar Elle-Dogum.

11. Og um Mid-Nætte kallade Raguel a Vinnu-Menn sijna, og gieck med þeim, ad þeir skyllde giora Grof.

12. Þviad hann sagde, Moa vel skie, ad eins hafe honum tiltekist, og hinum Sio, er hun var trulofud.

13. Og sem þeir hofdu giort Grofina, kom Raguel til Hus-Frur-sinnar, og sagde,

14. Send þu eina af Amboattunum þangad, og loat sioa, hvort hann er Daudur, so vier meigum grafa hann fyrer Dagenn.

15. Og Amboattinn læddist j Svefn-Hused, og fann bæde þau Heil og Hraust, sofande hvort hioa odru.

16. Og hun sagde þeim þesse Fagnadar Tijdende.

17. Enn þau Raguel og Anna Hus-Fru, hans giordu Packer GUde, og sogdu, Packer giorum vid þier GUd DRottenn Israels, ad ecke er so skied sem ad vid kvidum vid, Þviad Þu synder oss Miskun, og hefur rekid j burt þann Andskota er oss hriggde.

18. Þu hefur synt Þijna Miskun a þessum Tveimur einka Bornum. Veittu þeim nu DROTTenn! ad þaug lofe Þig Alla Tijma fyrer slijka Noad, og Fornfære Þier jafnan Lof og Dijrd, so ad adrer meige þeckia a þeim, ad Þu Einn ert Gud um alla Verolld.

19. Þa strax skipade Raguel ad fylla aptur Grofena, oadur enn rynne Dagur.

20. Enn hann baud Konu sinne, ad hun bygge til eitt Giestabod ad nyu, og tilreidde þeim allt þad sem þeim giordist Þorf a Vegenum.

21. Liet hann þa sloatra Tveimur feitum Uxum, og Fiorum Saudum, og baud ollum sijnum Noa-gronnum og Vinum til Gestabods.

22. Raguel soarbænde, og storlega oskade af Tobia, ad hann villde dvelia hioa sier j Tvær Vikur.

23. Og hann gaf Tobias Helming af ollum sijnum Fioar-Hlutum. Og Brief-sette, ad epter sinn Dag skyllde Tobias eignast þann Helming sem epter var af Fienu.

## IX. Capitule.

Þa kallade Tobias Eingelinn til sijn, þvi hann ætlade, ad þad munde einn Madur vera, og talar til hans, Azaria minn Broder! eg bid þig, Heyr Ord mijn.

2. Þo eg giæfe þier sioalfann mig til eigenlegs Præls, þa være þad einkis verdt hioa þijnum Velgiordum.

3. Ecke ad sijdur bid eg þig, tak þessa Præla og Ulvallda, og far þu til Gabels, j Borg Rages, j Meden, og fær honum Hand-Skrift þessa, og tak vid Peningunum af honum, og bid hann ad koma til Brudkaups mijns.

4. Þviad þu veitst, ad Fader minn telur Stunder og Daga, og ef eg være einn Dag ofleinge j burt, þa hriggdist hans Soal.

5. Og þu veitst hvorsu mikelega ad Raguel hefur bedid mig, so eg moa honum ei Nei segia.

6. Þa

6. Pa took Eingellenn Raphael Fioora af Prælum Raguels med sier, og Tvo Ulfallda, og foor til Rages, og fann Gabel, og fieck honum Hand-Skriftena, og took vid Fienu af honum.

7. Og sagde honum af Syne Tobias allt þad sem giorst hafde, og baud honum til Brudkaupsins.

8. Og þa þeir komu hvor med odrum j Hus Raguels, fundu þeir Tobias sitiande til Bords, Og sioa, hann stood upp j mote þeim, og þeir kyßtust. Og Gabel Taarfellde, Lofade Gud, og sagde, Blesse þig Gud Israels! Þviad þu ert Sonur gods Manns, Riettferdugs og Gudrækins, hvor ad miked Gott hefur giort þurfande Monnum. Blessud sie þijn Hus-Fru og Foreldrar, Og giefe þad Gud, ad þid sioaed yckar Born, og Barna Born j Þridia og Fiorda Ættlid, Og Blessad sie þitt Sæd af Israels Gude, hvor ed rijker og drottnar ad eylijfu!

9. Og þa aller þeir hofdu sagt Amen, geingu þeir til Bords, enn Brudkaups-Veitsluna og Gledskapinn hielldu þeir j Guds Otta.

## X. Capitule.

Þa nu hinn Unge Tobias dvaldest so leinge j burt, saker Brudkaups sijns, took Fader hans, Hinn Gamle Tobias, A-hyggiufullur ad vera, og seger so, Hvad mun vallda ad Sonur minn er so leinge j burtu, eda hvad mun hann tefia?

2. Moa vera, ad Gabel sie andadur, og eingenn vilie þa greida honum Peningana aptur.

3. Og urdu þa miog hrigg bæde Tobias og Anna Husfru hans, og grietu bæde saman, ad Sonur þeirra kom ei heim aptur j aakvedinn Tijma.

4. Og Mooder hans bar sig og miog lijtt, so ad hun villde sig ei hugga loata, og mællte.

5. O Sonur minn! O Sonur minn! Hvar fyrer hofum vid þig j burt sendt fra ockur, sem ert ockar Glede, og einka Huggun j ockar Elle, Hiarta ockar og ockar Erfd!

6. Vid hefdum noga Peninga haft, hefdum vid ecke þig loated j burt fra ockur fara.

7. Pa talade Tobias til hennar, Þeige þu, og vert hughraust, Syne ockar geingur vel med Guds Hioalp, hann hefur eirn truann Stall-Brodur med sier.

8. Enn hun villde ecke loata sig hugga, og daglega var hun a Farins-Fæte, og leit a allar Þiod-Brauter, þar sem hans var ad vænta, og villde vita hvort hun kynne ei vor vid hann ad verda.

9. Enn Raguel talar þa vid Dottur-Mann sinn Tobias, Vertu kirr hier hioa oss, og eg vil senda Bod til Tobias, Fodurs þijns, og kunngiora honum, ad þu moatt vel.

10. Þa svarar Tobias, Eg veit ad Fader minn og Moder reikna nu alla Daga og Stunder, og eru miog A-hyggiu full Sokum mijn.

11. Og so sem Raguel bad Tobiam med morgum Ordum, enn hann villde þvi ecke med nockru Mote samþyckiast, bijfalade hann honum j Valld Saram, og gaf honum Helming allrar Eigu sinnar, af Þrælum og Ambøattum, Busmala, Ulfolldum og Yxnum, og miked Fie, og liet hann Heilann og Fagnande fra sier fara.

12. Og sagde, Heilagur Eingell DRottens sie j Ferd med þier, og leide þig Heilbrigdann aptur heim, so ad þu finner heila þijna Foreldra, og Gud giefe, ad mier verde audid ad sioa yckar Born med mijnum Augum, aadur enn eg dey!

13. Og Foreldrarner toku Dottur sijna, og kyßtu hana, og lietu hana fra sier fara, giorande henne Aminning, ad hun skyllde sijns Manns Foreldra j Heidre hafa, so sem sijna eigenn Foreldra, elska Bonda sinn, med Athygle, sioa fyrer sijnum Hiuum, og hallda sig sioalfa hæverskliga.

# XI. Capitule.

Og a Vegenum, þa þeir komu til Haran, hvad ad er a midium Vege til Ninive, a hinum ellefta Dege, þa mællte Eingelenn,

2. Tobias, minn Broder! Veitstu vel Hvorsu vid skildum vid Fodur þinn?

3. Ef þier lijkar so, þa skulum vid fara heim undann, enn Husfru þijn, med Hiuum og Busmala, skal fara epterꝛa j Hægdum.

4. Og sem Tobias lijkade þetta vel, sagde Raphael, Tak þu med nockud af Galle Fisksins, þvi þess mun þier Þorf gioraſt.

5. Tok þa Tobias med sier Gall Fisksins, og þeir foru so undann.

6. Enn Anna sat daglega vid Vegenn uppa einu Fialle, so hun mætte sioa langt j kring Og sem hun horfde epter honum ur þeim sama Stad, vard hun vor vid Son sinn, langt fra, og þeckte hann jafnsnart, hliop hun burt, og sagde þetta Bonda sijnum, og mællte, Sioa! Sonur þinn kiemur.

7. Og þa talar Raphael til Tobias, Jafnskiott sem þu kiemur j Husid, so bid þu og kalla til DROTTins, og gior Honum Packer, sijdann skalltu ganga til Fodurs þijns, og minnaſt vid hann.

8. Og strax þa smyr þu Augu hans med Gallenu ur Fiskenum, er þu hefur med þier, og allt j senn munu lukaſt upp Augu hans, og fær Fader þinn þa aptur Syn, og verdur hardla feigenn.

9. Hleypur Hundurenn þa heim undann, sa þeir hofdu med sier haft, og dynglar Halanum, stockur upp, og liet gladlega.

10. Og Fader hans blindur sprettur strax a Fætur, og flyter sier so miog, ad hann meider sig, Kallar hann þa a einn Svein, þann er hiellde i Hond honum, og leidde hann j moote Syne sijnum.

11. Somuleidis giorer Mooder hans eirnenn, og kyßtu hann, og gretu bæde samann af Feigenuleik.

12. Þegar nu sem þeir hofdu giort sijna Bæn, og Gude þackad, settuſt þeir nidur til samans.

13. Þa tekur Tobias af Galle Fisksins, og smyr Augu Fodur sijns.

14. Og þoler hann þad nærre um hvalfa Stund, for þa Slijmed af Augum hans, so sem Himna af Egge.

15. Og Tobias tok þad og dro þad af hans Augum, og fieck hann þa strax aptur Syn sijna.

16. Og lofudu Gud, hann og hans HusFru, og aller þeir ed þad spurdu.

17. Þa mællte Tobias, Packer giore eg Þier DROTTinn! Israelis Gud, ad Þu hefur hirt mig, og þo aptur a ny hialpad mier, so ad eg sie nu minn Elskulega Son.

18. Ad lidnum Sio Dogum, kiemur Sara, Sonar-Kona hans, med ollu sijnu Heimilis Folke, Fienade og Ulfolldum, og flutte med sier mikid Gull, so og Fie þad hann hafde feingid af Gabel. Sagde Tobias þa sijnum Forelldrum fra, Hvorsu mikid Gott ad Gud hefde veitt honum fyrer Fielaga hans, er ferdadiſt med honum.

19. Komu þa til Tobias Frændur hans, Achior og Nabath, og badu honum Hamingiu, og samfögnudu med honum, fyrer alla þa Luku, sem Gud hafde honum giefed.

20. Og Sio Daga j samt motuduſt þeir aller til samans, og voru glader.

# XII. Capitule.

Epter þetta kallar Tobias a sinn Son og mællte, Hvort Kaup skulum vid þa giefa þeim Heilaga Manne, Stall-Brodur þijnum, sem med þier hefur ferdaſt?

2. Enn Tobias svarade Fodur sijnum, Hvornenn kunnum vid honum ad launa hans stooru Velgiorder, sem hann mier veitt hefur?

3. Hann hefur komid mier heilum framm og

og aptur, Hann fokte sialfur Fied til Gabels, og veitte mier Filge ad faa þeſſa mijna Eigenn-Konu, Hier med j burt rak hann þann Jlla Anda, og gladde hennar Forelldra.

4. Jaa, sioalfann mig frelſte hann, þa ſa hinn mikle Fiſkur villde ſvelgia mig, Og hier hioalpade hann, ad þu fieckſt Syn þijna aptur, og ærid gott hefur hann ockur giort.

5. Hvorſu kunnum vid þa ad juna honum aptur þvilijkar miklar Velgiorder? Enn eg bid þig Fader minn! ad þu bioder honum Helming alls þeſs Fioar ſem vid hofdum hingad med ockur, ad hann vilie taka vid þvi.

6. Og þeir kolludu hann affijdis, bæde Faderenn og Sonurinn, og baadu hann ad taka vid Helming Fioarins alls þeſs ſem þeir hofdu flutt med ſier.

7. Og hann mællte þa heimuglega vid þa, Loſed og Þacker giored Gude a Himnum, fyrer hvorium Manne, ad Hann hefur ſynt Ydur ſlijka Miſkun!

8. Yfer Konganna og Hofdingianna Raade og Leyndar Maalum ſkulu Menn þeigia, enn Guds Verk ſkulu Menn dijrdlega prijſa, og opinnbera.

9. Slijk ein Bæn, med Foſtu og Olmoſugiord, er betre enn miklu Gulle til Fieſiods ſaman ad ſafna, Þviad Olmoſu-giorder frelſa af Dauda, afmaa Synder, og hallda vid Lijfed.

10. Enn Ogudrækner Menn fyrerfara ſioalfer ſijnu Lijfe.

11. Eg vil nu opinnbera Sannleik, og dylia ecke yckur þeirre heimuglegre Bijſalning.

12. Þa þu grietſt ſo beiſklega, badſt fyrer, og ſtodſt upp fra þinne Maaltijd, og greftrader Dauda Menn, og geymder Lijk þeirra j Huſe þijnu, og grofſt þa um Naattar-Tijma, þa flutte eg Bæn þijna fyrer DROTTenn.

13. Og Firſt ad þu varſt GUde kiær, þa hlaut þad ſo ad ſkie, ad fyrer utann Freiſtne maatter þu ecke vera, ſo ad þu værer reyndur.

14. Og nu urſende GUD mig til ad lækna þig, og ad utreka þann jlla Anda, ſem var j kringum Sara Sonar-Konu þijna.

15. Og eg em Raphael, eirn af þeim Sio Einglum, vier ſem ſtondum framme fyrer DRottne.

16. Þegar þeir nu heyrdu þetta, urdu þeir ſkielfder, og Ottuduſt, fiellu fram a aaſionur ſijnar til Jardar.

17. Þa ſagde Eingellenn til þeirra.

18. Verid med goodu Giede, og hirdid ecke ad ottaſt, Þviad GUD hefur ſo viliad vera laata, ad eg hefe hioa yckur vered, loſed Hann, og þacked Honum!

19. Þad ſyndiſt ſo ſem eg æte og drycke med ydur, enn eg neyte oſynelegrar Fædu, hvoria eingin Madur maa ſioa.

20. Og er nu Maal ad eg hverfe aptur til Þeſs er mig ſende, Giored GUde Þacker, og kunngiored Hans Stoormerke!

21. Sem hann hafde þetta ſagt, leid hann fra þeirra Augum, og þeir ſaau hann ecke meir.

22. Og þeir fiellu framm um Þriar Stunder, giorande GUde Þacker, Epter ſtad ſtoodu þeir upp, og ſogdu fra ſlijku frammvegis, og kunngiordu Hans Stoormerke.

## XIII. Capitule.

Enn Tobias lauk upp ſijnum Munne, og lofade GUD, ſo ſegiande.

2. DROTTenn! Þu ert eirn Mikell ſtirkur GUD, og Þitt Rijke endiſt ad Eylijfu. Þu hirter, og huggar aptur, Þu kannt ofann ad hrinda til Helvijtis, og aptur j burt þadann ad leida, og eingenn er Sa ad undann meige flya Þinne Hende.

3. Þier Iſraels Born! Loſed Þier DRottenn, og dijrdked Hann fyrer Heidingiunum. Þvi þar fyrer hefur Hann ydur dreiſt a medal Heidingianna, þeirra er Hann þeckia ecke, ad þier boded Hans Stoormerke, Og ad Heidingiarner vite, ad Eingenn er GUD Almaatugur utann Hann Eirn.

4. Hann hefur tyftad oss fyrer Saker Synda vorra, Og af sinne Giædsku hialpar Hann oss aptur.

5. Sioaed! Hvad Hann hefur giort vid oss! Lofed Hann j sijnum Verkum, med Otta og Skielfingu, og Vegsamed þann sem ad Eylijfu drottnar.

6. Og eg vil eirnenn gøfga Hann j þessu Lande, þar vier erum Herteknir, þviad Hann hefur synt sijna Doadsemd yfer einum Syndugum Lijd.

7. Snuest þier þar fyrer þier Synduger, og giored gott fyrer GUde, og trued þvi, þad Hann synir ydur Miskunseme!

8. Og nu vil eg af Hiarta fagna j GUde.

9. Losid DROTTenn þier Hans Utvalder, halldeð Fagnadar-Daga, og dijrdkid Hann.

10. Jerusalem! Þu Guds Stadur! GUd mun tyfta þig, fyrer þijn Verk, Enn þo mun Hann þier Miskun veita ad nyu.

11. Lofa þu DROTTenn fyrer sijnar Goafur, og prijsa þann Eylijfa GUd, so ad Hann upp aptur bygge þijnar Tialldbuder. Og aptur kalle alla þijna Hertekna, so ad þu meiger þig gledia æfennlega.

12. Þu munt lysa sem skijnande Birte, og j øllum Jard-Rijkis Endemørkum munu Menn þig vegsama.

13. Af fiærlægum Londum munu Menn til þijn sækia, og þier Giafer færa. J þier munu þeir tilbidia DROTTenn, og muntu Helgedoomur kallast, þeir munu þad mikla Nafn DROTTens aakalla j þier.

14. Bølvader verde aller þeir sem þig forsmaa, Og fyrerdæmder þeir aller sem þig lasta, Blessader munu verda þeir aller er þig uppbiggia.

15. Enn þu munt fagna yfer þijnum Bornum, þvi þaug munu øll Blessud verda, og flytiast til DROTTins.

16. Sæler eru þeir sem þig elska, og þeir sem æskia ad þier vel gange.

17. Mijn Saala lofe DROTTenn, þviad GUd DROTTenn vor mun Borgena Jerusalem frelsa af allre hennar Hørmung.

18. Sæll er eg, ef ad þeir sem epterkoma af mijnu Sæde sioa Jerusalem j sinne Dijrd.

19. Jerusalems Borgar-Hlid skulu verda af Saphirus og Smaragdus smijdud, og aller hennar Murvegger allt um kring af dyrum Steinum.

20. Med Hvijtum og Fogrum Marmara Steine munu øll hennar Stræte logd, og a øllum Gøtum mun Halleluja sunged verda.

21. Blessadur sie GUd sem hana hefur bænheyrt, Og vare Hans Rijke yfer henne ad Eylijfu, Amen!

## XIV. Capitule.

Epter þetta skied, þa ed Tobias hafde feinged aptur sijna Syn.

2. Þa lifde hann þadann Fiorutijger og Tvo Aar, og saa Barna Børn sijn.

3. Og þa hann var nu Hundrad Aara gamall, og Tvo betur, var hann heidursamlega grefstradur j Ninive.

4. Þviad þa hann var Fimmtijge og Sex Aara ad Alldre, vard hann Sionlaus, enn a Sextugasta Aare fieck hann Syn sijna aptur.

5. Og þad epter var hans Alldurs, lifde hann j Glede, og þroadest j Guds Otta, og andadist j goodum Fride.

6. Enn fyrer Andloat sitt kallade hann Son sinn Tobias til sijn, og þa Sio ungu Sveina, Sonar Sonu sijna, og talade til þeirra, Innann Skams mun Ninive j Grunn eydeleggiast, þviad Ord DROttins mun ei bregdast, Enn j Rijke Medorum mun enn þa um nockurn Tijma Fridur vera, Og Bræ dur vorer, sem af Israels Jordu eru dreifder, munu þangad aptur hverfa.

7. Og vort Land, hvort nu liggur j Eyde, mun allstadar aptur byggt verda, Og þad Guds Hus sem brennt var, skal uppa nytt

verda

verda uppbiggt, og aller þeir sem Gudhræddér eru munu þangad aptur koma. Og Heidner Menn munu fyrerlaata sijn Skurgod, og koma til Jerusalem, og þar bua, Og allar Þioder og Konungar munu j henne fagna, og Israels GUD tilbidia.

8. So heyred mig nu Syner mijner Fodur ydarn! Þioned þier DRottne j Sannleika, og hallded ydur til Hans riettferduglega, Giorid hvad Hann hefur bodid, og kiennid slijkt ydrum Bornum, ad þaug giefe Olmosur, Ottest GUD ætijd, og treysted a Hann af ollu Hiarta!

9. Heyred mig nu Kiæru Syner! Og blijfed hier ecke j Ninive, Helldur þegar þier hafed eirnenn afleyst ad grafa Modur ydar hiaa mier j minne Grof, epter þad taked ydur upp og fared hiedann.

10. Þviad eg sie, ad Synder Ninive giora ut af vid hana.

11. Þegar Jafnsnart, epter Andlaat Modur sinnar, foor Tobias burt ur Ninive, med Hus-Fru sinne, Bornum og Barna-Bornum, og hvarf til sinna Maaga, og Frænda Konu sinnar.

12. Og hitte þa alla heila og hrausta j roolegre Elle, veitte hann þeim Forsiaa, Og þegar þeir onduduft lukte hann aptur þeirra Augu, Og took so vid ollum Arfe og Audæfum Raguelis. Og lifde allt framm j Fimmtu Ættkvijsl, og saa sijn Born og Barna-Born.

13. Og er hann var Niju og Niutijger Aara gamall, sem hann hafde lifad j Guds Otta med Fagnade, groofu Frændur hans hann.

14. Og oll hans Ætt bleif j Heilogum Lifnade og Umgeingne, so ad þeir voru bæde Gude og Monnum þecker, og ollum þeim er byggdu j Landenu.

Ending Bookar Tobiæ.



# Formaalenn yfer Bookena Jesu Syrachs.

Þesse Book hefur hier til kollud verid a Latinu Ecclesiasticus, hvad þeir hafa þydt enu Andlegu Hæversku, Og hefur hun hardla miog verid framenn og idkud j Kyrkiunne, med Lesning, Saung og Predikun, bo med litlum Skilninge edur Nytsemd, fyrer utan þad hun hefur hlotid þeim andlegum Stat og Kyrkna Prange ad hrosa. Annars heiter hun sijnu riettu Nafne Jesus Syrach, epter sijnum Meistara, so sem hans Formaale, og þad Griska Exemplar utvijsar, lijka sem og so Moyses, Josue, Esaias, og allar Spaamanna Bækurnar epter sijnum Meistornum heita, Hun er og ecke halldenn af hinum gomlu Fedrum j Tolu Heilagrar Skriftar, helldur sem ein god Nytsom Book eins Hyggins Manns, þar vier eirnenn laatum hana med blijfa.

Enn oss þyker (af þvi ad hann sialfur j Formaalanum medkienner, ad hann hafe a Dogum Kongsins Evergetis komid a Egyptaland, og þar þessa Book endad, hvoria hans Fodur-Fader hafde aadur byriad) ad hann hafe ut af morgum Bokum þad allra besta, sem hann funded hefur, til samans lesid, sierlega af þvi, ad a Egyptalande var Fiolde kostulegra Boka, fyrer Fodur Evergetis Philadelphum til samans safnadur, So ad a þeim Tijmum voru bæde Bækurnar og Lærder Menn j miklum Heidre hafder, og af ollum Londum, so sem j eirn Haaann Skoola þar til samans komu, einkannlega af Grícklande. Hier ad auk hofdu Judar sialfer þar eitt Mustere biggt, og Guds Þionustu uppreist.

Slijkt aavijsar og þad, ad j þessare Book er ecke eitt Sticke vid annad so skickanlega til samans sett so sem eins Meistara Verk, Helldur af marghaattudum Meisturum, og Bokum samandreged, og hvad vid annad meingad, so sem ein Bijfluga af Margs-Konar Blomstrum Hunaang sygur, og eitt vid annad meingad. Og þad synest sem þesse Jesus Syrach hafe verid af Konglegre Ættkvijsl Davids, og naaeun ad Skilldseme vid Amos Syrach, hvor ed verid hefur Ypparste Hofdinge j Huse Juda, sem menn meiga siaa

a Bokum Philonis Spekings, Tveim Hundrudum Aara fyrer Hingad-Burdenn, nockud nærre a Dogum Maccabeorum.

Þetta er Nytsamleg Book fyrer Allmuga Folkid, þviad oll hans Astundan er þad, ad hann giøre eirn Borgara edur Husbonda Gudhræddann, Fromann og Hygginn, og kienner hann, Hvørnen hann skal hallda sig vid Gud og Guds Ord, Kiennemenn, Forelldra, Kvinnu og Born, sitt eigid Holld, Andæfe, Þionustu-Menn, Nagranna, Vine og Ovine, Valldstiornar-Menn, og vid hvørn Mann. So menn mætte vel kalla hana eina Book af Hus-Hæversku, edur af Dygdum Gods Hus-Bonda, hvar og ad er, og heita skyllde Su Andlega Hæverska.

Enn hvad oss þetta Erfide kostad hefur, þessa Bok ut ad leggia, Hvør þad gyrnest ad vita, hann maa bera vora Þysku samann vid oll onnur Exemplaria, bæde j Grisku og Latinu, og Þysku, hvørt þaug eru Ny edur Gømul, So mun þetta Verk vel bera Meistaranum Vitni. Þar hafa þo marger Siaalfvitringar j ollum Tungum synt sitt Meistara-Sticke yser þessa Bok, ad eingenn Undyr være, þo ad hun være alldungis ordinn okienneleg og oskilianleg, og med olln Ordt (fyrst ad aller Hluter þar jnne, fra Upphafe hennar, hafa ecke verid epter riettre Skickan samsetter) Enn vier hofum hana lijka sem annad sundurrifed, fottrodid, og vijds Vegar dreift Brief, aptur samann lesed, og Saur afþvegid, og henne so langt komid sem sierhvør maa vel sia, Gude se Lof og Þacker, Amen! Þeir enu Gudhræddu munu oss ecke hier um aavijta. Enn Heimurenn mun vita ad þacka oss hier fyrer, epter sijnum Mannkostum, sem hann hefur giørt hier til Dags.

# Formaale Jesu Syrachs yfer sijna Book.

Marger og merkeleger Menn hafa oss Vijsdom, ut af Logmaalenu, Spaamonnunum, og odrum, sem þeim sioalfum epterfilgt hafa, kunnann giort. Þar af meiga menn Israels Lyd maklega lofa, saker þeirra Vitsku og Lærdoms. Þar fyrer skulu ecke alleinasta þeir sem slijkt hafa og lesa, þar utaf vijser verda, helldur og eirnenn odrum þiena, med Lærdome og Skrife.

Minn Afe Jesus, epter þvi ad hann sig kierdeilis jdkade til ad lesa Logmaalsins, Spaamannanna, og adrar fleyre Bækur, þær sem oss af vorum Fedrum epterlaatnar voru, og sem hann hafde sig þar jnne vel jdkad, lagde hann fyrer sig nockud ad skrifa, af Vijsdome og godum Sidum, So ad þeir hiner somu sem giarnann villdu læra, og Hygguer verda, yrde þess skinsamare og skickanlegre til, gott Lijferne framm ad færa.

Þar fyrer bid eg, ad þier vilied þetta vinsamlega medtaka, og med Geate lesa, Og so hallda oss til goda, þott vier kunnum ecke so vel ad tala, sem hiner vijdfrægu Ordsnillingar. Þviad þad sem j Ebresku Maale er skrifad, þad hlyder ecke so vel, þegar Menn snua þvi j annad Maal, ecke alleinasta þesse mijn Book, helldur fleyre Logmaalsins, og Spaamannanna, og adrar Bækur, hlioda langtum Odruvijs, þa þær verda j þeirra eigenn Maale taladar.

Og sem eg kom j Egyptaland, a Attunda og Þrijtugasta Aare, a Dogum Kongsins Ptolomei Evergetis, og alla hans Lijfdaga þar jnne var, fieck eg Tiima til, marga goda Hlute þar ad lesa og skrifa. Þar fyrer syndest mier bæde ad vera gott og nytsamlegt, ad eg minne Giætne og Mædu þar til vendade, og þessa Book utlegde, Og af þvi eg hafde Tijma til, Arvidade eg og snere minne Astundan til, ad eg þessa Book utgiørde og j Lios leidde, So ad þeir Framande Menn sem læra vilia, venie sig til goodra Sida, so þeir epter Logmaale DROttins lifa meige.

Jesu

# Jesu Syrachs Book.

## I. Capitule.

Allur Vijsdoomur er af Gude DROTTne, og er med Honum Eylijflega.

2. Hvor hefur fyrre hugſad, hvorſu margt Sand-Korn j Sioonum er, hvorſu marger Dropar j Regnenu eru, og hvorſu marger Dagar Veralldarennar verda ſkyllde?

3. Hvor hefur oadur mællt, hvorſu Hoar ad Himenenn er, og hvorſu Vijd ad Jordenn ſie, og hvorſu Diupur ad Sioorenn er? Hvor hefur Gude nockurn Tijma kiennt, hvad Hann ſkyllde giora?

4. Pviad Hans Vitſka er fyrer øllum Hlutum.

5. Ord hins Hæſta Guds er Brunnur Vitſkunnar, og þad Eylijfa Bodord er hennar uppſpretta.

6. Hvor kynne ellegar ad vita hvornenn Mann ſkyllde Vijsdom og Klokleik odlaſt?

7. Eirn er Allra-Hæſtur Skapare allra Hluta, Almoattugur, eirn Volldugur Kongur, og miøg Ognarlegur.

8. Sa uppa ſijnum Stoole ſitur, eirn Drottnande Gud.

9. Hann hefur hana fyrer ſinn Heilagann Anda kunngiort, Hann hefur alla Hlute oadur fyrre um þeinkt, vitad, og metid.

10. Og hefur oadur Vitſkunne uthellt yfer øll ſijn Verk, og yfer allt Holld, epter ſinne Noad, og giefur hana þeim ſem elſka hann.

11. Otte DROTTens er Dijrd og Hrooſan, Fognudur og Fegurdar Korona.

12. Otte DROTTens giorer Hiartad gladt, og giefur Fognud og Eylijfa Unadſemd.

13. Hvor hann Ottaſt DROTTenn, þeim mun vel ganga j ſinne ſijdurſtu Neyd, og hann verdur endelega Bleſſan halldande.

14. Gud ad elſka, þad er ſu en allra fegurſta Vitſka.

15. Og hvor ſem hana ſier ſa elſkar hana, þviad hann ſier hvorſu miklar Daadſemder hun giorer.

16. Otte DROttens er Upphaf Vitſkunar, og er hun j Grunne Hiartans, alleinaſta hioa Truudum, og hun bygger alleina hioa utvølldum Kvinnum, Og alleina finna Menn hana hioa Riettloatum og Truudum.

17. Otte DROTTins er ſu rietta Guds Pionuſta.

18. Hann geymir og giorer Hiartad gott, og giefur Fognud og Glede.

19. Hvor ſem DROTTinn Ottaſt, þeim mun vel vegna, og þegar hann þarf Huggunar vid, mun hann Bleſſadur verda.

20. Gud ad Ottaſt er ſu Vitſka ſem ad audgar, og allt Gott med ſier fører.

21. Hun uppfyller allt Huſid med ſijnum Goafum, og øll Herberge med ſijnum Fieſiod.

22. Otte DROTTens er Korona Vitſkunnar,

23. Giefande noglegann Frid og Heilſu.

24. Peſſe Vijsdomur giorer Riett-hyggna Menn, og ſa ed faſt a honum helldur, þeim hioalpar hann ut med Dijrd.

25. DROttenn ad Ottaſt er Root Vitſkunnar.

26. Og hennar Greiner Blomgaſt eylijflega.

27. Otte DROTTens ver Syndenne.

28. Pviad hvor hann er fyrer utann Otta, ſa er ecke Gude þeckur, og hans Dioꝛfung mun honum ſteypa.

29. Enn Lijtelaatur bijdur þeſs Tijma ſem hann mun hugga.

30. Pviad þo hans Sok um ſtundarſaker verde underþrickt, munu þo Fromer Menn hrooſa hans Speke.

31. Guds

31. Guds Ord er Ogudræknum Manne andstyggelegt, þviad þad er Spekinnar Fiesiodur, sem fyrer honum er hulenn.

32. Son minn, Villtu hygginn verda, so lær þu Bod-Ordinn, þa mun GUD þier Vijsdom giefa!

33. Þviad Otte DRottens er su Rietta Spekenn og Hæverska. Og Tru, og Þolinmæde þocknast GUde vel.

34. Siaa þu til, ad Þinn Guds Otte sie eingenn Hræsne, og þiona Honum ecke med Folsku Hiarta.

35. Leita einkis Lofs hiaa Monnunum, fyrer Hræsne. Og siaa til, Hvad þu talar, truer, edur aaformar.

36. Hreyk þier ecke sialfum upp, so ad þu faller ecke, og skammadur verder.

37. Og DROTTenn opinnbere þijn Svik, og steype þier berlega fyrer Monnunum.

38. Þar fyrer, ad þu j Sonnum Guds Otta ecke þionad hefur, og þitt Hiarta hefur verid falskt.

## II. Capitule.

Barn mitt, Villtu Guds Þionustu-Madur vera, þa bu þig vid Freistne.

2. Vert stadfastur, og veiklast ecke, þa Menn locka þig þar fra.

3. Halltu þig ad GUde, og vijk ecke (fra Honum) so ad þu jafnann stirkvare verder.

4. Allt hvad þig skiedur lijd þu, og vert þolennmodur j allskonar Hriggd.

5. Þviad lijka sem Gulled fyrer Elldinn reyneft, so lijka verda þeir enu somu sem Gude eru þecker fyrer Elld Hriggdarennar reynder.

6. Treystu Gude, þa mun Hann hiaalpa þier, Gior þijna Vegu rietta, og vona til Hans.

7. Þier sem ottist DROttenn, treysted Honum, þvi þad mun ydur ei bregdast!

8. Þier sem ottest DROTTenn, vænted hins Besta af Honum! so mun ydur alla Tijma Naad og Huggun veitast.

9. Þier sem ottest DROTTenn, væntid hans Naadar,

10. Og vijked ecke af, so þier ecke til Grunns ganged!

11. Lijted þier a Dæme hinna Gomlu, og merked þaug. Hvor hefur nockurn Tijma skammadur orded, sem setti sijna Von til Hans?

12. Hvor hefur nockurn Tijma fyrerlaatenn vered, sa sem staded hefur j Guds Otta? Edur hvor hefur nockurn Tijma af Honum forsmaadur vered, sa sem a Hann kallad hefur?

13. Þviad DROTTinn er Naadugur og Miskunsamur, og (a) fyrergiefur Syndernar, og hiaalpar j Neydenni.

(a) (Fyrergiefur) Þad er, Hann aaljitur þad ei hvorsu iller og omakleger vier erum.

14. Vei verde þeim sem a GUD mistreyster, og ecke fast helldur! Og þeim Ogudræknu, sem hingad og þangad veiklast!

15. Vei Efunarsomum! Þvi þeir trua ecke, þar fyrer munu þeir ecke verda verndader.

16. Vei þeim sem ecke bijda!

17. Hvornenn mun þeim vegna, þegar DROTTENN vill þa heim sækia?

18. Þeir sem ottast DROTTenn trua Hans Orde, og þeir sem Hann elska hallda Hans Bod-Ord.

19. Þeir sem DROTTinn ottast giora hvad Honum lijkar vel.

20. Og þeir sem Hann elska hallda Logmaalid riettilega,

21. Þeir sem DROttenn ottast, reidubua sijn Hiortu, og audmykia sig fyrer Honum, og segia,

22. Vier vilium helldur j Hendur DROttens falla, enn j Mannanna Hendur.

III. Cap: 1. Þvi Hans Miskunseme er so Mikel sem Hann er sialfur.

III. Cap

## III. Capitule.

2. Kiæru Born! Hlyded mier ydrum Fodur, og lifed so, ad ydur vel gange.

3. Þviad DROTTenn vill Fodurenn af Bornunum heidradann hafa, og hvad Moodurenn bydur Bornunum, þad vill Hann hallda lꜳta.

4 Hvør hann sinn Fodur heidrar, þess Synder mun GUd ei straffa, og hvør sijna Moodur heidrar, hann safnar sier goodum Fiesiod.

5. Hvør sinn Fodur heidrar hann mun og a sijnum Bornum Fognud hafa,

6. Og hvonær hann bidur þa verdur hann Bænheyrdur.

7. Hvør hann heidrar Fodur sinn, sa mun þess leingur lifa.

8. Enn hvør fyrer Saker DROTTens hlydenn er, af þeim hefur Moodurinn Hugg un.

9. Sa er DROTTenn ottast, hann heidrar og Fodurenn, og þionar sijnum Forelldrum, og helldur þa fyrer sijna Herra.

10. Heidra Fodur og Moodur, med Giordum, Ordum, og Þolinnmæde, so ad þeirra Blessan yfer þig kome.

11. Þviad Fodursins Blessan bigger Bornunum Hus, enn Moodurinnar Bølvan brytur þau nidur.

12. Hæd þu ecke ad Brest Fodurs þijns, þvi þad er þier einginn Heidur.

13. Þviad Fodurenn ad heidra er þinn eigenn Heidur, og þijna Moodur ad forakta er þijn eiginn Skomm.

14. Kiæra Barn! Annast þu þinn Fodur j sinne Elle, og stygg hann ei so leinge hann lifer.

15. Og hallt honum þad til gooda, þo hann Bernsklequr verde, og forsmꜳ hann eige þar fyrer, ad þu skickanlegre ert enn hann.

16. Þviad þeirre Velgiord sem þu giorer Fodur þijnum, mun alldrei gleymt verda.

17. Og þig mun gott skie, þo ad þu Syndugur siert, og þijn mun minust verda j Neydenne, Og þijnar Synder munu forganga sem Js fyrer Soolu.

18. Hvør sinn Fodur fyrerlætur, Sa verdur smꜳdur, Og hvør hann sijna Moodur stygger, Sa er Bølvadur af DRottne.

19. Kiæra Barn! Blijf þu jafnann j lꜳgre Stiett, þad er betra enn allt þad sem Verolldenn epter stundar.

20. Þvi hærre þu ert, lijtelæt þig þvi meir, So mun DROttenn þier Hollur vera.

21. Þviad DROttenn er Allra-Hæſtur, og gioerer hann þo mikla Hlute fyrer hina (a) Lijtellꜳtu.

(a) (Lijtellꜳtu) Fordast þu, þad mest þu kannt, ad komast hꜳtt, sem Verolldinn stundar epter.

22. Stunda þu ecke epter nockre hꜳrre Stiett, og hygg ecke yfer Megn þier.

23. Helldur hvad GUd hefur boded þier, þad tak þu þier jafnann til. Þviad þad batar þig ecke, þo þu gaper epter þvi sem þier er ei bifalad.

24. Og hvad ei til þijns Embættis heyrer, þar lꜳttu þijna Forvitne epterliggia.

25. Þvi allt til reidu er þier meira bodid enn þu kannt ad frammkvæma.

26. Soddann Ofdyrfd hefur margann sviked, og þeirra Meinadur hefur þeim steypt.

27. Þviad hvør hann leggur sig giarnann j Hꜳskann, Sa tapast þar j.

28. Og einum (b) Ofdiørfum Manne sellst þad jlla ut um sijder.

(b) (Ofdiørfum) Þeir sem þrengia sier jnn til þess sem þeir eru ecke duganleger til, edur ei kallader til, þar vill um sijder ecke neitt gott af verda.

29. Ofdiarfur Madur giører sier sialfum mikla Olucku, og stofnar eina Synd epter adra.

30. Þviad Drambseme giører alldreige gott, og þar kann ecke utann jllt af ad vaxa.

## IV. Capitule.

31. Eirn Skinsamur Madur lærer Guds Ord giarnan.
32. Og hvør sem elskar Vitskuna, hann heyrer giarnann þar til.
33. So sem Vatned slecktur Elld loganda, lijka so afmaair Olmosann Syndena.
34. Og hinn Ædste Endurgialldare mun þess sijdar minnast, og vid-hiaalpa honum j Motgangenum.

IV. Cap: 1. Kiæra Barn! Laattu hinn Faatæka ecke Neyd lijda, og vert ecke hardur vid hinn Naudþurftuga.
2. Fyrerlijt ecke Hungradann, og stygg ecke hinn Naudþurftuga j sijnum Armood.
3. Sorgfullu Hiarta auk þu ecke meire Sorg, og drag ecke undann Giøfena þeim hinum Naudþurftuga.
4. Nei-kved ecke vid Bæn hins Auma, og snu ecke Asionu þinne fra þeim Faatæka.
5. Snu þijnum Augum ecke fra Naudþurfande Manne, so ad hann klage ecke yfer þier.
6. Þviad Sa sem hann skapad hefur heyrer hans Bæn, nær hann med hriggdu Hiarta klagar yfer þier.
7. Vert ecke Prætusamur fyrer Riettenum, og halt þinn Domara j Heidre.
8. Heyr þu hinn Faatæka giarnann, og svara honum vinsamlega, og med Hogværd.
9. Hiaalpa honum sem fyrer Of-rijke verdur, af þess Hende sem honum giører O-riett, og vert ecke bliugur þa þu skallt dæma.
10. Halltu þig sem eirn Fodur vid Fodurleysingiana, og so sem eirn Husbonda vid þeirra Moodur.
11. Og muntu vera so sem Sonur hins Allra-Hæsta, og mun hann þig elskare hafa, helldur enn þijn Moodur hefur þig.
12 Vitskann upphefur sijn Born, og tekur vid þeim sem hennar leita.
13. Hvør hana elskar, Sa hefur Lijfed kiært, og hvør hennar gloggt leitar, mun mikinn Fognud hafa.
14. Hvør a henne fast helldur, mun mikenn Heidur odlast, og hvad sem hann afortlar, þar mun DROTTinn giefa Lucku til.
15. Hvør Guds Ord heidrar, Sa giører rietta Guds Pionustu, og hvør hann elskar þad, a þeim hefur DROTTinn og so Elsku.
16. Sa sem Vitskunne hlyder, hann kann ad kiena odru Folke, Og sa sem sier til hennar helldur, mun Hookalaust bua.
17. Hvør Falslaus er, sa mun hana odlast, Og hans Epterkomendum mun vel veita.
18. Og þo hun med Firsta hegde sier odruvijs vid hann,
19. Og giøre honum Angist og Pyngsl, og reyne hann med sijnum Vende, og freiste hans med sinne Typting, þar til ad hun finnur ad hann er falslaus,
20. So mun hun þa aptur til hans koma, a riettann Veg, glediande hann.
21. Og sijna heimuglega Hlute fyrer honum opennbera.
22. Enn finnest hann med Falsi, so fyrerlætur hun hann, so ad hann hlytur ad fordiarfast.
23. Kiæra Barn! Neyt þu Tijmans, og vara þig vid rangre Sok.
24. Og skammast þijn ecke, saker þinnar Saalar, ad jaata þad sem riett er.
25. Þvi Madur kann so skammast sijn, ad hann drijge Synd þar med. Og kann skammast sijn so, ad hann hafe þar af Naad og Heidur.
26. Laat þig ongva Personu bisa, þier til Skada.
27. Nie skielfa þig þier til Fordiorfunar.
28. Jaata helldur trwaalega þad sem riett er, þegar Madur skal odrum Monnum hiaalpa.
29. Þviad fyrer Medkienningena opinberast Sannleikurinn og Riettvrinn.
30. Mæl þu ei a (a) mote Sannindunum,

laattu helldur Sneipuna yfer þig ganga, hafer þu j Sokenne villt farid.

(a) Þad giora þeir ecke, enn þo ad þeim sie uppa bevijsad, ad þeir hafe farid villt, edur giort oriett, þa vilia þeir vegna Mijnkunar ecke laata undann, helldur fara aframm j sinne Heimsku, og einn Heimskur klecker jafnann under med ødrum.

31. Skammast þijn ei ad jaata hvad þu hefur farid villt, og kieppst ecke a mot Straumnum.

32. Þiona ecke Heimskum Manne j sinne Søk, og lijt ecke a hans Magt.

33. Forsvara helldur Sannleikann allt til Dauda, og mun Gud DROTTenn fyrer þig strijda.

34. Vertu ecke so sem þeir er sig med miklum Ordum tilbioda, enn giora þo alls eckert til.

35. Ver ecke Leon j þijnu Huse, og ecke styrialldarsamur vid þijn Heima-Hiu.

36. Þijn Hond skal ecke opinn vera jafnann vid ad taka, enn aptur lukt til ad giefa alldrei.

## V. Capitule.

Treystu ecke a þinn Rijkdoom, og hugsa ecke, Eg hefe noglegt fyrer mig.

2. Filg þijnum Gyrndum ecke, þo ad þu megner þad, og gior ecke hvad þig lyster.

3. Og hugsa ei, Hvor vill mier þad banna? Þviad DROTTinn hinn Ædste Hefnare mun þess hefna.

4. Hugsa þu ecke, Eg hefe aadur syndgad, og mig hefur eckert Vondt skied. Þviad DROttenn er ad sönnu Þolinnmodur, enn ecke mun Hann þig ohegndann laata.

5. Og vert ecke Uggalaus, þo ad þijnar Synder sieu enn ecke hegndar, ad þu þar fyrer jafnann framar meir villder Synder drijgia.

6. Hugsa og ei, Miog er Gud Miskunsamur, ecke mun hann a mier hefna, þo eg syndge so miked sem eg vil.

7. Hann kann so snarlega ad verda reidur sem hann er Naadugur, og hans Reide yfer Ogudrækum lætur alldrei af.

8. Þar fyrer drag þu ecke undann ad snua þier til DROTTins, og skiot þvi ecke fra einum Dege til annars.

9. Þviad hardla skiott kiemur Hans Reide, og mun þess hefna, og þier fyrerfara.

10. Treystu ei uppa Rangfeinged Fie, þvi þad hialpar þier ecke, þegar Freistingarnar koma.

11. Laat ecke sierhvorn Vind þier veisa, og filg þu ei sierhvorium Vege, so sem Ostødug Hiortu giora.

12. Ver helldur stødugur j þijnum Ordum, og blijf vid einsslags Rædu.

13. Vertu Reidubuenn ad heyra og svara þvi sem riett er, og hasta þig ecke.

14. Ef þu skilur Søkena, so undervijsa Naunga þijnum, Enn skilier þu hana ecke, so halltu aptur Munne þijnum.

15. Þviad Menn kunna ad tala sier til Heidurs, og Menn kunna ad tala sier til Skammar, og Mannenum kiemur hans eigenn Tunga til Falls.

16. Vert ei Sogvijs, og Bakmælltu ecke med þinne Tungu.

17. Eirn Þiofur er skammarlegur Hlutur, enn þo er Bakmaalugur Madur miklu skammarlegre.

18. Reikna þad ecke klient, hvort þad er miked edur lijtid.

VI. Cap: 1. Laat þier ecke vijkia so þu grenniest Vin þijnum, þviad slijker Bak-maaluger verda umsijder til Skammar.

## VI. Capitule.

2. Eige skalltu þykiast Ofvijs, til ad straffa hvorn Mann.

3. Ad þijn Blod visne ecke, og þinn Avoxtur fordiarfest, og verde ecke eitt Sinn sem þurt Trie.

4. Þviad soddann Eiturlegur Madur ska-

 dar

dar sig sioalfann, og verdur sijnum Fiand-Mønnum ad Spotte.

5. Þar j mot, Hvor alla Hlute fœrer til betra Vegar, sa giörer sier marga Vine, og hvor hann leggur Sokenne til hid Besta, honum tala Menn aptur j moot hid besta til.

6. Hallt þig vid hvoru Mann vingiarnlega, enn af Þusund tru varla einum.

7. Treystu ongvum Vin, nema þu hafer oadur j Neyd reynt hann.

8. Þviad marger eru Viner a medann þeir hafa þess Not. Enn þegar Neyd er um, eru þeir ecke stadfaster.

9. Og þar er margur sa Vinur, sem snarlega verdur Ovinur, Og visse hann uppa þig Manns-Mord, þa segde hann þad.

10. Nockrer eru og Matbords Viner, og eru ecke stadfaster j Neydenne.

11. A medann þier vegnar vel, þa er hann þinn Fielage, og lifer j þijnu Huse, so sem være hann eirnenn Husbondenn.

12. Enn ef þier vegnar jlla, þa motsellur hann þig, og lætur sig hvorge fundinn verda.

13. Hallt þig fra þijnum Ovinum, Og vara þig ei sijdur fyrer þijnum Vinum.

14. Eirn Trur Vinur er orugg Vernd, Hvor hana hefur, sa hefur mikenn Fiesiod.

15. Trufastur Vinur kann ecke med nockru Gotse edur Giallde ad verda bitaladur.

16. Eirn Trur Vinur er ein Huggun alla þa Stund sem Madurinn lifer, Sa er Ottast Gud fær soddann Vin.

17. Þviad hvor sem oottast Gud, honum munu vel luckast Vinerner, Og slijkur sem hann er, slijkur mun og vera hans Vinur.

18. Kiæra Barn! Loattu Vitskuna ala þig upp fra Barnæsku, so verdur af þier Hygginn Madur.

19. Hallt þier til hennar, so sem sa er eriar og soaer, og væntu epter hennar godum Avexte.

20. Þu munt hafa um litla Stund Mædu og Erfide fyrer hennar skulld, enn miog skiott muntu neyta hennar Avaxta.

21. Beisk er hun Oforsoktum Monnum, og hirdulaus Madur nemur ecke hioa henne Stadar.

22. Þviad hun er honum hardur Prófunar Steirn, og hann kastar henne snøggt fra sier.

23. Þeir hroosa vel mikid af Vitskunne, enn vita þar þo lijtid af.

24. Kiæra Barn! Hlyd minne Kienningu, og fyrer-lijt ecke mitt Road.

25. Loat þijnar Fætur j hennar Fiotur, og Hoals þinn j hennar Hoals-Joarn.

26. Beyg þu þijnar Axler, og ber hana, og spyrn þu ecke vid hennar Bondum.

27. Halltu þig til Hennar af ollu Hiarta, og vert med ollum Krapte a hennar Vege.

28. Spyr þu epter henne, og leita hennar, so muntu hana finna.

29. Og þegar þu fær hana, so loat hana ecke burt fra þier. Þviad med sijdarsta muntu af henne Huggun hafa, og þijn Hriggd mun snuast þier j Fognud.

30. Og hennar Fiotur munu verda þier ein sterk Vernd, og hennar Hoals-Joarn kostulegur Klædnadur.

31. Hun hefur Gullega Koronu, med eirnre Purpura Husu.

32. Þeim sama Klædnade muntu j-klædast, og þa Fegurdar Koronu uppsetia.

33. Kiæra Barn! Villtu filgia, so verdur þu vijs, og taker þu þad þier til Hiarta, so verdur þu Hygginn.

34. Villtu giarnann hlijda, so muntu foa hana. Villtu þijn Eyru til hneigia, so muntu Vitur verda.

35. Ver giarnann hioa Gomlum Monnum, og hvar eirn hygginn Madur er, hallt þig til hans.

36. Heyr þu giarnann Guds Ord, og athuga gooda Moals-Hoattu Spekinnar.

37. Hvar þu lijtur eirn skinsamann Mann, þa halltu þier til hans med Goat, og far med honum ut og jnn.

38. Um-

38. Umhugsa þu iduglega Guds Bodord, og þeinktu jafnann a Hans Ord. Hann mun Algiort giora þitt Hiarta, og giefa þier Vijsdom so sem þu girnist.

## VII. Capitule.

Gior eckert Illt, so skiedur þig ecke Illt.

2. Vara þig vid Rangindum, so hender þig engva O-hamingiu.

3. Soa þu ecke uppa Akur Ranglætisins, so muntu þadann ecke siøfallt upp skiera.

4. Preyng þier ecke jnn j Embætte fyrer Gude, og stunda ecke epter Vallde hiaa Kongenum.

5. Laat þier ecke þykia fyrer Gude, ad þu siert þar nogu vel til fallinn, og laat þier ecke þykia hiaa Kongenum, þu siert þar nogu hygginn til.

6. Laat þig ecke langa til ad vera Domare, þviad fyrer þitt Megn kantu ecke oll Rangindi a riettann Veg ad færa. Og þu kynner Ottasleiginn ad verda fyrer nockrum Magtar-Manne, og laata Riettinn med Skomm nidur falla.

7. Byria þu ecke (a) Upphlaup j Stadnum, og aa-fest þig ecke Almuga-Folke.

(a) (Upphlaup) Sa sem giarnann vill vera haatt hann dregur Folk til sijn, og giorer Upphlaup, vill forbetra allar Saker, og leidriettu allt Oriett, og meinar, ad Gud mune alijta sijna Bæn, og gooda Meining.

8. So þu hlioter ecke ad bera Tvøfallda Skulld.

9. Þviad eckert soddann mun strøffunarlaust vera.

10. Hugsa þu og ecke, Gud mun mitt hid mikla Offur þar fyrer aalijta, og þegar eg fære Hæstum Gude Forner þar fyrer, þa mun Hann þær þiggia.

11. Nær þu giorer Bæn, þa efast þu ecke, og vert ecke tregur ad giefa Olmosur.

12. Hlæ ecke ad hriggvum Manne, þviad Sa er Eirn sem bæde kann ad lægia og upphefia.

13. Kveik þu ongvar Lygar a mote þijnum Brodur, og ei helldur a mote Vin þijnum.

14. Ven þig ecke ad liuga, þviad þad er skadsamlegur Vane.

15. Vertu ecke Maalugur hiaa þeim Olldrudu, Og þa þu bidur haf þa ecke morg Ord.

16. Po þier veite bøagt med þinne Næring og Akur-Verke, þa laat þier þad ecke misiijka, Þviad Gud hefur þad so skickad.

17. Treystu ecke þar uppa, ad Fioldinn er stor þeirra sem þu giorer jlla med.

18. Helldur hugsa, ad Hefndinn er ecke langt fra þier.

19. Þar fyrer Lijtelæt þig af Hiarta, þviad Elldur og Ormar eru O-gudrækinna Manna Hefnd.

20. Yfergief ecke þinn Vin fyrer nockra Fiemune, nie þinn Truann Brodur, fyrer Skulld hins besta Gulls.

21. Skil þig ecke vid gooda og skinsama Konu, þviad hun er kostulegre enn nockurt Gull.

22. Hondla þu ecke jlla vid eirn truann Þienara, og Idinn Arvidis-Mann.

23. Laat þier kiærann vera goodann Þionustu-Mann, og gior honum ecke Hindran, ef hann kann frials ad verda.

24. Hafer þu Kvikfie, so giæt þu þess. Og ef þad færer þier Nytseme, þa bijhalltu þvi.

25. Hafer þu Born, þa fæd þaug upp, og beyg þeirra Hals allt j fra Barn-Æsku.

26. Hafer þu Dætur, so giæt þu ad þeirra Lijkama, og ven þær ongvum Ovanda.

27. Gipt þijna Dottur, so hefur þu giort miked Verk, og Gipt hana skinsomum Manne.

28. Hafer þu Konu þa sem þig elskar, so laat ecke giora þig henne frahorsinn, Hana ad forleggia, og tru ecke þeirre hinne (b) Heiptugu.

(b) (Heiptugu) Þetta er talad epter Gydinga Sidvenju, þa ein Eckta Kvinnann bolar hina adra ut, eun

enn hia oss merker bad so miked, So sem, Tru ecke ollu Þvi sem iller Menn segia þier um Hus Fru þijna, sem hykla fyrer þier, enn er illa vid hana.

29. Heidra þinn Fodur af ollu Hiarta, og gleym ecke hvorsu þu hefur vered þinne Moodur þungur.

30. Og hugsa, ad þu ert af þeim fæddur, og hvad kanntu þeim ad giora þar j moot sem þau hafa þier giort?

31. Ottast þu DROTTinn af ollu Hiarta, og haf Hans Presta j ollum Heidre. Elska Þann er þig skapad hefur, af ollum Kroptum þijnum, og yfergief ecke Hans Þionustu-Menn.

Summa.

32. Ottast DROTTenn, og heidra Prestana!

33. Og gief þeim sinn Hluta sem þier er bodid.

34. Af þeim Firsta Grooda, og Synda-Fornum, og Upplyptingar Fornum,

35. Og þvi fleyra sem Helgad verdur til Offurs, og af alls-konar Helgum Firsta Groda.

36. Utriett þijna Hond Faatækum, so ad þu verder þess rijkuglegar blessadur.

37. Og þijn Velgiord giore þig fyrer ollum lifande Monnum þægelegann. Audsyn og þijna Velgiord a (c) Frammlidnum Monnum.

(c) (Frammlidnum) Þa ad sveipa, og ærlegt Greftrar Embætte ad veita, fyrer Guds og Upprisunnar Saker.

38. Yfergief ecke þa sem grœtande eru, oan Huggunar, harma helldur med Hormondum.

39. Laat þier ecke mikid fyrer þykia ad vita siukra, þviad fyrer þess Skulld muntu elskadur verda.

40. Hvad þu giorer, Hugsa fyrer Endanum, og muntu alldrei Illa giora!

## VIII. Capitule.

Deilldu ecke vid þann Volduga, so ad þu faller ecke honum j Hendur.

2. Kijsa ecke vid Rijkann Mann, so hann verde þier ecke ofþungur.

3. Þviad marger laata Fied tæla sig, og þad bregdur eirnenn Hiortum Konganna.

4. Þraatta ecke vid Maalskaps Mann, so ad þu berer ecke Vid ad hans Ellde.

5. Skipt ecke Gaman-Rædum vid Heimskann Mann, so ad hann Ordlyte ecke þijna Ætt.

6. Bregd þu þeim ecke um sijna Synd, er sig bætt hefur. Og hugsa þu, ad Aller vær erum nockurs Sakader.

7. Forsmaa ecke Ellina, þvi vier þeinkium oss eirninn Gamler ad verda.

8. Hlacka ecke yfer Dauda Ovinar þijns, Minnstu þess, Vier hliotum aller ad deya!

9. Forakta ecke hvad Hyggner Menn tala, riettu þig helldur epter þeirra Ordum.

10. Þviad af þeim maattu nockud læra, og hvorsu þu skallt haga þier hia Miklum Monnum.

11. Þu skallt ecke þykiast klokare gomlum Monnum, þviad lijka hafa þeir numid af sijnum Forelldrum.

12. Og af þeim kanntu ad læra, Hvorninn þu skallt andsvara, þegar Þorf vinnur.

13. Kveik (a) þu ecke upp Elld Ogudrækinna Manna, so ad þu ecke med þeim brenner.

(a) (Kveik) Þad er, Reittu hann ecke fyrer utann Sok til ad lasta.

14. Errt þu ecke upp ill-Ordann Mann, so ad hann snue ecke til vonda þijnum Ordum.

15. Laana ecke þier Volldugra Manne, Enn ef þu laanar honum, reikna þad sem glatad.

16. Gack ecke j Borgun yfer þitt Megn, Enn ef þu giorer þad, hugsa þu ad bitala.

17. Klagast ecke a vid Domarann, þvi Menn leggia Urskurd a epter þvi sem hann vill.

18. Drag ei til Samfara med Fifldiorfum Manne, so ad hann kome þier ecke j Olucku, Þvi hann fer framm epter þvi sem hann vill, so þu hlytur þa Skada ad lijda, saker hans Fifsku.

19. Deill

19. Deilldu ecke vid Reidann Mann, og gack ecke um Grunder med honum, Þviad hann reiknar Blods Uthelling fyrer ecke, og ef þu hefur þa øngva Hiaalp, so myrder hann þig.

20. Haf þu ecke Raadagiord vid (b) Heimska Menn, þviad þeim geingur þad ecke til Hiartans.

(b) (Heimska) Ostadfasta Lausingia, þa ed eckert akta.

21. Fyrer Framande gior þad ecke neitt sem þu villt loata vera heimuglegt, Þviad þu veitst ei hvad þar moa af koma.

22. Loat ecke þitt Hiarta j Liose hvørium Manne, ad hann legge þier ecke jlla j Pock.

# IX. Capitule.

Vandlættu ecke um þijnu goda Kvinnu, þviad slijk Hord Adsion giorer ecke gott.

2. Loattu þijna Konu ecke Magt hafa yfer þier, so hun verde ei þinn Herra.

3. Fordast þu Lausa-Konu, so ad þu faller ecke j hennar Snorur.

4. Ven þig ecke til kvedendis Kvenna, so ad þær fooe Fang a þier med sinne Arreitan.

5. Sprogset ecke Jungfrur, so þu verder ecke til þeirra Uppkveiktur.

6. Samlagast ecke vid Hooruna, so ad þu ei þijnu fyrerfarer.

7. Skyma ecke allavega um kring, j Stadnum, og hlaup ecke um allar Kroar.

8. Snu þijnu Andlite fra Frijdum Konum, og lijt þu ecke a Andlits Fegurd annara Manna Kvenna.

9. Þviad Frijdar Konur hafa margann gabbad, og vond Gyrnd tendrast þar af sem annar Elldur.

10. Sittu ecke med annars Konu, og tak hana ecke þier j Fadm.

11. Og haf ei Samdryckiu med henne, so Hiarta þitt hneigest ecke til hennar, og þitt Sinne verde ecke fangid.

12. Yfergief ei gamlann Vin, Þviad þu veitst ecke hvort þu oavinnur so miked med hinum Nya.

13. Nyr Vinur er so sem nytt Vijn, loattu hann gamlann verda, so mun hann þier vel smacka.

14. Loattu ecke Ogudlega Menn vijkia þier j sinne stoorre Vegsemd, Þviad þu veitst ecke hvorn Enda þad fær.

15. Loat þier ecke (a) þocknast Ogudlegra Manna Asetning, þvi þeir verda alldrei goder, fyrr enn þeir fara nidur j Helvijte.

(a) (Þocknast) Þad, ad þu hræsaar, og helldur med þeim.

16. Halld þig fra þeim sem Valld-hafa til ad deyda, þa þarftu ecke ad sorga, ad hann mune þig drepa.

17. Enn verder þu hioa honum ad vera, þa forgrijp þig eigi, so hann ecke svipte þig þijnu Lijfe, þegar þig allra sijdst varer.

18. Og vit fyrer vijst, þu fer hioa Toal-Snorum, og geingur uppa einumsamann hoasum (b) Oddum.

(b) (Oddum) So sem a Turnum, þar sem Hoaska-samlegt er, og Madur fær Hofud-Sundlaa.

19. Lær þu med allre Gaumgiæfne ad þeckia þinn Naunga, og þa þier giorest Raads Þorf, leita þess hioa Hyggnum Monnum, og tala vid þa sem forstioaler eru, og skicka þijnu ollu Efne epter Guds Orde.

20. (c) Samlaga þig vid gooda Menn, og verdt gladur, þo med Gudhrædslu.

(c) Þad er, Et og dreck, og hallt med þeim Hæverskle-gar Samdryckiur.

# X. Capitule.

21. Verkid lofar sinn Meistara, og Hyggenn Hofdingia hans Gierder.

22. Þad er hættulegt j Valld-Stiornenni ad vera fiolmoalugur, og (a) Obliugur Skvalldurs-Madur verdur til Skammar.

(a) (Obliugur) Þad er, So sem lætst vera fullur af Raadum, Kockindum, og Raupe, og hann einn vill heyrast um Stiornena.

X. Cap:

X. Cap: 1. Hyggenn Stiornare er hardur. Og hvar ad er skinsom Valld-Stiorn, þar geingur skickanlega til.

2. Lijka sem Stiornarenn er, so eru og hans Embættis Menn. So sem Raaded er, so eru Borgararner.

3. Illur Kongur fordiarfar Land og Lyde, Enn þegar þeir Megtugu eru Forstiooaler, so þrijfst vel Borgenn.

4. Stiornenn a Jordunne stendur j Guds Hende. Hann giefur stundum Dugande Stiornara.

5. Pad stendur j Guds Vallde, ad Stiornaranum vel vegne, honum giefur hann Lofsamlegann (b) Canzelera.

(b) (Canzelera) So sem hid nærsta Raad, lijka sem Naeman var Kongenum j Syria.

6. Hefudu ecke of strangt allra Misgiorda, og svala ecke Sinne þijnu þa þu skallt Refsing aleggia.

7. Drambsomum Monnum er bæde GUD og Verolldenn Ovinur, þvi þeir giora fyrer þeim boodum rangt.

8. Fyrer Saker Ofrijkis, Ranglætis og Agirndar, kiemur eitt Kongs Rijke fra einu Folke til annars.

9. Hvar fyrer upphefur sig Su arma Jord og Aska?

10. Po er hun ecke utann slæm Saurinde, a medann hun lifer.

11. Og þott leinge Læknarenn þar uppa lappe, þa geingur þad so til med Sijdarsta.

12. Kongur j Dag, Daudur a Morgun!

13. Og þa Madurenn er daudur, þa eta Madkar og Ormar hann.

14. Padan af kiemur allt Dramblæte, ad Madurenn (c) fellur j fra GUde, og hans Hiarta hversur fra sijnum Skapara.

(c) (Fellur) Pad er, Ad hann fyrer-lijtur Guds Ord.

15. Drambseme dregur til allra Synda, og sa sem þar j er fastur hann reiser upp marga Svivijrding.

16. Par fyrer hefur DROTTinn alltijd Drambsemenne nidrad, og endeliga kollvarpad.

17. GUd hefur Dramblaatum Hofdingium ur Sæte hrundid, og Lijtellaata þar uppa sett.

18. GUd hefur Rætur stolltra Heidingia upprætt, og Lijtellaata j þeirra Stad plantad.

19. GUd Hann hefur Heidenna Manna Londum um snued, og allt til Grunna fordiarfad.

20. Hann hefur lated þaug uppvisna, og foreydast.

21. Og afmaad þeirra Nafn af Jordunne.

22. Pad er Monnum ecke af GUde skapad, ad þeir eru Drambsamer og Grimmer. Ecke er Madurenn jllur skapadur, Helldur sa sem ottast GUD, hann mun med Heidre standa.

23. Enn hvor sem brytur Guds Bod-Ord, hann verdur til Skammar.

24. Og þeir eru somu sem Gudhrædder eru, hafa sijna Stiornara j Heidre, þar fyrer geymer hann þeirra.

25. Hvorke hinn Rijke nie Faatæke, Stoore nie Smaae, skal hroosa sier af odru enn þvi, ad þeir Ottest GUd.

26. Pad duger alls til einkis, ad Menn fyrerlijte Faatækann Mann Skinsamann, Enn heidre Audugann Mann Ogudlegann.

27. Hofdingiar, Herrar, og Stiornarar, eru j miklum Heidre, Enn þo eru þeir ecke so mikler, sem sa er Ottast GUd.

28. Einum vitrum Pienara hlytur Herrann ad þiona, og eirn skinsamur Herra moglar þar ecke um.

29. Filg ecke þijnu eiginn Hofde j þijnu Embætte, og stær þig ecke þa Menn þursa þijn vid.

30. Betra er ad Madur take sinn Verknad til Vara, þann hann hiaalpast vid, enn taka sier margt fyrer Hendur, og verda Pursa Madur þar med.

31. Barn mitt! Hafdu gott Gied j ollum Moot-

Mootgange, og forlaat þig uppa þitt Embætte.

32. Þviad hvor vill þeim hiaalpa sem sijnu Embætte orvænter? Og hvor vill hiaalpa þeim til Æru sem siaalfur lastar sitt Embætte?

33. Hinn Fáatæke verdur losadur fyrer sinnar Vitsku skulld, og hinn Rijke fyrer sinnar Audlegdar skulld.

34. Og ef Vitskann er lofsamleg a Fáatækum, Hvad miklu meir a Rijkum? Og hvad illa stendur Rijkum, þad stendur miklu meir illa Fáatækum.

XI. Cap: 1. Vitska Lijtel-mennesins kiemur honum til Heidurs, og setur hann hiaa Hofdingiunum nidur.

2. Ongvum skalltu hroosa saker sinnar mikellrar Asijndar, nie lasta nockurn saker sinnar lijtellrar Asijndar.

3. Þviad ein Bijfluga er eirn lijtell Fugl, og giefur þo hinn sætasta Avoxt.

4. Stær þig ecke af þijnum Klædum, og vert ecke Stolltur j þijnum (a) Heidre, þviad DROTTens ev Furdanlegur j sijnum Verkum, og eingenn veit hvad Hann vill giora.

(a) (Heidre) Þad er, Þegar þu med þinne Magt og Vallde matt yfer geysa.

5. Marger Tyrannar hafa ordid ad sitia a Jordu nidre, og uppa þann hefur Korona setst, sem Menn hafa ecke ætlad.

6. Marger Stoor-Herrar eru ad ongvu ordner, og Megtuger Kongar hafa komed j annara Manna Hendur.

7. Fyrerdæm þu ongvann, aadur enn þier sie Sokenn fyrre kunnug, skil þu hana aadur, og straffa sijdann.

8. Þu skallt ecke leggia Urskurd a, fyrr enn þu heyrer Sokena, og laattu Menn aadur uttala.

9. Vef þig ecke j Sokum annara Manna, og Sit ecke hiaa Raunguin Dome.

# XI. Capitule.

10. Barn mitt! Haf ecke marga Idiu fyrer Hondum, þvi ef þu hefur margt j Take, so vinnur þu þar lited a. Og þott þu allareidu þar miog epter stunder, afrekar þu þad ecke. Og þott þu hier og hvar ad-hnysser, kiemstu þar þo ecke ut med.

11. Sa er margur sem lætur sier niked umverda, og flyter sier til Rijkdoms, og hindrar þo ad eins þar med siaalfann sig.

12. Þar j moot er sa margur, sem lætur sier lijted umverda, sa er vel þyrfte Hiaalpar med, og er þar med Veikur og Aumur. A þann lijtur Gud med Naad, og hiaalpar honum ur Eymdenne,

13. Og kiemur honum til Heidurs, so marger undrast a honum.

14. Allt kiemur af Gude, Hamingia og O-Hamingia, Lijf og Daude, Fáatækt og Audæfe.

15. Goodum giefur Gud Audæfe þaug sem vara.

16. Og hvad Hann tilskickar, þad luckast jafnann vel.

17. Margur er Sinkur og Spar, og verdur þar fyrer Rijkur, og hugsar hann hafe nockud fyrer sig dreged.

18. Og seger, Nu vil eg hafa gooda Daga, Mat og Drick af mijnu Gotse.

19. Enn hann veit ecke, ad so nær er komed hans Tijma, og hlytur alltsamann odrum epter ad laata, og deya.

20. Halltu þig vid Guds Ord, og jdka þig þar jnne, og blijf j þinne Stiett.

21. Og laat ecke bleckia þig, þott Ogudlæker Menn epter Audæfum sæke. Treystu Gude, og vert j þinne Stiett!

22. Þviad hardla audvellt er DROttne ad giora Fáatækann Mann Rijkann.

23. Gud Blessar godra Manna Audæfe, og þegar Tijmenn kiemur aukast þaug skiotlega.

24. (a) Seg ecke, Hvad hiaalpar mier þad, eda hvad hef eg a medann?

(a) (Seg) Fáatækur Madur skal ecke orvænta, og ecke Rijkur oftreysta.

25. Seg ecke, Eg hef nog, Hvornenn maa mig nockud bresta?

26. Pa þier vel vegnar, hugsa þu, aptur ad nyu maa þier jlla vegna, og þa þier jlla vegnar, hugsa þu, ad aptur ad nyu maa þier vel vegna.

27. Þviad DROttinn kann audvelldlega j Daudans Tijd sierhvorium aptur ad giallda, so sem hvor hefur forþient.

28. Ein jll Stund giorer, ad Menn gleyma ollum Fagnade, og þegar Madurenn deyr, þa verdur hann var vid, hvornenn hann hefur lifad.

29. Þar fyrer skalltu ongvann lofa fyrer sitt Enda-Dægur, þviad hvad hvor hefur vered fyrer eirn Mann, finna Menn a hans Epterkomendum.

## XII. Capitule.

30. Herberg ecke hvorn sem eirn j þijnu Huse, þviad Verolldenn er full O-Truleika og Svika.

31. Falskt Hiarta er sem eirn Toal-Fugl, og umsitur hvorsu þad meige þig fanga.

32. Þviad þad sem hann sier Gott, fær er hann þad til hins Versta, og hid Besta lastar hann allra mest.

33. Af einum Neista verdur stor Elldur, og eirn O-gudlegur Madur hætter ecke, þar til hann utheller Bloode.

34. Tak þier Vara fyrer soddann Skalkum, þeim byr eckert Gott j Giede, so ad þeir kome ei a þig Eylijfre Skomm.

35. Tekur þu til þijn eirn Framanda Mann, þa mun hann giora þier Omak, og reka þig ut af þinne Eign.

XII. Cap: 1. Villtu giora nockud Gott, so sioa þu til Hvorium þu þad gierer, þa forþienar þu þier þar Þock med.

2. Gior þu godum Gott, og mun þier verda þad rikuglega endurgolldid, Sie þad ecke af honum, so skiedur þad vissilega af DROTTne.

3. Enn vondum Skalkum, sem ecke þacka fyrer velgiort, mun ecke vel ganga.

4. Gief þu Gudhræddum, og sioa þu ecke aumur a O-gudhræddum. Gior þu gott Aumum, enn gief eckert þeim O-gudlega.

5. Halltu Braude þijnu fyrer honum, og gief honum ecke, so hann verde ecke stirkvare þar af, og Foottrode þig, þviad þu munt so miked af honum jllt faa, sem þu hefur giort honum gott til.

6. Þviad hiñ Hærste er Ovin O-gudlegra, og O-gudlegum mun Hann ressa.

7. Þegar nockrum vegnar vel, kann Madur ongvann Vin riettelega ad þeckia, Enn þegar jlla vegnar, þa kann þinn Ovinur sier ecke leyna.

8. Þviad þegar einum veiter vel, þad forþocknast hans Ovin. Enn þegar nockrum veiter jlla, flyia eirnenn hans Viner fra honum.

9. Tru þu alldrei þijnum Fiand-Manne.

10. Þviad so sem Joarnid ridgar alltijd aptur, so lætur hann alldrei sijna Hrecke.

11. Og þo hann hneige sig og beyge, halltu þier þo, og giæt þu þijn fyrer honum. Og þo þu fæger af honum so sem af einum Speigle, þa er hann þo Rydugur.

12. Drag þu hann ecke ad þier, so hann burt reke þig ecke, og gauge j þinn Stad. Set hann ecke hioa þier, so hann stunde ei epter þijnu Sæte, og med seinasta hlioter þu a mijn Ord ad minnast, og þa jdre þig þess.

13. Lijka sem þa eirn Hogg-Orma Toframe verdur bitenn, þad aumkar eingenn, og ef nockur umgeingur med Villudyr, og verdur af þeim rifenn, So geingur og þeim sem samlaga sig vid O-gudræka, og sig vefia j þeirra Syndum.

14. Hann er nockra Stund hioa þier, enn ef þu rasar, eda fellur, blijfur hann ecke.

15. Fiand-Madurenn giefur vel god Ord, og aumkar þig miog, og syner sig vingiarnlegann, og þar med þa kann hann ad greata.

16. Enn

16. Enn j Hiartanu hugsar hann Hvornenn hann mege koma þier j Grøfena, og fær hann Rum, so kann hann ecke þijns Blods saddur ad verda. Og vilie þier nockur Skada giora, so er hann fyrstur, og syner sig riett sem hann vilie hiaalpa þier, riett sem felle hann þig oforvarad.

17. Sitt Hofud mun hann skaka, og j Loofa sier hlæa, þig spotta, og Naser j Lopt uppreka.

# XIII. Capitule.

Hvor a Vikenu tekur sa saurgast þar med, Og hvor sem samlagar sig Dramblaatum, hann lærer Drambsemena.

2. Samlaga þig ecke vid Volldugann og Rijkann, ellegar hledur þu uppa þig þunga Byrde.

3. Hvad skal Leir-Potturenn hiaa Eir-Pottenum? Þviad ef þeir beriast samann, þa brotnar hann.

4. Rijkur Madur giorer rangt, og hælest um þar ofana. Enn Fatæktur Madur hlijtur þad ad þola, og med Þockum taka.

5. So leinge sem þu ert honum nytur, helldur hann þig, Enn þegar þu ert uppgiefenn, lætur hann þig fara.

6. A medann þu hefur nockud nepter hann þess med þier, og þad angrar hann ecke ad þu fordiarfast.

7. Þegar hann þarf þijn vid, so kann hann ad ginna þig, og broser uppa þig, lofar þier morgu, og giefur þier enu bestu Ord, og seger, Þarftu nockurs vid?

8. Og bydur þier Tvisvar edur Þrisvar svikssamlega til Giestabods, þar til hann vielar af þier þitt, og spiar þig med þad sijdarsta.

9. Og þo hann allt til reidu sioe þijna Eymd, lætur hann þig ecke sijdur fara, og skekur Hofud sitt ad þier.

10. Þar fyrer sioa þu til, ad þinn Einfalldleike svike þig ecke,

11. Og kome þier j Olucku.

12. Þegar nockur Megtar-Madur vill þig ad sier draga, telst undann, þa mun hann þig þess meir ad sier draga.

13. Þreyng þier ecke til hans sioalfur, so þu verder ei utrekenn. Far þu og ecke ofmiog undann, so menn meige þijn j Þorf nepta.

14. Mæl ecke j mote ef hann skipar þier nockud.

15. Enn treyst þar þo ecke a, þo hann giøre sig Alþijdlegann vid þig.

16. Þvi hann freistar þijn þar med, og med sijnu vinsamlegu Tillite teyger hann þig.

17. Þa hann verdur gramur, so hellst þad ecke med slijkum Vinskapar Ordum, og hann gamnar ecke med Refsingum og Fangelse.

18. Þar fyrer vakta þig, og sioa vel fyrer þier, þu lifer j miklum Haska.

19. Hvert eitt Dyr samlagar sid vid sinn Lijka.

20. So skal hvor Madur samlaga sig vid sinn Lijka.

21. Þvi þad er eins sem Vargurenn leggur samann vid Saudenn, og þegar Ogudlegur Madur samlagar sig vid godann.

22. So sem (a) Hyena sig vid Hundenn samlagar, so lijka Rijkur Madur vid Fatækann.

(a) (Hyena) Heiter Dyr a Egypta Lande, þad lærer ad kalla a Hundenn med Nafne sem Madur, og etur hann sijdann.

23. So sem Leoned etur Villu-Dyrenn a Eydemørkunne, so eta þeir enu Rijku Fatæka.

24. Lijka sem foraktanlegt er fyrer Dramblaatum Manne þad sem laagt er, so er Fatækur Madur fyrer Rijkum foraktanlegur.

25. Þegar hinn Rijke dettur, so reisa hans Viner hann upp. Þegar hinn Fatæke fellur, so troda hans Viner hann og so under.

26. Þegar Rijkur Madur hefur rangt giort, so eru þeir marger sem hiaalpa honum

upp, Þegar hann hefur sig j Ordum forsied, so hliota Menn ad laata þad vera riett.

27. Enn þegar Faatækur Madur hefur rangt giort, so kunna Menn þad miked ad reikna, Enn þo hann tale hyggelega, hefur þad þo øngvann Stad.

28. Pa Rijkur Madur talar, þeger hvor Madur, og hans Ord hefia Menn upp j Himenenn.

29. Enn þa hinn Faatæke talar, segia Menn, Hvor er sa? Og verde hønum a, þa maa hann plaata þar fyrer.

30. Audæfe eru good, þegar Menn neyta þeirra fyrer utan Synd, Enn Faatækt Ogudrækins Manns kienner hønum margt jllt ad tala.

31. Hvad einum byr j Skape, þad sioa Menn a hans Augum, hvort sem þad er gott edur jllt.

32. Er hønum nockud gott j Hug, þa lijtur hann gladlega til. Enn sa sem med heimuglega Prette umgeingur, kann ecke nockrar Raader þar fyrer ad hafa.

XIV. Cap: 1. Sæll er sa sem eckert jllt Raad giefur, og øngva vonda Samvitsku þar af hefur.

2. Sæll er sa Madur sem øngva vonda Samvitsku hefur, og ecke hefur mist sitt Traust.

## XIV. Capitule.

3. Sijnkum Manne hæfer jlla ad hann sie Rijkur. Og hvad skal kørgum Hunde Gots og Peningar?

4. Hvor hann miked samandregur, og giører sioalfum sier eckert gott, Sa dregur samann fyrer adra, og adrer munu þvi onytsamlega uppeyda.

5. Hvor ecke giører sioalfum sier neitt gott, Hvad skal sa odrum gott giora? Hann mun alldrei af sijnu Gotse gladur vera.

6. Eingenn Hlutur er skammarlegre enn sa, ad Madurenn ann sier sioalfum einkis gods, og þad er makleg Plaaga fyrer hans Vondsku.

7. Giøre hann nockud gott, so veit hann þar ecke par af, og med seinsta verdur hann Oþolinn-Moodur þar af.

8. Þad er jllur Madur sem ecke maa sioa odrum gott giort, helldur fra-snyr sijnu Andlite, og Miskunar øngvum.

9. Eirn Avinnings-giarn Madur lætur sier alldrei nægia med sinn Hluta, og kann ecke fyrer Agirne ad þrijfast.

10. Eirn Øfundsiukur Madur maa ei giarnann sioa ad etid sie, og þad er hønum saart þegar hann skal giefa ad eta.

11. Barn mitt! Giør sioalfum þier til gooda af þijnu eginn, Og gief DROTTne þaug Offur sem hønum tilheyra.

12. Minnstu a þad, ad Daudenn dvelur ecke, og þier er vel kunnugt Hvorn Saattmaala ad þu hefur vid Daudann.

13. Giør þijnum Vin nockud gott fyrer þitt Enda-Dægur, Og gief þeim Faatæka epter þijnum Faungum.

14. Gleym þu ecke Faatækum, þa þu hefur Glede-Dag, so mun þier Fognudur veitast, so sem þu girnist.

15. Þu hlytur þo þinn surann Sveita odrum ad ætla, og þitt Erfide hiaa Erfingium þijnum epter ad laata.

16. Gief þu giarnann, so mun þier giefid verda, og (a) Helga þu þijna Saal.

(a) (Helga) Þad er, Gief Kienne-Mannenum sitt tilheyrelegt Offur, sem Løgmaaled bydur þier.

17. Þviad þa þu ert daudur, þa hefur þu ut-tært.

18. Allt Holld slitnar sem Klæde, Þviad þad er hinn Gamle Saattmaalenn. Þu hlytur ad deya!

19. Lijka sem græn Lauf a Fogru Trie, sum falla af, enn sum vaxa aptur, so geingur og til fyrer Monnunum, sumer deya, enn sumer fædast aptur.

20. Aller forgengeleger Hluter hliota Enda

da ad taka. Og þeir sem þar med umgan-
gast fara og so j burtu med.

## XV. Capitule.

21. Sæll er sa Madur sem jafnann med
Guds Orde umgengst, og þad
sama utleggur og kienner.

22. Sa er þad stundar af Hiarta, og læ-
rer þad af Grundvelle ad skilia.

23. Og jafnann epter Vitskunne framar-
meir fregnar, og stiller epter henne, hvort
sem hun geingur.

24. Og giæist jnn um Hennar Glugga, og
hlustar til fyrer hennar Dyrum.

25. Leitar Herbergis hardt nær Hennar
Huse, og reiser upp sijna Tialldbud vid hen-
nar Vegg, og þad er honum gott Herberge.

26. Hann flytur og under hennar Þekiu
sijn Born, og blijfur under hennar Lauf-
Blodum.

27. Þar under verdur hann fyrer Hita-
num verndadur, og þad er honum heidur-
samleg Byggd.

Pistill sem Texte a þridia Jola Dag.

XV. Cap: 1. Goddann giorer einginn neima
[Sa er ottast DRottinn,
og hvor sier helldur ad Guds Orde, sa mun
Hana finna.

2. Og Hun mun mæta honum so sem Mo-
der, og medtaka hann eins sem ung Brudur.

3. Hun mun fæda hann med Braude
Skilningsins, og giefa honum ad drecka af
Vitskunnar Vatne.

4. Þar af mun hann stirkur verda, so
hann kann stodugt ad standa, og Hun mun
sier ad honum hallda, so hann verde ecke
sneyptur.

5. Hun mun hefia hann yfer sijna Naun-
ga, og Hun mun hans Munne j Sofnudenum
uppluka.

6. Hun mun korona hann med Fognude,
og Unadsemd, og bijgcafa hann med Eylijfu
Nafne.]

7. Enn heimsker Menn finna Hana ecke.

8. Og Ogudræker Menn sia ecke ad sia
hana. Þviad Hun er langt fra Dramblaa-
tum, og Hræsnis Menn vita ecke af Henne.

9. Ogudrækinn Madur kann ecke neitt riett
ad kienna, þviad þad kiemur ecke af GUde.

10. Þviad til Rietts Lærdoms heyrer Vit-
ska, so giefur GUD þar Naad til.

11. Þu þarft ecke ad segia, Hafe eg rangt
kiennt, þa (a) hefur GUD þad giort, Þviad
hvad sem Hann hatar, þad skyllder þu ei giora.

(a) (Hefur GUD) Þesser eru þeir Fals-Kiennendur, sem under Guds Nafne utselia sijna Villu, og sveria uppa, ad þad sie Guds Ord, edur GUD kienne ecke Riett, og etc.

12. Þu þarft ecke ad segia, Hafe eg rangt
kiennt, so hefur Hann sviked mig, Þvi Hann
þarf einkis Ogudrækins vid.

13. Þviad DROTTenn hatar alla Af-
guda-Dijrdkan, Og hvor Hann elskar, sa
hrædist fyrer henne.

14. Hann hefur skapad Mannenn fra Upp-
hafe, og giefed Honum Kior.

15. Vilier þu, so halltu Bod-Ordenn,
og gior þad sem Honum lijkar, af riettum
Trunade.

16. Hann hefur Vatn og Elld framm fy-
rer þig sett, Tak til hvors sem þu villt.

17. Madurinn hefur fyrer sier Lijfed og
og Daudann.

18. Og hvort er hann vill verdur honum
giefed.

19. Þviad Vijsdomur Guds er mikell, og
maattugur, og sier alla Hlute.

20. Og hans Augu lijta a þa sem Hann
Ottast, og Hann veit vel hvad Riett er giort,
eda hvad Hræsne er.

21. Ongvum bydur Hann Ogudrækum
ad vera, og ongvum leyfer Hann Synd ad
drijgia.

## XVI. Capitule.

Fagna ei yfer þvi, þo þu hafer morg Ofyrer-
laatsom Born, og stær þig ecke af þvi, ad
þu hefur morg Born, þegar þaug ottast ecke
GUD.

2. Forlaat þig ecke uppa þaug, og treystu ei uppa þeirra Megn.

3. Þviad eitt gott Barn er betra enn Þusund Ogudrækenn.

4. Og betra er ad deya Barnlaus enn ad eiga Ogudrækenn Born.

5. Eirn goodur Madur kann eirnre Borg vid ad hiaalpa. Enn þo ad marger sieu Ogudrækner, verdur hun þo j Eyde løgd fyrer þa.

6. Slijkt hef eg um mijna Daga margt sied, og þo miklu fleyra heyrt.

7. Elldurinn brennde allann Hoop Ogudlegra Manna, og Reidinn byriadist yfer þeim Van-Truudu.

8. Hann hlijfde ei hinum Gomlu Risum, hvorier med sijnu Afle fyrerforust.

9. Hann þyrmde og eirninn ecke þeim med hvorium Loth var framande, helldur fyrerdæmde þa fyrer þeirra Drambseme.

10. Og fordiarfade allt þad Land, fyrer utann alla Miskun, þeir ed ofmikid høfdu haft vid ad syndga.

11. So hefur Hann fyrer-fared vel Sex Hundrudum Þusunda, þar fyrer, ad þeir voru Ohlijdner. Hvørsu skyllde þa nockur einn Ohlijdenn O-hegndur vera?

12. Þviad Hann er ad vijsu Miskunsamur, enn Hann er og eirnenn Reidur.

13. Hann lætur blijdka sig, enda hefner Hann ogurlega. So mikel sem er Hans Miskun, so mikel er Hans Hefnd, og dæmer sierhvørn epter sinne Verdskulldan.

14. Ogudrækenn Madur mun ei undann hlaupa med sijnu Raanglæte, og Gods Manns Von mun ei ad øngvu verda.

15. Øll Velgiørd mun sinn Stad finna, Og þad mun framm vid hvørn koma sem hann hefur forþienad.

16. Seg ecke, DROTTenn sier ecke til mijn, Hvør hirder um mig a Himnum?

17. A medal soddann stors Fiølda hugsar Hann eige til mijn, hvad er eg hiaa þeirre Stooru Verølldu?

18. Þviad sioa þu! ad Himinenn a alla Vegu, Siorenn og Jordenn bifast.

19. Fiøll og Daler skiaalfa, þa Hann vitiar.

20. Skyllde Hann þa ecke sioa j þitt Hiarta?

21. Enn hvad Hann vill giøra, þad sier eingenn, Og þad O-Vedur sem er fyrer Høndum, þad merker einginn Madur.

22. Og Hann kann þad margt ad giøra sem øngvann varer.

23. Og hvør kann ut ad mæla, eda umbera þa Hann dæmer? Enn soddann Hotan er oflangt fra Augunum.

24. Og þegar nockur Hirdulaus Madur heyrer þana, helldur hann samt a sinne Villu og Heimsku.

## XVII. Capitule.

25. Heyr mig Barn mitt! og Lær þu Vitsku, og gaumgiæf mijn Ord med Alvøru.

26. Eg vil þier giefa vissann Lærdom, og lioslega þier undervijsa.

27. Gud hefur fra Upphafe sijnum Verkum velskickad, og sierhvørium eirnum sitt eged Verk giefid.

28. Og Hann helldur þeim, um Alldur og Æfi, j slijkre Skickan, ad þau fullgiøra æavallt sitt Embætte.

29. Og þad eina hindrar ei þad annad.

30. Helldur eru þau jafnlega hlijdenn Hans Bifalningu.

31. Framarmeir hefur Hann og so aalited Jordena, og fyllt hana med sijnum Giædum.

32. Og giører Jardrijked fullt Dyra, hvør ed koma aptur under Jordena.

XVII. Cap: 1. Gud hefur skapad Mannenn af Jordunne.

2. Og giører hann aptur ad Jordu.

3. Og akvedur honum Tijma sijns Lijfs, og skapade bæde þaug, sierhvørt til sinnar (a) Tegundar, og giørde þaug epter sinne Mind.

(a)

(a) (Tegundar) Þad er, Karlmann ogKvennmann.

4. Hann veitte þeim, ad allt Holld skyllde þaug ottast, og ad þau skylldu drottna yfer Dyrum og Fuglum.

5. Hann gaf þeim Skilning, Moal, Augu, og Eyru, Skinsemd og Kunnoattu.

6. Og vijsade þeim bæde Gott og Illt.

7. Og hefur þa framar ødrum Dyrum og sierlega oalited.

8. Til ad audsyna þeim sitt mikla Velldе.

9. Hann hefur kiennt og giefed þeim Log-moal Lijffins.

10. Hann hefur giort vid þa Eylijfann Soattmoala, og opennberad (b) þeim Sinn Riett.

(b) (Þeim) Vid Israel uppa Fiallenu Sinai.

11. Þeir hafa sied Hans Vellde med sijnum Augum, og heyrt med sijnum Eyrum Hans dijrdlegu Rodd.

12. Og Hann sagde til þeirra, Vared ydur vid ollum Roangindum! Og bijfalade hvori-um sem einum sinn Noaunga.

13. Þeirra Athæfe er jafnan fyrer Honum, og eige folged.

14. I ollum Londum hefur Hann Valld-Stiorn skickad, Enn yfer Israels Lyd er hann sioalfur eirn Herra ordinn.

15. Øll þeirra Verk eru so opinnber fyrer Honum so sem Soolenn, og hans Augu sioa oan afloats allt þeirra Athæfe.

16. So er og allur þeirra Vondskapur fyrer Honum O-dulenn, og allar þeirra Synder eru honum liosar.

17. Hann geymer og Mannsins Velgior-der, sem annann Signets-Hring, og God-giordena sem eirn Auga-Stein.

18. Og med seinasta mun Hann uppvakna, og sierhvorium yfer sitt Hofud endurgiallda, so sem hann hefur forþienad.

19. Enn þa er sig betra lætur hann til Noadarennar koma, og þa sem þreytter verda huggar Hann, so þeir ecke orvænte.

20. Þar fyrer snu nu þier til DROttens, og fyrerloat þinn syndsamlegann Lifnad, Bid þu DROTTenn, og loat af Illu!

21. Halltu þig til hins Hæsta, og snu þier fra Roangindum, og hata af Alvoru Afguda-Dijrdkan.

22. Hvor vill lofa þann Allra-Hæsta j Helvijte? Þviad alleina þeir enu Lifendu kunna ad lofa.

23. Hiner Daudu, so sem þeir ed eige leingur eru, kunna eige Lof ad segia.

24. Þar fyrer lofa DROttenn a medann þu lifer, og ert Heilbrigdur!

# XVIII. Capitule.

25. O hvad mikel ad Miskun DROttens er! og Hann lætur finna sig Noa-dugann, af þeim sem til hans snua sier.

26. Þviad hvad kann Madurenn þo ad vera, first ad hann er ecke Odaudlegur?

27. Hvad er Soolunne biartara? Þo hlytur hun ad forganga, og hvad Holld og Blood uppþeinker, þad eru vonder Hluter.

28. Hann sier Omælannlega Hæd Himen-sins, enn aller Menn eru Molld og Aska.

XVIII. Cap: 1. Enn allt hvad Hann giorer sem eylijflega lifer, þad er fullkomid.

2. DROTTenn er alleina Riettloatur, Eingenn kann ut ad segia Hans Verk.

3. Hvor kann ad hondla Hans storu Furdu-Verk?

4. Hvor kann Hans miklu Magt ad mæla?

5. Hvor kann Hans miklu Miskun ad telia?

6. Menn kunna hvorke ad aftra henne, nie auka, og Menn kunna ei ad hondla hans miklu Doadsemder, Enn þegar Madur hefur allt til reidu sitt besta giort, so er þad þo var-la uppbyriad, Og þegar hann meinar hann hafe þad fullkomnad, þa er þo mikels vant.

7. Þviad hvad er Madurenn? Hvar du-ger hann til? Hvad kann hann bata eda skada?

8. Þegar hann lifer leinge, so lifer hann

Hundrad

Hundrad Aar. Lijka sem eirn Vatns-Drope j mote Sioafar-Hafe, og so sem eitt Korn hioa Sioafar-Sande, so stutt eru hans Aar hioa Eylijfdenne.

9. Þar fyrer hefur Gud Þolennmæde vid þa, og heller sinne Miskun ut yfer þa.

10. Hann sier vel og veit, ad þeir hliota aller Daudans ad verda.

11. Þar fyrer Miskunar Hann sig þess rijkuglegar yfer þa.

12. Mannsins Miskun geingur alleina yfer hans Naaunga.

13. Enn Guds Miskun geingur yfer alla Veroldena.

14. Hann straffar og tyftar, Hann kienner og Þun elur, lijka sem eirn Hirder fyrer sinne Hiord.

15. Hann miskunar þeim ollum sem laata sier undervijsa, og Guds Ord gaumgiæfelega heyra.

16. Mitt Barn! Þegar þu giorer einhvorium nockud Gott, so gior ei þig aatolusamann, Og þa þu giefur nockrum nockud, so stygg hann ei med hordum Ordum.

17. Doggenn kiæler Hitann, so er og betra eitt gott Ord helldur enn Gaafa.

18. Joa, Eitt Ord er opt þægelegra enn mikel Gaafa. Og Hylle-Sæll Madur giefur þad hvortveggia.

19. Enn einn Heimskur Madur telur þad epter med O-hæversku. Og Ovinsamleg Gaafa er leidinnleg.

20. Lær þu sioalfur aadur enn þu kienner odrum Monnum.

21. Hioalpa fyrre sioalfum þier enn þu læknar adra, Straffa þig first aadur enn þu dæmer adra, so muntu Naad finna þa adrer straffader verda.

22. Tef ecke med þijna Yferboot, þar til þu siukur verdur, Betra þig helldur a medann þu kannt enn ad syndga.

23. Drag þu ei undann goodur ad verda, og bijd ecke med Betrun þijns Lijfs allt til Daudans.

24. Og vilier þu Gude þiona, so laat þier þad vera Alvoru, so þu freister eige Guds.

25. Minnstu a þa Neide sem koma mun ad sijdurstu, og a þa Hefnd þa þu hlytur j burt ad fara.

26. Þviad þa Mann er saddur, þa skal hann þeinkia, ad aptur ad nyu kann hann hungradur ad verda, Og þegar mann er Rijkur, so skal hann hugsa, ad aptur ad nyu kann hann Foatækur ad verda.

27. Þviad þad kann fyrer Kvolld-Tijmann odruvijs ad verda, enn þad var um Morguninn, Og slijkt allt skiedur snarlega fyrer Gude.

28. Einn hygginn Madur er j þessu ollu Ahyggiu-fullur, og spornar vid Syndum, a medann hann kann enn ad syndga.

29. Hvor Skilnings-fullur er sa medtekur þvilijkann Vijsdom, og hvor hann fær sa lofar hann.

30. Hvor slijkann Lærdom riettelega hefur numid, sa kann sig vijslega ad hallda, og vel þar ut af ad tala til Betrunar.

## XIX. Capitule.

31. Filg ecke þijnu'n vondum Gyrndum, helldur briot þinn Vilia,

32. Þviad ef þu filger þijnum illum Girndum, so muntu þig sioalfann þijnum Ovinum giora ad Haade.

33. Vert einginn Nutare, og ven þig ecke til Drickiu-Svalls.

34. So þu verder eige ad Þurfamanne, og þegar þu ongva Peninga j Siod hefur, hlioter þu uppa Okur ad medtaka.

XIX. Cap: 1. Ofdryckiusamur Erfidis Madur verdur ecke Rijkur, og sa ei sier ad litlu, hann fer hnygnande Dag fra Dege.

2. Vijn og Konur giora heimska hyggna Menn.

3. Og þeir sem samlaga sig Skiækium verda

verda villter, og ſoa ad Launum Mel og
(a) Orma, og viſna upp, odrum Monnum
til merkelegs Epterdæmis.

(a) (Orma) Pad er, Bockuſott, Lys, og onnur Krankdæme þurfande Manna.

4. Sa er ſnarlega truer hann er oſtadfaſtur, og giorer ſioalfum ſier Skada, þa hann lætur ſig ſo bleckia.

5. Hvor hann gledſt af þvi, ad hann kann (b) Skalkaraſkap ad fremia, ſa verdur forſaktadur.

(b) (Skalkaraſkap) So ſem Ulſſpelgell, og adrer hans Makar.

6. En hvor ed hatar ſlijka onyta Moalſkaps-Menn, ſa varaſt Skadann.

7. Heyrer þu nockud Vondt, þad ſeg ei epter, þviad Pogn giorer þier ongvann Skada.

8. Þu ſkallt hvorke ſegia þad þijnum Vin, nie Ovin, og opennbera þu þad ecke, kunner þu ad giora þad fyrer utann vonda Samvitſku.

9. Þviad Menn hlyda þier vel þar um, og taka þad til Vara, enn hata þig þo ſem oadur.

10. Hafer þu nockud heyrt, loattu þad med þier deya, ſo hefur þu hæga Samvitſku, þviad þu munt ecke þar af j ſundurbreſta.

11. Enn eirn Foavijs Madur brytſt ut, lijka ſem tijmabært Barn ut vill.

12. Pegar eitt Ord er folged j heimſkum Manne, er þad eins og þa Pijla ſtæde j Lærenu.

13. Tala til þijns Noaunga þar um, moa vel ſkie, hann haſe þad ecke giort, eda haſe hann þad giort, hann giore þad ei optar.

14. Tala þu til þijns Noaunga þar um, moa vel ſkie, hann haſe þad ei talad, enn haſe hann þad talad, ad hann giore þad ei optar.

15. Tala vid þinn Vin þar um, þvi mann lygur giarnan a adra Menn, og þar fyrer tru eige ollu þvi þu heyrer.

16. Einum ſleppur opt Ord, og meinar hann þo ei ſo, þvi hvor er ſa ſem eige hrytur ſtundum eitt Ord?

17. Tala vid þinn Noaunga þar um, fyrr enn þu deiler vid hann, og hugſa uppa Guds Bodord.

18. Þviad Guds Otte giorer þad, ad Mann fer hyggelega framm um alla Hlute, og Guds Bod-Ord kienner ſkinſamlega ad handtiera j allre Sijſlan.

19. Pretvijſe er eingenn Vitſka, og Ogudrækenna Manna Hrecker eru eingenn Hygginde.

20. Helldur er þad Vondſkapur og Skurgoda Villa, Heimſka, og Foavitſka.

21. Lijtill Klokſkapur med Guds Otta er betre, enn mikell Klokſkapur med Guds Foragte.

22. Margur er hvaſſvitur, og er þo Skalkur, og kann ad ſnua Sokinne hvorninn ſem hann vill hafa hana.

23. Sa ſame Skalkur kann ad heingia nidur Hofudid, og diarflega til ad lijta, hvad ad þo er ecke utann Falſid eitt.

24. Hann lijtur Augunum nidur, og hluſtar med Skalka-Eyrum, og hallder þu ongva Vakt a honum, ſo mun hann þig yferfalla.

25. Og þo hann ſie Magnlijtill til ad giora þier Skadann, mun hann þig þo hveckia, þegar hann ſier ſier Tijma til.

26. Mann ſier þad vel a einum, og ſa ſem ſkinſamur er tekur til Vara Mannenn a hans Yferbragdi.

27. Þviad hans Klædnadur, Hloatur, og Gangur ſegia til hans.

## XX. Capitule.

28. Eirn Madur oavijtar opt ſinn Noaunga j O-Tijma, og hann giorde vijſlegar þo hann þegde.

XX. Cap: 1. Pad er betra, Frijlega ad ſtraſſa, helldur enn Leynelegt Hatur ad haſa.

2. Og hvor þad tekur ſier til Packa, þeim giorer þad gott.

3. Hvor hann syner Ofriike j Doome, hann er sem eirn Hofgards-Meistare, hann ed blygdar þa Jungfru sem hann skal geyma.

4. Margur þeiger þar fyrer, ad hann kann ei ad forsvara sig.

5. Enn annar þeiger, og bijdur sijns Tijma.

6. Vitur Madur þeiger so leinge hann sier sier Tijma, enn eirn hoftugur Narre kann Tijmans ei ad bijda.

7. Hvor margt þvæler hann giorer sig Obeckann, og sa sem mikel Vølld ad sier tekur, þeim verda Menn gramer.

8. Morgum luckast vel j vondum Sokum, enn þad stodar honum til Fordiorfunar.

9. Opt giefur eirn nockud, so ad hann kiemur þvi jlla nidur, Þar j moot giefur annar nockud, þar hann þvi hardla vel nidur kiemur.

10. Hvor ad miøg er skrautsamur hann fordiarfast þar af. Enn hvor sig lækar sa upphefst.

11. Margur kauper j Firstu miked og margt, enn þar epter hlytur hann þad noogu dyrt ad bitala.

12. Vitur Madur giorer þecka sijna Giøfu med liufligum Ordum. Enn hvad Heimsker giefa, þad giora þeir siaalfer Obeckt.

13. Foavijss Manns Giøf mun þig ei bata miked, þviad hann giefur med einu Auga, enn med Sio Augum skymar hann þar epter, hvad hann fær fyrer þad.

14. Hann giefur lijtid, og telur epter miked, og giorer þad heyrum kunnugt, lijka sem sa ad hroopar ut hvar Vijn sie.

15. J Dag laanar hann, a Morgun vill hann aptur hafa þad, Þad eru leidennleger Menn.

16. Heimskur Madur klagar, Eingenn er mier (a) Trur, Eingenn þackar mier fyrer mijnar Velgiørder.

(a) (Trur) Hann kann ecke hans Velgiørder ad fullreikna.

17. Og þeir sem neyta mijns Brauds, segia ecke neitt gott af mier.

18. O hvad opt, og af hvad morgum, hann verdur dearadur!

19. Hann fellur saarlegar fyrer þvilijkar Rædur, enn þo hann fielle af Hus-Lopte, Lijka so geingur vondum Monnum, ad þeir hliota med seinasta hastarlega ad falla.

20. Eirn druslegur Agalaus Madur slu- rar oforsiaalega, og þvætter jafnann þad honum j Hug kiemur.

21. Þott Foavijs Madur allareidu nockud gott tale, þa duger þad eige, Þviad hann talar þad ecke j riettann Tijma.

22. Morgum hamlar sijn Faatækt, ad hann giorer ei jllt, þar af hefur hann þann Avinning, ad hann hefur ongva vonda Samvitsku.

23. Margur giorer helldur hid versta, enn hann misse sijna Æru, og giorer þad sa- ker Ogudrækenna Manna.

24. Margur þionar ødrum til Oriettferdugra Hluta, og riett þar med verdur hann hans Ovinur.

25. Lijgenn er eirn Skammar-Fleckur a einum Manne, og er almennelegur hia agalausu Almuga Folke.

26. Eirn Þiofur er ecke so vondur sem sa Madur er sig venur til Lyganna, enn med seinasta koma þeir baader j Gaalgann.

27. Ad liuga er Mannenum skammarlegt, og hann kann alldrei til Heidurs ad koma.

28. Eirn Hyggenn Madur færer sig sialfann til Heidurs fyrer sijna viturlega Rædu, og klokur Madur er kiær, og vel virdtur, hia Hofdinginum.

29. Hvor sinn Akur jduglega ræktar, sa giorer sijna Hrugu Mikla, og hvor hann helldur sig so hia Hofdingiunum, ad hann er þeim kiær, og vel virdtur, sa kann ad aptra morgu Jllu.

30. Gia-

30. Goafur og Mutur blinda vitra Menn, og leggia Beisl j þeirra Muun, so ad þeir kunna ecke um ad vanda.

31. Eirn Vitur Madur sa er sijn ecke neyta lætur, og Jardfolgenn Fiesioodur, Hvar til eru þeir baader nytsamleger?

32. Pad ere betra sier leyne sa hinn Foavijse, helldur enn sa hinn Vitre.

## XXI. Capitule.

Mitt Barn! hafer þu syndgast, so laattu af, og bid, ad þier eirnenn þær enu fyrre fyrergiefnar verde.

2. Fordast þu Syndena, lijka sem annann Hogg-Orm, Pviad ef þu kiemur of nærre henne, þa stijngur hun þig.

3. Hennar Tennur eru sem Leons Tennur, og drepa Mannenn.

4. Sierhvor Synd er sem biturt Sverd, og særer, so þad kann eingenn ad lækna.

5. Hvor hann giorer (a) Ofrijke og Nansinde, sa verdur med sijdsta Purfa-Madur, Og hvor hann er Drambsamur, sa misser med Sijdsta Gots og Garda.

(a) (Ofrijke) So sem þeir Flaar-Ploogs-Menn, og Ofrijkis-Kompanar.

6. Pviad so snart sem hinn Aume kallar, heyrer GUD þad. Og Hefndenn mun fliott koma.

7. Sa er ei lætur sier segiast, hann er þegar a Gotu hins (b) Ogudrækna, og hvor hann ottast GUD, sa tekur þad sier til Hiarta, Enn sa sem þar ad auk hælest um, þann sier GUD langt til.

(b) (Ogudrækna) Pad er, Pess hins fyrerdæmda, sem til Refsingar er urskurdadur.

8. Og eirn vijs Madur merker vel, ad hann vill fordiarfast.

9. Hvor sitt Hus bigger med annara Manna Eign, hann safnar Griote til sinnar Grafar.

10. Selskapur Ogudlegra Manna, er lijka sem Lijnhruga sem a Ellde brennd verdur.

11. Ogudrækner Menn ganga a fegru Stein-Golfi, þess Ender ad er Helvijtis Afgrunn.

12. Hvor Guds Bod helldur sa filger ecke sijnu egenn Hofde.

13. Og ad ottast GUD af Alvoru, er Vitska.

14. Hvar eingenn Skinseme er jnne, sa lætur sier ecke undervijsa.

15. Sumer eru noogu skinsamer, enn reisa þo marga Olucku þar med.

16. Eins Hyggins Manns Kienning flytur framm lijka sem fliotande Vatn, og so sem lifande Uppspretta.

17. Foavijss Manns Hiarta er lijka sem Pottur, sa ed lekur, og kann ongvum Lærdome ad hallda.

18. Nær eirn skinsamur Madur heyrer gooda Kienning, lofar hann hana og vijdfræger. Enn ef hana heyrer Mootþroonnarsamur Madur, so mislijkar honum hun, og kastar henne a Bak sier.

19. Heimsks Manns Straff þynger lijka sem Byrde a Vege, Enn nær Hyggenn Madur talar þa er þad linflegt ad heyra.

20. J Raadenu taka Menn til Vara hvad vitur Madur talar.

21. Og hvad hann raadleggur er nockurs verdt.

22. Foavijss Manns Ræda er lijka ad sioa og nidurfalled Hus, og (c) Raad hins Oskinsama kann Mann ei vita hvad þad er.

(c) (Raad) Pad er, Hans Raad og Hugsun.

23. Pegar Menn vilia kienna hinum Heimska, þa hagar hann sier lijka sem villdu Menn Fiotur a hann leggia, um Hendur og Fætur.

24. Enn eirn Vitur Madur reiknar þad fyrer Gullega Pryde, og fyrer eirn Smijdis-Grip a hægra Arme.

25. Heimskur Madur hleypur giarnann jnn j annara Manna Hus, enn skinsamur Madur blygdast þar vid.

26. Eirn Afglape (d) giæest jnn um annara Glugga, enn Forsialll Madur stendur ute.

(d) (Giæist) Pad er, Sa sem fyrer Rædstofu Dyrum stendur, hlustar og hlerer til hvad Menn tala, edur giora.

27. Pad er Oskinsamlegt ad hlera fyrer Dyrunum, og Forsiall Madur helldur pad fyrer Lijte.

28. Hiner onytu Skraf-Menn þvætta pad sem ongvu nytt er, edur hæst til Efnesins, Enn Hyggner Menn vega sijn Ord med Gull-Vigt.

29. Heimsker Menn hafa sitt Hiarta sier j Munne, enn vitrer Menn sinn Munn j Hiartanu.

30. Heimskur Madur hlær ofur-hoatt, enn hyggenn Madur hlær ecke nema lijtid.

31. Pa Ogudrækinn Madur blootar noekrum Skalk, pa bolvar hann sier sioalfum.

32. Sogvijser Menn giora sioalfum sier Skada, og einginn vill giarnann umgangast med þeim.

# XXII. Capitule.

Latur Madur er lijka sem Steirn sa er j Saure liggur.

2. Hvor hann upptekur, hann hlytur ad þvo aptur sijnar Hendur.

3. Eirn Osidsamur Sonur er sijnum Fodur Van-Heidur.

4. Skinsom Dotter fær vel Mann, enn Oroadvanda Dottur loata Menn heima sitia, og Hun angrar sinn Fodur.

5. Enn su sem Galenn er, er bæde Fodurnum og Mannenum Van-Heidur, og verdur af boadum þeim hotud.

6. Su Ræda sem skiedur j Otijma, kiemur eins vid sem annad Streingia Hliodsfære, þegar nockur er hriggur. Avijtan og Kienning skal mann j riettann Tijma fremia.

7. Hvor hann kienner Heimskum Manne, sa bæter samann brotenn Leir-Pott, og gioerer riett sem þa Mann vekur nockurn af fostum Svefne.

8. Hvor hann talar vid Heimskann Mann, sa talar vid sofanda Mann.

9. Þa þad er ute, so seger hann, Hvad er þad?

10. Epter Daudann Mann plaga Menn ad syrgia, þviad hann hefur ecke Lioosed leingur. Enn yfer Heimskum skylldu Menn Sorg bera, þad hann hefur ongvann Skilning.

11. Mann skal ecke ofmiog harma hinn Dauda, þviad hann er til Hvijldar komenn.

12. Enn Lijf hins Heimska er verra enn Daudenn.

13. Sio Daga bera Menn Harm epter hinn Dauda, enn fyrer Heimskum og Ogudræknum alla þeirra Lijfdaga.

14. Tala þu ecke margt vid Foavijsann Mann, og haf ecke mikla Umgeingne med Heimskum Manne.

15. Hallt þig fra honum, so þu komer ecke j (a) Olucku, og verder saurugur af hans Ohreckt.

(a) (Olucku) Stall-Brædur og Viner koma Svilanum ut a Morgum.

16. Vijk ad eins fra honum, so ertu j Fride, og kiemur þu ei j Angist og Neyd fyrer hans Heimsku.

17. Hvad er þyngra enn Bly? Og hvad vilia Menn annad kalla Heimskann Mann enn Bly?

18. Pad er liettara ad bera Sand, Sallt og Joarn, helldur enn eirn Heimskann Mann.

19. Lijka sem eitt Hus, þad sem sterklega er bundid til samans, fellur ecke fyrer Storm-Vinde.

20. So og þad Hiarta sem oruggt er um sitt Efne, þad hræðest ecke fyrer neirnre Skielfing.

21. Lijka sem Fagurt Lijmkast a slietta Veggnum, vid Regnenu, og Gardur a Hoafu Fialle, kann ecke vid Vindenum ad standa,

22. Lijka so þa stendur Bleyde-Hiarta eins Heimsks

Heimsks Manns j sinne oaforman, móote nockre Skielfingu.

23. Þegar Madur kreister Augunn, þa ganga þar Toar ut af, Og þegar mann ratar a annars Hiarta, þa lætur hann sig formerkia.

24. Hvor hann kastar j Fugla Flockenn, sa burt fæler þa, og hvor sijnum Vin Hoadung giører, hann slijtur j sundur Vinskapinn.

25. Þott þu allareidu drager ut Sverd ad þijnum Vin, þa giører þu þad ecke so vondslega (so sem med Smoaneune) þviad þid kunnid aptur ad nyu Viner ad verda, þegar þu fordast hann ei, og talar vid hann.

26. Þviad Menn kunna vel allt ad forlijka, nema Hoadung, Fyrerlitning, Opinnberan leyndra Hluta, og Falskleg Svik, Sodann Hluter burt reka Vinenn.

27. Vert þijnum Vin trur j hans Foatækt, so ad þu med honum glediast meger þa honum vel geingur.

28. Stattu fast hioa honum þa honum geingur illa, ad þu meger og so hans Lucku niotande verda.

29. Reykur og Svæla kiemur fyrer framm, þa Eldurenn vill brenna, so kiemur og af Hoadungunne Blods Uthelling.

30. Skammast þijn ecke ad vernda þinn Vin, og fordast hann eige.

31. Skiedur þig nockud vondt af honum, þa mun sa vakta sig vid honum sem þad heyrer.

## XXIII. Capitule.

32. Eg villde eg kynne Loas fyrer minn Munn ad setia, og traust Insigle a mijnar Varer ad þrickia, so ad eg ei þar fyrer til Falls kome, og mijn Tunga mig ei fordiarfe!

XXIII. Cap: 1 DROTTenn Gud Fader, og Herra mijns Lijfs! Loat mig ecke a mille Lastaranna koma, og loat mig ei a medal þeirra tapast.

2. O þad eg kynne mijnar Huggrennin-gar j Taume ad hallda! Og mitt Hiarta med Guds Orde ad aga, og eg mier eige hlijfe hvar eg fer villt!

3. So ad eg ei af stad kiæme nockre Synd, og uppsette stoora Villu, og giorde miked Illt, So ad eg þyrfte fyrer mijnum Ovinum eige ad fortapast, edur af þeim hæddur ad verda!

4. DROTTenn Gud Fader, og Herra mijns Lijfs!

5. Giær þu mijn fyrer Obliugu Ulite, og vijk fra mier allre vondre Lyst.

6. Loat mig eige falla j Ofneytslu og Saurlifnad, og geym mijn fyrer Obliugu Hiarta!

7. Kiæru Born! Læred ad hallda Munnenum.

8. Þvi hvor honum helldur sa forsier sig eige j Ordunum.

9. So sem þeir hiner Ogudræku, Hoadgiornu og Drambsomu þar fyrer falla.

10. Ven þinn Munn ecke til ad sveria, og Guds Nafn ad vanbruka.

11. Þviad lijka sem sa Præll sem opt verdur stryktur, er ecke utan Beniar, so kann ecke helldur sa hreinn af Syndum ad vera, sem optsinnis sver, og Guds Nafn vanbrukar.

12. Hvor sem sver, optlega sa syndgar optlega, og Plaagann mun ecke af hans Huse ganga.

13. Ef hann sver og skilur ecke, syndgar hann þo ecke ad sijdur. Enn ef hann skilur og skeyter ei þar um, þa syndgar hann tvofalldlega.

14. Enn sverie hann til (a) Onytis, er hann eige oan Syndar ad helldur, hans Hus mun hardlega hegut verda.

(a) (Onytis) Fyrer utann Naudsyngans Skada.

15. Þar er ein Daudleg (b) Bolvan, þar fyrer geyme Gud Hus Jacobs!

(b) (Bolvan) Svo sem þa Heidner sveria vid Afgude.

16. Og þeir enu Gudhræddu fordast sodan, og saurga sig ecke med slijkre Synd.

17. Ven ecke þinn Munn til ad sveria fram-

framhleppelega, hvíad þad kiemur af illu Uppsceatre.

18. Gleym ecke þijns Fodurs og þinnar Modur Kienningu, þa muntu a millum Herranna sitia.

19. Og þier mun ecke gleymt, so þu venier þig ecke til Heimskunnar, og med seinasta villder þu, ad þu hefder ei fæddur vered, og bolvar Dege þinnar Fædingar.

20. Hvor sig venur til (c) Hædne, sa bætter sig ecke sijna Lijfdaga.

(c) (Hædne) Þad er ad bakmæla, og adra Menn ad dæma.

21. Jannann Tijma er ofmiked ad syndga, J þridia Sinn færer þad med sier Hefndena.

22. Hvor hann j Brunanum upptendrast, hann er sem annar brennande Elldur, og hætter ecke, allt þar til hann brenner sig upp sialfur.

23. Einn lostasamur Madur hefur ongva Roo, a sijnum Lijkama, þar til hann eirn Elld upkveiker.

24. Saurlijfum Manne er allur (d) Matur sætur, og hann hætter ei fyrr enn hann þad fullgiorer.

(d) (Matur) Þad er, Hann tekur hvad hann kann faa, opt eirn leidennlegann Saur-Seck, fyrer Eigenn Konu sijna.

25. Eirn Madur sa Hordom driiger, og hugsar med sialfum sier, Hvor sier mig?

26. Þar er mirkt yfer mier, og Veggerner leyna mier, so eingenn sier mig. Hvorn skal eg fordast?

27. Sa Hinn Allra-Hæsste skeyter ecke mijnum Syndum.

28. Eirn soddann Madur fordast ad eins Mannanna Augu, og hugsar ecke, ad Augu DROTTens eru miklu skiærare enn Soolenn, og sioa allt þad sem Mennerner giora, og so eirnenn j heimuglega Afkyma.

29. Aller Hluter eru Honum kunnuger fyrr enn þeir verda skapader, jafnvel og þa þeir eru skapader.

30. Sa same Madur mun opinberlega j Stadnum straffadur verda.

31. So hann mun gripenn verda, þa hann sialfann sem minnst varer.

32. So mun þad og ganga þeirre Konu sem sinn Mann forlætur, og eirn Erfingia vid odrum fær.

33. Fyrst er hun Guds Bodorde O hlydenn, J annann maata syndgast hun j mote sijnum Manne, J þridiu Grein a hun Born j Hoordome vid odrum Manne.

34. Þessa munu Menn af Sofnudinum urreka, og hennar Born hliota hennar ad gialda.

35. Hennar Born munu ecke Rootfestast, og hennar Kvister munu ongvann Avoxt bera.

36. Hun lætur bolvada Minning epter, og hennar Skomm mun alldrei afmaast.

37. Þar af læra Epterkomendurner, ad ecke neitt sie betra enn ad Ottast Gud, og eckert Sætara enn uppa Guds Ord ad stunda.

## XXIV. Capitule.

Vitskann prijsar sig, og a medal Folksins hroosar hun sier.

2. Hun predikar j Guds Sofnude, og losar sig j sijnu Rijke.

3. Og seger so, Eg er Guds Ord, og sveima yfer alla Jordena lijka sem Skij.

4. Mijn Tialldbud er j Hædunum, og minn Stooll j Skijunum

5. Eg Ein er allstadar, so vijdt sem Himeninn er, og so diupt sem Underdiupid er.

6. Allstadar j Sioonum, allstadar a Jordunne, a medal alls Folks, a medal allra Heidingia.

7. Hiaa þessum ollum hef eg Byggdar leitad, ad eg finde mier nockurn Stad.

8. Þa baud mier Skapare allra Hluta, og Sa mig skapad hefur skickade mier Bustad.

9. Og sagde, Þu skallt bua j Jacob, og Jsrael skal vera þijn Erfd.

10. Eg er skopud af Upphafe, fyrr enn Verølldenn, og mun eg eylijflega vera.

11. Og eg hef fyrer Honum j Tialldbudenne þionad, Epter þad j Zion vissann Stad feinged, og Hann hefur sett mig j þann Heilaga Stad, þad eg skyllde j Jerusalem rijkia.

12. Eg hefe innrætst hia einu Heidarlegu Folke, þad sem Guds Erfdar-Deilld er.

13. Eg er hatt vaxenn so sem Cedrus-Trie a Libano, og so sem Cypressus-Vidur a Fiallenu Hermon.

14. Eg em uppvaxenn lijka sem Palm-Vidar-Grein vid Vatn, og so sem þau Rosa-Trie er takast upp j Jericho.

15. So sem eitt Fagurt Vidsmiørs-Trie a vijdum Velle. Eg em uppvaxenn sem Platanus-Trie.

16. Eg gaf lystelegann Ilm af mier, so sem Cynnamomum, og kostulegar Jurter, og sem su besta (a) Myrrha.

(a) (Besta Myrrha) Sa firste Vokve, sem sialfkrafa rennur ut af Myrrhu Trienu, og heiter Stocte-Dropar, hitt kallast sliett Myrrha, sem rennur af Trienu, þa j þad er skorid.

17. So sem Galbanum, og Onych, og Myrrha, og so sem Reykelse j Musterenu.

18. Eg utbreidde mijna Kviste sem ein Eik, og mijner Kvister eru fagrer, og lysteleger.

19. Eg gaf kostulegann Ilm af mier, so sem Vijnvidur, og mijn Blomstur baru Erlegann og Rijkuglegann Avøxt.

20. Komed hier til mijn! aller þier sem mijn girnest, og sedied ydur af mijnum Avøxtum!

21. Mijn Predikun er sætare enn Hunang, og mijn Gaafa sætare enn Hunangs-seimur, Hvor af mier etur, þann hungrar jafnann epter mier, og hvor af mier dreckur, þann þyrster jafnann epter mier.

22. Hvør mier heyrer sa mun ecke verda skammadur, og hvør sa ad mier filger mun saklaus blijfa.

23. Allt þetta er su Rietta Book Saattmaalans, sem er vid hinn Allra-Hæsta GUD giørdur.

24. Sem er Løgmaaled, hvort Moyses hefur bifalad Huse Jacobs til eins Fiesiods.

25. Þar ut af Vitskann er utrunnen, so sem Vatnid Phison, þa þad er miked, og so sem Vatnid Tygris, þa þad floer yfer a Vor-Dag.

26. Þar ut af er Skilningurinn flotenn, lijka sem Euphrates, þa þad er mikid, og so sem Jordan a Kornskurdar Tijma.

27. Þadann er komenn Hæverskann, so sem annad Lioos, og so sem Vatnid Nilus a Haustinn.

28. Sa hefur alldrei nockur verid ad hana hafe utlært, og sa verdur alldrei til sem mun faa hana ut grundad.

29. Þviad hennar Skilningur er gnægre enn nockur Sior, og hennar Ord diupare enn nockurt Underdiup.

30. Þar fliota marger Læker utaf mier j Jurtra-Gardana, lijka sem veitte Menn þar jnn Vatne.

31. Þar vøkva eg mijna Jurtra-Garda, og dryckia mijnar Eingiar.

32. Þar verda mijner Smaa-Læker ad stoorum Fliotum, og mijn Fliot verda miked Haf.

33. Þviad minn Lærdomur lysir so vijdt sem klaar Morgun, og skijn langt a burt.

34. Lijka og utheller minn Lærdoomur Spaa-Søgum, sem eylijflega hliota ad blijfa.

35. Þar siaed þier, ad Eg alleina fyrer mig arfida ei, helldur fyrer alla þa sem a Vijsdominn girnast.

## XXV. Capitule.

Þar eru Þrijr Hluter fagrer, sem bæde GUde og Mønnum vel þocknast.

2. Þegar Brædur eru Samþycker, og Naagrannar Elskast, og Madur og Kona vel Forlijkast.

3. Þrijr

3. Þrijr Hluter eru þeir hvorium eg er af Hiarta Ovinur, og þeirra Athæfe mislijkar mier miøg.

4. Þegar Fatækur Madur er Dramblaatur, og Rijkur Madur Lygur giarnann, og eirn gamall Glappe er Hoor-Karl.

5. Ef þu dregur eckert samann j þijnu Ungdæme, hvad villtu þa finna j þinni Elle?

6. Hvad vel þad stendur þegar þaug Graa Høfudenn eru hyggenn, Og Olldungarner Kloker!

7. Og Herrarner skinsamer og Forsialer!

8. Þad er Korona Gamallra, ef þeir hafa margt forsokt, og þad er þeirra Heidur, Þegar þeir ottast Gud.

9. Niju Hluter eru þeir sem Eg helld j mijnu Hiarta miøg loflega, og þann Tijunda vil Eg med Mijnum Munne prijsa.

10. Eirn Madur sa sem hefur Glede af sijnum Bornum. Hvor so leinge lifer, ad hann sier sijna Ovine fyrerfarast.

11. Sæll er sa sem hefur skinsama Eigenn Konu. Hvored j sijnum Ordum ongvann Skada giorer. Hvor ecke þarf þeim ad þiona sem þess eru Overduger.

12. Sæll er sa sem Trufastann Vin hefur. Sæll er sa sem Forsiall er. Og sa ed kienner þar sem Menn vilia giarnann heyra.

13. O! Hvad mikell sa er sem Vitur er. Enn hvor Gud ottast, yfer honum er einginn.

14. Þviad Guds Otte geingur yfer alla Hlute.

15. Hvor þeim sama fast helldur, hvorium skulum vier þann samjafna?

16. Eckert Angur er so miked sem Hiartans Angur, Þar er einginn Klokskapur yfer Konunnar Klokskap.

17. Þar er eingenn Umsaat yfer Ofundsiuks Manns Umsaat. Þar er einginn Hefndar-Girnd yfer Fiand-Mannsins Hefndar-Girnd.

18. Þar er eckert Hofud so vielasullt sem Hogg-Ormsins Hofud, Og þar er einginn Reide so Heiptug sem Konunnar Reide.

19. Eg villde helldur bua hia Leonum og Drekum enn hia Jllre Konu.

20. Þegar hun verdur jll, so skipter hun sinne Hegdun, og verdur skessuleg so sem eirn Seckur.

21. Hennar Madur hlytur sijn hennar ad skammast, og þegar Menn bregda honum þar um, so fær hann þar af Angur j Hiartad.

22. Oll Jllska er lijtel hia Konunnar Jllsku.

23. Skie hana þad sem Ogudrækenn Mann skiedur.

24. Ein Maalug Kona er Hof-Lyndum Manne lijka sem Sand-Vegur uppa moote Gomlum Manne ad ganga.

25. Laattu hana ecke blecka þig, þo ad hun sie væn, og girnstu hana ecke fyrer þann Skulld.

26. Þegar Konann giorer Mannenn rijkann, so er þar og ei utann Agg, Foroktun og stoor Smaan.

27. Ein vond Kona giorer hriggt Hiarta, daprann Yferlit, og Hiartans Angur.

28. Ein Kona su Madurinn hefur ongva Glede af, hun giorer honum alla Hlute leida.

29. Syndenn er af Konunne komenn til, og fyrer hennar Skulld hliotum vier aller ad deya.

30. Lijka sem Menn skulu eige Vatnid laata Gang hafa, so skulu Menn og ecke laata Konuna sinn Vilia hafa.

31. Vilie hun ecke ganga epter þinne Hond, so (a) skil vid hana.

(a) (Skil) Þad er talad epter Moyses Løgum.

## XXVI. Capitule.

Sæll er sa Madur sem dygduga Konu hefur, þar fyrer Tvofalldast hans aara-Tala.

2. Ein

2. Ein good Forstødu-Kona er sijnum Manne Fognudur, og giører hønum eitt gott roosamt Lijf.

3. Dygda-full Kona er ein edla Gaafa, og verdur giefinn þeim sem ottast GUd.

4. Hvort sem hann er Rijkur eda Faatækur, þa er hønum þad Huggun, og giører hann alltijd gladann.

5. Þrijr Hluter eru hrædeleger, enn hinn Fiorde er Ognarlegur.

6. Forrædaraskapur, Upphlaup, Uthelling Saklauss Blods.

7. Hvad allt er verra enn Daudenn.

8. Enn þad er Hiartans Angur, þegar ein Kona vandlæter um adra, og skammar hana fyrer hvørium Manne.

9. Nær nockur Madur hefur illa Konu, so er þad aamint sem (a) Olijk Yxn, þaug sem skulu draga saman, hvør hana fær, hann fær einn Scorpion.

(a) (Olijk) Þad er, Þaug verda sialldann rijk.

10. Druckinn Kona er mikel Plaaga.

11. Þviad hun kann sijn Lyte ecke ad hylia.

12. Lauslaata Konu þeckia Menn af hennar Ohæfersku Til-lite, og af hennar Augum.

13. Sie þijn Dotter ecke bliug, so halltu hana hardt, so hun fremie ecke sinn Motþroadann Vilia a medan hun er so frij.

14. Þegar þu merker þad hun litast dristuglega j kringum sig, so tak þad vel til Vara. Enn ef þu giører þad ecke, og hun brytur þar fyrer a moote þier, so laat þu þig þad ecke undra.

15. Lijka sem eirn Gøngu-Madur, sa þyrster, so maasar hun, og dreckur þad nærsta Vatn er hun fær, og setur sig a hvørn Stock hun finnur, og tekur vid þvi sem hun kann ad faa.

16. Ein þyd Kona gledur sinn Mann, og þegar hun skinsamlega med hønum umgeingur, endurnyar hun hans Hiarta.

17. Ein Kona su ed þeigia kann, er ein Guds Gaafa.

18. Ein vel vanenn Kona kann ecke ad verda bitolud.

19. Þar er eige neitt hier a Jordu lystelegra enn hæfersk Kona.

20. Og ei neitt kostulegra enn hreinlijf Kona.

21. Lijka sem Soolenn, þa hun kiemur upp a hæfum Himne DROttins, er ein Pryde, Lijka so er ein dygdasom Kvinna Pryde j sijnu Huse.

22. Ein Frijd Kona, su from blijfur, hun er so sem sa skiære Lampe, uppa hinum Helga (b) Liosa-Stiaka.

(b) Hann talar um Liosa-Stiakann j Moyses Lialldbud, og Stolpana.

23. Ein Kona sem hefur stødugt Sinne, hun er so sem sa Gullege Stoolpenn, uppa Silfur-Stoolnum.

# XXVII. Capitule.

24. Tveir Hluter eru þeir, sem mier mislijka, og sa hinn Þridie giører mig reidann.

25. Þegar Menn laata eirn Strijds-Mann med seinasta Faatækt þola, og Hygginn Raadanejti med seinasta forøktud verda, og sa sem fellur fra riettre Tru til rangrar Truar, þennann hefur GUd under Sverdid fyrerdæmt.

26. Eirn Kaup-Madur kann sijn trauðlega ad giæta fyrer Rangindum, og eirn Kramare fyrer Syndum.

XXVII. Cap: 1. Þviad fyrer Gots giora marger rangt, Og þeir sem Rijker vilia verda lijta fra (a) Augunum.

(a) (Augunum) Þad er, þeir hafa ecke Gaat a Samvitskunne, edur þeir giøra sier ønga Samvitsku.

2. Lijka sem eirn Nagle stendur j Murvegg a millum Tveggia Steina,

3. So og lijka stijngst Syndenn a millum þess er kauper og selur.

4. Geyme hann sijn ecke med Giætne j Otta DROTTins, þa mun hans Hus fliotlega nidurbrotid verda.

5. Þegar

5. Þegar Menn sigta, so bliifa Okloarendenn þar epter j, So og hvad sem Madurenn aaformar þar lodir aavallt nockur Saur vid.

6. Lijka so sem Ofnenn reyner nya Leir-Potta, So reyner Motgangurenn Mannsins Sinne.

7. Af Avextenum marka Menn hvornenn ad Tried er vaktad. Lijka so taka Menn til Marcks a Mœalenu, hvornenn hoattad er Hiartanu.

8. Ongvann skalltu losa aadur enn þu hefur heyrt hann, Þviad af Ordunum moattu kienna Mannenn.

9. Ef þu epter filger Riettlœtenu, muntu foa þad, og jklœdast þvi so sem vœnum Stacke.

10. Fuglarner hallda sig til sinna Lijka, so helldur Sannleikurenn til samans vid þa sem honum hlyda.

11. Lijka sem Leoned umsitur Broadena, so griipur Syndenn med seinsta Jllgiordamannenn.

12. Eirn Gudhrœddur Madur talar aavallt þad sem heilnœmt er, enn eirn Afglape umbreytest so sem Tungled.

13. Þa þu ert med heimskum Monnum, þa hugsa þu Hvad Tijmenn vill lijda, Enn a medal Vitra Manna moattu aframm hallda.

14. Heimskra Manna Tal er miog leidennlegt, og þeirra Hloatur er ecke nema Synd, og þeir (b) kitla sig þo sioalfa þar med.

(b) (Kitla) Þad giorer þeim Glede, ad þeir hryggia adra, og giora þeim Skada.

15. Hvar Menn heyra mikla Svardaga, þar stendur Hoared a einum andhœris. Og þeirra Kijf giorer þad, ad Menn verda fyrer Eyrunn ad hallda.

16. Nœr ed Dramblaater Menn deila sijn a mille, so filger Blods Uthelling þar epter, og þad er leidennlegt ad heyra þa þeir skammyrdast so.

17. Hvor leynda Hlute opinnberar, hann tapar Tryggdenne, og mun alldrei foa truann Vin.

18. Haf þinn Vin j Heidre, og halltu honum Tru.

19. Enn ef þu opinnberar hans leynda Hlute, þa fær þu hann ecke aptur.

20. Hvor hann misser sinn Vin, honum geingur ecke minna a mote enn þeim ed slepper sijnum Ovin.

21. Lijka sem þu loater lausann Fugl ur Hende þier, so er þad og, þegar þu fyrerlœtur Vin þinn.

22. Þu fær hann ecke aptur, þu þarft ecke ad hlaupa epter honum, hann er oflangt j burt, hann er burt hlaupinn so sem Villu-Dyr ur Nete.

23. Vid Soar meiga Menn binda, og Hroopyrde kunna Menn ad sætta,

24. Enn sa sem leynda Hlute opinnberar, med þeim er utgiort.

25. Hvor hann bender med Augunum, honum byr nockud Jllt j Skape, og lœtur ecke koma sier þar af.

26. Fyrer þier kann hann Fagurt ad tala, og losar miog þad sem þu talar, Enn a Bak þier talar hann annad, og umsnyr þijnum Ordum.

27. Eg em ongvum Hlut þvijlijkur Ovinur sem þessum, og DROTTenn er eirnenn hans Ovinur.

## XXVIII. Capitule.

28. Hvor ad Steine hoatt j Lopt kastar, j Hofud a þeim dettur hann, Hvor leynelega stijngur, særer sioalfann sig.

29. Hvor hann grefur Grofena sa fellur þar j sioalfur.

30. Hvor fyrer annann Snoruna leggur, sa fangar sig sioalfann.

31. Hvor hann vill odrum Skada giora, honum kiemur þad sioalfum yfer hans Hoals, so ad hann veit ecke hvadann hann kiemur.

32. Dramblaater Menn hœda og spotta, enn Hefndenn umsitur þa so sem eitt Leon.

33. Þeir

33. Þeir sem fagna þegar godum Mønnum geingur jlla, þeir munu verda j Snøru tekner, Hiartans Angur mun luka þeim aadur þeir deya. Reide og Grimmd eru Svijvirding, og O-gudrækenn Madur fremur þær.

XXVIII. Cap: 1. Hvør sijn sialfur hefner, a þeim mun DROTTenn aptur hefna, og honum eirnenn hans Synder aptur hallda.

2. Fyrergief þijnum Naunga, þad sem hann hefur misgiørt vid þig, Og bid sijdann, so munu þier og lijka þijnar Synder verda fyrergiefnar.

3. Eirn Madur helldur Reidinne vid annann, og vill leita Naadar hiaa DROttne.

4. Hann er Omiskunsamur vid sinn Lijka, og vill bidia fyrer siinum Syndum.

5. Hann er ei nema Holld og Blod, og helldur Heiptenne. Hvør vill honum þa hans Synder fyrergiefa?

6. Hugsa þu um Endann, og laattu Fiandskapenn fara,

7. Sem ad leitar Daudans og Fordiørfunarinnar, og blijf j Bodordunum.

8. Minnstu a Bodordid, og laat af þinne Hotan j giegn þijnum Naunga.

9. Minnstu a Saattmaala hins Hæsta, og fyrergief Faavitskuna.

10. Laat af Kijfe, so verda margar Synder epter.

11. Þviad Heiptugur Madur kveiker Deilur, og O-gudrækenn Madur sturlar gooda Vine, og hvetur hvørn j mots vid annann þeirra sem hafa goodann Frid.

12. Þegar mikell er Ellde-Vidurenn, þa verdur þess meire Elldurenn, Og þegar Menn eru Megtuger, verdur þvi meire Reidenn, Og þegar Menn eru Rijker, verdur Reidenn þess Heiptugre, Og þegar Þrætann leinge hellst, so brennur þad þess meir.

13. Ad vera fliotur til ad deila kveiker Elld upp, Og ad vera þrætugiarn utheller Bloode.

14. Blaaser þu a Gneistann, so verdur þar af mikell Elldur, enn ef þu hræker a Gneistann, þa slocknar hann, og hvorutveggia maa koma af þijnum Munne.

15. Sogvijser og jller Fals-Munnar eru Bølvader, þviad þeir sturla marga þa sem hafa godann Frid.

16. Jllur Munnur giører marga Menn sundurþycka, og rekur þa ur einu Lande j annad.

17. Hann brytur nidur sterkar Borger, og ruglar Hofdingiadomunum.

18. Vondur Munnur j burtrekur ærlegar (a) Konur, og ræner þær þvi øllu sem þær hafa safnad med miklu Omake.

(a) (Konur) Epter Moyses Løgmaale, þa Skilnadar-Briefenn gilltu, vard morg Kona saklaus utrekenn fyrer slijkar vondar Tungur.

19. Hvør honum hlyder hann hefur alldrei Hvijld, og kann hvørge j Fride ad vera.

20. Svipann giører Beniar, Enn jllur Munnur molar j sundur Bein og alla Hlute.

21. Marger hafa falled fyrer Sverds Eggium, Enn hvørge so marger sem fyrer vondre Tungu.

22. Sæll er sa sem geymdur er fyrer vondum Munne, og af honum er O-kvalenn, og eige þarf hans Ok ad bera, og ecke er bundenn j hans Snørum.

23. Þviad hans Ok er Jaarn, og hans Snørur af Eire.

24. Hans Plaaga er beiskare enn Daude, og verre enn Helvijte.

25. Enn þann sem Gud Ottast mun hann ecke underleggia, og ecke mun hann j hans Ellde brenna.

26. Hvør hann fyrerlætur DROTTenn, sa mun þar j falla, og þar inne brenna, og þad mun eige slockt verda, þad mun yferfalla hann so sem Leon, og uppeta hann so sem Pardus.

27. Þu girder um þitt Gots med Þyrnum, Hvar fyrer giører þu ecke miklu helldur Hurd og Grind fyrer þinn Munn?

28. Þu vegur þitt Gull og Silfur, Enn

hvar fyrer vegúr þu ecke og so þijn Ord med Gull-Viktinne?

29. Tak þier vara, ad þier verde ecke hoalt þar a, og faller fyrer þijnum Fiand-Mönnum sem þig umsitia.

# XXIX. Capitule.

Hvor sem loanar sinum Noaunga sa giorer Miskunar-Verk, Og sa sem hefur Audæfe skal so giora.

2. Loana þijnum Noaunga þa hann þarf þess med, og gialld ödrum þad og so aptur j áskvedenn Tijma.

3. Halltu þad sem þu talad hefur, og handtiera eige svikſamlega vid hann, so finnur þu alltijd þijna Naudþurft.

4 Marger meina þad sie so sem annar Fundur sem hann til Loans tekur, og giörer þeim til Ovilia sem hönum hioalpad hefur.

5. Hann kysser a Hondena a einum, a medann hann loanar hönum, og talar audmiuklega, saker Noaungans Peninga.

6. Enn þegar hann skal gialllda aptur, so frestar hann þvi, og ber sier, þad sie Dyrtijd.

7. Og þott hann meige alla reidu gialllda, giellldur hann varla Helminginn aptur, og reiknar hinum þad fyrer Avinning.

8. En formeige hann eige, so svijkur hann þinn um Peningana, sa hinn same hefur þa keypt sier Ovin med sijnum sioalfs Peningum.

9. Og hinn annar bitalar med Bölvan og Skammar-Yrdum, og giefur hönum Smoanar-Yrde fyrer Pock.

10. Margur loanar ogiarnann, ut af öngre Vondre Meiningu, helldur þad, ad hann ottast ad hann misse sitt.

11. Po sem oadur haf Polennmæde vid þinn Noaunga j Neydenne, og gior þa Ölmosuna, þar til ad þu ætlar hönum Tijma.

12. Hioalpa þu Foatækum fyrer Bodords sins skulld, og loattu hann j (a) Neydenne ecke fyniande fra þier fara.

(a) (Neydenne) Þad er, A medann hann er naudstaddur.

13. Tapa þu fusslega þijnum Peningum fyrer þijns Broдurs og Noaunga skulld, og graf þa ecke nidur under Stein, þar sem þeir onytast.

14. Safna þier Fiesiod epter Bodorde hins Hæsta, hann mun þier betre vera enn nockurt Gull.

15. Legg þu þijna Ölmosu j sierlegann (b) Stad, þad sama mun frelsa þig af allre Olucku.

(b) (Stad) Tel þu af þad þu hyggur ad giefa fra ödru Gotsenu, so sem Moyses kienner ad leggia afsijdis Tijundernar, og skilia fra þad sem þu villt ödrum til gooda giöra, So sem S. Paall seger 2 Cor: 9, 3. 4. 5.

16. Pad mun beriast fyrer þig j mote þijnum Ovin, betur enn nockur Skiolldur edur Spiot.

17. Eirn goodur Madur geingur j Borgun fyrer sinn Noaunga, enn sa sem ecke kann ad skammast sijn, hann lætur standa sijna Borgun.

18. Gleym ei Velgierd þijns Borgunar-Manns, þviad hann hefur sioalfann sig j Ved sett fyrer þig.

19. O-gudrækenn Madur kiemur sijnum Borgunar-Manne j Skada.

20. Og O-þackloatur Madur skilur vid sinn Borgunar-Mann.

21. Ad ganga j Borgun hefur marga Rijka Menn fordiarfad, og hingad og þangad kastad, lijka sem Sioafar-Bylgia.

22. Pad hefur megtuga Menn fordiarfad, so ad þeir hafa orded villt ad fara j framanda Lande.

23. Eirn O-gudrækenn Madur, ef hann hefur j Borgun geingid, og hefur Vifeleingiur j framme, ad hann kome sier þar undann, hann mun ecke sneida hioa Straffenu.

24. Hioalpa þijnum Noaunga ut, sem mest moattu, og sioa til fyrer þier, ad þu þar fyrer ei j Skada komer.

25. Pad næger til þessa Lijfs, hvor hann hefur

hefur Vatn og Braud, Klæde og Hus, þar með hann kann ad hylia sijna Þørf.

26. Lijtid Vidurlijfe under eigennlegu Fiala Þake er betra, enn kostulegt Bordhalld hiaa Framande Mønnum.

27. Lꝏt þier þad vel lijka hvort sem þu hefur mikid edur lijted, þviad þad er skammlegt Lijferne ad ganga Hus af Huse.

28. Og hvar eirn er okunnugur, þar þorer hann ei sijnum Munne upp ad luka.

29. Hann hlytur vid ad taka, og sierhvorn med sier drecka lꝏta, og ongva Þøck, þar fyrer ad hafa.

30. Auk þess hlytur hann ad heyra snorp Ord, sem er, Þu gestkomande Madur! Far þu burt, eg bu til Bords, lꝏttu mig eta med þier þad sem þu hefur!

31. Frammveigis, Far þu j burt, eg hefe feinged ærlegann Gest, Eg hlyt sialfur ad hafa Huss-Rum, Broder minn sæker mig heim.

32. (c) Slijkt er þungt skinsomum Manne, ad hann verdur fyrer Herbergianna skulld slijk Ord ad eta, og þa Mann bregdur honum um þad, þegar hann hefur lꝏnad honum nockud.

(c) Slijkt Skiedur og so þa sem taka til lꝏns, rijdast j miklar Byggingar, og annad, og hliota sijdann ad gleṡa þad upp vid adra.

## XXX. Capitule.

Hvor hann elskar sitt Barn, sa helldur hann þvi jafnann under Vondenn, so ad hann seirna meir af þvi Fognud hafe.

2. Hver hann helldur sijnu Barne j Aga, sa mun af þvi glediast, og þursa eige þess vegna sijn ad skammast, hiꝏ sijnum Kunningium.

3. Nær ed nockur Madur upptyftar sitt Barn, þad misslijkar hans Ovin, og gledur hans Vine.

4. Þviad þo Fader hans deye, so er þad sem hann sie ecke daudur, Þviad hann hefur sinn Lijka epter lꝏted.

5. Þa hann lifde sꝏ hann sijna Lyst, og hafde Fognud af honum.

6. Þegar hann deyde þurfte hann ecke ad sorga, Þviad hann hefur Verndar-Mann epterlꝏted j moote sijnum Ovinum, og þann sem Vinunum kann aptur ad þiona.

7. Enn sa hann er eflinur sijnu Barne, hann vor-kynner þess Beniar, og sturlast so opt sem þad grætur.

8. Eitt ogunarlaust Barn verdur ofyrerlꝏtsamt, so sem galenn Hestur.

9. Hampar þu Barne þijnu, so hlytur þu sijdar meir þad ad ottast, Leikur þu vid þad, so mun þig þad angra seirna meir.

10. Gamna þier ecke vid þad, so þu hlioter ecke med þvi sijdann hriggur ad vera, og med sijdarsta hlioter þu þijnum Tonnum ad gnijsta.

11. Lꝏt þad ecke hafa sinn Vilia j Ungdomenum, og afsaka ecke þess Heimsku.

12. Sveig þu hans Hꝏls a medann hann er ungur, so hann verde þier eige Hardsvijradur, og ohlydenn. Og ber þu hans Hrigg a medann hann er lijtill.

13. Tyfta þitt Barn, og lꝏt þad eige jdiulaust vera, so þu eige þess vegna til Smꝏnar verder.

14. Þad er einum betra, ad hann sie Fꝏtækur, haustur, og Heilbrigdur þar med, helldur enn Rijkur og Vanheill.

15. Heilbrigdur og hraustur ad vera, er betra enn Gull, og Heilbrigdur Lijkame betre enn mikel Audæfe.

16. Eingenn Rijkdomur er Heilbrigdum Lijkama samjafnande, Og eingenn Fognudur lijkur Hiartans Fognude.

17. Daude er betre enn siukt Lijf, eda jduglegur Krankleikur.

18 Þad er so sem godur Riettur fyrer þeim Munne sem ecke gietur etid, og so sem sa Matur sem Menn setia vid Dauds Manns Grøf.

19. Þvi til hvors Gagns er Skurgodunum Offrid? Þaug kunna hvorke ad eta nie þefa. So er lijka þeim Rijkum Manne sem Gud kreinker.

20. Hann sier þad vel med Augunum, og andvarpar þar epter, Og er so sem annar Gielldingur, sa er liggur hia eirnre Pijku, og andvarpar.

21. Gior þig sialfann ecke hriggvann, og kvel þig eige sialfur med þijnum Hugrenningum.

22. Þviad gladt Hiarta er Mannsins Lijf, og hans Fognudur er hans Langlijfe.

23. Gior vel vid þig, og hugga þitt Hiarta, og rek Hriggdena langt fra þier.

24. Þviad Hriggdenn drepur margann Mann, og er þo ad (a) øngvu nyt.

(a) (Øngvu) Hun duger til einkis, og bæter um eckert, Hvad skal Madur þa med hana giora?

25. Vandlæting og Reide stytter Lijfs-Dagana, og Ahyggiann giører Mann gamlann fyrer Tijmann.

26. Eitt gladværu Hiarta smackar allt vel, sem þad etur.

## XXXI. Capitule.

Ad vaka epter Audæfum, fortærer Holldenu, og Ahyggiu þar fyrer ad hafa, bannar ad sofa.

2. Þegar nockur liggur med Ahyggiu, so vaknar hann opt, lijka sem mikel Soott jafnann uppvekur.

3. Sa er Rijkur sem ad arfidar, og dregur samann Peninga, og hætter vid, og neyter þeirra eirnenn.

4. Enn sa er Fatækur sem erfidar, og þrijfst ecke, og þegar hann hætter vid, þa er hann þo Ølmosu-Madur.

5. Hvør hann elskar Peninga, sa blijfur ecke ann Syndar, og hvør hann leitar forgeingelegra Hluta, mun þar med tapast.

6. Marger koma fyrer Peninga Saker j Fall, og fordiarfast þar af, fyrer þeirra Augum.

7. Þa sem honum (a) offra þeim nidur steyper hann, og þad Hertekur hina Ofor-sialu.

(a) (Offra) Þeir sem þiona Mammon, so sem S. Páll og seger, ad Agirnd sie Skurgoda-Dijrdkan, og hiner Agirndar-fullu eru Mammons Prestar og Þienarar.

8. Sæll er sa Rijkur sem finnst Ostraffanlegur, og ecke leitar Peninga.

9. Hvør er sa? Þa vilium vier hann lofa, Þviad hann giører mikla Hlute medal sijns Folks.

10. Sa j þessu verdur reyndur, og fundenn Riettferdugur, hann verdur maklega lofadur.

11. Hann matte illt giora, og giørde þad þo ei, og Skada giora, og giørde hann ei, Þar fyrer helst hans Gots, og hiner Heilogu prijsa hans Ølmosu.

12. Þa þu situr vid Rijkis Manns Bord, so rek ecke j sundur þitt Gin.

13. Og hugsa ei, Hier er mikid ad eta.

14. Hugsa þu helldur, ad eitt Otrutt Auga er Øsundar-fullt.

15. (Þviad hvad er Øsundsiukara enn þvilijkt Auga?) Og æper þegar þad sier til teked.

16. Tak ecke til alls þess sem þu sier, og tak ecke þad sem liggur fyrer honum a Diskenum.

17. Tak þu Mark a sialfum þier, hvad þinn Naunge giarnan, edur ogiarnan hefur, og hallt þig skinsamlega um alla Hlute.

18. Et so sem eirn (b) Madur, af þvi sem framm fyrer þig er sett, og et ei ofmiked, so Menn greiniest þier ecke.

(b) (Madur) Ecke so sem Svijn.

19. Fyrer Hæversku Skulld hættu Firstur, og vert ecke osediannlegur Svelgur, so þu faaer øngvann Ovinskap.

20. Þegar þu situr hia Morgum, so tak þu ei firstur til.

21. Eirn sidsamur Madur lætur sier nægia med lijtid, þar fyrer þarf hann j Sængenne ecke so ad stynia.

22. Og þegar Kvidurinn er so hooflega halldenn, þa sofa Menn hægt, So kann eirn ad Morgne snemma up ad standa, og fer fijnlega med sialfum sier.

23. Enn eirn grœdugur Matar-Svelgur fesur o-vært, og fær Idra-Verke og Innanntokur.

24. Nær þu hefur etid ofmiked, so rijs upp, gack j burt, og legg þig til Hvijldar.

## XXXII. Capitule.

25. Barn mitt! Hlyd þu mier, og forsmaa mig ei, so ad med seinsta hitte ei mijn Ord uppa þig.

26. Legg þu nockud fyrer þig ad idia, so underleggur þig ei neirn Krankleike.

27. Eirn Matar-milldann Mann lofar Allþydann, og segia hann sie Ærlegur Mann, og slijkt er godur Prijs.

28. Enn af eirnum Briost-Leysinge talar allur Stadurenn jllt, og Menn segia þad Rett.

29. Vertu eingenn Vijn-Svelgur, þviad Vijned fyrerkiemur morgum Monnum.

30. Aflenn reyner allra-handa Iarn, so reyner Vijned Forsug Hiortu, þa þaug eru Druckenn.

31. Vijned nærer Mannsins Lijf, ef Menn drecka þad med Hoofe.

32. Og hvad er þetta Lijf, þar Vijn er ecke? Vijn er skapad til þess, ad þad skal giora Mann gladann.

33. Og Vijn, epter Þorf drucked, gledur Lijf og Saal.

34. Enn ef Menn drecka þad ofmiked, aflar þad Hiartans Trega.

35. Ofdryckiann giorer galenn Afglapa enn galldara.

36. Ad hann troatsar og skvalldrar, allt þar til hann verdur barenn, sleigenn, og særdur.

37. Skammyrdtu ecke þinn Naunga vid Vijndruck, og veit honum ongva Hædne j hans Fognude!

38. Gief honum eingenn vond Ord, og giegn honum ecke med hordum Ordum.

XXXII. Cap: 1. Helldur hallt þig lijka sem þeir.

2. Og hegda þier epter þeim, so situr þu riett.

3. Og gief þar til þad þier ber, vilier þu og med sitia, so ad þeir meige vid þig glader vera, og þu faaer þar af Heidur, og Menn kalle þig sidsamann, og Vingiarnlegann Mann.

4. Hinn Elldste skal tala, Þviad honum heyrer þad, sem þeim ed Forsoktur er.

5. Og hindra ecke Spil-Mennena.

6. Og þa Menn kveda Vijsur, þvættu ecke þar framm j, og spara þinn Froodleik til þess j annann Tijma.

7. So sem eirn Rubin lyser i fogru Gulle, so pryder Saungurinn Giesta-Boded.

8. Og so sem Smaragdus stendur j fogru Gulle, so er Vijsna-Saungurinn Pryde hiaa godu Vijne.

9. Eitt Ung-Menne maa vel tala eirn Tijma, eda Tvisvar, þegar honum er þess Þorf.

10. Og þa Menn spyria hann, skal hann segia sneggt framm.

11. Og laate sem ecke vite hann margt, og þeige helldur.

12. Og skal ei telia sig jafnann Herranum, og nær alldradur Madur talar, þa hann skal ei tala þar framm j.

13. Reidar-Þrumur giora miklar (a) Elldingar, Blyngleike giorer stoora Hylle.

(a) (Elldingar) Elldinginn giorer snøgglega allt biart undann Þrumunne, so giorer Blingleike snøgglega Unnustu hiaa hvørium Manne, þvi oll Verolldenn elskar þad Ung-Menne sem er Blygdunarsamt. Þar j moot hatar oll Verolldenn Blygdunarlausann Ungdoom.

14. Stattu upp j Tijma, og ver ei hinn seinaste.

15. Far þu helldur fliott heim, og leik þier þar, og gior hvad þu villt, þo so, ad þu giorer ecke neitt Illt, og deiler vid (b) ongvann.

(b) (Ongvann) Þad er, Slaa ecke þitt Heima-Folk og Eigenn-Konu, helldur leik, þad er, vert gladur vid þaug.

16. Þacka helldur fyrer allt Þeim sem þig skapad

ſkapad hefur, og med ſijnum Audæfum ſad-dann hefur.

## XXXIII. Capitule.

17. Hvor hann Ottaſt DROTTenn ſa lætur ſier giarnan ſegiaſt, og hvor ſier ſnemma þar til helldur, mun Raad finna.

18. Hvor hann grenſlaſt epter Guds Orde, ſa mun þad nooglega ødlaſt. Enn ſa ſem þad meinar ecke med Alvøru, verdur ei utann verre þar fyrer.

19. Hvor hann ottaſt DROTTenn, ſa hitter riettann Lærdom, og hann lætur Riett-læted lyſa ſo ſem Lios.

20. Eirn O-gudrækur Maann lætur ſig ecke aavijta, og veit ſier ad hiaalpa med annara Manna (a) Dæmum, j ſijnum Aſetninge.

(a) (Dæmum) Eg ſie ecke, ad þeim gange miøg ſo jlla, ſem forakta þo Guds Ord, Jaa, þeſs verre Skalkur, þeſs betre Lucka.

21. Eirn ſkinſamur Madur forſmaaer ei good Raad, Enn eirn galenn Madur og Drambloatur ottaſt eckert.

22. Po hann hafe og giørt hvad hann villde.

23. Giør ecke Neitt utan Raad, ſo jdrar þig þeſs ecke epter Verked.

24. Gack ei þann Veg, ad þu meiger falla, eda þad þu meiger þig a Steinum meida.

25. Treyſtu eige þar a, ad Vegurinn ſie (b) Sliettur, Jaa, vara þig og eirnenn fyrer þijnum eigenn Børnum.

(b) (Sliettur) Þad ſyneſt riett ſem vonder gange a eirnre ſamann Hamingiunne, enn med ſeinſta ſtey-per þeirra Vegur þeim j Afgrunned.

26. Hvad ſem þu uppbyriar, treyſtu Gude af øllu Hiarta, þviad þad er Guds Bodord ad hallda.

27. Hvør hann truer Guds Orde, hann aktar Bodordenn, og ſa ſem treyſter DRott-ne, þeim mun einſkis vant.

XXXIII Cap: 1. Hvør hann Ottaſt DRot-t nn, hann mun ecke neitt Vondt ſkie, helldur þegar hann verdur freiſtadur ſo mun hann aptur frelſtur verda.

2. Eirn vitur Madur lætur ſier Guds Ord ecke vera leidegiarnt, enn eirn Hræſnare rig-gar, lijka ſem Skip a okirrum Sio.

3. Eirn Skilnings-fullur Mann helldur faſt a Guds Orde, og Guds Ord er honum viſt lijka ſem lios Ræda.

4. Vertu vijs Efniſins, og tala þar ſij-dann af. Laattu firſt undervijſa þier vel, ſo kanntu ad ſvara.

5. Faavijſs Manns Hiarta er ſo ſem Hiool a Vagne, og hans Hugſaner hlaupa um kring lijka ſem Hiool-Vinda.

6. Lijka ſo ſem Stood-Heſturin nhneggiar j moote øllum Hroſſum, ſo ſamlagar (c) Hræſnarinn ſig øllum Haadgiørnum Mønnum, og ſeger,

(c) (Hræſnarinn) Er Meiſtare Skaalfvitur, hann vill vera ſkarpvitur j Skriftenne, og ſpyr ad, Hvar fyrer þad og þad verde kennt? Hvar fyrer eirn Dagur verdur helldur helgur, enn annar ecke? Hvar fyrer Vatns Skyrnenn er ſtiftud fyrer Saalena? Hvar fyrer Brand og Vijn ſkulu vera Chriſti Lijkame og Blood?

7. Hvar fyrer er eirn Dagur heilagre enn annar, þar ad Soolenn giører ſo vel eirn Dag j Aarenu ſem annann?

8. Vitſka DROTTins hefur þa ſo ſun-dur greindt.

9. Og hann hefur Aartijder ſo ſkickad, og Helga-Daga.

10. Hann hefur ſuma utvaled, og helgad fyrer ødrum Døgum.

11. Lijka ſo ſem aller Menn af Jørdunne, og Adam af Jardar-Leir er ſkapadur.

12. Og þo hefur DROTTinn þa ſun-dur greindt, epter ſijnum margfølldum Vijs-dome, og hefur margſkins Haattu þeirra a medal ſkickad.

13. Nockra hefur Hann bleſſad, hafed og helgad, og til ſinnar Þionuſtu krafed, enn ſumum hefur Hann bølvad og nidrad, og fra þeirra Stiett þeim kollvarpad.

14. Þviad þeir eru j Hans Hende, ſo ſem Leirenn j Leirkera-Smidſins Hende, Hann giører øll ſijn Verk ſem Honum lijkar

15. Lij-

15. Lijka so eru og Mennerner j Hende Þess sem þa hefur giort, og giefur sierhvorium epter þvi sem Honum gott synest.

16. So er þad Goda j giegn Illu skipad, og Lijfed j giegn Daudanum, og Gudhræddur Madur j moote Ogudhræddum. Lijttu a øll Verk hins Hærsta, so er jafnan Tvennt j moote Tvennu, og eitt ødru j moot sett.

17. Eg er (d) Seinastur Uppvaknadur, sem nockur sa ed epter les a Haust-Tijma, og Gud hefur mier þar til Blessan giefed, ad eg hefe og so mijna Vijn-Þrugu uppfyllt, lijka sem a fullu Hauste.

(d) (Seinastur) Eg hefe giefed gott Svar uppa þvilijka Heimskra Manna Spurning um Helga Daga.

18. Siaaed! Hvørsu eg hefe eige fyrer mig arfidad, helldur fyrer alla þa sem giarnann villdu læra.

19. Hlydeð mier þier Stoor-Herrar! Og þier Stiornendur a medal Folksins! taked þad til Hiarta.

20. Lꝍat Sonenn, Eiginn-Konuna, Brodurenn, og þier Skylldann, øngva Magt yfer þier hafa a medann þu lifer, og yfergief øngvum þijna Eign, so ad þig idre þess ecke, og hlioter þu þau þar um ad bidia.

21. A medann þu lifer, og hefur Anda, so undergief þig øngvum Manne.

22. Þad er betra ad þijn Børn þurfe þijn vid, helldur enn þu hlioter þeim j Hendur ad siaa.

23. Vertu Hofdinge j þijnum Audæfum, og lꝍat þinn Heidur ecke fra þier taka.

24. Þegar ad kiemur þitt Enda-Dægur, Ad þu hlytur þadann j burt fara, skiptu þa þijnum Arfe.

25. Asnanum heyrer sitt Fodur, Svipa, og Byrde, so og Þrælnum sitt Braud, Stroffun og Erfide.

26. Halltu Þræle þijnum til Erfidis, so hefur þu Road fyrer hønum, Enn lꝍater þu þann vera idiulausann, so vill hann vera eirn Jonkiære.

27. Ok og Bønd beygia Hꝍalsenn, enn Vondann Præl Stockur og Keyre.

28. Rektu hann til Erfidis, ad hann gange ei idiulaus.

29. Idiuleyse kienner margt illt.

30. Legg a hann Erfide, þad einum Præli tilheyrer, Hlydet hann enn þa eige, so set hann j Stock. Enn þo legg þu ecke a neirn ofmikid, og hallt Hoofe um alla Hlute.

31. Hafer þu nockurn Þienara, so vernda þu hann sem sialfann þig, Þviad hvor hønum giører vondt, hann meinar þinn Lijkama og Lijf, Hafer þu eirn Þienara, so lꝍattu hann halldast, sem þu værer þar (e) sialfur, Þviad þu þarft hans vid, so sem þijns eigenn Lijfs.

(e) (Sialfur) So ad þad annad Heimilis Folk meige hallda hans Ord fyrer þijna Skipun.

32. Enn ef þu helldur hann illa, so hann tekur sig upp, og hleypur fra þier, Hvørt villtu hans þa leita?

## XXXIV. Capitule.

Faavijst Folk svijkur sig sialft, med Heimskulegre Von, og Heimsker Menn treysta uppa Drauma.

2. Hvør a Draumunum tekur vara, hann grijpur epter Skugganum, og vill høndla Vindenn.

3. Draumar eru ecke utann Mind ꝍan Veru.

4. Þad (a) Ohreint er, Hvørsu mꝍa þad hreint vera? Og hvad Osatt er, hvørsu kann þad satt ad vera?

(a) (Ohreint) Draumarner eru falsker og ohreiner, Hvad Heilagt edur Gott skylldu þeir þa giora?

5. Eiginn Spaadoomur, Þydingar, og Draumar eru eckert, og giora þo einum þungar Hugsaner.

6. Og ef þeir koma ecke fyrer Innblaastur hins Hærsta, so halltu þar ecke ut af.

7. Þviad Draumar svijkia marga Menn, og bregdast þeim sem þar uppa byggia.

8. Menn þurfa ecke (b) Lyga vid, til þess ad Menn hallde Bod-Ordenn, Og

Guds Ord maa nægia, þegar Menn vilia riett kienna.

(b) (Lyga) Þu þarft ecke ad spyria Draumanar ad, hvad gott þu skuler giora, þu hefur Guds Ord.

9. Eirn vel reyndur Madur skilur margt, og eirn vel forsoktur Mañ kañ um Vitsku ad tala.

10. Enn hvor oforsoktur er, hann skilur lijtid.

11. Og þeir villu-farande Andar koma upp miklu Illu.

12. Þegar eg var enn j Villunne vafenn, kunne eg og so margt ad kienna, og var so Lærdur, ad eg kunne þad eige allt ad segia.

13. Og em optlega j Daudans Haaska þarfyrer komenn, allt til þess eg er þar af frelsadur ordenn.

14. Nu sie eg, ad Gudhrædder Menn hafa riettelegann Anda.

15. Þviad þeirra Von stendur til Hans sem þeim kann ad hialpa.

16. Hvor hann ottast DROttenn, þarf fyrer ongvu ad skielfast, nie hræddur ad vera, Þviad Hann er hans Traust.

17. Sæll er sa sem ottast DROTTenn.

18. Uppa hvad forlætur hann sig? Hvort er hans Traust?

19. Augu DROttens sioa yfer þa sem Hann elska, Hann er Volldugur Verndare, Stoor Stirkur, og Hlijfd j moti Hitanum, Ein Tialldbud j moote Hita Middagsins, Eirn Geymare j moote Rosunenne, Ein Hialp j moote Fallenu.

20. Hvor ed fagnande giörer Hiartad, og gladt giörer Andlited, og giefur Heilbrigde, Lijf og Blessan.

## XXXV. Capitule.

21. Hvor hann offrar af rangfeingnu Gotse, þess Offur er Spott. Enn soddann Hæpne Ogudrækinna lijkar Gude alls ecke.

22. Gaafur Ogudlegra þocknast ongvann eigenn hinum Hærsta, Og Syndernar laata sig med morgum Offrum ecke forlijka.

23. Hvor hann færer Foorn af Eigu Fatæks Manns, hann giorer aamint sem sa ed fyrer Fodursins Augum slaatrar Synenum.

24. Hinn Fataæke hefur ei nema lijtid Braud, hvor þad af honum tekur sa er Manndraapare.

25. Hvor hann tekur fra odrum hans Næring, hann drepur sinn Naunga.

26. Hvor hann giefur eige Arfidis Mannenum sijn Laun, sa er Blood-Hundur.

27. Þegar nockur (a) bigger upp, og þad sama nidur aptur brytur, hvad hefur hann þar meira af enn Erfidid?

(a) (Bigger) Þeir vilia Offra og fromer vera, og laata þo ecke af Syndunum, þad kallast undereins upp ad biggia, og nidur ad briota, bidia og bolva.

28. Þegar nockur bidur, og aptur ad nyu bolvar, Hvorsu skal DROTTenn hann heyra?

29. Hvor hann þvær sier epter þad hann hefur snorted Daudann Mann, og snerter hann aptur ad nyu, hvad hialpar honum hans Þvottur?

30. So er sa Madur sem saker Synda sinna fastar, og syndgar jafn-opt aptur, Hvor skal hans Bæn heyra? Og hvad hialpar honum hans Fasta?

XXXV. Cap. 1. Guds Bod-Ord ad hallda, þad er eitt rijkt Offur.

2. Guds Bod-Ord mikils ad akta, þad Offur hialpar vel.

3. Hvor hann þackar Gude, þad er su rietta Simliu-Foorn.

4. Hvor Miskun fremur, þad er riett Þacklæti Offur.

5. Ad laata af Syndunum þad er Guds Þionusta, su ed DRottne lijkar. Ad giefa upp oriett ad giora, þad er riettelegt Fridþægingar Offur.

6. Enn þar fyrer skalltu ei (b) Tomhendtur birtast fyrer DROTTne.

(b) (Tomhendtur) Lijka sem þeir segia, Ef Good-Verkenn hialpa ei, so vilium vier eckert giora. Til hvors skulu oss Prestar?

7. Þviad

7. Hviad slijkt hlytur Mann ad giora fyrer Guds Bod-Ords Skulld.

8. Riettlaats Manns Offur giörer Alltarid audugt, og þess Offurs Ilmur er sætur fyrer þeim Hæsta.

9. Riettferdugs Manns Offur er þægelegt, og þvi sama verdur alldrei gleymt.

10. Gief þu GUde sijna Dyrd med glödum Augum, og þinn Firsta Grooda fyrer utann allann Brest.

11. Hvad þu giefur, þad gief fuslega, og helga þijnar Tijunder gladlega.

12. Gief þu hinum Hæsta, eptir þvi sem Hann hefur þier veitt, og hvad þiju Hond formaa, þad gief þu med glödum Augum.

13. Hviad DROttinn, sem er einn Endurgialldare, mun þier þad Siöfalldlega endurgiallda.

14. Taktu ei af þinne Goasu, Hviad þad er oþægelegt.

15. Leita ongrar Fordilldar þa þu skallt offra, Hviad DROttenn er Hegnare, og fyrer Honum gillder eckert aalit Personanna.

16. Hann hiaalpar Faatækum, og aalijtur ongvar Personur, og Hann heyrer Bæn þess er Oriettenn [illegible].

17. Hann forsmaaer ei Bæn hins Fodurlausa, nie helldur Eckiunnar, þa hun klagar.

18. Taarenn Eckiunnar renna vel ofann epter Vongunum, enn þau kalla upp epter, a moote þeim sem hana utrekur.

19. Hvor GUde þionar med Godfyse, hann er þægelegur, Og hans Bæner taka allt upp j Skijenn.

20. Bæn Aumra Manna þreynger sier j gegnum Skijenn; og hætter ecke fyrr enn hun framm kiemur, og giefur ecke upp, allt til þess ad Sa hinn Hæsste þar a sijtur.

21. Og DROTTenn mun riett dæma, og straffa, og þad eige undann draga, nie aleingdar lijda, þar til Hann j sundurslær Lendar Omiskunsamra.

22. Og hefner sijn a slijkum Monnum, og afmaaer alla þa sem hinum Mein giora.

23. Og steypper Vallde Rangloatra, og gielldur hvorium epter sijnum Verkum, og launar þeim so sem þeir hafa verdskulldad.

24. Og hefner sijns Folks, og gledur þad med sinne Miskunsemi.

25. Lijka sem Regnid kiemur vel, þa þurt er, so kiemur Miskunseme j Neydenne a riettum Tijma.

## XXXVI. Capitule.

Almaattugur GUd DROTTenn!

2. Miskuna Þu oss, og sioa þar til, og skielf allar Þioder!

3. Upphef Þijna Hond yfer þa enu annarlegu, ad þeir sioae Þijna Magt!

4. Lijka so sem Þu fyrer þeirra Augum, Helgadur verdur hioa oss, So tioa Þu Þig herlegann a moote þeim, fyrer vorum Augum.

5. So ad þeir kunne ad þeckia, lijka sem vier þeckium, ad Einginn er annar GUd, enn Þu DROTTinn!

6. Gior ny Teikn og ny Furdu-Verk.

7. Audsyn Þijna Hond, og Þinn Hægra Arm dijrdlegann.

8. Uppreis Þijna Grimmd, og uthell Reidenne, snara j burt Motstandaranum, og sundurmer Ovinenn.

9. Og flyt Þier þar med, og minnstu a Þijn Sære, so ad Menn prijse Þijnar Doadsemder.

10. Reide Logans svelgie þa, sem so lifa athugalauser, og ad þeir sem Þijnu Folke Mein giora, hliote ad fordiarfast.

11. Sundurmola Høfud Høfdingianna, sem eru vorer Ovinir, og segia, Vier erum (a) alleina.

(a) (Alleina) GUd er Eckert.

12. Samannsafna ollum Ættkvijslum Jacobs, og laat þær vera Þijna Erfd, lijka sem af Upphafe!

13. Miskuna Þu Lyd Þijnum, þeim af

þier hefur Nafn, og Israel, þann Þu kallar Þinn Frumgetenn Son.

14. Miskuna Þu Borgenne Jerusalem, þar Þinn Helgedomur er, og þar Þu bijr.

15. Reis Þu Zion upp aptur, so ad j þeim sama Stad Þitt Ord ad nyu uppgange, ad Þijn Dyrd a medal Lydsins verde mikel.

16. Audsyn Þig vid þa, sem verid hafa fra Upphafe Þijn eiginn Eign, Og uppfyll þær Spaasøgur sem j Þijnu Nafne bodadar eru.

17. Gialld Þu þeim sem uppa Þig vænta, so ad Spaa-Menn Þijner finnest Sann-Order.

18. Heyr Þu DROTTenn! Bæner þeirra er Þig aakalla, epter Blessan (b) Arons, yfer Þijnum Lyd, so ad aller þeir sem a Jordu byggia vidurkienne, ad Þu DROTTenn ert Eylijfur GUD!

(b) (Arons) So sem stendur j Numeri 6. Ad þeir skyllde blessa Lydenn j Guds Nafne.

## XXXVII. Capitule.

19. Kvidurenn tekur Allskonar Fædu til sijn, þo er ein Fæda betre enn onnur.

20. Lijka sem Tungann Villebraads-Riettenn smackar, so merker skinugt Hiarta folsk Ord.

21. Eirn Þrettvijs Mann kann einum j Olucku ad koma, Enn sa sem er Forsoktur veit sig þar fyrer ad vakta.

22. Mædurnar hafa alla Sonu kiæra, Enn þo farnast stundum betur med eina Dottur enn Son.

23. Ein frijd Kona gledur sinn Mann, og Madurenn hefur ongvann Hlut elskara.

24. Og sie hun þar med aastudleg og good, so finnst ecke þess Manns Lijke.

25. Hver eina Hus-Fru hefur, hann færer framm sijna Eigu, og hefur trua Hialp, og Stod sem hann maa uppa treysta.

26. Hvar einginn Gardur er, þar eydest Gotsed, og hvar eingenn Hus-Fru er, þar vegnar Bondanum riett sem fære hann villt.

27. Lijka sem Menn trua ecke Reyfaranum, er lædist fra einum Stad til annars, so trua Menn og ei þeim Manne, sem ecke neitt Hreidur hefur, og fara verdur til Herbergis hvar sem hann kvolldar uppe.

XXXVII. Cap. 1. Sierhvor Vinur seger vel, Eg er og so Vinur, Enn nockrer eru alleina ad Nafne Viner.

2. Þegar Viner verda sijn a millum Oviner, so varer su Reide allt til Daudans.

3. Æ! Hvadann kiemur su Vondska, ad oll Verolldinn er so full af Falskleik?

4. Þegar Vinenum vel geingur, so fagna þeir med honum, Enn þegar honum geingur jlla, so verda þeir hans Ovinir.

5. Þeir harma med honum fyrer Buksins Skulld, Enn þegar Neydenn ad fer, laata þeir (a) Skiolldinn hlijfa,

(a) (Skiolldenn) Hvar þeir vita sig ohrædda, og j goodre Hylle, hvort sem það er Gilde med, eda moote.

6. Gleym eige þijnum Vin, þa þu ert gladur, og hugsa þu til hans þa þu ert Rijkur.

7. Sierhvor Raadgiafe vill Raad giefa, Enn sumer raadleggia sier til eigenn Gagns.

8. Þar fyrer vara þig vid þeim Raadgiafum, hugsa þu aadur, Hvort það er nytsamlegt.

9. Maa vel skie, ad hann hugse sier sialfum ad raadleggia, og vill laata þig a hætta, og seger, Þu ert a þeim rietta Vege, og hann stendur ecke ad sijdur a moote þier, og gaumgiæfer hvornenn það vill raadast.

10. Haf þu einginn Raad vid þann sem Anka a þier hefur, og tak þa eige þier til Raadgiafa sem þig hata. Lijka sem þa þu raadgast um vid nockra Konu, hvorsu Madur skal vera vingiarnlegur vid hennar Ovin-Konu, Elleaar vid Ragann Mann, hvorninn beriast skal.

11. Eda vid eirn Kaupmann, hvad mikid hann

hann vill reikna þijna Voru hioa sinne, edur vid eirn Kaupanda, hvorsu dyrt þu skuler selia, Edur vid eirn Nijding, hvornenn Madur skal giora gott af sier, Edur vid eirn omiskunsamann Mann, hvornenn Mann skule Road syna.

12. Edur eirn Letingia um mikid Stark, edur eirn Leigu-Dreing, sa hvorge hefur Heimile, hvorsu trulega Mann skal vinna sitt Verk, Edur eirn latann Vinnu-Mann um mikla Utvegu.

13. Leita eige Roads vid soddann Folk.

14. Helldur hallt þig jafnann til Gudhræddra Manna, þeirra sem þu veist Guds Bod-Ord hallda.

15. Þeir Sinnader eru so sem þu ert, þeir ed med þier samharma, ef ad þu rasar.

16. Og haf þu þeirra Road, þvi þu munt eckert betra Road finna.

17. Og einn þvilijkur Madur kann optsinnis betur ad sioa nockud, enn Sio Vardhallds-Menn er sitia uppa Vakt.

18. (b) Þo j ollu þessu aakalla og so hinn Hærsta, ad hann þijnar Giorder vel greide, og eige bregdast loate.

(b) (Þo) Þad er ecke nøog ad hafa good Road, Gud verdur og so ad leggia Luckuna þar til, annars hafa þaug ecke Frammgang, þvi hann vill og vera med, og verda aakalladur, þad er so mikid, ad Bænarinnar eru good Road eckert Road, Mannanna eigenn aaform geingur aptur a Bak, þesser eru þeir sem mikid Roadslag hafa, og hafa þo ongva Road þar til.

19. Adur enn þu byriar nockud, so spyrstu fyrer, Og aadur enn þu giorer nockud, haf þar Road vid.

20. Þviad hvar sem Menn hafa nytt fyrer Hende, þar hlytur eitt af Fiorum ad skie, ad þad verde gott edur jllt, ad Lijf edur Daude þar af kome, og þessu ollu styrer Tungann ætijd.

21. Margur er vel skickadur til odrum Monnum Road ad leggia, og er sier sioalfum eintis nytur.

22. Margur vill kloklega Road leggia, og Menn heyra honum þo ecke giarnann, og blijfur þurfande.

23. Þviad hann hefur þar ecke Road til af DROTTne, og eingenn Vitska er j honum.

24. Margur er vijs af eigennlegre Reynslu, hann giorer Gagn med sijnu Roade, og finnur riett uppa.

25. Eirn Hyggenn Madur kann ad undervijsa sijnu Folke, og hann giorer Gagn med sijnu Roade, og aahitter þad Riett.

26. Eirn Vitur Madur verdur miog Lofadur, og aller þeir sem hann sioa prijsa hann.

27. Hvor og eirn Madur hefur aakvedinn Tijma til ad lifa, Enn Israels Tijme hefur ongva Tolu.

28. Eirn Hygginn Madur hefur hioa sijnu Folke mikid aalit, Og hans Nafn varer æfinnlega.

## XXXVIII. Capitule.

29. Mitt Barn! Profa hvad heilnæmt er þijnu Lijfe, og sioa hvad þvi er oheilnæmt, þad gief þu ecke.

30. Þviad Allskonar þienar ecke hvorrium Manne, so hefur og eige hvor Madur Lyst til Alls.

31. Of-fyll þig eige af Allskonar lystelegre Fædu, og neyttu ecke grdaduglega.

32. Þviad miked aat giorer Siukleik, og Ofediannlegur Atmadur fær Innanntokur.

33. Marger hafa sig til Dauds eted, enn sa sem hoofsega etur, lifer þess leingur.

XXXVIII. Cap: 1. Heidra Læknarann, med tilheyrelegum Heidre, so þu hafer hann þier vijsann j Naudsyn.

2. Þviad DROTTinn hefur skapad hann, og Læknings-Listenn kiemur af hinum Hærsta, og Kongarner heidra hann.

3. Listinn Læknersins upphefur hann, og giorer hann mikenn hioa Hofdingium og Herrum.

4. DROTTenn lætur Lækningena af Jordunne vaxa, og eirn skinsamur Madur foraktar hana ecke.

5. Vard þo þad beiska Vatnid sætt af einu Trie, so ad Menn skyllde þeckia þess Krapt.

6. Og Hann hefur slijka List Mønnum giefed, so ad hann verde dijrdkadur fyrer sijnar Daadsemder.

7. Þar med læknar hann, og j burt drijfur Saarindinn, og Apotekerenn giører þar af Læknis Lijf.

8. Snøggt ad segia, GUds Verk kunna Menn ei øll ad greina, og Hann giefur allt þad Gott sem a Jordunne er.

9. Mitt Barn! Fyrerlijt þad ei þa þu ert siukur, bid þu helldur DROTTenn, þa mun hann lækna þig.

10. (a) Laattu af Syndum, og giør Hendur þijnar ostraffanlegar, og hreinsa Hiarta þitt af allre Misgiørd.

a) (Laattu af) Þad er, Giør First Idran, þar næst laat þu bidia fyrer þier, og j Þridia Maata neyttu Læknersins.

11. Offra Sætann Ilm, og Similiu til Minnis-Foornar, og gief þu feita Foorn, riett sem eiger þu hiedann.

12. Sijdann laattu Læknarann koma til þijn, Þviad DROTTenn hefur skapad hann, og laat hann ei burt fra þier, medan þu þarft hans vid.

13. Su Stund kann koma, ad hinum Siuka alleina veitist fyrer (b) Hina Hiaalp.

(b) (Hina) Bæn stodar meir enn Læknisdomurenn, og Presturenn giører meira til enn Læknarenn, enn Menn vilia ogiarnann vera goder, þar fyrer hugsa Menn þess minna um Bænena, og Prestinn.

14. Þegar þeir bidia DROTTenn, ad honum skule batna, og faa Heilbrigde leingur ad lifa.

15. Hvør hann syndgast fyrer sijnum Skapara, sa hlytur under Læknarans Hendur ad koma.

16. Mitt Barn! Þegar nockur andast, so graattu hann, og harma, sem þier hafe miked a moote geinged, og sveipa hans Lijkama epter tilbærelegum Hætte, og veit honum ærlegann Grøft.

17. Þu skallt beisklega graata, og af Hiarta hriggur vera, og bera Harm epter þvi sem hann hefur vered, þid allra minnst eirn Dag edur Tvo.

18. So ad Menn meige ecke neitt Vondt til þijn leggia, Og hugga þig eirnenn aptur, so ad þu hriggest ecke.

19. Þviad af Hriggd kiemur Daude, og Hiartans Hriggd veiker Maattenn.

20. Hriggd og Faatækt giører Angur j Hiartanu, j Freistnenne, og (c) ysergeingur.

(c) (Ysergeingur) Þad er, Hefur øngvann Maata.

21. Laat Hriggdena ei koma j þitt Hiarta, helldur hrind þu henne fra þier, og hugsa a (d) Endann.

(d) (Endann) So sem giørde David yfer sijnu Barne, og sagde, Eg hlyt til hans ad fara, hann hverfur ei aptur til mijn, Mier j Giær, Þier j Dag!

22 Og gleym þu eige, þvi þar er ecke Aptur-hvarf, þad hiaalpar honum eige, og þu giører þier Skada.

23. Hugsa til hans, lijka sem hann hefur daaid, so hlytur þu ad deya, J giær var þad a mier, j Dag er þad a þier.

24. Af þvi sa Daude liggur j Hvijld, so gief þu eirnenn upp til hans ad hugsa, Og hugga þig aptur yfer honum, First hans Ønd er hiedann vid skilenn.

## XXXIX. Capitule.

25. Hvør læra skal Ritningena, sa kann eckert annad Erfide ad vakta, Og sa sem skal læra, sa kann eckert annad hafa ad giøra.

26. Hvørnenn kann sa taka Vara uppa Kiennslunne, er hann hlytur ad eria, Og sa sem Uxana keyrer giarnann med Svipunum, og med þess haattar Verkum umgeingur, og veit ecke nema af Uxunum ad segia?

27. Hann

27. Hann hlytur ad hugsa, Hvornenn hann skal vinna sitt Akur-Verk, og hlytur sijd og carla Kunum Foodur ad giefa.

28. So og eirnenn Snickarar og Trie-Smider, þeir Nott og Dag erfida, og skiera ut Lijkneske, og eru jdner ad giora margvoattud Erfide, þeir hliota ad hugsa, ad þad fare riett, og carla og sijd þar yfer ad liggia, ad þeir fullgiore þad.

29. So og eirnenn Smidurenn, hann hlytur ad vera vid sinn Stedia, og sitt Smijde ad vakta, og verdur Ellds-moodur, og erfidar sig moodann fyrer Aflenum.

30. Hamars Hlioded fyller upp hans Eyru, og sier þar til, Hvorsu hann kunne ad giora riett sitt Verk.

31. Og hann hlytur ad hugsa, Hvorsu hann þad giore til Reidu, og snemma og seint þar vid ad vera, ad hannn kunne ad smijda þad Glæselega.

32. So og eirn Leir-Pottamakare, hann hlytur ad vera vid sitt Erfide, og Hioolenu med Footum sier ad snua, og hlytur jdugle-ga sitt Verk ad vinna med Ahyggiu, og hefur sitt Dags-Verk vijst.

33. Hann hlytur med sijnum Armleggium ut af Leire sitt Kier ad minda, og hlytur med Mædu sig ad beygia ad sijnum Footum.

34. Hann hlytur ad hugsa hvorsu hann gler-renne þad fijnlega, og carla og seint Ofnenn hreinse.

35. Þesser aller treysta sier af sijnum Handa Verkum, og sierhvor kostgiæfer ad hann kunne sitt Erfide.

36. Menn kunna ei j Borginne þeirra ad missa.

37. Enn hvorge kunna Menn þa j burtu ad skicka, Þeir kunna ei a þvi Yfer-Vallds Embætte Vara ad taka, og ei j Samkundum ad stiorna, Þeir kunna ei þann Skilning ad hafa, odrum Skriftina ad kienna, nie helldur Doom og Riettlæte ad predika.

38. Þeir kunna ecke Spakmæle ad lesa, helldur hliota þeir uppa sijna tijmanlega Næring ad þeinkia, og hugsa ei framar enn hvad þeir kunna med sijnu Erfide ad afla.

XXXIX Cap. v. Enn hver hann vill sig tilleggia ad (a) læra Logmaal hins Hæsta, sa hlytur Vijsdom allra hinna Gomlu ad rannsaka, og j Spaamanna Bookum ad studera.

(a) (Læra) Einn Prestur og Predikare skal studera, og sig jdka, j alls-hattudum Bookum, þa giefur Gud honum Skilning, Enn latum Buk-Prestum giefur Hann ecke.

2. Hann hlytur ad gaumgiæfa Lijfs-Sogur Nafn-frægra Manna, og þar eptir ad hugsa, hvad þær hafa ad þijda, og kienna.

3. Hann hlytur ad læra Andlegar Maals Greiner, og sig j diupsettre Rædu ad jdka.

4. Sa kann Hofdingium ad þiona, og hia Herrunum ad vera.

5. Hann maa laata skicka sig j framande Lond, Þvi hann hefur forsokt, hvad hia Monnum er duglegt, og eigi duglegt.

6. Og hugsar, ad hann carla uppriise, ad leita DROTTens, sem hann hefur skapad, og bidst fyrer fyrer þeim Hæsta.

7. Hann lykur upp frijlega sinn Munn, og bidur fyrer Misgiordum alls Lyds.

8. Og þa þegar DRottenn er so blijdkadur, so giefur Hann honum Vijsdoms Anda gnooglegann.

9. Ad hann kann viturlegt Raad, og Lærdom, vollduglega ad giefa, Þar fyrer giorer hann DROTTne Þacker j sinne Bæn.

10. Og DROTTinn giefur þar Raad til, ad hans Raad og Kienning, framm-geingur.

11. Og hann umhugsar caadur med sialfum sier, sijdann frammseger hann sialfur sitt Raad og Kienning, og sannar þad med Heilagre Skrift.

12. Og margur undrast a hans Vitsku, og hun mun alldrei forganga.

13. Honum mun alldrei verda gleymt, og Nafn hans varer um Alldur og Æfe.

14. Hvad hann hefur kient, þad munu Menn frammvegis predika, og Sofnudurinn mun hann prijsa.

15. A medan hann lifer, hefur hann meira Nafn enn Pusund adrer, og epter hans Dauda þa er hans sama Nafn uppe.

## XL. Capitule.

16. Eg hef enn ad segia nockud meira.
17. Pviad eg em lijka sem fullt Tungl. Heyred mig Pier Heilogu Born! og vaxed so sem Rosir plantadar vid Læki.
18. Og giefed af ydur Sætann Ilm, so sem Reykelse, blomgest þier sem Liliur, og ilmid vel.
19. Syngid loflega, og lofed DRottinn j ollum sijnum Verkum, Prijsed Nafn Hans dijrdlega, Packer giored Honum, og lofed Hann med Saung og hliomande Glede, so segiande j Packargiordenne.
20. Oll Verk DROTTins eru hardla god, og hvad Hann bydur, þad skier i riettann Tijma, og Menn þurfa ecke ad segia, Hvad skal þad? Pviad j sinn Tijma koma þaug sem Oskud.
21. Lijka sem þa ad fyrer Hans Bod-Ord (a) stood Vatnid so sem Mur, og fyrer Hans Ord stoodu Votninn riett sem være þaug hondlud.

(a) (Stood) So sem j Hafenu Rauda og Jordan.

22. Pviad hvad sem Hann giorer fyrer sitt Bod-Ord, þad er liuflegt, og Menn þurfa um ongvann Brest ad klaga a Hans Hiaalp.
23. Allra Manna Verk eru Honum kunnug, og fyrer hans Augum er eige neitt leynt. Hann sier alla Hlute, fra Upphafe Veralldar allt til Enda Veralldar, og honum er einginn Hlutur nyr.
24. Menn þurfa ei ad segia, Hvad skal þad? Pviad Hann hefur sierhvad skapad, ad þad skule til nockurs stoda.
25. Pviad Hans Blessan flytur framm sem annad Vatn, og doggvar Jordena sem annad Synda Flood.
26. Hier j moot hæfir hans Reide þa enu Heidnu, so sem þa Hann lætur Votsamt Land uppþorna.
27. Hans Verk eru hioa Heilogum riettileg, enn hiner Ogudræku steyta sig þar af.
28. Allt þad sem skapad er fra Upphafi, er goodum Gott, enn Ogudrækum skadsamlegt.
29. Madurinn þarf sier til Lijfs, Vatn, Elld, Joarn, Sallt, Miol.
30. Hunang, Miolk, Vijn, Vidsmior og Klædnad, Petta allt kiemur Godum til Goda, enn Omilldum til Skada.
31. So eru og nockrer af Vindunum til Hefndar skapadir, og med sijnum Stormum giora þeir Skada, og þegar koma skal Stroffuninn, so æsast þeir, og frammkvæma Reide Þess sem þa skapad hefur.
32. Elldur, og Hagl, Hungur og Daude, slijker Hluter aller eru til Hefndar skapader.
33. Villu-Dyr, Scorpiones, Hoggormar, og Sverdid, er og so til Hefndar skapad, þa enu Ogudræknu ad fordiarfa.
34. Med Fagnade giora þeir Hans Bifalning.
35. Og eru reidubuner, hvar sem Hann þarf þeirra vid a Jordunne, og þegar sa Tijme kiemur, lceta þeir ecke af.
36. Pad er þad sem eg uppbiriade, og þeinkte ad skrifa.
37. Sem er, Oll Verk DROttins eru good, og sierhvert j sijnum Tijma nytsamlegt.
38. So Menn þurfa ecke ad segia, Pau eru ecke oll good, Pviad sierhvort er j sinn Tijma kostulegt.
39. Þar fyrer skulu Menn Lofa, og Packer segia Nafne DROTTins, af Hiarta og Munne.

XL. Cap: 1. Pad er eirn Aumlega Hormulegur Hlutur um allra Manna Lijf, fra Moodur-Kvide, allt til þess þeir eru j Jordena grafner, hvor ad er allra vorra Mooder.
2. Par er ætijd (b) Ahyggia, Otti, Von, og med seinasta Daudenn.

(b) (Ahyggia) Fyrer Ellde og Okomnu Lijfe.

3. Jafn-

3. Jafnvel hioa þeim j stoorum Heidre sitia, sem hioa þeim minnsta a Jordu.

4. Jafnvel hioa þeim sem Silki og Koronu bera, sem hioa þeim sem klædder eru groarre Hempu.

5. Þar er jafnann (c) Reide, Vandlæting, Mootgangur, Ofridur, og Dauðans Hræſki, Hatur og Þrætur, Og nær eirn ſkal hvijlaſt, og ſofa j ſinne Sæng, a Noattar-Þele, koma honum j Hug margvijſlegar Hugſaner.

(c) (Reide) J moote Noaunganum, og medal Mannanna j þeſſu Lijfe.

6. Og þo hann alla-reidu nockra Hvijld hafe, ſo er þad þo eckert. Þviad hann ſkielfeſt j Draume, lijka ſem ſæe hann Ovine koma.

7. Og þegar hann vaknar, og ſier hann er oruggur, ſo fer honum ſem þeim er komiſt hefur ur Oruſtu, og er furdu-gladur, þad hans Otti var eckert.

8. Slijkt ſkiedur ollu Hollde, bæde Monnum og Kvikindum, enn Ogudrækum Manne Siøfalldlega framar.

9. Mord, Blods-Uthelling, Þræta, Sverd, Olucka, Hungur, Fordiorfun, og Ploaga, allt þetta er ſkickad j giegn Ogudrækum, Þviad fyrer þeirra Skulld hlaut Vatns-Floded og ſo ad koma.

## XLI. Capitule.

10. Allt þad ſem af Jordunne kiemur, þad hlytur aptur j Jordena ad ſnuaſt, lijka ſem oll Votn aptur j Sioenn falla.

11. Allar Giafer og rangfeingid Fie hlytur ad forganga.

12. Enn Sannleikurenn varer eylijflega.

13. Ogudlegra Manna Audæfe þorna upp ſem Læker, So ſem Reidar-Þrumann eydeſt j Regnenu.

14. Þeir eru koater a medann þeir taka vid Giøfunum, Enn med ſydſta ganga þeir þo til Grunns.

15. Afkvæme Ogudlegra mun ecke ſpa nockra Kviſte, og Root Oriettferdugra Manna ſtendur a berum Steine.

16. Og þott þeir allareidu være j miklum Vøkva, og vid Vatn ſtæde, verda þeir þo upprætter adur enn þeir eru fullvaxner.

17. Enn vel ad giora, er ſo ſem bleſſadur Gras-Gardur, og Miſkunſeme blijfur ad Eylijfu.

18. Hver ſig med ſijnu Erfide nærer, og lætur ſier þar med nægia, ſa hefur fijnann Noadugann Lifnad, Þad kallaſt ad finna Fieſiod ollum Fieſiodum fremra.

19. Born ad gieta, og Borger ad bæta, giorer æfinnlega Minning, Enn ein ærleg Kvinna framar enn þad hvortveggia.

20. Vijn og Streingleikur gledur Hiartad, Enn Vitſkann er aſtſamlegre enn þad hvortveggia.

21. Pijpur og Horpur hlioda vel, enn Vinſamleg Ræda betur enn þad hvortveggia.

22. Þitt Auga ſier giarnann þad ſem frijdt og fagurt er, Enn þad græna Saad helldur enn þad hvortveggia.

23. Eirn Vinur vitiar annars j Neyd, Enn Eckta-Madur og Eckta-Kona miklu meir.

24. Eirn Broder hioalpar odrum j Neyd, enn Miſkun miklu meir.

25. Gull og Silfur veita Manne Upphellde, enn miklu meir gott Road.

26. Gots og Peningar giora Mann diarfann, enn miklu meir Otte DROTTens.

27. Otta DROTTens er einkis vant, og Hann þarf ongva Hioalp.

28. Otte DROTTens er eirn Bleſſadur Jurta-Gardur, og þar er ecke neitt ſo fagurt ſem Hann er.

29. Barn mitt! Gief þig ecke til (a) Purſa-Manns Stiettar, Þad er betra ad deya enn ad fara a Vonar-Vøl.

(a) (Purſa-Manns) Þad eru, Borddiſſa-Fleníarar, Snijkiu-Geſter, Husgangs-Menn, og Leie Dreingier, ſem ecke vilia vinna.

30. Hvør hann treyster uppa annars Mat=Bord, sa hugsar sig ecke med Heidre ad næra, hann hlytur ad (b) syndga sig fyrer annarlegrar Fædslu Skulld.

(b) (Syndga) Hann hlytur ad hræsna, lasta og losa þad hans Herra vill.

31. Enn eirn skinsamur og hyggenn Madur varar sig þar vid.

32. Boon = Biorg smackast Obliugum Manne sæt, Enn um sijder mun hann faa þar af jlla Kolldu.

XLI. Cap: 1. O þu Daude! Hvad beiskur þu ert, þegar nockur Madur a þig minnest, sa sem goda Daga og noog hefur, og fyrer utann Ahyggiu lifer.

2. Þeim sem vel vegnar um alla Hlute, og enn er vel Mat=hress.

3. O þu Daude! Hvad vel glører þu vid Naud=staddann,

4. Þann sem ad er Veikur og Gamall, sem vefst j allre Sorg, og ecke hefur neitt betra til ad vona, nie epter ad bijda.

5. Ottast þu eige Daudann, Hugsa, ad þad er so af DROTTne tilskickad yfer øllu Hollde, bæde þeirra sem fyrer þig hafa verid, og epter þig munu koma.

6. Og hvad mæler þu j moote Guds Vilia, Lifer þu Tiju, Hundrad, eda Þusund aar?

7. Þviad j Daudanum spyria Menn ecke ad Hvørsu leinge nockur hefur lifad.

# XLII. Capitule.

8. Born Ogudlegra Manna, og þeir sig samlaga vid Ogudræka, verda ecke utann Svijvirding.

9. Ogudrækinna Barna Arfa Gots fyrerferst, og þeirra Epterkomendur hliota forsmaader ad verda.

10. Bornenn hliota ad aasaka sinn Ogudlegann Fødur, Þviad fyrer hans Skulld eru þau forocktud.

11. Vei ydur Ogudlegum sem forlaated Løgmaal hins Hæsta!

12. Hvort helldur þier lifed, edur deyed, so erud þier Bolvader.

13. Lijka sem allt þad er kiemur af Jordunne, aptur ad nyu ad Jordu verdur, so koma Ogudræker af Bolvanenne til Fyrerdæmingarennar.

14. Moorgangur Manns maa hier vara, so leinge sem hann lifer, Enn Nafn Ogudlegra hlytur af ad maast, Þviad þad duger ecke.

15. Sioa þu til, ad þu hallder goodu Nafne, þad blijfur vissara, enn Þusund stoorer Fiesioder af Gulle.

16. Lijfed, þad sie so gott sem þad vill, þo varer þad um lijtinn Tijma, Enn eitt gott Nafn blijfur æfennlega.

17. Born mijn, Nær ydur vel geingur, Sioaed til og blijfed j Guds Otta!

18. Hvar fyrer skammest þier ydar vegna minna Orda? Menn skammast sijn opt, þar menn skylldu sijn ecke skammast, og samþyckia opt þad ei skal samþyckiast.

19. Fader og Mooder skammest sijn af Hoordomum. Eirn Hofdinge og Herra af Lygum.

20. Eirn Domare og Raadaneyte af Ranginduni. Alþijdu Folk af Ohlydne.

21. Eirn Naunge og Vinur Mein ad giora. Eirn Naagranne ad stela.

22. Skammast þijn, ad þu liggur med þijnum Armleggium yfer Braudenu a Bordenu. Skammast þijn, ad þu kannt ei ad standa þinn Reikningsskap, og þackar ecke þegar Menn heilsa a þig.

23. Skammast þijn epter Skiækium ad lijta, og þinne Asionu fra þier skylldum Manne ad snua.

24. Skammast þu þijn Arfskipte og Morgungiof fra ad taka, og annars Manns Eiginn=Konu ad girnast.

25. Skammast þu þijn annars Ambaatt ad girnast, og vid hennar Sæng ad standa.

26. Skammast þu þijnum Vin um nockud ad brijsla, og nær þu giefur honum nockud, so tel þad ecke epter honum.

XLII.

XLII. Cap: 1. Skammast þu þijn eptir ad segia allt þad þu heyrt hefur, og ad opinnbera leynelegt Trunadar Maal, so skammast þu þijn riettelega, og verdur øllum Mønnum liusur og vel virdtur.

2. Enn þessara Hluta skammast þu þijn ei, Og giør fyrer einkis Manns Skulld rangt.

3. Sem er Løgmaal, og Saattmaale hins Hæsta, ad hiaalpa þeim Gudhræddа til Riettinda, Trulega ad høndla vid þinn Naunga, og Fielaga.

4. Vinum Arfskiptenn til ad snua.

5. Giætnum ad vera, riettann Mæler og Vigt ad hallda, Ad vera til Frids, hvort sem þu aflar miked eda lijted.

6. Riettelega ad handtiera med stundlegt Gots, j Kaupe og Solu. Børn med Athygle upp ad ala.

7. Vondann Præl vel ad strykia, Fyrer Illre Konu þad þitt er, vel ad geyma. Þar sem hvør hriffar til sijn, alla Hlute vel ad læsa.

8. Hvad Menn verda þeim j Hendur ad faa, telia allt og vega, Allt Ut-gialld og Inntekt ad uppskrifa.

9. Oskinsomum og Heimskum ad kienna, eirnenn af gømlu Folki, ad deila ei vid Ungmenne, so verdur þu riett vel skickadur Madur, og af øllum lofadur.

10. Ein Dotter su ogiefenn er hun giører Fødurnum miklar Vokur, Og Ahyggia fyrer henne svipter hann miklum Svefne, A medann hun er ung, ad hun meige verda gømul, Edur þegar hun giptest, ad hennar Madur meige henne gramur verda.

11. Edur a medann hun helldur Meydomenum, ad hun meige verda skømmud, og j sijns Fodurs Huse oliett verda, eda þegar hun er hiaa Manne, meige hun sig ecke vel hallda, edur hann kunne ei Børn vid henne ad eiga.

12. Þegar Dotter þijn er ecke bliug, so halltu hana hardt, so hun giøre þig ecke þijnum Ovinum ad Spotte, og øll Borgenn um þig skrafe, og hliooter þu Skømm ad heyra af hvørium Manne, og þijn fyrer øllum ad skammast.

13. Lijt ecke j kringum þig epter Frijdre Manneskiu, og vert ecke so giarnann hiaa Konum.

14. Þviad lijka sem ur Klædunum kiemur Mølur, so kiemur og af Konunum miked illt.

15. Hoaskalausara er ad vera hiaa illum Manne, enn hiaa vinsamlegre Konu, sem giører Manne Hoadung og Spott.

## XLIII. Capitule.

16. Nu vil eg prijsa Verk DROTTens, utaf Heilagre Skrift boda Hans Verk, sem eg hefe þaug lesid.

17. Soolenn giefur Lioos allre Verolldu, og hennar Lioos er þad skiærasta Lioos.

18. Þad hefur og enn Helgum Mønnum alldrei giefid verid af DROTTne, ad þeir kynne allar hans Doadsemder ut ad segia, Þviad DROttenn Almaattugur hefur þær so miklar giørt, og aller Hluter eru so mikelega epter þeirra Verdugleik lofande.

19. Hann alleina rannsakar Underdiupid og Hiortunn Mannanna, og veit hvad þeir hugsa.

20. Þviad DROTTenn veit alla Hlute, og sier a hvørium Tijma hvor Hlutur skie skal.

21. Hann bodar hvad umlided er og okomande, og opinnberar hvad leynt er. Hann skilur allann Heimugleik, og hønum er eckert Efne dulid.

22. Hann audsyner sijna miklu Speke dijrdlega, og Hann er fra Eylijfd til Eylijfdar.

23. Menn kunna hann hvorke ad giøra stærra, nie minna, og hann þarf einkis Manns Raad.

24. Hvad elskuleg ad eru øll Hans Verk, þott ad Menn eige utan eirn Neista þar utaf þeckia kunne!

25. Þaug lifa oll, og bliifa ætijd, Og hvar til sem hann þeirra þarf, þa eru þaug oll hlijdenn.

26. Þaug eru jafnann Tvo j moots vid Tvo, og Eitt j moote Einu, og hvad Hann giorer þar er eingenn Brestur a.

27. Og hefur sierhvad tilsett, hvar til þad skal sierdeilis nytsamlegt vera.

XLIII. Cap: 1. Og hvor kann sig af Hans Dijrd saddann ad sioa? Menn sioa hans Dijrd af þeirre Megtugu miklu Hæd, a þeirre kloaru Festing Himensins, a þeim fagra Himne.

2. Þegar Soolenn kiemur upp, so bodar hun Dagenn, hun er eitt Doadsemdar Verk hins Hæsta.

3. Um Mid-Deged þurkar hun Jordena, og hvor kann fyrer hennar Hita ad standa?

4. Hun giorer heitara enn marger Ofnar, og brenner Fiollenn, og blæs fra sier einum-samann Hitanum, og giefur af sier sliika skiæra Geisla, ad hun blindar Augunn.

5. Þad hlytur ad vera eirn Mikell Herra sem hana hefur giort, og henne hefur skipad so hardt ad hlaupa!

6. Og Tunglid hlytur um alla Verolldena ad skijna j sinn Tijma, og Moanudena j sundur ad greina, og Aarenn ut ad skipta.

7. Epter Tunglenu reikna Menn Hoatij-dar-Hølldenn, þad er eitt Lioos sem mijnkar, og aptur vex.

8. Þad giorer Moanudena, þad vex og umbreytest undarlega.

9 So og lyser allur Himneskur Her j Hædenne, a Festing Himensins, og þær skiæru Stiornur pryda Himenenn.

10. So hefur DROTTenn boded þeim j Hædenne, Verolldena ad uppbyrta.

11. Fyrer Guds Ord hallda þær sinne Skickan, og þreytast ei j sinne Voku.

12. Skoda þu Regn-Bogann, og lofa Þann sem hann hefur giort, þviad hann hefur miög fagra Litu!

13. Hann hefur Himenenn fijnlega kring-lottann giört, og Hond hins Hæsta hefur hann ut vijdkad.

14. Fyrer Hans Ord fellur mikell Snior, og hann lætur undarlegar Elldingar hvoriar j mots vid adrar verda, so ad Himeninn opnast.

15. Og Skijenn sveima lijka sem þa Fuglar fliuga.

16. Af Krapte sijnum giorde hann Skijenn þick, so þar hrytur Hagl af.

17. Hans Reidar-þrumur skielfa Jordena, og Fiollenn bifast fyrer honum.

18. Fyrer Hans Vilia blæs Sunnann-Vindur og Nordann-Vindur.

19. Og lijka sem Fuglar fliuga, so snua sier Vindarner, og dreifa um allt Snionum, ad hann slær sier j Drifter, lijka sem þa Gras-Hoppur falla nidur.

20. Hann er so hvitur, ad hann blindar Augunn, og Hiartad hlytur ad undrast so sialldsied Regn.

21. Hann dreifer Hielunne a Jordena so sem Sallte, og þegar frijs so verda Js-Dyng-lar, so sem hvasser Stafs Oddar.

22. Og þegar kalldur Nordann-Vindur blæs, so verdur Vatned ad Jse. Hvar Vatn er, þar blæs Hann yfer, og færer Vatned so sem j eina Harneskiu.

23. Þad fordiarfar Fiollenn, og brenner Eydemerkur, og visid giorer allt þad sem grænt er, sem annar Elldur.

24. Þar j moot, hioalpar dimm Þoka og Dogg epter Hitann, hun nærer allt aptur.

25. Med sijnu Orde ver Hann Sioonum, ad sig ei utbrìote.

26. Og hefur þar Eylond jnnsett, Þeir sem Sioo-ferdast segia af þeim Hoaska, og vier sem heyrum þad, undrunst þad.

27. Þar eru siallдsiener furdanleger Hluter, margskonar Kvikinde og Hvalfiskar, millum þeirra somu Skipferdast Menn.

28. Summa, Fyrer Hans O d standast aller Hluter.

29. Þo

29. Þo vier alla reidu margt frosum, þa kunnum vier þvi þo ei ad noa.

30. Stuttlega ad segia, Hann er allt saman. Þott vier hrosum miog ollum Hlutum, Hvad skal þad? Þvi Hann er miklu hærre enn oll Hans Verk.

31. DROttinn er Oumrædelega Mikell, og Hans Maattur er doadsamlegur.

32. Lofed og dijrdked DROTTenn, so miked sem þier meiged, þo er Hann enn Hærre!

33. Prijsed Hann af ollum Kroptum, oan Afloats, þo munud þier ecke foa þvi noad!

34. Hvor hefur sied Hann, þad Hann kunne af Honum ad segia. Hvor kann ad vegsama Hann, so hoatt sem Hann er?

35. Vier sioaum hinn minnsta Part af Hans Verkum, Þviad morg stærre eru enn fyrer oss dulenn.

36. Þviad allt þad sem er, þa hefur DROTTinn giort, og giefur þad Gudhræddum ad vita.

# XLIV. Capitule.

Vier vilium lofa þa Nafnfrægu Menn, og Fedur vora, Hvorn epter annann.

2. Marga dijrdlega Hlute hefur DROTTinn giort vid þa, fra Upphafe, fyrer sijna miklu Magt.

3. Þeir hafa sijnum Konga-Rijkium vel stiornad, og lofleg Verk giort. Þeir hafa vered vijser j Roade og Spoadome.

4. Þeir hafa Londum og Lydum stiornad med Roadum og Skilninge Skriftarennar.

5. Þeir hafa lært Saunglist, og diktad andlega Hrodra.

6. Þeir voru og Rijker, og hafa haft mikel Aulegðe, og stiornad j Fride, a medann þeir voru hier.

7. So hafa þeir aller a sijnum Tijmum, lofsamleger vered, og prijsader j sijnu Lijfe.

8. Og hafa eitt erlegt Nafn epter sig loated.

9. Enn hiner adrer hafa ongvann Prijs, og fyrerforust, riett sem þeir hefde alldrei vered.

10. Og enn þa þeir lifdu, voru þeir riett sem lifdu þeir ei, og lijka eirnenn þeirra Born epter þa.

11. Enn þeim Helgum Monnum, hvorra Riettlæte ecke gleymt verdur, er eirn godur Arfur epter loatenn, og þeirra Bornum.

12. Þeirra Epterkomendur hafa j Soattmoalanum staded, og fyrer þeirra Skulld hafa þeirra Barna-Born halldest vid Magt æfennlega.

13. Og þeirra Lof mun ei dvijna.

14. Þeir eru j Fride greftrader, enn Nafn þeirra lifer Eylijflega.

15. Folked seger af þeirra Vitsku, og Sofnudurenn bodar þeirra Lof.

16. Enoch lijkade DROTTne vel, og er burt numenn, so ad Hann være Verolldunne ein Jdranar Aminning.

17. Noe vard ostraffanlegur fundenn, og a Reidennar Tijma hefur hann Noad funded.

18. Og er epterblifenn a Jordunne, þa Synda-Floded kom.

19. Hann medtok Soattmoalann vegna Veralldarennar, ad upp þadann skyllde allt Holld ei j Vatns-Flode afmoad verda.

20. Abraham Sa Hoatt Nafnfræge Fader margra Þioda, hefur ei sinn Lijka j Vegsemdenne. Hann hiellt Logmoal hins Hæsta.

21. Og GUD giorde Soattmoal vid hann, og sette þad sama Soattmoal a hans Holld, Og hann fannst Trur þa hann vard freistadur.

22. Þarfyrer hiet GUD honum med Svardaga, ad fyrer hans Sæde skylldu Heidnar Þioder Blessadar verda, Og ad hann skyllde margfalldast, sem Dupt Jardar.

23. Og ad hans Sæde skyllde upphefiast sem Stiornur, og Arftakande verda fra einu Hafe til annars, Og j fra Vatnenu til Heims Enda.

24. Og hefur þa somu Blessan yfer alla Menn, og eirnenn Soattmoalann stadfest

 vid

vid Isaac, fyrer Sgker sijns Fodurs Abra-
hams.

25. Og hefur þad læted koma, og blijfa yfer Jacob.

26. Honum hefur Hann nædduglega blessad, og giefed honum Arf, og hans Hlutskipte fra skiled, og j Tolf Ættkvijsler skipt.

## XLV. Capitule.

27. Hann hefur fra honum koma læted þann Helga Mann Moysen, hvor allre Verølldenne var kiær, og mikels virdur.

XLV. Cap: 1. Hvør ed bæde hafde Hylle af Gude og Mønnum, hvørs Nafn ad miøg prijsad verdur.

2. Hann hefur honum og Heidur veitt, so sem hinum Helgum Fedrum, og hætt upp hafed, so ad hans Oviner urdu hann ad ottast, Hann liet hann med Ordum giøra mørg Tækn:

3. Hann giørde hann dijrdlegann fyrer Kongunum, og gaf honum Bifalning vid Sinn Lyd, og synde honum Sijna Dijrd.

4. Hann hefur kosed hann til Heilagrar Stiettar, Saker sijns Truskapar og Hoogværis, og af øllum Mønnum hann utvaled.

5. Hann liet hann heyra sijna Rødd, og leidde hann j þad mirkva Skij.

6. Hann hefur honum nælægur Bod-Ordenn giefed, sem er Løgmæl Lijfsins, og Vitskunnar, ad Hann skyllde Jacob Sættmæla kienna, og Israel sijn Riettinde.

7. Hann hefur Aaron hans Brodur af þvi sama Kine Levi upphafed, og hann eirnenn lijka utvaled.

8. Hann giørde vid hann Eylijfann Sættmæla, og gaf honum Prestsdæme a medal Lydsins.

9. Hann hefur hann fagurlega og heidarlega klæddann, og færde hann j dijrdlegann Kyrtel, og sette a hann allskonar Skart.

10. Hann utbioo hann med kostulegu Smijde, og færde hann j Nidur-Klæded, Sijd-Kyrtelenn, og Lijf-Kyrtelenn.

11. Og feste margar Gull-Biollur og Hnappa a hann j kring, so ad þær Hliod giæfe, þa ed hann ut edur jnn gieck, og Hliomurenn heyrdur yrde j Helgedomenum, so ad hans Lyds yrde j Guds Auglite þar med minnst.

12. Jaa, þann Helga Kyrtel, sem var saumadur af Gulle, Gulu Silke, og Skarlate.

13. Magtar-Skiølld a Brioste, med Lioosed og Riettenn lystelega giort med Gimsteinum, þar Nøfn Tolf Kinkvijsla Israels voru a grafenn, og j Gulle greypt fyrer Stein-Snidarann, so ad þeirra yrde minnst fyrer Gude.

14. Þa Gullegu Ennis-Spøng a Mitrenu, þar Helgedomurenn var grafenn j, hvad allt var Heidursamlegt, og Kostulegt, Liuflegt og Fagurt.

15. Menn hafa þvilijkt alldrei sied fyrer hann.

16. So mætte þessu eingenn klædast, utann alleina hans Syner, og Epterkomendur æfinnlega.

17. Hans Offur urdu daglega Tvisvar fullkomnud.

18. Moses fyllde Hendur hans, og smurde hann med Helgu Vidsmiøre.

19. Vid hann var þad Sættmæl giørt, ad hann og hans Syner skyllde æfennlega, so leinge sem Dagar Himensins vara, honum þiona, vera Prestar, og hans Lyd j hans Nafne Blessa.

20. Hann hefur utvalid hann af øllum Lifondum, ad hann skyllde fornfæra Drottne Fædslu-Offur, og Reykelsis Offur, til sæts Ilms og Minningar, til Forlijkunar fyrer Folkid.

21. Hann bifalade honum Embætte sijns Ords, þad hann skyllde kienna Jacob sijna Vitnisburde, og upplysa Israel med sijnu Løgmæle.

22. Þar upphoofu sig adrer j moote honum, og øfundudu hann j Eydemørkunne,

fierdeilis þeir sem med Dathan og Abiram voru, og sa galde Selskapur Korah.

23. Enn DROTTenn sa þad, og þad lijkade Honum ecke. Og þeir urdu gleypter af grimmre Reide.

24. Hann synde ogurleg Undur a þeim, og svelgde þa med sijnum Ellde.

25. Hann heidrade Aaron enn meir, og gaf honum Arfskipte, sem er, ad allann Firsta Groda skipte Hann honum.

26. Um allt annad framm skickade Hann honum j Firstu Brauds Nægd, þviad þeir skylldu neyta Offurs DROTTens, sem Hann gaf honum og hans Sæde.

27. Enn þeir mættu ecke af Landenu neitt Hlutskipte hafa, eda med Folkenu Erfd taka, helldur var DROTTenn þeirra Hlutdeilld og Arfur.

28. Phinees, Sonur Eleazar, var hinn Þridie j slijkum Heidre.

29. Hann vandlætte j Gudhrædslu, Og þa ed Lydurenn fra-hverfdest, stood hann trulega stodugur og diarfur, og forlijkte Israel.

30. Þar fyrer vard honum giefinn Fridarens Sœattmæle, þad hann skyllde Helgedomenum og Lydnum Forstodu veita, og hann og hans Sœd skyllde æfennlega Kiennemanns Tign hafa.

31. Lijka sem vid David, af Kine Juda, er Sœattmæle giordur, ad alleina af hans Sonum skal eirn Kongur vera. So skal og Aaron, og hans Sœd Erfingiar vera, ad þeir oss Vijsdom kienne, og sijnu Folke riettelega styre, Uppa þad, ad þeirra Stiett og Heidur ecke fyrerfarest, Helldur um Alldur og Æfe hiaa honum blijfe.

## XLVI. Capitule.

Jesus (a) Nave var eina Kappe j Strijde, og eirn Spæmadur epter Moysen.

(a) (Jesus) Þijdest Heilsugiafare, edur Sigurvegare j Bardaga.

2. Hvor ed mikenn Sigur vann fyrer Guds Utvalda (so sem hans Nafn hlyder) og hefnde þeirra a Ovinunum, af hvorium þeir urdu offokter, So ad Israels Lydur feinge sijna Erfd.

3. Hann hefur Heidur hlotid þa hann utriette sijna Hond, og rykte Sverdenu j moote Borgunum.

4. Hvor hefur nockurn Tijma staded so hugdiarfur? Hann her-took Ovine DROttins.

5. Fyrer hans Skulld stood Soolenn kirr, og eirn Dagur vard so langur sem Tveir.

6. Hann akallade hinn Hærsta og Maattuga, þa hans Oviner allavega ad honum þrenngdu, og Sa Mikle DROttinn Bænheyrde hann, og liet hardla stoora Hagl-Steina falla yfer Ovinena.

7. Og jhel sloo hans Mootstodu Menn, þa þeir ofann-foru.

8. Og Heidingiar urdu varer hvad þesser Hofdu fyrer Skot, og ad DROttinn sialfur j Bardaganum nalægur være, og hann ellti þa Maattugu.

9. Og a Dogum Mosis, þa giorde hann, og Caleb, Son Jephunne, eitt gott Verk, Þa þeir stoodu j moote Mann-Fioldanum, og bonnudu Folkinu ad syndgast, og stilltu þad skadsamlega Upphlaup.

10. Þar fyrer urdu þeir Tveir alleina vardveitter, a medal Sex Hundrud Þusund Manna, og hafa Lydenn til Erfdar fært j þad Land, þar Miolk og Hunang inneflytur.

11. Og DROTTinn hiellt Caleb vid sinn Lijkams Stirkleika, allt til Elle-Daga, ad hann uppstie j Landsins Fiall-Byggder, og hans Sæde odladest Erfdena.

12. So ad oll Israels Born sæe, hvad gott þad er ad hlyda DROTTne.

13. Og Domendurner, sierhvor med sijnu Nafne,

14. Hvorier ongva Skurgoda Villu stundu, nie siellu fra DROTTni, verda og eirnenn prijsader.

15. Þeir-

15. Þeirra Bein blomgast enn nu jafnann, þar sem þaug liggia, Og þeirra Nøfn verda prijsud a þeirra Børnum, hvørium þad er til Erfda falled.

16. Og Samuel Spaa-Madur DROttins, af sijnum GUde elskadur, uppreiste eitt Kongs Rijke, og smurde Høfdingia yfer sinn Lyd.

17. Hann dæmde Søfnudenn epter Løgmaale DROTTens, Og DROTTenn leit aptur til Jacobs.

18. Og sa Spaa-Madur vard Riettferdugur og trur fundinn, Og Menn þecktu, ad hans Spaar voru visselega sannar.

19. Hann aakalladi þann Maattuga DROTTinn, þa hann ad sijnum Ovinum a alla vega þreyngde, og fornfærde ung Lomb.

20. Og DROTTenn þrumade af Himne, og giorde sig so Heyrum kunnann, j miklum Storme.

21. Og sloo Høfdingiana j Tyro, og alla Herra Philistinorum.

22. Og fyrer sitt Endadægur, aadur hann deyde, vitnade hann fyrer DROttne, og Hans Smurda, ad hann fra øngvum Manne Pening, og ecke eirn Skoo tekid hefde, og einginn Madur kunne hann um nockud ad aasaka.

23. Og þa ed hann var nu sofnadur (b) spaade hann, og bodade Kongenum sinn Lijfs-Enda, og liet sig heyra upp ur Jordunne, og fyrer-spaade, ad þeir Ogudlegu mundu fyrerfarast.

(b) (Spaade) Þad giorde Samuel ecke, so sem hann meinar epter Skilninge Gydinganna, helldur Aude nockur j Samuelis Nafne.

## XLVII. Capitule.

Þar epter, a Døgum Davids, spaade Nathan.

2. Og David var medal Israelis Barna utvalenn, so sem þad Feita a Fornenne Gude eignad er.

3. Hann umgieckst med Leonum, riett sem lieke hann sier vid Kida-korn, og med Biarn-Dyrum so sem med Lombum.

4. J sijnu Ungdæme sloo hann Risann jhel, og burt took Brijxle af sijnu Folke.

5. Hann upphof sijna Hond, og snarade med Slaungunne, og sloo til Jardar þann stollta Goliath.

6. Þviad hann aakallade Nafn hins Hærsta DROTTins. Hann styrkte hans Hond so hann drap þann sterka Strijds-Mann, og upphof Horn sijns Folks.

7. Hann liet prijsa hann so sem Tiju Þusind Manna verdann, og heidrade hann med Guddomlegre Blessan, so ad hann hreppte Konglega Koronu.

8. Hann sloo Ovinena allavega, og afmaade Philisteos sijna Mootstandara, og braut j sundur þeirra Horn, so sem þad er enn j Dag sundurbrotid.

9. Fyrer sierhvørt Verk giorde hann Þacker þeim Heilagasta og Hærsta, med eirnum føgrum Dikt.

10. Hann saung af øllu Hiarta, og elskade Þann sem hann hafde skapad.

11. Hann sette Saung-Menn vid Alltared, og liet þa syngia sijna sætu Dikta.

12. Og skipade Haatijdis-Dagana heidarlega ad hallda, og ad Menn aarlegar Haatijder um allt Arid skylldu fagurlega hallda, til ad lofa Nafn DROTTins, og syngia j Helgedomenum um Morgnana.

13. DROTTenn fyrergaf honum sijnar Synder, og upphafde hans Horn eylijflega, og giorde vid hann Saattmaal, ad þad Kongs Rijke og Konungs Stooll j Israel skyllde hiaa honum blijfa.

14. Epter hann vard Kongur hans Vitre Son Salomon, hvørium Faderenn hafde feingid godar Raader, ad hann rijkte j Fride.

15. Þviad GUd hafde allt j kring stillt til Frids, uppa þad hann skyllde biggia Sijnu Nafne Hus, og uppbyggia þann Helgedom, sem um Alldur og Æfe stæde. 16. O

16. O hvad lærder þu vel a unga Alldre, og varst fullur Skilnings, lijka sem eitt Vatn, það Landed hylur!

17. Og þu hefur allt uppfyllt med Spakmælum, og Kienningum.

18. Og þitt Nafn vard vijdfrægt a fiarlægum Ey-Londum, og fyrer þijns Fridar Saker varstu halldenn kiær og verdugur.

19. Oll Lond undrudust þijna Dikta, Spakmæle, Epterlijkingar, og Utleggingar, og lofudu DROTTenn, hvor ed heiter Gud Israels.

20. Þu samansafnader so miklu Gulle sem Tin, og so miklu Silfre sem Bly.

21. Þitt Hiarta hneigdist til Kvenna, og lietst þær villa þig.

22. Og heingder uppa þinn Heidur eirn Skiemmdar-Fleck, og giorder það, ad þijn Born urdu ad vera utrekenn, og Reidenn gieck yfer þijna Epterkomendur, til Hefndar þinnar Heimsku, þa ad Kongs-Rijkid vard j sundurskipt, og j Ephraim uppkom eitt Afguda Kongs-Rijke.

23. Enn DROTTinn snere sier ecke fra sinne Miskun, og umbreitte ecke sijnu fyrerheitnu Verke.

24. Og afmaade ecke med ollu Epterkomendur Sijns hins Utvalda, og Hann svipte eige burt Sæde Sijns Elskulega.

25. Helldur hiellt Hann nockru epter af Folke Jacobs, og eirnre Root af David.

26. Og Salomon sofnade med sijnum Fedrum.

27. Og liet epter af sijnu Sæde Roboam, eirn Feavijsann Mann, Folkenu ad stijra, sa ongva Skinsemd hafde, hvor Lydnum kom til ad falla fra med sijnu Ein-Sinne.

28. Hier ad auk Jeroboam, Son Nebat, hvor ed kom Israels Lyd til Skurgoda Villu, og færde Ephraim j Synder, og þeirra Synder urdu offa-margar.

29. So þeir urdu med Sijdsta af sinne Ett-Jordu utrekner.

30. Þviad þeir uppþeinktu allskins Afguda-Dijrdkan, allt þar til yfer þa kom Hefndenn.

# XLVIII. Capitule.

Og Elias Spaa-Madur brautst framm sem annar Elldur, og hans Ord brunnu so sem Blys.

2. Og leidde yfer þa Hallære, og fæckade þeim fyrer sitt Vandlæte.

3. Þviad fyrer Ord DROTTins byrgdi hann aptur Himenenn, Þrem-Sinnum færde hann Elld ad ofann.

4. O hvad dijrdlegur hefur þu verid Elias! j þijnum Furdu-Verkum! Hvor er jafndijrdarlegur sem þu?

5. Med Orde hins Hæsta hefur þu uppvaked einn Daudann, og utaf Helvijte hann aptur leidt.

6. Þu hefur steypt stolltum Kongum af þeirra Sæng, og þeim fyrerfared.

7. Þu hefur heyrt a Fiallenu Sinai þa tilkomande (a) Straffun, og j Horeb Hefndena.

(a) (Straffun) 1 Reg: 19, stendur, Hvørsu það Hasael, Jehu, Elisæus (sem utleggiast fyrer, Vind, Jardskialfta, og Elld) skylldu drepa þann Ogudlega Lyd.

8. Þu hefur Kongunum fyrer spaad, sem þar skylldu ressa, og Spaa-Menn epter þig stickad.

9. Þu ert uppnumenn j Vind-Bil, med Elldlegum Vagne, og Hestum.

10. Þu ert tilsettur til ad straffa a sijnum Tijma, til ad stilla Reidena, fyrr enn Grimmdenn kiemur, og ad snua Hiortum Fedranna til Barnanna, og Ettkvijsler Jacobs aptur ad leida.

11. Sæler eru þeir ed þig siaa, og fyrer þijns Vinskapar Saker verda heidrader.

12. Þar munum vier það rietta Lijfed hafa.

13. Þa Elias var uppnumenn j Vind-Bilnum, kom hans Ande rijkuglega yfer Eli-

Eliseum. A sijnum Døgum hræddist hann øngva Høfdingja, og einginn kunne hann ad sigra.

14. Hann liet sig ecke neitt þvinga, Og sem hann var andadur, spaade enn þa hans Lijkame.

15. Þa hann lifde, giørde hann Taakn, og þa hann var daudur giørde hann Stormerki.

16. Þo dugde þetta alls (b) ecke, ad Folkid jdradist, og liete af sijnum Syndum, þar til þeir urdu utreknar af sijnu Lande, og um øll Lønd tvistrader.

(b) Hvad skal þa hiaalpa? Daudinn og Helvijtis Elldur.

17. Og þar vard eirn lijtill Hoopur epter, og eirn Høfdinge j Husi Davids.

18. A medal hvørra ad nockrer giørdu hvad GUde lijkade, enn sumer syndgudu hardla miøg.

19. Ezechias giørde stirkva Murvegge j kringum sijna Borg, og veitte Vatni þar jnn, hann liet grafa nidur j Bergid, og giøra þar Brunna.

20. A hans Døgum ferdadist Sennacherib upp, og sende ut Rabsacen, Hann hoof upp sijna Hønd j mooti Zion, og dreissadi med miklu Drambe.

21. Þa urdu þeirra Hiørtu og Hendur skiaalfandi, og þeir þoldu Angist, lijka sem Kona j Barn-Burdar Neyd.

22. Og þeir kølludu a Hinn Miskunsama DROTTenn, og hoofu upp til Hans sijnar Hendur.

23. Og Sa hinn Heilage a Himninum heyrdi þa braadt, og frelsadi fyrer Esaiam.

24. Hann sloo Her þeirra Assyrianskù, og hans Eingill afmaadi þa.

25. Þviad Ezechias giørde þad DRottne lijkade vel, og stood stødugur a Vege sijns Fødurs Davids, so sem Esaias kiennde hønum, hvør ad var eirn mikell og Sannordur Spaa-Madur j sijnum Spaa-Søgum.

26. A hans Døgum gieck Soolenn aptur a Bak, og hann jok Kongsins Lijf-Daga.

27. Hann sagde fyrer med rijkum Anda, Hvad med seinasta skyllde skie, Og veitte Traust hriggdarfullum Lyd til Zion, þar þeir mætte sig um Alldur og Æfe med hugga.

28. Hann bodade Økomna og Leynda Hlute adur þeir komu.

# XLIX. Capitule.

Nafn Josias er lijka sem Edla Lykt, ut af Jurta Husi.

2. Og er sætt sem Hunaang j Munne, og sem Streingia Hliodfære med Vijne.

3. Hann hafde stoora Naad til ad snua Folkenu, og Svijvirding Skurgoda-Villunnar af ad taka.

4. Hann vogade þad ut af øllu Hiarta til DROTTins, hann uppaptur reiste Sanna Guds Þionustu, þa Landed var fullt Afguda-Dijrdkunar.

5. Aller Kongar, ad undanteknum David, Ezechias, og Josias, hafa sig sakada giørt, þvi þeir fyrerlietu Løgmaal Hins Hæsta.

6. Sijdann var þad med Kongunum Juda utgiørt.

7. Þviad þeir urdu sijn Konga-Rijke ødrum ad giefa, og annarlegum Lyd sijna Dijrd.

8. Þeir uppbrenndu þa utvøldu Borg Helgedomsins, og j Eyde løgdu hennar Stræte, sem Jeremias hafde fyrer spaad, vid hvørn þeir hardla jlla høndludu.

9. Sa þegar j Moodur-Kvide var utvalenn til eins Spaa-Manns, ad hann uppræta, nidurbriota, rugla, og þar j moot uppbiggia og planta skylldi.

10. Ezechiel saa Dijrd DRottins j Synhvøria. Hann synde hønum af Vagne Cherubim.

11. Hann hefur fyrerspaad j giegn Øvinunum, og Huggun bodad þeim sem giøra riett.

12. Og Bein þeirra Tolf Spaa-Manna blomgast enn, nu þar þaug liggia, Þviad

þeir

þeir hafa hugsvalad Jacob, og fyrer heited þeirre Frelsan hvorrar þeir skylldu vissulega vænta.

13. Hvornenn vilium vier prijsa Sorobabel, hvor ed var so sem Hringur a Hægre Hende?

14. Og Jesus, Sonur Josedech, hvorier ed Mustered uppbiggdu a sijnum Dogum, Og þad Heilaga Hus DROTTne uppaptur reistu, þad er blijfa skyllde til Eylijflegrar Dijrdar.

15. Og Nehemias er ætijd Lofs verdur, sem oss uppaptur reiste fallna Murvegge, og Laasa fyrer Porteinn sette, Og vor Hus aptur ad nyu uppbiggde.

16. Eingenn er sa a Jordu skapadur, ad slijkur sie sem Enoch, Þviad hann var af Jordunne burt numenn.

17. Einginn er sem Joseph, hvor ed var eirn Herra sinna Brædra, og Hiaalpare sijns Lyds.

18. Hans Bein voru heim aptur flutt.

19. Seth og Sem hafa hia Monnum vered j miklum Heidre.

20. Enn Adam veittest Heidur framm yfer allt þad lifer, þviad hann er Firstur af Gude skapadur.

## L. Capitule.

Simon, Son Onie, Kienne-Manna Hofdinge, hvor a sijnum Tijma smijdade Gaung um Husid, og Pilaara þar vid sette.

2. Og Helminge hærra Grund-Vollenn murade, og giorde Umgang hid efra a Musterenu.

3. A hans Dogum var Brunnurenn nidur falleun, hvorn hann bio med Kopar.

4. Hann bar Umhyggiu fyrer Skada sijns Lyds, og giorde oruggva Borgena j giegn Ovinunum.

5. Hann giorde loflegt Verk, j þvi hann kom Folkenu aptur til riettrar Skickanar.

6. Þegar hann gieck framm af For-Tiallденu, so lyste hann sem Morgun-Stiarna j giegnum Skijenn, so sem fullur Maane.

7. Lijka sem þa Soolenn skijn a Mustere hins Hæsta.

8. So sem Regn-Boge med sijnum fogru Litum, so sem fogur Roosa a Vor-Tijma, sem Liliur vid Vatn, Lijka sem Reykelsis Trie a Vor-Tijma.

9. Sem tendrad Reykelsi j Glodar-Keri.

10. So sem eitt Gull-Ker prydt med allskins dyrum Steinum.

11. Sem eitt Friosamt Vid-Smiors-Trie, og so sem hid Hæsta Cypressus-Trie.

12. Þegar hann klædde sig þeim fagra Sijd-Kyrtle, og allt Skarted uppa sig sette, og gieck til Heilags Alltaris, Þa prydde hann allann Helgedomenn j kring.

13. Enn þegar hann took Foornar-Stickenn af Kienne-Manna Hende, og stood vid Elldenn hann sem a Alltarenu logade,

14. Þa stoodu Brædur hans j kringum hann, so sem Cedrus-Vidur a Libano plantadur, og umkringdu hann, so sem Palm-Vidar-Kvister.

15. Og oll Born Aaronis j sinne Fegurd, og hofdu j þeirra Hondum Foorn DROTTins, fyrer ollum Sofnude Israels Lyds. Og hann frammkvæmde sitt Embætte a Alltarenu, og færde so hinum Hæsta Almaattuga fagra Foorn.

16. Hann utrietti sijna Hond med Drickiu-Offur, og fornfærde hid rauda Vijn.

17. Og uthellte a Alltaris Botnenn Sætleiks Ilm, hinum Hæsta sem Kongur er allra.

18. Þa kolludu hoatt Born Aarons, og bliesu j Trametenn, og kunudu hoatt, so ad þeirra yrde minust j Auglite hins Hæsta.

19. Þa jafnsnart fiell allt Folkid aasamt nidur til Jardar, a sitt Andlit, og aakallade DROTTenn sinn Almaattugann Hæstann Gud.

20. Og Saung-Mennerner lofudu Hann med Psalmum, og allt Husid took epter þeim sætann Hliom.

21. Og Lydurenn bad til hins Hærsta DROTTens, þad Hann villde vera Miskunsamur, þar til ad Guds-Þionustu-giörd var ute, og þeir hofdu endad sitt Embætte.

22. Og þegar Hann gieck burt aptur, framrietteᴇ hann sijna Hønd yfer allann Søfnudenn Jsraels Barna, og gaf þeim Blessan DROttins med sijnum Munne, og æskte þeim Heilsu j Hans Nafne.

23. Þa bogdu þeir j annad Sinn, og medtooku þa Blessan af hinum Hærsta.

24. Og sogdu, Giored nu aller Gudi Þacker, sem Mikla Hlute verkar j øllum østum, hvør ed oss helldur vid Lijfed, fra Moodur-Kvide, og giører oss allt gott!

25. Hann giefi oss gladt (a) Hiarta, og veite jafnann Frid um vora Daga j Jsrael!

(a) (Gladt Hiarta) Gooda Samviskn.

26. Og ad Hans Naad jafnann med oss sie, og frelsi oss so leingi sem vier lifum.

27. Tveimur Þiodum er eg af Hiarta Ovinur, enn hinum Þridia er eg so gramur, sem øngrum odrum.

28. Þeim (b) Samverskum, (c) Philisteis, og þeim heimska Lyd j (d) Sichem.

(b) Samverskar eru Fals-Heilager Menn, og Villu Andar a medal Guds Barna.

(c) Philistei eru iller Nabuar, og Ossoknar-Menn, sem eige giefa upp ad ossækia Guds Ord.

(d) Sichem er þad Ohlydna upphlaupsama Almuga Folk, sem Guds Ord hefur, og forsmaar þad og forahtar.

29. Þessa Kienning og Vijsdom, hefur Jesus, Sonur Syrachs fra Jerusalem, j þessa Book skrifad, og af sijnu Hiarta þvilijkum Lærdome uthellt.

30. Sæll er sa Madur sem sig hier inne jdkar, og hvør þad hirder j Hiarta, sa mun Vitur verda.

31. Og ef hann þar epter giører, so mun hann til allra Hluta hentugur vera, Þviad Lioos DROTTins leider hann.

# Bæn Jesu Sonar Syrachs.

Þacker giøre eg Þier DROTTenn Kongur, og lofa Þig GUD minn Frelsare!

2. Eg þacka Þijnu Nafne ad Þu ert minn Hlijfare og Hiaalp, og hefur frelsad minn Lijkama fra Fordiorfun.

3. Fra Snoru (a) Falskrar Tungu, og Lygegiørnum Munnum.

(a) (Falskrar) Fyrer Guds Ords Saker hliota Menn allsstadar ad lijda, sem er Fals-Lærendur, Heidingar-Menn, Ofrijke, Elld, Fiotur og Fangelse, Enn fra þessu ollu hiaalpar GUD trulega.

4. Og Þu hefur hiaalpad mier moti Ovinunum, og frelsad mig epter þinni Stooru og Nafnkunnugre Miskun, af Grenian þeirra er mig vildu svelgia.

5. Af Hende þeirra sem soktu epter mijnu Lijfi, Af morgum Harmkvælum þar eg laa j.

6. Af Brunanum, sem mig umkringt hafde, Ur midium Elldenum, so eg brann ecke þar j, Af diupu Helvijtis Gine.

7. Fra folskum Bakmælurum, og Lygurum, Fyrer Kongum, og fra røngum Doome.

8. Eg var hardla naalægur Daudanum, og mitt Lijf var so nærre sem socked til Helvijtes.

9. Eg var umkringdur, og eingenn hiaalpade mier.

10. Eg leitade Hiaalpar hia Mønnum, og fann øngva.

11. Þa minnetest eg, DRottinn! a Miskun Þijna, og hvørsu Þu alltijd hiaalpad hefur.

12. Þviad Þu vidhiaalpar ollum sem uppa Þig vona, og frelsar þa af Høndum Heidingianna.

13. Eg bad til Guds moote þeirra Grimmd, og beidde um Frelsan fra Daudanum.

14. Og kallade a DROTTinn minn Fodur og Stiornara, ad Hann fyrerliete mig ecke j Neyd, og þegar hiner Drambloatu dreissudu, og eg hafde øngva Hiaalp.

15. Eg lofa Nafn Pitt oan Afloats, og eg prijsa og Packer giore þier.

16. Pviad nujn Bæn er heyrd, og Pu lepster mig fra Glotun og ollu Illu.

17. Par fyrer DROTTinn! Vil eg þier Lof segia og packa, og Pitt Nafn prijsa.

18. Pa eg var enn Ungur, oadur eg vard villtur, leitade eg Spekennar diarflega med minne Bæn.

19. J Musterenu bad eg þar um, og vil eg hennar leita allt til mijns Enda.

20. Mitt Hiarta fagnar yfer henne, lijka sem þa Vijn-Ber fullvaxa. Eg gieck strax a Veg til hennar, og grenslađist epter henne, allt fra minne Bærn-Æsku.

21. Eg hlustade þar til, og medtook hana.

22. Pa lærde eg vel, og jok miklu vid fyrer hana.

23. Par fyrer giore eg þeim Packer, sem mier gaf Vijsdom.

24. Eg einsetta mier, ad giora þar epter, og gott ad oastunda, og þar yfer vard eg ecke sneiptur.

25. Eg kepptest epter þvi af Hiarta, og var giætenn ad giora þar epter.

26. Eg hoof Hendur mijnar til Himens, þa upplystest mijn Ond af Vijsdome, so eg bar Kiennslu a mijna Heimsku.

27. Eg stundade epter henne af Alvoru, Hun og Eg urdum eitt Hiarta fra Upphafe, og eg fann hana hreina.

28. Par fyrer mun mier ecke verda (b) burtkastad.

(b) (Burtkastad) Helldur utvalenn verda, kiær og og velvirdur fyrer Gudе og Monnum.

29. Mitt Hiarta langade epter henne, og eg fieck eirn goodann Fiesiod.

30. DROTTenn hefur mier giefed fyrer hana nya Tungu, Par vil eg Hann med lofa.

31. * Naalgest hingad til mijn Pier Skinsomu, og komed j minn Skola!

* Kunstenn leitar sier nu Brauds, enn Braudeđ mun aptur j Stadenn leyta hennar, og ecke finna.

32. Og hvad ydur brestur þad meged þier hier læra, Pviad Sannlega erud þier miog þyrster.

33. Eg hefe upploked mijnum Munne, og kiennt, Hugsed nu og kauped ydur Vitsku a medann þier meged hafa hana oan Peninga.

34. Og giefed Hoals ydar under hennar Ok, og loated ydur underviijsa. Menn finna hana nu j Noand.

35. Sioaed mig! Eg hefe eina litla Stund Mædu og Erfidi haft, og hefe eg funded mikla Huggun.

36. Medtaked Lærdom so sem eirn mikenn Fiesiod Silfurs, og hallded honum, lijka so sem stoorre Gull-Hrugu.

37. Gledied ydur af Miskun Guds, og (c) skammest ydar ei fyrer Hans Lof.

(c) Skammest) Guds Ord ad medkienna, er fyrer Heimenum Skomm, Jaa, Skade og Vode.

38. Giored þad sem ydur boded er, a medann þier hafed Tom-Stund, þa mun Hann ydur þad vel launa a sijnum Tijma.

Ending a Jesu Syrachs Sonar Book.



# Formaale yfer Baruch.

Miog lijtil er þesse Book, og hvor þesse goode Baruch verid hefur, þad vita Menn ecke, Pviad Otrulegt er, ad S. Jeremie Pienare, sa sem og nefndest Baruch (hvorium ad þetta Brief er eignad) skylde ei hafa haft eirn hærra og rijkuglegra Anda, enn þesse Baruch er. Par til þa kiemur þesse Aara-Tala ei saman vid sioalfa Historiuna. So eg hafde hardtnær loatid hana hvoarijda, med Pridiu og Fiordu Book Esdre. Pviad þær enu somu Tvær Esdre Bækur hofum vier ecke viliad ytleggia, med þvi þar er eckert þess Hoattar j þeim, ad Menn finne ecke miklu betra j Esopo, edur enn minne hoattar Bookum,

kum., Au þess, ad j hinne Fiordu Book eru og so einsamann Draumar, So sem S. Jeronymus seger, Lyra hefur og ecke viliad utleggia þær, Eige helldur finnast þær j Griskunne. Þær maa utleggia hvør ed vill, Þo so, ad hann fleinge þeim ecke saman vid Tolu þessara Booka. Baruch lætum vier hier med filgia., Þviad hann skrifar hardlega i moote Skurgoda Þionustu, og framm filger Moses Logmaale.

# Prophetenn Baruch.

## I. Capitule.

Þessar eru þær Ordrædur, hvøriar ad Baruch, Sonur Nerie, Sonar Mahasie, Sonar Sedechie, Sonar Sedei, Sonar Helchie, hefur skrifad j eina Book j Babylon.

2. A Fimmta aare, a Sigunda Dege Maanadarins, a þeim Tijma, þa þeir Chaldeanskir hofdu unned Jerusalem, og uppbrennt hana med Ellde.

3. Og Baruch las þessa Book fyrer Jechania Jojakims Syne, Juda Konge, og fyrer Eyrum alls Folksins, sem þangad kom.

4. Og fyrer Eyrum Hofdingianna, og Konganna Sona, og Olldunganna, og fyrer ollu Folke, bæde Smaam og Stoorum, sem biuggu til Babylon, vid Vatned Sud.

5. Og þeir grietu, fostudu, og baadust fyrer, alvarlega fyrer DROTTne.

6. Og þeir logdu til samans hvad hvør formaatte.

7. Og sendu þad til Jerusalem, til Jojakims, Helchie Sonar, Salom Sonar, Kiennemanns, og til þeirra (annara) Prestanna, og til alls Folksins, sem var med honum til Jerusalem.

8. Ad hann skyllde færa þau Kierenn Hussens DROTTins til þeirra j Juda Lande, þau sem fyrr meir voru burt tekenn ur Musterenu, þann Tijunda Dag Maanadarins Sivan, sem voru þau Silfur-Kierenn, hvør ed Zedechia, Josia Sonur, Juda Kongur, hafde giora laated.

9. Þa Nabogodonosor Babylons Kongur hafde burt flutt Jechan Ja, og Hofdingiana, og þa Hertekna, og þa Megtugu, og þad Lands-Folked fra Jerusalem, og hafde flutt þa til Babylon., Og skrifudu þeim til a þennann Haatt.

10. Sia! Vier sendum ydur Peninga, Kauped þar med Brenne-Foorner, Syndafoorner, Reykelse og Matar-Offur, og offred þvi uppa Alltare DROTTins Guds Vors.

11. Og bidied fyrer Lijfe Nabogodonosors, Kongsins af Babylon, og fyrer Lijfe hans Sonar Balthazar, ad þeirra Dagar mege vera a Jordunne, so leinge sem Himensins Dagar vara.

12. Þa mun DROTTinn giefa oss Nægd og goda Daga, og vier munum lifa under Skugga Nabogodonosors, Kongsins af Babylon, og under Skugga hans Sonar Balthazar, og þiona þeim leinge, og finna Naad fyrer þeim.

13. Bidied og eirnenn fyrer oss til DROTTins Guds Vors, þviad vier hofum syndgast a moote DROttne Gllde Vorum, og hans Grimmd og Reide er ecke enn fra oss snuenn nu a þessum Dege.

14. Og lesed þessa Book, Þviad vier hofum þar fyrer sendt hana til ydar, ad þier skylldud lesa hana, j Huse DROTTins, a Haa-Tijdum, og Aar-Tijdis Dogum.

15. Og seged so, DROttinn Vor Gud er Riettlaatur, og vier berum maklega vora Smaan, So sem nu geingur þeim af Juda, og þeim af Jerusalem.

16. Og vorum Kongum, og vorum Hofdingium, og vorum Prestum, og vorum Prophetum.

17. Af

17. Af þvi, ad vier syndgudust fyrer DROTTne, og trudum Honum ecke.
18. Og hlyddum ecke Raustu Guds vors, Ad ganga epter Hans Bod-Ordum, sem hann hafde oss giefed.
19. Jaa, fra þeim Tijma, þa DROttinn leidde vora Fedur ut af Egypta-Lande, allt til þessa Dags, þa hofum vier vered Ohlydner DROttne GUde vorum, og hofum fyrerlited ad heyra hans Raust.
20. Þar fyrer er nu þetta Straff og Bolvan komed yfer oss, so sem DROTTinn hefur kunngiort oss fyrer sinn þienara Moysen. Þa DROTTinn utleidde vora Forfedur af Egypta-Lande, til ad giefa oss eitt Land sem Miolk og Huncang j rennur.
21. Og vier hlyddum ecke Raust DROttins Vors Guds, sem Spaa-Mennerner mælltu til vor, hvoria Hann sende oss.
22. Helldur gieck hvor eirn epter sijnum vondum Hiartans Hugrenningum, og þeir þionudu annarlegum Gudum, og giordu illt fyrer Auglite DROTTins Guds Vors.

## II. Capitule.

Og DROTTenn hefur hallded sijn Ord, þaug sem Hann talad hefur til vor, og vorra Doomara, Konga og Hofdingia, sem stiorna skylldu Jsrael, og til þeirra af Jsrael og Juda.
2. Og Hann hefur lated so stoort Straff koma yfer oss, hvors Lijke ei er skied under ollum Himnenum, sem komed er yfer Jerusalem.
3. Lijka so sem skrifad stendur j Moyses Logmaale, ad Madur skyllde eta sijns Sonar, og sinnar Dottur Holld.
4. Og Hann gaf þa burt til Prælä, j oll þau Konga-Rijke sem þar liggia um kring, til Smaanar, og til Bolvanar medal allra Þioda, sem eru j kringum oss, a medal hvorra DROttenn hefur utdreift þeim.
5. Og þeir verda jafnlega nidurþrickter, og gieta ecke komist upp aptur, Þviad vier hofum syndgast j moote DROTTne GUde Vorum, j þvi, ad vier hlyddum ecke Hans Raust.
6. DROttinn Vor GUd er Riettlaatur, Enn vier, og Fedur vorer, berum maklega vora Smaan, so sem nu skiedur.
7. Oll su Ogiæfa um hvoria DROTTenn hefur talad j giegn oss, hun er yfer oss komenn.
8. Og vier hofum ecke Graatbænt DROttenn, so ad hvor hefde snuid sier, fra sijnum jllum Hiartans Hugrenningum.
9. Og DROTTinn vakte yfer oss til þeirrar Olucku, sem Hann liet yfer oss koma, Þviad DROTTenn er Riettlaatur j ollum sijnum Verkum, sem Hann hefur oss bodid.
10. Enn vier hlyddum ecke Hans Roddu, so ad vier hefdum genged epter Bod-Ordum DROTTens, sem Hann gaf oss.
11. Og nu DROTTenn Jsraels GUd! Þu sem utleiddter Þitt Folk af Egypta-Lande, med eirnre sterkre Hende, med storre Magt og heafir Vallde, fyrer Teikn og Stoormerke, og hefur giort Þier eitt Nafn, so sem nu er þad.
12. Vier hofum syndgast, og hofum (Þvi verr) vered Ogudleger, og vier hofum brotid j mooti ollum Þijnum Bod-Ordum.
13. O DROTTinn GUd Vor! Laattu af Þinne Grimmdar Reide yfer oss, Þviad vier erum ordner hardla faaer a medal Heidingianna, þangad sem Þu hefur utdreift oss.
14. Heyr DROttenn vora Bæn, og vora Groat-Beidne, og hialpa oss, vegna sialfs Þijns, Og laat oss finna Naad hiaa þeim sem oss hafa j burt flutt!
15. So ad oll Verolldenn mege kannast vid, ad Þu DROTTenn ert vor GUd, Þviad Jsrael, og hans Saad, hefur sitt Nafn af Þier.
16. Lijttu DROTTenn laf Þijnu Heilaga

ga Huse, og hugsa til vor! Hneig Þu DROTTinn! Þitt Eyra, og Bænheyr Þu!

17. Uppluk Þu DROTTenn Þijnum Augum og sioa þad! Þviad þeir Frammlidnu j Helvijte, hvorra Ande lidenn er af Lijkamanum, þeir prijsa ecke Dijrd og Riettlæte DROTTins.

18. Helldur su Saala sem miøg er Sorgfull, og geingur biug og Hriggdarfull, og hefur hardtnær utgraatid sijn Augu, og er hungrud, Hun prijsar DROTTenn! Þijna Dijrd, og Þitt Riettlæte.

19. Og nu DROttenn Vor Gud! Vier liggium framme fyrer Þier med vorre Bæn, Ecke fyrer Saker Riettlætis vorra Fedra og vorra Konga, Helldur fyrer Saker Þinnar Miskunseme.

20. Epter þvi, ad Þu hefur ætijd laated Þijna Grimmd og Reide ganga yfer oss, so sem Þu talader fyrer Munn Prophetanna Þinna Þienara, segiande.

21. So seger DROTTenn, Beygied ydar Herdar, og giefid ydur under Konungenn af Babylon, þa munud þier blijfa j þvi Lande, sem Eg gaf ydar Fedrum.

22. Enn ef þier heyred ecke Roddenne DROTTens, og giefid ydur ei under Konungenn af Babylon.

23. Þa vil Eg j burt taka ur Borgunum Juda, og ur Jerusalem, Gledinnar og Fagnadarens Kall, og Brudgumans Rodd, og Brudarinnar, og allt Landed skal vera j Eyde, og þar skal einginn bua.

24. Enn vier vorum ecke hlyduger Þinne Roddu, so ad vier glæfum oss under Konginn af Babylon. Þar fyrer hefur Þu hallded Þijn Ord, þaug sem Þu talader fyrer Spaa-Mennena Þijna Þienara, so ad þeir hafa j burt kastad Beinum vorra Konunga, og Beinum vorra Fedra, af þeirra Grofum, og sundurtvijstrad þeim.

25. So ad þaug laau um Daga j Soolskine, og um Nætur j Doggu, Og þeir hafa hardla hriggelega fyrerfarest af Hungre, Sverde, og Fiøtrum.

26. Og fyrer Saker Synda Hussins Jsraels og Juda, þa hefur Þu laatid niderbriota Þitt Hus, j hvoriu Þitt Nafn var tilbedid, so sem þad stendur enn nu.

27. Og Þu DROttenn Vor Gud! hefur hardla Naadarsamlega, og epter allre mildre Þinne Miskunseme, vid oss giort.

28. So sem Þu talader vid Moysen Þinn Þionustu-Mann, a þeim Dege, þa Þu baudst honum ad skrifa Þitt Løgmaal fyrer Jsraels Bornum, segiandi,

29. Ef ad þier hlydid ecke Minne Roddu, þa skal Sannarlega þesse Hoopur, sem er eirn mikell Mannsiollde, verda miog lijtell a medal Heidingianna, þangad sem Eg vil utdreifa þeim.

30. Þviad Eg veit vel, ad þeir hlyda Mier ecke, Þvi þad er eitt Hardsvijrad Folk. Enn þeir munu snua sier, j þvi Lande þar þeir eru Hertekner.

31. Og munu þeckia, ad Eg sie DROTTenn þeirra Gud, Og Eg vil giefa þeim Skinseimdar Hiarta, og Eyru so þeir heyre.

32. Þa munu þeir vegsama Mig, j þvi Lande þar þeir eru Hertekner halldner, og þeir munu minnast a Mitt Nafn.

33. Og þeir munu snua sier fra sijnu hardsvijrudu Sinne, og fra sijnum Syndum, Þvi þeir munu minnast a þad, hvornenn ad þad gieck þeirra Fedrum, þeir sem syndgudust fyrer DROTTne.

34. Og Eg vil leida þa aptur j sitt Land, sem Eg soor þeirra Fedrum, Abraham, Jsaak og Jacob, og þeir skulu rijkia þar inne, Og Eg vil fiolga þa, og ei fæcka.

35. Og Eg vil uppreisa einn Eylijfann Saattmaala vid þa, ad Eg vil vera þeirra Gud, og þeir Mitt Folk. Og Eg vil ecke þadann af utreka Mitt Folk Jsrael, af þvi Lande sem Eg hefe giefid þeim.

## III. Capitule.

Almaattugur DROTTenn, Þu Jsraels Gud! Eg kalla Þig j þessare storre Angist og Neyd.

2. Bænheyr Þu, og vertu Miskunsamur DROTTenn! Þviad vier høfum syndgast i moote Þier.

3. Þu Drottnar ætijd og ad eylijfu, Enn vier forgongum jafnann.

4. Almaattugur DROttenn, Þu Jsraels Gud! Heyr nu Jsraels Bæner, sem nu er staddur j Daudans Kverkum, og Bæner þeirra Barna sem syndgast hafa j moote Þier, og ei hafa hlydt Roddu DROttens, sijns Guds, Þar fyrer hefur Hefndar-Straffed ætijd vered a Bake vor.

5. Minnstu ecke a Misgiorder vorra Fedra, Helldur minnstu nu a Þijna Hond, og a Þitt Nafn!

6. Þviad Þu DROTTenn ert ad vijsu Vor Gud, Þa vilium vier lofa Þig DROttenn!

7. Þviad þar fyrer hefur Þu giefed Þinn Otta j vor Hiortu, ad vier skulum aakalla Þitt Nafn, og vegsama Þig j vorum Fiotrum.

8. Þviad allar Misgiorder vorra Fedra, sem syndgudu fyrer Þier, þær ganga oss til Hiarta, vier sem nu erum j vorre Herleidingu, þar sem þu hefur utdreift oss, til Smaanar, til Bølvunar og Svijvirdingar, vegna allra Misgiorda vorra Fedra, sem viku fra Gude DROTTne sijnum.

9. Heyrdu Jsrael Lijfsins Bod-Ord, Giefdu grandvarlega Giætur ad þvi, og vardveittu þad vel!

10. Hvornenn kiemur þad til, Jsrael! Ad þu vanmegnast j Lande Heidingianna?

11. Ad þu ert j Okunnu Lande? Ad þu saurgar þig a medal þeirra Daudu? Ad þu ert reiknadur a medal þeirra sem fara til Helvijtis?

12. Þad er Søkenn, ad þu hefur yfergiefed Spekennar Brunn.

13. Hefder þu blifed a Guds Vege, þa hefder þu ætijd buid j Fride.

14. So lær nu Sanna Speke, so ad þu meiger reyna, Hvor Sa sie sem ad giefur langa Lijf-Daga, Audlegd, Glede og Frid.

15. Hvor veit Hvar hun byr? Hvor hefur komed j hennar Herberge?

16. Hvar eru Heidingianna Høfdingiar, sem drottna yfer Villu-Dyrunum a Jordu?

17. Þeir sem leika vid Fugla Himensins, þeir sem safna Silfre og Gulle, hvar a ad Menn setia sitt Traust, og kunna þar af alldrei metter ad verda.

18. (Þviad þeir utvega Fied, og hafa alla Kostgiæfne a þvi, og þad er þo alltsaman til einkis.)

19. Þeir eru afmaader, og fooru nidur til Helvijtis, og adrer eru komner j Stadenn þeirra.

20. Þeirra Epterkomendur siaa ad sonnu Lioosid, og bua a Jard-Rijke, Enn hitta þo ecke a þann Vegenn þar ed Spekenn verdur fundenn.

21. Þviad þeir fyrerlijta hana, Þar med hafa og þeirra Børn villt fared.

22. J Canaans Lande heyra Menn eckert af henne, J Theman siest hun ei.

23. Børn Hagar leita ad vijsu epter Jardlegre Speke. Somuleidis Kaup-Mennerner af Meran, og þeir j Theman sem hallda sig hyggna ad vera, Enn þo hitta þeir ecke a þann Veg, þar sem Spekinn finnst.

24. O Jsrael! Hvad Dyrlegt er DROTTens Hus, Hvad vijdur og stoor er sa Stadur þar Hann byr!

25. Hann hefur øngvann Endaa, og er O-mælelega Haar.

26. Þar voru fordum Risar, mikler Nafn-fræger Menn, og gooder Strijds-Menn.

27. Þa hina somu hefur DROTTenn ecke utvaled, og eigi helldur opinnberad þeim Vidurkienningarennar Veg.

28. Og med þvi þeir høfdu ecke Spekena, þa eru þeir foreydder j sinne Heimsku.

29. Hvor er farenn uppi Himenenn, og hefur sokt hana, og haft hana ofann hingad ur Skijunum?

30. Hver hefur siglt yfer um Hafed, og

fundid hana, og flutt hana hingad fyrer ko-
stulegt Gull?

31. Summa, Par er einginn sem þann
Veg veit, þar ed Spekenn finnst.

32. Enn Sa sem alla Hlute veit hann þecker
hana, og Hann hefur fundid hana fyrer sinn
Skilning, Sa sem tilbio Jard-Rijked af ey-
lijfre Tijd, og uppfyllte þad af allskins
Dyrum.

33. Hann sem lætur Lioosid upprenna,
og þa nær Hann kallar þad aptur, þa hlytur
þad ad hlyda Honum.

34. Stiornurnar lysa j sinne Skickan
med Fagnade, og þa Hann kallar a þær, þa
svara þær,

35. Hier erum vier, Og þær lysa med
Glede Hans vegna sem þær hefur skapad.

36. Pad er Vor GUD, og Eingenn er Ho-
num sam-jafn.

37. Hann hefur funded Spekena, og
Hann gaf hana Jacob sijnum Pienara, og
Jsrael sijnum Elskulega.

38. Epter þad birtest hun a Jordunne,
og bio medal Folksins.

IV. Cap. 1. Pesse Speke er su Book um
Guds Bod-Ord, og um þad Logmaal sem
er eylijft. Aller þeir sem hallda henne, þeir
munu lifa, enn þeir sem yfertroda hana þeir
munu deya.

2. Snudu þier þangad aptur Jsrael! Og
medtaktu hana, gacktu epter þvilijku Lioose
sem fyrer Pier skijn.

3. Yfergief Pu ecke odrum Pijna Veg-
semd, og einu annarlegu Folki Pinn Fiesiod.

4. O! Sæler erum vier Jsrael! Pviad
GUD hefur opinnberad oss sinn Vilia.

## IV. Capitule.

5. Vertu med godu Giede Mitt Folk, þu
Jsraels Prijs!

6. Pier erud Heidinginnum sellder, ei til
Fordiorfunar, helldur af þvi, ad þier styggdud
GUD, þa erud þier j ydra Ovina Valld
gjefner.

7. Pvi þier hafed til Reide reitt Pann sem
ydur skapade, j þvi, ad þier Foorner færdud
ecke GUde, helldur Dioflunum.

8. Pier forgleymdud þeim Eylijfa GUDi
sem ydur skapade, og þier hriggdud Jerusa-
lem sem fædde ydur upp.

9. Pviad hun hefur sied þa Guds Reide,
sem koma skyllde yfer ydur, segiande, Heyred
þier Innbyggendur j Sion! GUD hefur sendt
mier stoora Hormung.

10. Pvi Eg hefe sied Herteckning Minna
Sona og Dætra, hvoria Sa Eylijfe liet yfer
þa koma.

11. Eg uppfædde þa med Glede, Enn
med Hriggd og Hiartans Angre hef eg sied
þa j burt flutta.

12. Eingenn fagne yfer mier, ad eg er
ein Eckia, og af morgum yfergiefenn, Eg er
eydelogd fyrer Saker Synda minna Barna.

13. Pvi þaug eru afvikenn fra Guds
Logmaale, og þecktu ecke Hans Riettinde,
þaug lifdu ecke epter Guds Skipan, og hafa
ecke halldid Hans Bod-Ord.

14. Komed hingad þier Jnnbyggendur j
Sion! og kunngiored Mijnum Sonum og
Dætrum þa Herleidingena sem Sa hinn Ey-
lijfe hefur yfer þa leidt.

15. Pviad Hann hefur leidt yfer þa eitt
Folk ur Fiarlægd, Eitt Ognarlegt Folk, og
eitt Okunnugt Tungumaal.

16. Peir sem ecke blygdast fyrer þeim
Olldrudu, og eige helldur sioa aumur a
Smaa-Bornum. Pesser enu somu hafa
burt flutt Ecknanna aastkiæra (Syne) og
rænt Dætrum fra þeirre sem er einsomul.

17. Enn hvornenn kann Eg ad hialpa
ydur?

18. Pviad Hann, sem þessa Ogiæfu hefur
yfer ydur leidt, Hann mun frelsa ydur af ydar
Ovina Hondum.

19. Farid burt Kiæru Born! Farid burt!
Enn eg er yfergiefenn einsomun.

20. Eg hefe afklædt mig mijnum Gledin-
nar Klædum, og jklædst Hriggdarennar
Klæd-

Klædnadi, Eg vil kalla til þins Eylijfa ætijd og Alla-Tijma.

21. Vered hughraust Born! Kalled til Guds, þa mun Hann frelsa ydur fra ydra Ovina Vallde og Hendi.

22. Þviad Eg vona nu þegar, ad Sa Eylijfe skal hiaalpa ydur, Og Eg mun hafa Glede af þeim Heilaga, vegna þeirrar Miskunsemi sem ydur mun snarlega veitast af vorum Eylijfa Frelsara.

23. Eg liet ydur burt fara med Sorg og Grraat, Enn GUD mun giefa mier ydur aptur med Fognude, og Glede Eylijflega.

24. Og lijka so sem Sions Innbyggiarar hafa nu sied ydar Herleiding, So skulu þeir og snarlega sioa Hiaalpena Guds ydars, sem koma mun yfer ydur med mikellre Dijrd, og Eylijfre Huggun.

25. Þier Born! Lijdid Þolinnmodlega þa Reide, sem af GUde yfer ydur kiemur. Þviad þinn Fiand-Madur hefur offokt þig, Og þu skallt snarlega sioa hans Fordiorfun, og þu skallt stijga uppa þeirra Hals.

26. Mijn Blautu (Born) urdu ad ganga a ossliettum Vege, Þaug eru burt flutt lijka sem ein Hiord, hvorre Ovinerner hafa rænt.

27. Verid hughraust þier Born! Og kalled til Guds, Þviad Sa sem liet burtflytia ydur, Hann mun ecke gleyma ydur.

28. Þviad so sem þier hafed aastundad, ad vijkia fra GUde, so snuid ydur nu, og legged Tijufallda castundan a ad leita DRottins.

29. Þviad Hann sem liet þetta Straff koma yfer ydur, Hann mun hiaalpa ydur, og gledia ydur Eylijflega.

30. Jerusalem! Vertu Hughraust, þviad Hann mun hugga þig, epter hvorium þu ert nefnd.

31. Vesæler munu þeir vera sem þier hafa illt giort, og voru glader yfer þinne Hrasan

32. Vesæler munu þeir Stader verda hvorium þijn Born hafa þionad, og Vesæler skulu þeir verda sem hallda þijnum Bornum Hertefnum.

33. Þviad eins so sem hun fagnade yfer þinne Hrasan, og var glod af þinne Fordiorfun, lijka so skal hun verda Hrigg þa hun verdur eydelogd.

34. Og Eg vil burtsvipta hennar Magt, af hvorre hun drambar, og hennar Hrosan vil Eg umsnua til Kveinunar.

35. Þviad yfer hana mun koma eirn Elldur, af þeim Eylijfa, um marga Daga, og Dioflar munu byggia j henne, um langann Tijma.

## V. Capitule.

36. Lijttu j kring þig Jerusalem! Til Austurs, og skoda þa Huggun sem til þijn kiemur af GUde.

37. Sioadu! Þijn Born, sem burt voru flutt, koma, Jaa, þaug koma samansofnud bæde af Austre og Vestre, fyrer Ord Hins Heilaga, og prijsa Guds Dijrd.

V. Cap: 1. Jerusalem! Afklæd þig þijnum Sorgar Klædum, og jskrydst þijnum Dijrdar-Skruda af GUde Eylijflega.

2. Jklædstu Kyrtle Guds Riettlætis, Og set uppa þitt Hofud Koronu Dijrdarinnar, þess Eylijfa.

3. GUd mun opennbera giora þijna Vegsemd under ollum Himnenum.

4. Þviad þitt Nafn skal nefnast af GUde Eylijflega, Fridur, Riettlæte, Prijs og Gudhrædsla.

5. Tak þig upp Jerusalem, og far uppa Hædena, og lijt um kring til Austurs, og skoda þijn Born, sem bæde af Austre og Vestre eru til samans komenn, fyrer Ord Hins Heilaga, og eru glod, ad GUd hefur minnst þeirra aptur.

6. Þaug eru af Ovinunum burt flutt fra þier gangande, Enn GUd mun leida þaug til þijn, upphafenn med Heidur, lijka so sem Rijkesins Born.

7. Þviad GUd vill lækka oll hoa Fioll, og uppfylla þær laungu Fiorur og Dale sem Land,

Land, so ad Israel meige ferdast ohræddur, og vegsama GUD.

8. Enn Skogarner, og oll ilmande Trie, skulu skyggia a Israel, epter Skipan Guds.

9. Þviad GUD skal leida Israel hingad aptur med Glede, fyrer sijna Dijrdlega Huggun, med Miskunseme, og sijnu Riettlæte.

## VI. Capitule.

Þetta er ein Utskrift af þvi Sende-Briefe, sem Jeremias sende til þeirra, sem burt skylldu flytiast Hertekner til Babylon, af Kongenum j Babylon, j hvoriu hann kunngiorde þeim þad, so sem GUD hafde honum bifalad.

VI. Cap: 1. Vegna ydar Synda, sem þier hafed GUDe j moote giort, þa skulud þier Hertekner j burtflutter verda til Babylon, af Nabogodonosor, Babylons Konge.

2. Og þier skulud vera j Babylon laangann Tijma, sem er, Siotiju Aar, Epter þad vil Eg flytia ydur þadann hingad aptur med Fride.

3. Enn a medann, þa munud þier faa ad sioa j Babylon, ad Menn bera, a sijnum Oxlum, Skurgod giord af Silfre, Gulle, og Trie, fyrer hvorium ad Heidingiarner eru hrædder.

4. Þar fyrer sioaid ydur vel fyrer, ad þier giored ei slijkt epter þeim, og ad þier ecke verdid so sem Heidingiar.

5. Og þegar þier sioaid þad Folk, sem undann fer og epter geingur bidiande til Skurgoda, þa segid so j ydru Hiarta, DROTTenn! Þig eiga Menn ad tilbidia.

6. Þviad Minn Engill skal vera hiaa ydur, og Eg vil hefna ydvara Saalna.

7. Þeirra Tungur eru vel smijdadar af Hagleiks-Mannenum, og þaug eru prijdd med Gulle og Silfre, og hafa fagrar utskornar Tungur, Enn þad eru ei riettelegar Tungur, og þær kunna ecke ad tala.

8. Þeir prijda þaug med Gulle, svo sem eina Jungfru j Dans, og setia Koronur a þau.

9. Og Prestarner stela Gulle og Silfre j fra Skurgodunum, og eyda þvi med Lausa-Konum j Hooru-Husi.

10. Og þeir prijda Skurgodenn med Klædum, sem eru af Gulle, Silfre og Trie, so sem være þaug Madur.

11. Enn þaug geta ecke vardveitt sig fyrer Ryde og Mol.

12. Og þa nockur færer þaug j Purpura Klæde, þa maa striuka Duptid af þeim, sem a þeim liggur.

13. Þad hefur Stiornar-Sprota j Hende, lijka sem Kongur, og kann þo ongvann ad straffa þann sem þvi illt giorer.

14. Þad hefur eitt Sverd og eina Oxe j sinne Hende, Enn getur þo ecke varid sig fyrer Þiofum og Ræningium.

15. Af þessu sioa Menn vel, ad þeir eru ecke Gudder, þar fyrer hrædest þa ecke. Lijka sem eitt Kier, þad Menn hafa haft sier til Gagns, þad er til einkis þa þad er j sundur brotid, So eru og þeirra Skurgod.

16. Þegar Menn setia þau j þeirra Hus, þa verda þau full af Dupte, af Footum þeirra sem þar inngangа.

17. Prestarner gæta Skurgodanna Musteris med Hurdum, Laasum og Slag-Brondum, so ad Ræningiar stele þeim ecke j burt. Eins so sem þa nockur Fange er fiotradur og geymdur, sa sem forbrotid hefur j mooti Kongenum, og til Dauda er dæmdur.

18. Þeir tendra fleyre Lampa fyrer þeim, enn fyrer sialfum sier, og þaug sioa þo eckert.

19. Þaug eru so sem Bitar j Husinu, og Skrid-Ormar Jardarennar eta þeirra Hiortu, og Klædnad, og þaug verda ecke vor vid þad.

20. Þaug eru svort j Andlitenu, af Reyknum sem er j Husinu.

21. Og

21. Og Naatt-Uglur, Svolur, og adrer Fuglar setiast þeim a Hofud, somuleidis og eirnenn Kietterner.

22. Af þessu meged þier merkia, ad þeir eru ecke Guder, þar fyrir hrædist þa ecke.

23. Þad Gull sem Menn festa uppa þaug, þeim til Prydis, þad skijn ecke, þegar Menn fægia ecke Rydid af þvi.

24. Þa þaug voru steypt, þa kienndu þaug þar ecke til, Menn hafa smijdad þaug af allra-handa forkostulegu Efne, Og þar er þo ecke Lijf j þeim.

25. First þaug gieta ecke geinged, þa verda Menn ad bera þaug a Oxlunum, Af þessu meiga Menn sioa, ad þetta eru Hoadugleger Guder.

26. Þeir meiga og skammast sijn þeirra vegna sem þaug gøfga, Fyrer þvi, ad þaug hvørki kunna ad standa sioalf upp, ef þau falla a Jørd, og eige helldur ad hræra sig, þo þau sieu uppreist og j burt sett, Eige helldur reisa sig upp þo Menn halle þeim. Og lijka sem Menn setie Foorn fyrer þa Daudu, so setia Menn og fyrer þaug.

27. Enn þeirra Prestar eyda þvi upp sem þeim er giefid, somu-leidis og þeirra Kvinnur skarta þar af, og giefa hvørke þeim Foatæka, nie þeim Siuka nockud af þvi.

28. Ohreinar Konur, og þær sem j Ute-Stodu eru, koma vid þeirra Offur, af hvøriu þier meiged merkia, ad þeir eru ecke Guder, Þar fyrer ottest þa ecke.

29. Og hvar af skylldu þeir nefnast Guder? Þviad Kvinnurnar þiona þeim Afgudum, sem eru af Silfre, Gulle og Trie.

30. Og Prestarner sitia j þeirra Musterum, hafande vijdar Koor-Koapur, afrakad Skegg, rakadar Krunur, sitia þar berhøfdader,

31. Yla og æpa fyrer sijnum Afgudum, lijka sem Menn plaga ad giora þa Daudra er minnst.

32. Prestarner stela fra þeim þeirra Klædum, og klæda þar med Konur sijnar og Børn.

33. Hvørt sem þeim er gott giørt, edur illt, þa kunna þau þad ecki ad launa. Þaug gieta hvørke innsett eirn Kong, nie helldur hann af sett.

34. Þaug kunna hvørki ad giefa Gotsnie Peninga. Heite Madur þeim nockru og hallde þad ecki, þa krefia þaug þess eige.

35. Þaug gieta ecke frelst nockurn fra Dauda, og ei helldur hioalpad þeim Veika j mooti þeim Sterka.

36. Þaug kunna ecke ad giefa nockrum Blindum Syn, Þaug hioalpa øngvum Manne j Neyd.

37. Þau sioa ecke aumur a Eckiunne, og hioalpa ecke þeim Fødurlausa.

38. Þvi þaug eru af Trie, prijdd med Gulle og Silfre, lijka sem Steinar þeir sem Menn høggva af Biarge, Þar fyrer skulu þeir ad Skømm verda sem þaug vegsama.

39. Hvørnen meiga Menn þa hallda þau fyrer Gude, eda kalla þau þad?

40. Med þvi, ad þeir Chaldei hallda ei stoorlegt af þeim. Þviad nær þeir sioa eirn Moallausann, sem ecki kann ad tala, þa leida þeir hann fyrer Bel.

41. Og segia, ad sa Moallausi skule oakalla hann, lijka so sem ad skilde hann þad, Og þo ad þeir vite þad, ad j þeim er eckert Lijf, þa hlaupa þeir þo eptir þeim.

42. Enn Kvinnurnar sitia ute fyrer Kirkiunum, umgyrdtar med Lijn-Belltum, og bera Alldine til Offurs.

43. Og þegar nockur geingur þar framm hioa, og tekur eina j burt af þeim, og sefur med henne, Þa hroosar hun sier þar af j moote hinum ødrum, ad hinar adrar hafe ecke vered verdugar þar til so sem hun, ad þeirra Bellte skyllde upplensast.

44. Allt þad sem skiedur af þeim, eru einsomun Svik, Hvørninn meiga Menn þa hallda þaug fyrer Gude, edur nefna þaug so?

45. Þaug eru giørd af Hagleiks Mønnum, og Gull-Smidum, og hvad sem Smiderner

derner vilia þad verdur þar af, enn eckert annad.

46. Og þeir sem þaug hafa giört kunna ei leinge ad lifa, Hvornenn skyllde þad þa vera GUD sem af þeim er smijdad?

47. Þar fyrer giefa þeir Epterkomendunum ecke utann Hneixlun og Efne til liotlegrar Afguda-Dijrdkunar.

48. Þviad þegar Ofridur, edur önnur Olucka kiemur yfer þa, þa hallda Prestarner Radagiörd hvör vid annann, hvar þeir skule fela sig med Skurgodunum.

49. Af þvi meiga Menn vel merkia, ad þaug eru öngver Guder, med þviad þaug kunna ecke ad hiaalpa sier, hvorke fyrer Ofride, nie annare Olucku, Þvi þaug eru ecke annad enn Skurgod af Trie, sem eru forgyllt, og med Silfre yferslegenn.

50. Þar fyrer meiga Menn frammvegis nu vel vita, ad þad eru Svik, sem eru opinnber fyrer öllum Heidingium, og Kongum, og ecke Guder, Helldur eru þaug giörd med Manna Höndum, og þar er eingenn Guddomur j þeim.

51. Þar fyrer maa hvör Madur vel merkia, ad þaug eru ecke Guder.

52. Þviad þaug uppvekia öngvann Konung j Landenu, Þaug giefa ecke Mönnum Regn.

53. Og þaug stiorna ei, nie straffa, so lijtt sem Fuglarner, þeir sem j Loptenu fliuga aptur og framm.

54. Þegar ad Skurgoda Husid, sem er af Trie, forgyllt og med Silfre þakt, brennur af Elde, þa skunda Prestarner þar fra, og forda sier fyrer Skadanum, Enn þaug brenna upp so sem adrer Biaalkar.

55. Þaug kunna hvorke Konge nie Strijds-Folke Mootstödu ad veita, Þvi skulu Menn þa hallda þaug fyrer GUde, eda nefna þaug so?

56. Þesse Trie-God, forgyllt og med Silfre yfer slegenn, þaug kunna ecke ad vardveita sig fyrer Þiofum og Ræningium.

57. Þviad þeir verda þeim yfersterkare, og þeir ræna þau og afklæda, taka burt þeirra Gull, Silfur og Klæde, og komast so undann, Og þaug kunna ei sialf ad hiaalpa sier.

58. Þar fyrer er miklu betra ad vera einn Kongur, sa ed audsyna kann sijna Magt, edur nytsamlegt Kier, sem er til Gagns j Husenu, edur ein Hurd, sem Hused geymer, edur ein Trie-Stod j Kongs Herberge, helldur enn slijkt vanmaattugt Skurgod.

59. Sool, Tungl, og Stiörnur skijna, og eru hlydnar, so sem GUD skipar.

60. So og lyser Elldingenn, so ad Menn sioa hana, Vindurenn blæs j öllum Löndum.

61. Og Skijenn fara j giegnum allann Heimenn, og giöra þad sem GUD skipar þeim.

62. So og lijka sa Elldurinn þar ofann ad, hann slær Fiöll og Skoga, og giörer þad sem honum er boded.

63. Enn Skurgodenn kunna hvorke ad hræra sig nie nockud ad giöra. Þar fyrer skulu Menn ecke hallda þaug fyrer GUde, edur nefna þaug so, Þviad þaug kunna hvorke ad straffa nie hiaalpa.

64. Epter þvi, ad þier þa vitid, ad þaug eru ecke Guder, þa ottist þaug ecke.

65. Þvi þaug kunna hvorke ad bölva nie blessa Kongana.

66. Þaug kunna ecke nockur Teikn Heidingiunum ad giefa a Himnunum. Þaug kunna ei biart ad giöra sem Soolenn, eige helldur nockra Birtu ad giefa sem Tunglid.

67. Skinlaus Dyr eru betre enn þaug, þaug kunna ad flya j Fylsne og fela sig.

68. Af þvi er alldungis opinnbert, ad þau eru ecke Guder.

69. Þviad lijka sem ein Fugla-Hræda j Gras-Garde kann einskis geyma, So eru og þeirra Trie-God, gyllt, og med Silfre yferslegin, til einkis Gagns.

70. Og so sem Buskur j einum Alldinn-

Garde,

Garde, Hvar ꝏ allra-handa Fuglar hreidra sig, edur so sem Frammlidenn, sa sem j Grøfenne liggur, So eru og þeirra Trie-Skurgod, forgyllt og med Silfre yferslegenn.

71. Menn meiga og þar af merkia, ad þaug eru ecke Guder, Þviad þad Skarlats Klæde sem þaug eru j, þad verdur uppetid af Mol, og eirninn þaug sialf um siider, so ad hvør Madur spottar þau.

72. Sæll er sa Madur sem er Riettlaatur, og eingenn Skurgod hefur, hann mun ei verda til Skammar!

Ending a Baruchs Book.

# Formaale yfer þa Firstu Book Maccabeorum.

Þesse Book er eirnenn ein þeirra, sem ei er talenn j þeirre Ebresku Bibliu, enn er þo j Ordum, og Atkvædum miøg lijk ødrum Bookum Heilagrar Ritningar, og mætte vel reiknast med þeim, þviad hun er miøg nytsamleg Book, til ad skilia Danielem j XI Cap: Þviad þad sama sem Daniel hefur fyrer spaad j nefndum Cap: Ut af þeirre Svijvirding, og Olucku, sem koma munde yfer Israels Folk, Þad segist j þessare Book uppfyllt og frammkomid, sem er, um Antiochum, sem kallast hinn Gøfge, og um þa litlu Hiaalp, og þær stooru Offsokner Heidingia, og Falskra Gydinga, hvad allt ad skiede a Døgum þeirra Maccabeorum, Þar fyrer er oss Christnum Mønnum Nytsemd j ad lesa og kunna þessa Book.

First fyrer þa Grein, ad Þesse same Antiochus er halldenn ein Figura, og Fyrermindan Antachristsins, hvør Antiochus soddann Svijvirding, og Foreydslu Gudlegrar Pionustugiørdar uppsette j Jerusalem, og j Gydinga Landi, skammt citt fyrer Christi Hingaburd, og Firstu Hingadkomu, Þa meigum vier þar ut af læra, ad Þeckia hann rietta Anta-Christum, sem fyrer þa Adra og Sijdurstu Hingadkomu Christi eydeleggia skal Christnena, og Guds Þionustugiørd nidurbriota. So ad vier ecke skielfumst, þegar vier reynum slijkt, og siaaum þad med vorum Augum, helldur sieum Hughrauster, og truum fastlega þvi, ad vier samt med Christninne munum verda vardveitter, og ad Endalyktunum frelsader verda, hvørsu Mikil sem Offsoknenn verdur, Og þo ad Diøfullenn verde so reidur sem mest maa hann, Þviad vier siaum og forutertium nu þa sømu Hiaalp (þo ad hun sie lijtil og audvirdeleg) sem Almaattugur Gud hefur uppbyriad oss ad veita.

Og Evangelium er þad Fagra Saaluhiaalplega Sverdid, med hvøriu Guds Þienarar a vorum Døgum miøg ærlega slaa uppa Anta-Christenn, og koma miklu til Leidar, þo ad þad koste þa mikellrar Offsoknar og Bloods Uthellingar, aalijka sem Gud a þeim Døgum Hiaalp veitte sijnu Folke fyrer Sverd þeirra Maccabeorum, þo ad þad skiede ecke aan Offsoknar og mikellrar Hiartans Sorgar, þa hreinsudu þeir samt Musterid, og uppbiriudu Guds Þionustu aptur ad nyu, og samannsøfnudu Folkenu aptur ad nyu til ad uppbiria þa Fiørre Rijkis-Stiornan. Eins burtfæger og hreinsar Evangelium, nu a vorum Døgum, Skurgoda Villuna, Og so sem Christur seger, ad Einglarner skule j burt taka allar Hneixlaner ur Hans Rijke, og samansafna ad nyu þeim Riett-Christnu, til þeirrar Gomlu Riettu Christelegrar Truar, og til Saaura Godra Verka og Guds Þionustu.

J Annann Maata, ad vier skulum hugga oss þar vid, ad Gud hiaalpade þeim Hinum, ecke ad eins, j moote Antiocho og Heidingiunum, Helldur eirnenn j moote þeim Svikurum og af-følknum Gydingum, sem ad fiellu til Heidingia, og Stirk veittu til ad offækia og lijflaata sitt eigid Folk og Brædur, og ad giora þeim allsħaattad Hiartans Angur, So ad vier sieum stadfaster og ohrædder, Þo ad Fals-Christner og Villu-Andar, þeir sem nu eru ordner vorer Svikarar, uppsetie sig j moote oss, og pijne og plaage oss miøg hardlega, ef ad þeir giøra oss ei þyngre Pijnu og Skada, helldur enn vor Antiochus edur Antachristus. Þviad þetta hefur Daniel fyrer sagt, og kunngiørt oss þad til Huggunar, ad þad hliote so ad skie og tilganga, ad Børn vors eiginn Folks munu svikfamlega breyta vid oss, og veita Stirk til ad offækia oss. Þar fyrer skulum vier ecke eiga stors betra, enn þau godu Israels Børn aattu, under sijnum Antiocho, edur Antachriste, hiaa þeirra Folskum Brædrum.

Enn ad Sijdurstu urdu þo samt þesser sømu Fiand-Menn, og Forrædarar, af Gude miøg maklega og þunglega straffader, og þeirra Offsokner, Yfergan-

gangur og Svik, urdu ecke ohegnd. So ad vier og eirnenn siaaum, med glødum Augum, og med goodu Giede, a vorum Antachriste, Offoknurum og Villu-Øndum, og meigum þvi umlijda þeirra Ognan og Offokner, Þvi vier vitum vissulega, ad þeir munu ecke slijkt til Leingdar fremia, enn sijdur þad allt frammkoæma sem þeir hugsa, Helldur munu þeir snarlega faa sijn forþienud Laun, so sem Antiochus, og adrer Forrædarar feingu, og slijkt Straff er allareidu yfer þa komid, og eykst daglega, þo ad þeir blinder og forherdter Menn skinie þar ecke um, Þad vardar oss ei, þeir munu finna þad so sem Hiner giørdu, Þad giefi Almaattugur Gud, med þvi, ad þeir vilia ecke hafa þad Ødruvijse, ad þad mætte snarlega ske, hans Nafne til Helgunar, og hans Rijke til Stirktar, og til Hnugunar øllum Harmþrungnum Hiortum, sem eru Herteken j Diøfulsins og Antachristsins Rijke,
Amen!

# Firsta Book Maccabeorum.

## I. Capitule.

Alexander Philippi Son, Kongur j Macedonia, sa Firste Monarcha af Grick-Lande, hann ut droo af Lande Chitim, og aatte stoorar Orustur, Hann vann sterkar Borger, og hann jhelsloo Darium Kong af Persia.

2. Þar epter braut hann under sig adra Konga j øllum Londum.

3. Og hann reiste jafnann aaframm, og vann øll Lønd og Konga-Rijke.

4. Og eingenn þorde honum j moote ad standa, Og hann hafde megtugt Strijds-Folk.

5. Þa hann hafde nu unned Konga-Rijkenn, vard hann Drambsamur, og fiell j Siukdom.

6. Enn þa hann merkte, ad hann munde deya,

7. Þa kallade hann til sijn sijna Høfdingia, þeir sem upp høfdu alist med honum fra Barndome, Og hann giørde þa ad Høfuds-Monnum yfer Londenn, þa Stund hann lifde.

8. Þvi næst andadist Alexander, þa hann hafde rijkt j Tolf aar.

9. Epter hans Dauda kom Rijkid til hans Høfdingia, þeir eignudust Londenn, hvor Høfuds-Madur sitt Ploats.

10. Og þeir giørdu sig aller ad Kongum, og þeir, og þeirra Epterkomendur, rijktu langa Tijma. Og þeir aattu margar Orustur sijn a mille, Og þar voru miklar Hørmungar allstadar um allann Heimenn.

11. Ut (a) af einum þessara Høfdingia er gietenn ein skadsamleg jll Root, Antiochus sem kalladest Hinn Gøfgi, hann var settur j Gisling j Rom, fyrer Fødur sinn, Antiochum Hinn Mikla. Og þesse Antiochus Hinn Gøfge hoof sijna Rijkis-Stiorn a þvi Hundrasta Feitianda, og Tuttugasta aare Rijkis-Stiornar Grickia.

(a) Upphaf Rijkis Antiochi Hins Gøfga, var a 137 Aare Grick-Lands Rijkis, Enn fyrer Hingadburdenn Christi 187. Aar.

12. A þeim Tijma voru vonder Menn j Israel, sem Raadløgdu Folkenu og søgdu, Laatum oss giøra Scattmaala vid Heidnar Þioder, sem eru allt j kringum oss, og upptokum þeirra Guds-Þionustu, Þviad vier høfum miked lidid sijdann vier settum oss upp j moote Heidingium.

13. Þesse Meining þocknadist þeim vel.

14. Og nockrer af Folkenu voru sender til Kongsins, Hann baud þeim ad uppbiria Heidna Sidu.

15. Þa uppreistu þeir Leik-Skaala til Jerusalem, og hielldu ei leingur Um-Skurnena.

16. Og þeir fiellu fra þeim Heilaga Scattmaala, og hielldu sig eins sem Heidingiar, og þeir urdu ølldungis Forherdter, til ad drijgia allskins Skammer og Løstu.

17. Þa

17. Þa Antiochus var nu Volldugur or-
denn j sijnu Rijke, Asette hann sier ad þvin-
ga under sig Egypta-Lands Konga-Rijke,
so ad hann hefde bæde Kongs-Rijkenn.
18. Og hann foor til Egypta-Lands med
miklum Vidurbuninge, med Vögnum, Fij-
lum, Riddaralide, og Skipafiolda, og bar-
dest vid Ptolomeum Egypta-Lands Kong.
19. Enn Ptolomeus ottadist, og flydi un-
dan, og þar fiell Fiolde Egyptskra.
20. Og Antiochus vann sterkar Borger
Egypta-Lands, og rænte þar miklu Gotse,
og flutte j burt þadann.
21. Enn þa Antiochus hafde unnid Sigur
j Egypta-Lande, og foor heim aptur, a þvi
Hundradasta, Fertugasta og Pridia aare, þa
reisti hann j giegnum Jsraels-Land.
22. Og kom til Jerusalem med miklu Lide.
23. Og hann gieck drambsamlega jnn j
Helgedomenn, og liet burt taka Gull-Allta-
rid, Lioosa-Stiakann, og allt þad sem þar
tilheyrde, Bordid a hvoriu Skodunar-
Braudinn laau, Bikarana, Skaalernar,
Gull-Skeidernar, Fortialldid, Koronurnar,
og þa Gull-gu Fegurd Musteresins, og braut
þetta alltsamann j sundur.
24. Og hann took Gull og Silfur, og
kostuleg Kier, og þa folgnu Fiesiodu, so mi-
ked sem hann fann, og flutte þad burt med
sier j sitt Land.
25. Og hann liet jhel slaa marga Menn,
og liet uthroopa sviivirdelegar Bisalningar.
26. Þa var stoort Hiartans Angur j öl-
lum Jsrael, og hvar sem þeir biuggu.
27. Hosdingiarner voru hriggver, Ölldun-
garner, Jungfrur, og Kvinnur voru aum-
legar aaliits.
28. Menn og Kvinnur bæaru sig jlla.
29. Og allt Landid var Sorgfullt, vegna
slijks Tyrannoskapar sem þar skiede, Og
allt Jacobs Hus var fullt af Hormung.
30. Og epter Tvo aar lidenn, þa sende
Kongurinn eirn Hofuds-Mann j Juda,
hann kom med miklu Lide til Jerusalem,

31. Og bad, ad þeir skylldu lꜳta hann
jnn, þa skyllde hann engvann Skada giora
þeim, enn þad voru einsomun Svik.
32. Þa þeir nu trudu honum, og lietu
hann jnn,
33. Þa fiell hann yfer Stadenn sviksam-
lega, og sloo jhel Fiolda Folks af Jsrael, og
rænte Stadinn, og brennde Husinn, reif ni-
dur Murveggena,
34. Og burt flutte Kvinnur og Born, og
Kvikfie.
35. Og hann giordi Davids Kastala ster-
kann, med sterkum Murveggium og Tur-
num.
36. Og liet þangad Flock Ogudlegra Man-
na, sem þar giordu allt jllt.
37. Og þeir tooku ur Borginne Jerusa-
lem oll Vopn, og allar Vister, og lietu þad
upp j Kastalann.
38. Og þeir settust um Helgedomenn, og
saatu um Folkid sem til Musterisins gieck, og
fiellu ut ur Kastalanum jnn j Helgedomenn,
Guds Pionustu ad forhindra.
39. Og þeir uthelltu miklu Saklausu
Blode hiaa Helgedomenum, og saurgudu
hann.
40. Og Borgar-Mennerner j Jerusalem
fludu j burt, og þeir annarlegu voru epter j
Jerusalem, og þeir Odalbornu urdu ad
vijkia.
41. Helgedomurenn vard j Eyde, Haa-
tijdar-Dagarner urdu einsamann Hriggdar-
Dagar, Sabbaths-Dagarner urdu einsa-
mann Hormung, og oll þeirra Dijrd vard
ad engvu.
42. So dijrdleg og haa sem Jerusalem
hafde aadur verid, so hriggeleg og aumleg
hlaut hun nu ad vera.
43. Og Antiochus liet utganga eitt Bod
um allt sitt Kongs-Rijki, ad allt Folk skyll-
de hafa einshaattada Guds-Pionustu-giord.
44. Þa yfergaafu allar Pioder þeirra Log-
maal, og urdu sampyckar Sidum Antiochi.

45. Og marger af Jsrael sambycktust þessu, og fornfærdu Skurgodum, og vanhelgudu Sabbaths Dagenn.

46. Antiochus sende eirnenn Brief til Jerusalem, og um allrar Borger Juda, hvar inne hann baud þeim upp ad taka Pionustugiorder Heidinna Pioda.

47. Og ad afleggia Brenne-Foorner, Matar-Foorner, Synda-Foorner j Helgedomenum, Sabbaths-Dagana, og adrar Hoatijder.

48. Og skipade ad saurga Helgedomenn, og þad Heilaga Folk Jsrael.

49. Og hann liet uppreisa Alltare, Kirkiur, og Skurgod.

50. Og offra Svijna Kiote, og odrum ohreinum Dyrum.

51. Og hann fyrerbaud Umskurnina, og baud ad venia Menn til allshoattadra Svijvirdinga, ad þeir skylldu gleyma Guds Logmoale og Riettindum, og ad taka upp adra Side.

52. Og hvor sem ecke være hlydinn Antiocho, þann skylldu Menn aflijfa.

53. Þetta Bod liet hann utganga um allt sitt Kongs-Rijki, og sette til Hofuds Menn, þeir sem Folkenu skylldu naudga til ad hallda slijkt.

54. Þesser uppbyriudu Offraner j Juda, og bydu ad hallda þær. Og margt af Folkenu fiell til þeirra fra Guds Logmoale.

55. Þeir drijgdu alla Hrecke j Landenu.

56. Og utroaku Jsraels Folk, so ad þeir urdu ad geyma og fela sig j Holum, so sem Flotta-Menn.

57. A þvi Hundradasta, Fertugasta og Fimmta oare, a þeim Fimmtanda Dege Moanadarins Casleu, liet Kong Antiochus setia Svijvirding Foreydslunnar uppa Guds Alltare.

58. Og hann liet reisa Alltare j ollum Borgum j Juda, so ad Menn opinnberlega goafu Reykelsi, og offrudu a Strætunum, og hvor fyrer sijnu Husi.

59. Og hann liet j sundur rijfa Bækur Guds Logmoals, og brenna þær.

60. Og ihel sloa alla þa hioa hvorium ad fundust Bækur Guds Soattmoals, og alla þa sem hielldu Guds Logmoal.

61. Og þetta giordu þeir med sijnu Strijds-Folke, hvorn Moanud, þa Folked til samans kom j Stodunum.

62. A þeim Fimmta og Tuttugasta Dege Moanadarins færdu þeir Foorner, a þvi Alltare sem þeir hofdu uppreist, j giegn Alltare DROTTens.

63. Kvinnurnar þær sem umskoaru sijn Born, voru drepnar, so sem Antiochus hafde skipad.

64. Forelldrarner voru myrdter j sijnum Husum, og Bornenn voru þar uppheingd.

65. Enn marger af Jsraels Folke voru stadfaster, og villdu eckert ohreint eta, og lietu helldur drepa sig, enn ad þeir saurgudu sig.

66. Og villdu ecke falla fra Heilogu Guds Logmoali, þar fyrer urdu þeir lijflatner.

## II. Capitule.

Enn þar var eirn Prestur, Matathias, Sonur Johannis, Sonar Simeons, utaf Ætt Joarim, af Jerusalem, hann bio a Fiallenu Modin.

2. Og atte Fimm Sonu.

3. Johanan, ad Vidurnefne Gaddis.

4. Simon, med Vidurnefne Thasi.

5. Juda, med Vidurnefne Maccabeus, og Eleazar, med Vidurnefne Aaron, og Jonathan, med Vidurnefne Apphus.

6. Þesser aumkudu miog þa miklu Eymd j Juda og Jerusalem.

7. Og Matathias klagade, Auvi! ad eg er fæddur til þess, ad eg verd ad sioa Foreydslu mijns Folks, og þess Heilaga Stadar, og sitia kirr þar til, og loata Fiand-Mennena drijgia sitt Ofbellde!

8. Fra-

8. Framande Menn hafa setst j Helgedo-menn, og Mustere Guds er so sem Fordæmd Manneskia, þess Pryde er j burt flutt.

9. Þeir enu Gomlu eru jhelslegner a Strætunum, og Æsku-Mennerner eru af utlendum j giegn lagder.

10. Rijked er orded til Hlutskiptis ollum Heidingium, sem þad ræna, oll þess Vegsemd er j burtu.

11. Þad var ein Drottning, enn nu er þad ein Amboatt.

12. Sioaed! Vor Helgedomur og vor Lofstyr, og Hrosan, er j burt, Heidingiar hafa þad j Eyde lagt.

13. Hvor vill enn nu hafa Lyst ad lifa?

14. Og Matathias sundur reif sijn Klæde, hann og hans Syner, og jklæddust Seckium, og syrgdu miog.

15. Þa ed Hofuds-Menn Antiochi komu og þangad, ad naudga þeim sem fluner voru j þann Stad Modin, til ad falla fra Guds Logmoale, og ad offra Foornum og Reykelsi,

16. Þa fiellu marger fra Israels Folke til þeirra (Enn Matathias og hans Syner blifu stadfaster).

17. Og Hofuds-Mennerner Antiochi toludu til Matathias, Þu ert eirn Hellste, og Megtugaste j þessum Stad, og þu hefur marga Sonu og Fiolda Ættmanna.

18. Þar fyrer gacktu Firstur framm, og gior þad sem Konqurenn hefur skipad, so sem oll Lond hafa giort, og þeir Menn Juda sem enn nu eru j Jerusalem, þa mun Konqurinn Noadugur vera þier og þijnum Sonum, og giefa þier Gull og Silfur og miklar Goafur.

19. Þa sagde Matathias diarflega til þeirra, Þo ad oll Lond sieu Antiocho hlydenn, og hvor Madur falle fra Logmoale sinna Fedra, og verde samþyckir Kongsins Bode,

20. Þa vil hvorke eg, nie mijner Syner og Brædur, falla fra Logmoale vorra Fedra.

21. Þad forbiode GUD! Þad er oss ecke gott ad vier skulum falla fra Guds Orde, og Guds Logmoale.

22. Vier vilium ecke samþyckiast Bodi Antiochi, og ei vilium vier fornfæra, og falla fra voru Logmoale, og upptaka adra Sidu.

23. Þa hann hafde þetta so talad, þa gieck eirn Gydingur framm od j Augsyn allra þeirra, og offrade Skurgodum a Alltarenu j Modin, so sem Konungurenn hafde bodid.

24. Þad leit Matathias, og þad særde hans Hiarta, og hans Vandlæting brann vegna Logmoalsins.

25. Og hann hliop þangad ad, og jhel sloo þann Gyding hioa Alltarenu, og Hofuds-Mann Antiochi.

26. Og hann sloo Alltarid um koll, og Vandlætte vegna Logmoalsins, so sem Phinees giorde vid Samri Salomi Son.

27. Og Matathias kalladi med hoarre Roddu um allann Stadenn, Hvor hann Vandlætir vegna Logmoalsins, og vill hallda Soattmoalann, hann fare med mier utaf Stadnum!

28. So flyde hann og hans Syner uppa Fiollenn, og yfergoafu allt þad þeir oattu j Stadnum.

29. Og marger goder Menn flydu burt ut j Eydemerkur.

30. Og hielldu sig þar, med Kvinnum og Bornum og þeirra Kvikfie, Þviad Ofrijked var ofmiked orded.

31. Enn þa Kongsins Folk til Jerusalem j Davids Stad heyrde, ad nockrer settu sig upp j mooti Kongsins Bode, og voru burtfarner af Stodunum, ad fela sig, og hallda sig heimuglega j Eydemorku, og ad margt Folk var utfarid til þeirra,

32. Þa tooku þeir sig upp med Skynde, a Þvott-Dege, ad yfirfalla þa.

33. Og lietu segia þeim, Vilied þier enn nu ecke hlijdner vera? Farid ut hingad, og giorid eptir Kongsins Skipan, þa skulud þier vera okvijdner!

34. Þar til svorudu þeir, Vier vilium ei

fara ut, vier hugsum og ecki ad saurga Pvott-Daginn, so sem Kongurinn bydur.

35. Og þeir sem utan til voru, soktu ad Bergenu.

36. Enn hiner þar inne veittu ongva Vorn, og ei kostudu þeir ut einum Steine, luktu og ei Bergid aptur, og sogdu,

37. Vier vilium so deya j voru Sakleysi, Himen og Jord skulu Vitni vera, ad þier deydid oss med Valldi og Oriette.

38. J þann Moata urdu þeir þar jnne yferfallner a Pvott-Dege, og lijflaatner med sijnum Kvinnum, Bornum, og Kvikfie, nær Pusund Manna.

39. Pa ed Matathias, og hans Viner heyrdu slijkt, hormudu þeir þad miog.

40. Og þeir toludu sijn a mille, Ef ad vier aller vilium giora lijka sem vorer Brædur, og veria oss ecke fyrer Heidingium, ad biarga voru Lijfe og Logmaale, þa verdum vier audvelldlega med ollu af þeim afmaader

41. Og þeir samtooku þad med sier, Ef ad þeir yferfalla oss a Pvott-Dogum, þa vilium vier oss veria, so ad vier deyum ecke aller, Lijka so sem vorer Brædur, þeir j Hellrenum voru myrdter.

42. Og þar kom til samans mikell Fiolde Godra Manna, þeir ed aller voru stadfaster j Logmaalenu.

43. Og aller þeir sem ad flydu fyrer Ofrijkenu, komu til þeirra.

44. Par fyrer efldu þeir Stirk, og jhel slou marga Ogudlega og Af-fallna j sinne Vandlætingu og Reide, Enn þeir sem undann komust tooku a Roas, og flydu til Heidingia.

45. Pvi nærst for Matathias og hans Viner diarflega um kring j Jsraels Lande, og nidurbrutu aptur Olltorinn.

46. Og umskaaru Bornenn, þaug sem ei voru enn umskorinn.

47. Og yferfiellu þa Ogudlegu.

48. Og þad luckadist þeim vel, ad þeir hielldu Logmaalenu, j moote allre Magt Heidingianna og Konganna, so ad þeir Ogudlegu urdu ecke Herrar yfer þeim.

49. Enn þa Matathias var miog a efra Alldur hnygenn, talade hann til sinna Sona, sadur hann andadist, Miked Ofrijke og Ossokn, og ein stoor Grimmd, og þungt Straff er komid yfer oss.

50. Par fyrer Kiæru Syner! Vandlæted vegna Logmaalsins, og veged ydar Lijfe ut vegna Saattmaalans vorra Forfedra.

51. Og hugsed um þa Giorninga, sem vorer Fedur giordu a þeirra Dogum, þa munud þier odlast Sannann Heidur, og eitt Eylijft Nafn.

52. Abrahams vard freistad, og hann var stodugur j Trunne, þad vard honum reiknad til Riettlætis.

53. Joseph hiellt Bod-Ordid j sijnum Mootgange, Og vard eirn Herra, j Egypta-Lande.

54. Phinees, vor Fader, vandlætte Gllde til Dijrdar, og odladest Saattmaalann, ad Kiennemannsskapurenn skyllde hiaa honum blijfa.

55. Josua giorde þad sem honum var bifalad, Þar fyrer vard hann Hinn Ædste Hofdinge j Jsrael.

56. Caleb bar Vitne, og aviitade Folkid, Par fyrer odladest hañ eitt Sierlegt Arfskipte.

57. David var Trufastur og Riettviis fyrer Gllde, Par fyrer erfde hann Kongs-Rijked æfinnlega.

58. Elias vandlætte fyrer Logmaalid, Og er numenn til Himins.

59. Anania, Azaria, og Misael, trudu, Og voru frelster af Elldenum.

60. Daniel var frelstur fra Leonunum, fyrer Saker sijns Sakleysis.

61. So skulud þier hugsa, Hvad a hvorium Tijma skied er, Pa munud þier finna, ad aller þeir sem Gllde treysta, þeir verda aller vardveitter.

62. Par fyrer hrædest ecke Heitingar þeirra

þeirra Ogudlegu, Þviad þeirra Vegsemd er Ohreinnde og Madkar.

63. J Dag er hann upphafenn, enn a Morgun liggur hann fallenn, og er ecke meir til, Þa hann er ordinn aptur ad Jordu, og hans Asetningur er ordinn adøngvu.

64. Þar fyrer Kiæru Børn! verid ohrædd, og halldeð fastlega Logmaalenu, þa mun Gud giora ydur dijrdlega aptur ad nyu.

65. Simon ydar Broder er hyggenn, hlydid hønum so sem Fodur.

66. Judas Maccabeus er sterkur, og einn Kappe, hann skal verda Hofuds-Madur og hallda Strijdeð.

67. Og kalled til ydar alla þa sem Logmaalid hallda, hefnid þess Ofrijkis sem giort er ydru Folke.

68. Og endurgialldid Heidingiunum, so sem þeir hafa forþient, og blijfid alvarlega vid Logmaalid!

69. Þvi næst blessadi hann yfer þa, og safnadist til sinna Fedra, og Andadist a þvi Hundrasta, Fertugasta og Siøtta aari, og hans Syner jordudu hann j sinna Fedra Grøf til Modin, og allur Jsrael harmade hann miøg.

# III. Capitule.

Og Judas Maccabeus kom j sijns Fodurs Stad.

2. Og hans Brædur, og aller þeir sem sier høfdu halldid til hans Fodurs hiaalpudu hønum j moote Ovinunum, og þeir slou þa gladlega.

3. Judas aflade Folkenu mikillrar Æru, Hann took a sig sijna Bryniu, so sem eirn Kappe, og blijfde sijnu Herlide med sijnu Sverde.

4. Hann var fullhugadur sem eitt Leon, og diarfur sem eitt ungt greniandt Leon, þa þad leitar ad Braad.

5. Hann leitadi þeirra Af-føllnu og Ogudlegu, sem naudgudu Folkenu til ad falla fra Logmaalenu, og hann straffade og uppbrenndi þa.

6. So ad Ovinerner voru hrædder fyrer hønum allavegana, og flydu, og Mijdingarner urdu nidurlækader, Og hann hafdi Lucku og Sigur.

7. Þetta misslijkadi mørgum Kongum. Enn Jacob var þad eirn Fognudur, og hønum Eylijfur Prijs og Æra.

8. Hann ferdadest j giegnum Borgernar Juda, og afmaadi þar jnni þa Ogudlegu, til ad snua Reidenne fra Jsrael.

9. Og hann hafde mikenn Lofstyr allavegana j Landenu, so ad aller nidurþrickter hlupu til hans.

10. Þar j moot droo Apollonius eirn mikinn Her til samans, af Heidingium, og af Samaria, ad beriast j moote Jsrael.

11. Þa Judas þad heyrde, foor hann hønum j moote, og bardest vid hann, og jhel sloo hann, og mikenn Fiølda Ovina med hønum, Enn þeir sem epter urdu flydu.

12. Og Judas fieck Herfaangid, og hann took Apollonii Sverd, þad bar hann sijdann, so leinge sem hann lifde.

13. Epter þetta, þa ed Seron, Hofuds-Madur j Syrlande, heyrde, ad þeir Goodu hielldu sier til Juda, Og ad þar var Fiølde Folks til samans, þa sagde hann.

14. Eg vil vinna Frægdar-Verk, so ad eg verde prijsadur j øllu Kongs Rijkenu, Og vil eg sloa Judam, og hans Selskap, sem forakta Kongsins Bod.

15. Þar fyrer bioo hann sig til, og droo framm med mikellre Magt, ad hefnast a Jsrael, og þeir komu allt til Bethoron.

16. Þa foor Judas j mooti hønum med eirn lijtenn Flock Manna.

17. Og er þeir saau Ovinena þa søgdu þeir, Vier erum faaer, og þar med erum vier vanmegna af Fostu, Hvornenn gietum vier barest vid so megtugann og mikenn Fiølda?

18. Enn Judas sagde, Vel maa þad skie, ad faaer gieti sigrad marga, þviad Gud

kann so vel ad giefa Sigur fyrer fáa, so sem fyrer marga.

19. Þviad Sigurenn kiemur af Himnum, og hann kiemur ecke af miklum Mannfiolda.

20. Þeir treysta uppa sijna mikla Magt, og vilia deyda oss, og vilia ræna vorum Kvinnum og Bornum.

21. Enn vier neydunst til ad veria oss, og beriast fyrer voru Lijfe og Logmaale.

22. Þar fyrer mun GUD afmáa þa fyrer vorum Augum. Þier skulud ei þa hrædast.

23. Þa hann hafde so talad, Fiell hann yfer Ovinena aadur enn þa varde, og sloo Seron, og hans Folk, a Flotta.

24. Og rak Flottann fra Bethoron, ofann a Sliettlendid, og sloo jhel aatta Hundrud, enn hiner adrer, sem epter urdu, fludu j Philistea Land.

25. So kom ein Hrædsla yfer allt Folk umhverfis þa, fyrer Juda, og hans Brædrum, og Ryktid af Juda, og hans Verkum, barst ut um oll Lond.

26. Þad kom og so fyrer Konginn.

27. Þa Antiochus heyrde nu allt þetta, vard hann æfa-reidur, og liet utbioda Leidangre um allt sitt Kongs-Rijke.

28. Og samannsafnade storre Magt, Og hann took a sijnum Fiesiodum, og gaf Maala til eins Ars, og baud, ad Menn skylldu ætijd vera tilbuner.

29. Enn þa hann saa, ad hann hafde ecke noga Peninga, og ad þad Land kunne ecke mikid ad giefa, vegna þess Strijds sem hann hafde nu leinge fært j moote Logmaalenu,

30. Þa ottadest hann, ad hann munde ei leingur gieta haft so stooran Kostnad, sem hann hafde haft allt þangad til, þa hann hafde Maala og Giafur utgiefid, meir enn aller Kongar fyrer hann.

31. Þar fyrer vard hann hriggur, og foor j Persia Land, ad skatta þad sama Land, og Fie til samans ad draga.

32. Og hann liet eirn Hofdingia j Landenu epter, sa hiet Lysias, þennann giorde hann ad Hofuds-Manne yfer allt Kongs-Rijkid, fra Euphrate, allt til Egypta-Lands;

33. Og bifaladi honum sinn Son, þann unga Antiochum, a medann hann væri ur Landi.

34. Og hann liet epter hiaa honum Helming Hersins, og Fijlanna, og gaf honum Bifalning yfer ollum Maalefnum.

35. Lijka eirnenn yfer Judea og Jerusalem, ad hann skyllde senda þangad meira Lid, ad eydeleggia þad Folk sem epter var j Israel og Jerusalem,

36. Og ad skipta Landenu med framande Monnum, og innsetia Heidingia þar j alla Stade.

37. A þvi Hundradasta, Fertugasta, og Siounda aare reiste Kongurinn ut af sinne Borg Antiochia, yfer um Euphraten, upp j Upplondenn.

38. Enn Lysias utvalde nockra Hofdingia af Kongsins Vinum til Hofuds-Manna, Sem var, Ptolomeum, Son Dorymenis, Nicanor, og Gorgiam.

39. Og hann fieck þeim Fiorutiju Þusunder Fotgaungu Lids, og Sio Þusund Riddara, so ad þeir skylldu draga j giegnum Gydinga Land, og afmaa Gydinga, so sem Kongurenn hafde bifalad.

40. Þa ed þeir voru nu af Stad farner med þennann Her, þa settu þeir First sijnar Herbuder hiaa Ammao, a þeim sliettu Vollum.

41. Enn sem Kaup-Mennerner j Londunum allt j kring heyrdu þetta, komu þeir til Herbudanna, hafande med sier Nægd Fiaar, ad kaupa Israels Born sier til Þræla. Og af Syrlande, og fra odrum Heidingium, þa kom til þeirra enn meira Lid.

42 Sem Judas, og Brædur hans saau nu, ad Ossokninn vard stærri, og ad Ovinerner laau vid Landamerkinn, og fornumu, ad Kongurinn hefde boded ad eydeleggia alla Juda.

43. Þa voru þeir ohræddir, og samtooku med sier, ad þeir villdu hiaalpa sijnu Folke, og beriast fyrer þa enu Heilogu.

44. Þar

44. Par fyrer sofnudu þeir sijnu Strijds-Folke til samans, ad þeir være hvor hia odrum, og giæfe Giætur ad, nær ed þeir skylldu yfirfalla Ovinena, og ad þeir bæde hvor med odrum um Noad og Hiaalp af GUde.

45. Enn a þeim Tijma var Jerusalem j Eyde, og ongver Borgarar hofdu þar sinn Bustad, og Helgedomurenn var saurgadur, med þvi Skurgode sem þangad var sett, og Heidingiarner hofdu Kastalann inne ad hallda, og oll Vegsemdenn var burttekenn fra Jacob, og Menn heyrdu þar hvorke Pijpna Hliod, nie Horpu-Slag.

46. Par fyrer safnadist Folkid til samans j Mispath, gagnvart Jerusalem, þviad j Fyrndenni plogudu Menn ad bidiast fyrer j Mispath.

47. J þessum Stad komu þeir nu til samans, Fostudu þar, og jklæddust Seckium, dreifdu Osku yfer Hofud sier, og sundur-rifu sijn Klæde.

48. Og þeir baaru framm Logmaals Bækurnar, epter hvorium Heidingiarner lietu sækia, ad skrifa og uppmaala þar a sijn Skurgod.

49. Peir hofdu og þangad þau Kiennemannlegu Klædinn, Frumgroda og Tijunder, og giordu Nazareos, sem hallda skylldu þeirra tilsetta Tijma.

50. Og þeir baaru sig jlla, kallande upp i Himenenn, Hvort skulum vier flytia þetta?

51. Pviad þinn Helgedomur er saurgadur, Pijner Kienne-Menn eru j burt rekner.

52. Og sioa Pu! Aller Heidingiar reisa sig upp j mote oss, so ad þeir afmaae oss med ollu.

53. Pu veitst hvad þeim byr j Skape j giegn oss, Hvornenn gietum vier stadest fyrer þeim, utann Pu hiaalper oss, Vor Gud!

54. Par epter liet Judas kalla Folked til saman med Basunum.

55. Og giorde Strijds-Regiment, Yfer-Strijds-Herra, Hofuds-Menn, og Skickunar Meistara.

56. Hann liet og eirnenn uthropa, ad hvor sem Hus hefde j Byggingu, edur sig villde gipta, edur Vijngard hefde ad planta, edur være hræddur, ad þeir mættu fara heim aptur, so sem ad Logmaaled giefur slijkum Heimfarar-Leife.

57. Epter þetta reistu þeir framm, og settu eirnenn sijnar Herbuder vid Ammao, moot Sudrenu.

58. Og Judas aaminnte sitt Folk, og sagde, Tilbued ydur og vered o-skielfder! So ad þier sieud a Morgun reidubuner ad beriast j mote þessum Heidingium, sem ætla sier j Eyde ad leggia oss og vorn Helgedoom.

59. Betra er oss ad vier follum j Orustum, enn ad vier sioaum slijka Hormung a voru Folke og Helgedoome.

60. Enn hvad Gud a Himnum vill, þad verde!

## IV. Capitule.

Og Gorgias tok til sijn Fimm Pusund Fotgaungu Lids, og Pusund Riddara hina bestu, og for heimuglega um Nottena burt til Herbuda Gydinga, viliande yferfalla þa ovarlega.

2. Og nockrer af þeim sem hofdu vered a Slotenu, til ad bevara þad, voru Foringiar Hoopsins.

3. Enn Judas var fyrre uppe og hans besta Lid, ad hann kiæme fyrre og fielle yfer Ovinena.

4. Og sloa þa a medann þeir laau enn nu dreist, hier og hvar.

5. Pa Gorgias kom nu j Herbuder Juda, og fann þar ongvann, þa for hann epter þeim a Fiollinn, og meinte, ad þeir hefde flued fyrer honum.

6. Enn Judas flytte sier, so hann kiæmist snemma Morguns a Sliettlendid med Priar Pusunder Manna, þeir ed þo ongvar Brynjur hofdu, utann ad eins sijn Klæde og Sverd.

7. Pa þeir saau nu, ad Ovinerner voru vel bry-

bryniader, og hofdu sterka Fylking Riddaralids, og voru rietter Strijds-Menn.

8. Þa sagde Judas til sinna Manna, Hrædist ecke þennann mikla Mannfiolda, og skielfest ecke fyrer þeirra Magt,

9. Minnist a þad, Hvorninn vorer Fedur voru frelsader j þvi Rauda Hafi, þa Pharao foor epter þeim med miklu Herlide.

10. Kollum til Himinsins, þa mun DROttinn verda oss Lijknsamur, og minnast a þann Saattmaala sem Hann giørde vid Fedur vora, Og Hann mun afmaa Ovine vora fyrer vorum Augum.

11. Og aller Heidingiar skulu formerkia, ad GUD er Sa sem annast Israel, Hiaalpar og Frelsar.

12. Þegar Heidingiar saau nu, ad Judas kom j mooti þeim,

13. Þa fooru þeir og ur Herbudunum til moots vid Judam.

14. Enn Judas liet blaasa j Trometur, og fiell yfer Ovinena, og Heidingiar urdu slegner a Flotta, so ad þeir flydu yfer um Sliettlendid, og þeir sem seinaster voru urdu j giegnum lagder.

15. Þviad Judas rak Flottann allt til Assaremoth, og til Edoms Vallar, j moot Asdod og Jamnia, og þar fiellu nærre Þriar Þusunder Manna.

16. Enn þa Judas kom aptur, baud hann sijnu Lide og sagde.

17. Þier skulud ecke Herfang taka, þvi vier eigum enn nu eina Orustu eptir.

18. Gorgias og hans Lid er fyrer oss a Fiollunum, þar fyrer farid med fylktu Lide, og veried ydur. Epter þad, þa ad þier hafed Ovinena sleged, þa meiged þier taka Herfangid, ohrædder, og ad hææskalausu.

19. Þa Judas talade þetta, liet sig j Lioose einn Hoopur framm a Fiollunum.

20. Og Gorgias saa, ad hans Lid var fallid, og Herbudernar uppbrenndar, þviad hann sa Reykenn, hvar af hann merkte Hvad j hafde giørst.

21. Þar til saau þeir Judam og hans Strijds-Folk a þeim slettu Vollum, buid til Bardaga.

22. Af þessu skielfdest Gorgias miog, og flyde a Heidingianna Land.

23. So snere Judas aptur ad ræna Herbudernar, og hann fieck miked Herfaang, med Gull, Silfur, Silke, Purpura og stormiked Fie.

24. Epter þetta foru þeir heim, þackande og lofande Gud med Saung, og sogdu, Þacker giøred DROttne! Þviad Hann er godur, og Hans Miskunseme varer ad Eylijfu!

25 A þessum Deige fieck Israel Dijrdlegann Sigur.

26. Enn Heidingiar, sem undann hofdu komist, þeir komu til Lysia, og sogdu honum Hvernenn þeim hafde geingid.

27. Þa Lysias heyrde þetta vard hann miog hriggur, af þvi ad þetta hafde ecke tekist so sem Kongurenn hafde bifalad.

28. Þar fyrer safnade Lysias Lide miklu, ad nyu, a epterkomande Aare, Sextiju Þusunder Fotgaungu Lids, og Fimm Þusunder Riddara Lids, til ad afmaa Gydinga.

29 Þetta Lid reiste j Idumeam, og sette sijnar Herbuder hiaa Bethzura. Þangad kom og Judas med Tiju Þusund Manna.

30. Enn er hann saa, ad Ovinerner hofdu so stormikenn Her, þa badst hann fyrer og sagde, Lofadur siert þu Israels Frelsare! Þu sem fyrer Hond þijns Þienara Davids hefur sleigid þann stora Risa, og hefur heilann Her Heidingianna giefid j Hendur Jonathe, Saul Sonar, og hans Þienara.

31. Eg bid Þig! ad Þu villder þessa vora Ovine eirnenn giefa j Hendur þijnu Folke Israel. So ad þeir, med sinne Magt og Rijdande Lide, verde skammader.

32. Gief þeim eitt hrædt og bliugt Hiarta.

33. Slaa þeim nidur med Sverde þeirra sem Þig elska, so ad aller Lofe og prijse Þig sem þeckia Þitt Nafn! 34.

34. Þvi nærſt fiell hann yfer þa, Og Lyſias mißte nær Fimm Þuſunder Manna.

35. Enn ſem Lyſias ſaa ſitt Lid flya, og ad Gydingar voru o-ſkielfder, og þeir voru reidubuner bæde ærlega ad lifa, eda ærlega ad deya, þa reiſte hann ofann til Antiochiam, ad ſafna Lide ad nyu, og ad draga enn med meira Lid j mote Gydingum.

36. Enn Judas og hans Brædur ſogdu, Firſt ad vorer Oviner eru a Flotta rekner, þa lꝏtum oſs fara upp, og hreinſa Helgedomenn aptur!

37. Þar fyrer kom allt Strijds-Folked til ſamans, og foru hvor med ødrum upp a Fiallid Sion.

38. Og þa þeir ſꝏu, Hvornenn Helgedomurenn var j Eyde, Alltarid ſaurgad, og Portenn uppbrennd, og Fløturenn þar um kring Graſi vaxenn, ſo ſem Skogur, edur Fiall, Og ad Preſtanna Herberge voru nidur fallenn,

39. Þa ſundurrifu þeir ſijn Klæde, og bꝏru þeir ſig miøg hørmuglega, dreifdu Øſku yfer ſijn Høfud.

40. Fiellu framm a ſijnar Aſionur, blieſu j Tromet, og hropudu upp j Himenenn.

41. Og Judas utvalde eirn Flock, til ad hamla Ovinunum j Kaſtalanum, ſo ad þeir fiellu ei ut a medann hann liet hreinſa Helgedomenn.

42. Og hann took þa Kiennemenn til ſijn ſem ecke høfdu ſaurgad ſig, helldur hofdu ſtadfaſter ſtadid j Løgmꝏlenu.

43. Þeſſer hreinſudu Helgedomenn og burt bꝏru Svijvirdingarnar, og þa ohreinu Steina j burt j eirn O-helgann Stad.

44. Og med þvi, ad Brenne-Forna Alltarid var ſaurgad, þa hielldu þeir Road, hvornenn þeir ſkylldu þar med fara.

45. Og þeir fundu eitt gott Road, ſem var, ad þad ſkyllde med øllu nidurbriotaſt, ſo ad þar kiæme ei Hneixlan af, med þvi, ad Heidingiar høfdu ſaurgad þad, þvi vard þad med øllu nidurbrotid.

46. Og þeir geymdu þeſſa Steina a Fiallenu, vid Huſid, j einum ſierlegum Stad, þar til ad einhvor Spꝏmadur kiæme, ſem ſegde þeim, Hvad þeir ſkylldu þar med giora.

47. En þeir toku adra nya o-høggna Steina, ſo ſem Løgmꝏlid kienner, og uppbiggdu eitt nytt Alltare, lijka ſo ſem hid Fyrra hafde verid.

48. Og þeir biggdu Helgedomenn upp aptur, og Sætenn, og Kiennemanna Capellur j Huſinu.

49. Og þeir lietu ſmijda ny Heiløg Kier, þann Gullega Lioosa-Stiakann, Reykelſis Alltarid, og Bordid, og ſettu þetta aptur j Muſtered.

50. Og þeir gꝏfu Reykelſid a Alltarid, og tendrudu Lampana a Lioosa-Stiakanum, ad þeir ſkylldu lyſa j Muſterinu.

51. Þeir løgdu Braud a Bordid, og uppfeſtu Fortialldid, og biuggu til Muſterid Ølldungis ad nyu.

52. Og a þeim Tuttugaſta, og Fimmta Dege hins Nijunda Mꝏnadar, ſem kallaſt Caſleu, a þvi Hundradaſta, Fertugaſta og Attunda ꝏre,

53. Stoodu þeir ꝏrla upp, og Foornfærdu ad nyu, epter Løgmꝏlenu, yfer Brenne-Foorna Alltarid.

54. Þetta var þad Firſta Offur, ſijdann ad Heidingiar høfdu ſaurgad Helgedomenn, Og þetta Offur uppbyriadiſt ad nyu med Loſ-Songvum, Hliod-Pijpum, Hørpum, og Cymbalis.

55. Og allt Folkid fiell framm a ſijnar Aſionur, tilbidiande og lofandi DROttinn a Himnum, hvør ed þeim hafdi giefid Farſælld og Sigur.

56. Og þeir hiellt Hꝏtijd hins Nya Alltaris, j ꝏtta Daga, og Foornfærdu þar a Brenni-Forner og Packlætis-Foorner med Føgnudi.

57. Og þeir prijddu Muſtered med Gylltum Kronſum, og Skiolldum, og giørdu nyar Dyr og Capellur.

58. Og stor-mikill Fognudur var med Folkenu, ad su Smoan var fra þeim tekinn, hvoria Heidingiar hofdu þeim uppalagt.

59. Og Judas, og hans Brædur, og allt Israels Folk, ealyktudu med sier, ad Menn skylldu oarlega, fra þeim Fimmta og Tuttugasta Dege Moanadarens Casleu, hallda Hoatijd hins Nya Alltaris, oatta Daga j samt, med Fognude og Þackargiord.

60. Og þeir uppbiggdu sterka Murvegge, og Turna j kringum Helgidomenn, uppa Sions Fialli, so ad Heidingiar skyllde ecke jnntaka, og eydeleggia Helgedomenn, so sem fyrr.

61. Og Judas sette til Strijds-Folk, þad sem Helgedomenn skyllde vardveita. Hann giorde og Bethzura sterka, So ad Folked hefde eitt stirkt Vijge j moote Idumea, hvar þad kunne ad hallda sig og veriast.

## V. Capitule.

Nu sem Heidingiar allt j kring heyrdu þetta, ad Alltarid var upp aptur reist ad nyu, og Helgedomurenn hreinsadur var, þad gramdest þeim miog.

2. Og tooku sier fyrer Hendur ad afmoa alla Jacobs Kinslod, og tooku til ad Lijfloata alla Gydinga hioa þeirra Landa-Merkium.

3. Enn Judas reiste jnn j Idumeam, j moote Esau Bornum, og yfer fiell þa j Arabath, þar sem þeir hofdu umkringt Israels Børn, og hann sloo jhel marga Idumeos, og rænti þa.

4. Og med þvi, ad Beans Born hofdu verid O-tru, og myrdt Israel a Veigenum,

5. Þa minntist Judas og eirnenn þeirra, og settist um þa, og brenndi þeirra Borg, med ollu þvi sem þar var jnne.

6. Epter þetta reiste hann a moote Ammon, þeir voru vel vidbuner, og hofdu Fiolda Lids, og eirn Hofuds-Mann Timotheum.

7. Þar fyrer oatte Judas margar Orustur vid þa, og fieck Sigur.

8. Og vann Borgena Jazer, med odrum umliggiande Þorpum, Þvi nærst reiste hann þeim aptur j Judeam.

9. Þar voru og Heidingiar uppe i Galaad, j moote Israel, j þeirra Landamerkium, ad afmoa þa.

10. Enn Folkid flyde j þann Kastala, sem nefndest Datheman, og sende Skrif til Judam og hans Brædra, so loatande, Aller Heidingiar, umhverfis oss, eru til samans komner oss j mooti, og vilia eydeleggia oss alla.

11. Timotheus er þeirra Hofuds Mann, og þeir ætla sier ad strijda, og storma uppa vorn Kastala, þangad sem vier flydum.

12. Þar fyrer bidium vier, ad þu komer oss til Hioalpar og frelser oss, þviad vier erum foaer, og Ovinerner hafa marga jhel sleged.

13. Og j Tubin hafa þeir drepid Þusund Manns, og rænt þeirra Kvinnum, og Bornum, og Gotse.

14. Þa þeir loasu þetta Brief, þa komu enn fleyre Sende-Menn ur Galilæa, med sundurrifnum Klædum, klogudu og sogdu.

15. Ad Heidingiar, ur ollum Stodum umhverfis, fære med Magt j giegnum Galileam, ur Ptolomais, Tyrus og Sidon, og ad allt Galilæa Hierad være fullt Ovina, sem villdu eydeleggia Israel.

16. Sem Judas og Folked heyrdu nu þetta, tooku þeir Road, hvornenn þeir giæte hioalpad sijnum Brædrum j þessare Neyd.

17. Og Judas bifaladi sijnum Brodur Simon, ad hann skyllde utvelia sier sierlegann Flock, og fara j Galileam, Brædurnar þar ad frelsa, Þa hann og hans Broder Jonathas villde fara j Galaad.

18. Og hann sette Joseph, Zacharias Son, og Azaria, Hofuds-Menn yfer þad Folk sem heima var epter, ad vardveita Judeam.

19. Og hann skipade þeim, ad þeir skyllde stiorna Folkenu, og fara ecke ut, og giefa sig ecke j moote Ovinum fyrr enn hann kiæme aptur.

20. Og Simon foor j Galileam med Priu Þusund Manns, Enn Judas, og átta Þusund Manna med hønum, fooru j Galaad.

21. Þa Simon kom nu j Galileam átte hann margar Orustur vid Heidingia, og fieck Sigur.

22. Og hann ellte þa allt til Porta Ptolomais Stadar, So ad þar fiellu Priar Þusunder Heidingia, og Simon rænte þa.

23. Pvi nærst kom hann aptur til sinna Brædra j Galileam, og til Arabath, og baud þeim ad reisa med sier til Judeam, med Kvinnum og Børnum, og hann flutte þa þangad med storre Glede.

24. Enn Judas Maccabeus, og Jonathas, Broder hans, reistu yfer um Jordan, j Eydemørku, Priggia Daga Reisu.

25. Pa komu til þeirra Nabathei, og toku blijdlega vid þeim, og søgdu þeim fra, Hvornenñ ad þad geinge þeirra Brædrum j Galaad.

26. Og ad marger være fangner burtflutter til Baraza, Bosor, Alima, Casbon, Mageth, og Carnaim, hvad allt ad være stoorar og sterkar Borger.

27. So og þa være marger Hertekner j ødrum Borgum j Galaad. Par fyrer kom þeim þad samann, ad þeir strax ad Morgne skylldu reisa til þessara sterku Stada, og storma uppa þa.

28. Og Judas snere aptur eina Dagferd, og strijdde uppa Stadenn Bosor, og kom þeim a Ovart, og hann vann hann, og liet jhel stijnga allt þad Karlkins sem þar var jnne, og rænte, og uppbrennde Stadenn.

29. Epter þad reiste hann um Noattartijma til þess Kastala, þar jnne hans Bræbur voru umkringder.

30. Og j þvi sama, sem hann kom þangad um Morgunenn, þa leit hann þar eirn mikinn Megtugann oteliande Mannfiolda, sem bœaru Stiga og Vagna, og tooku til ad storma.

31. Og þar var eitt hriggiligt Oop og Kall j Kastalanum, sem hliomade upp j Himenenn.

32. Pa bad Judas sitt Folk ad beriast fyrer þeirra Brædur, so ad þeir giæte hialpad þeim.

33. Og hann giørde Priar Fylkingar, og kom a Bak til vid þa j Bardaganum, og liet blaasa j Trametur, Og Folkid kallade hæarre Roddu, og bad til Guds.

34. Enn þegar Timothei Herlid sa, ad Judas var a Bak til vid þa, flyde þad, og vard hardlega sleged, so ad þar fiellu a þeim Dege átta Þusunder Manns.

35. Epter þetta for Judas til Maspha, strijdde og vann hana, og liet j helslaa allt Karl-Kins þar jnne, og rænte og brennde Stadinn.

36. Par epter vann hann Casbon, Mageth, Bosor, og adrar Borger j Galaad.

37. Enn Timotheus safnade enn ad nyu miklu Lide, og sette sijnar Herbuder giegnt Raphon, hinumeiginn Lækiarens.

38. Pa utsende Judas Niosnar-Menn, og liet niosna Hvørsu mikenn Her ad Ovinerner hefdu, og hvorninn þeir læge. Peir søgdu hønum aptur, ad þad være eirn stor Margfiolde, af øllum Heidingium umhverfis.

39. Peir hefde og med sier Strijds-Menn ur Arabia, hvorium þeir áttu Fie ad giefa, Og ad þetta Lid hefde sett sijnar Herbuder hinumeiginn Lækiarins, og være buner til Bardaga.

40. Par fyrer reiste Judas ut j mote þeim. Og Timotheus sagde til sinna Høfuds-Manna, þegar Judas kiemur ad Læknum, og sie hann so diarfur, ad hann þorer ad fara yferum hann, þa gietum vier hønum ecke j mote stadid, helldur mun hann slaa oss.

41. Enn ef hann ottast, og þorer ey yferum þennann Læk, þa vilium vier fara yferum Vatnid, og yferfalla og slaa hann.

42. Pa Judas kom nu ad Læknum, skickade hann Kienne-Mennena vid Vatnid, og baud þeim, ad þeir skylldu drijfa Folked allt yferum, so ad þeir hialpudu til ad slaa Ovinena, og ad einginn skyllde epter verda.

43. Pa Judas og hans Her var nu first kominn yfer um Vatnid, þá flydu Oviner- ner, og lietu sijnar Veriur falla, og þeir ko- must j eitt Mustere, j þeim Stad Carnaim.

44. Enn Judas vann Stadinn, og brenn- de upp Musterid, og þa alla þar inne voru, og Carnaim var foreydd, og kunne ecke ad veria sig fyrer Juda.

45. Þvi nærst liet Judas koma til samans allt þad Jsraels Folk sem var j Galaad, smaa og stora, Kvinnur sem Born, so ad þeir fære med honum j Judeam.

46. Og a Vegenum komu þeir til Ephron, sem var stor og sterkur Stadur, og hann laa j Þiod-Braut, j giegnum hvørn menn urdu ad ferdast, og kunnu ei ad komast j kringum hann.

47. Nu villde Folkid j Ephron ei giefa Judas Fararleyfe þar j giegnum, helldur hof- du þeir sig j Borgena, og lucktu aptur Portinn.

48. Enn Judas sende til þeirra Fridar- Bodskap, og bad vingiarnlega, ad þeir mæt- te þar j giegnum reisa, þviad þeir skylldu ongvann Skada fáa af hans Folke, Hann girntist eige annad enn ferdast ad eins þar j giegnum. Enn þeir af Ephron villdu ei leyfa þeim þar jnn.

49. Þa liet Judas Bod utganga um al- lann Herinn, ad Strijds-Folkid skyllde giora Fylking, og strijda og storma til Stadarens, sierhvør Fylking j sijnum Stad.

50. So stormudu þeir til Stadarins al- lann þann Dag, og alla þa Nott, og unnu hann.

51. Og Judas liet drepa allt Karl-Kins þar inne, rænte og nidurbraut Stadinn, og for þar j giegnum a Lijkum Daudra Manna.

52. Og þeir komu yferum Jordan a Sliettlendid.

53. Og Judas dreif Folkid framm, sem tas- de epter, og huggade þad a þessare allre Reisu, þar til hann færde þad j Landid Judea.

54. Þa foru þeir uppa Sions Fiall med miklum Fagnade, og fornfærdu Brenne-For- num, ad Gud hafde giefid þeim Sigur, og leidt þa heim aptur med Gledi.

55. Enn a medann Judas og Jonathas voru j Galaad, og Simon þeirra Broder, j Galilæa fyrer (Stadnum) Ptolemais.

56. Og Joseph, Zacharie Son, og Azaria Hofuds-Menn heyrdu þeirra Sigur, og Storvirke, þa sogdu þeir.

57. Vier viljum og einnenn vinna Frægd- dar Verk, og yferfalla Heidingia, þa sem eru j kringum oss.

58. Og þeir budu sijnu Strijds-Folke ad vera til Reidu, og þeir foru til Jamnia.

59. Þa reiste ut j mote þeim Gorgias med sijnu Herlide.

60. Og slo Joseph og Azaria a Flotta, og ellte þa allt jnn j Landid Juda. Og Jsrael miste margt Folk a þeim Dege, sem var nær Tvær Þusunder Manns.

61. Af þvi, ad þeir hlyddu ei Bifalningu Judas og hans Brædra, og toku sier fyrer, ut af sinne eiginn Ofdirfd, Frægdar ad leita.

62. Þar þeir þo ei voru somu Menn, Hvøriun Gud hafde giefed ad hialpa skylldu Jsrael.

63. Enn Judas og hans Brædur voru storlega virdter hiaa ollum Jsrael, og hiaa ollum Heidingium.

64. Og hvar sem þeirra var gietid, þa voru þeir Prijsader.

65. Og Judas, og hans Brædur, reistu j Sudurætt j mote Bornum Esau, og hann vann Hebron, og þa Stade þar j kring, og uppbrennde þeirra Murvegge og Turna.

66. Og hann snere aptur jnn j Heidin- gianna Land, til Samaria.

67. Þar fiell Fiolde Kiennemanna, hvorier og so voru ofdiærfer, gaafu sig ut j mote O- vinunum, oan Raads og Bifalningar.

68. Epter þetta reiste Judas j mote As- dod, j Land Heidingianna, og nidurbraut Skurgoda Olltorinn, og uppbrennde Afgude- na, og rænte Stadena, og kom heim aptur j Landid Juda.

VI. Ca-

## VI. Capitule.

Enn þa Antiochus Kongur for aptur og framm um Upplondenn j Rijkenu, þa spurde hann til eirnrar Nafnfrægrar Borgar, sem hiet Elimais, j Persia Lande, ad þar skyllde vera mikid Gull og Silfur, og stor Rijkdomur.

2. Og ad j Mussterenu være mikid Fie, og Gulleg Klæde, Bryniur og Skyllder, Hvoria Alexander, Philippi Sonur, Kongurenn af Macedonia, hafde þangad giefid.

3. Þar fyrer kom Antiochus til Borgarinnar, ad inntaka hana og ræna.

4. En þeir sem j Stadnum voru feingu Niosn þar af, þar fyrer voru þeir vidurbuner ad veria sig. Og Antiochus vann þar eckert a, helldur hlaut hann ad reisa j burt þadan, og hann snere sinne Ferd aptur til Babylon, og lijkade þetta stor-jlla.

5. Þa komu honum þau Tijdende, ad hans Herlid være fallid, sem hann hafde sendt j Landid Juda, og ad Lysias hefde ordid ad flya.

6. Og ad Gydingar hefde feingid stor-mikid Fie og Fiolda Vopna j hans Herbudum, hvar med þeir hofdu sijdann bryniad sig betur, og voru ordner Megtugre.

7. Og ad þeir hefde burt kastad Svijvirdingunne ur Mussterenu til Jerusalem, og hefde giort sterka Mura, til Varnar vid Helgedomenn, so sem adur var, og þar ad auk rammlega biggt Bethzura.

8. Þa Antiochus heyrde þetta, vard hann miog hræddur og hryggur, lagdest fyrer, og vard siukur, af Hugar-Sott, ad hans Aform luckadest ecke.

9. Og var leinge j þeim sama Stad, þviad hans Hriggd ox Dag fra Dege, og giorde hann so veikann, ad hann sa sinn Dauda fyrer.

10. Þar fyrer kallade hann til sijn sijna Vine, og sagde til þeirra, Eg nyt einkis Svefns framar meir, fyrer saker þeirrar storu Hriggdar og Hiartans Angurs sem eg hefe.

11. Auvi! Hvornenn eru nu aller Hluter mier ordner umskipteleger? a medan eg hefe rijkt hefe eg haft Glede og Sigur, og eg hefe haft eirnenn Elsku og stora Virding af mijnum.

12. Enn nu er eg so hriggur af Hiartans Angre, Og eg minnist nu a þad vonda sem eg giorde j Jerusalem, þa eg burt tok ur Mussterenu Gull-Kier og Silfur-Kier, og liet j hel sla saklaust Folk j Judea.

13. Þar fyrer kiemur nu oll þesse Olucka yfer mig, og eg hlyt ad deya af þessare Sorg, j einu framande Lande.

14. Og hann kallade til sijn Philippum, eirn af sijnum Vinum, þennann giorde hann ad Hofuds-Manne yfer allt Kongs-Rijkid.

15. Og gaf honum Koronuna, Skickiuna, og Hringenn, og baud honum ad uppfostra sinn Son, þann unga Antiochum, og ad innsetia hann j Kongs-Rijkid.

16. Þvi næst andadest Antiochus j þeim sama Stad, a þvi Hundradasta, Fertugasta og Nijunda Are.

17. Þegar Lysias heyrde þad, ad Kongurenn var daudur, þa giorde hann þann unga Antiochum, Son Antiochi, hins Gofga ad Konge, hvors Tyftunar-Meistare hann hafde verid, og kallade hann Evpator.

18. Nu giordu þeir Heidingiar Israels Folke j Helgedomenum mikenn Skada, þeir sem Kastalann a Sion hofdu inne ad hallda, þviad þeir hofdu eitt sterkt Vijge.

19. Þar fyrer asette Judas sier ad setiast um þa, so ad hann feinge þa afmaad.

20. Og Folkid safnadist saman, a þvi Hundradasta og Fimmtugasta Are, og flutte þangad allskins Vopn og Vijg-Vielar.

21. Og nockrer Heidingiar komu ur Kastalanum, og villdu fara til Kongsins, Hioalpar ad leita.

22. Til þessara gaafu sig marger Mijdingar af Israel, þeir foru med þeim til Kongsins, og sogdu, Hvar fyrer villtu ecke straffa og hefna vorra Brædra?

23. Þviad vier villdum hafa verid undergiefner þijnum Fodur, og hlydt hans Bode.

24. Þa fiell margt vort Folk fra oss, og hvar þeir naadu einum af oss, þa slou þeir hann j hel, og skiptu med sier vorum Arfi.

25. Og þeir plaagudu ei ad eins oss, helldur fromdu þeir slijkt j ollu Landenu.

26. Og nu hafa þeir umkringt Kastalann til Jerusalem, og vilia vinna hann, og hafa sterkann giort Helgedominn, og Bethzura.

27. Og ef þu flyter þier ei ad hamla þeim þess, þa verda þeir enn stirkvari, og giora enn meira Skada, og muntu ecke þadan j fra þa þvingad gieta.

28. Þa Kongurinn heyrde þetta, vard hann æfa-reidur, og liet samankalla sijna Hofdingia og Hofuds-Menn yfer Fotgaungu-Lidenu og Riddara-Lidenu.

29. Og hann tok til sijn utlendskt Folk af Eyunum.

30. Og safnade til samans Hundrad Þusund Fotgongu-Lids, og Tuttugu Þusund Riddara-Lids, og Tolf og Tuttugu Fijla vanda vid Orustu.

31. Þesse Her reiste j giegnum Idumeam, og er þeir komu vid Landid, settust þeir um Bethzura, og strijddu og stormudu þar til med allskins Vijg-Vielum. Enn Gydingar fiellu ut, og brenndu þeirra Smijdar, og bordust all-hreystelega.

32. Og Judas reiste ofann fra Sions Kastala, og kom med sinn Her til Bethzachara, mots vid Kongsins Herbuder.

33. Þa var Kongurinn snemma uppi um Morguninn, aadur enn dagadi, og flutte sinn Her a Veginn til Bethzachara, og liet skipa Fylkingar, og bloasa j Tramet.

34. Og hann liet stockva a Fijlana raudu Vijne og Morberia-Log, so ad þeir skylldu sækia aaframm, og vera grimmer.

35. Og hann skipte Fijlunum a medal Flockanna so, ad hiaa hvørium Fijl skyllde vera Þusund Menn Fotgangande, hafande Jaarn-Hiaalma og Bryniur, og Fimm Hundrud Hestar.

36. Þesser tooku so Vara a Fijlunum, ad þeir viku ecke fra þeim, og hvørt sem Menn sneru Fijlunum, þangad skylldu þeir og eirninn.

37. Og hvor sem eirn Fijll bar eirn Kastala af Trie, þar a voru Tolf og Tuttugu Strijds-Menn, og sa Bloa-Madur sem Fijlnum stijrde.

38. Enn þa Riddara sem afgeingu sette hann a baadar Sijdur, til Hlijfdar vid Fotgongu-Lidid, so ad þad skildest eige j sundur.

39. Og þa Soolenn rann upp, og skein a þa forgylltu Skiolldu, þa leiftrade allt Fiallid þar af, lijka sem þad hefde verid kloar Elldur.

40. Og Kongsins Her foor sumur upp a Fialled, enn sumur nidre a Sliettlendenu, j godre Fylkingu, og forsiaalega.

41. Og hvor sem til þeirra heyrde sa skelfdest, af þeirra hrædelegum Hliodum, og af þeim mikla Mannfiolda, og Ohliodum, sem þeir giørdu med sijnum Harneskium, og Jaarnum, Þviad þetta var eirn hardla mikell, og vel-bryniadur Her.

42. Og Judas foor og so med fylktu Lide j mooti þeim, ad veria sig, og sloo jhel Sex Hundrud af Kongsins Herlide.

43. Og þar var eirn Madur, ad Nafne Eleasar, Saura Son, hann hugleidde ad einum Fijl, sem var stærre og betur bryniadur enn adrer, og hann hugde ad Kongurinn munde vera þar a.

44. Hann vogade sier so, ad hann feinge frelsad Israels Folk, og odladist eitt Eylijst Nafn.

45. Hann hliop ad med storre Dirfd, og þreyngde sier j giegnum Ovina Fylkingena, og fellde margt af þeim a baadar Hendur.

46. Og

46. Og hann gaf sig under Fijlenn, og lagde hann so, ad Fijllenn fiell Daudur yfer hann, og sloo hann og so jhel.

47. Enn af þvi, ad Gydingarner sçau, ad Kongsins Her hafde so mikla Magt, þa viku þeir affijdis, og yfergçafu Ovinena j þad Sinn fra sier.

48. Þar fyrer droo Kongsins Her framm til Jerusalem, og kom j Judeam.

49. Enn þeir sem voru j Bethzura kunnu þar ecke vid ad halldast leingur, fyrer Hungurs Saker, þviad þetta var þad Siounda çar, a hvoriu Akraruer skylldu hvijlast, Og þeir feingu Burt-farar Leife af Kongenum, so ad þeir mætte fara o-hrædder j burtu þadann.

50. Þa jnn-took Kongurinn Bethzura, og sette þar jnn Strijds-Folk, til ad vardveita þa Festingu.

51. Og reiste so a Veigenn til Sion, og settest um Helgedomenn langann Tijma, og uppreiste jmoote honum allshçattadar Vijg-Vielar.

52. Enn Israels Folk vardist marga Daga ur Helgedomenum, og giorde eirnenn Skot-Vopn, og Veriur, jmoot Ovinunum.

53. Enn þeir hofdu ecke helldur Fædslur, af þvi, ad þetta var hid Siounda çar, Og þeir Utlendu Gydingar, sem af Heidingianna Londum voru flutter jnn j Judeam, fyrer Vareygdar Saker, þeir hofdu eydt ollum þeirra Vistum.

54. Og þeir enu Heilogu urdu miog fçaer, þviad þeir deydu af Hungre, þar fyrer urdu þeir ad skilia, og skipta sier um adrar Borger.

55. A medan þetta skiede, formerkti Lysias, ad Philippus (hvorium Kongsins Fader Antiochus hafde ad sier lifanda a Hendur falid þann unga Kong og Rijkid,) var kominn aptur af Persia og Media

56. Med þad Strijds-Folk, sem Kongurinn hafde þangad haft, og ad Philippus took Rijkis-Stiornena til sijn.

57. Þar fyrer hastade hann sinne Ferd ur Gydinga-Lande aptur j Rijkid, og hann sagde til Konungsins, og til Hofuds-Mannanna, Vier lijdum hier Neyd, og hofum eckert til Matar, og missum margt Folk, og þesse Stadur er miog sterkur, Enn vier hofum þo heima nytsamlegar Saker ad handtiera, so ad vier mættum hafa Frid j Rijkenu.

58. Vier vilium giora Sçatt vid þetta Folk.

59. Og leysa þeim, ad þeir hallde sijnu Logmçale, so sem çadur fyrre, þviad þeir eru þar fyrer reider, og beriast alleina fyrer þann Skulld, ad vier vilium svipta þa þeirra Logmçale.

60. Þesse Meining þocknadest Kongenum og Hofdingiunum vel. Og Kongurinn giorde þeim Bod, ad hann villde giora Fridar-Sçattmçala vid þa.

61. Enn sem þeir komu ut af sijnum Kastala, þa foor Kongurinn þar jnn.

62. Og er hann sçaa ad hann var so sterkur, þa hiellt hann ei sinn Eyd, helldur baud hann ad rijfa nidur Murinn allt um kring.

63. Epter þad reiste hann j burt med Flyte j Antiochiam, þa formerkte hann, ad Philippus hafde giort sig ad Konge, og hann bardest vid hann, og vann Stadenn aptur.

## VII. Capitule.

A þvi Hundradasta, Fimmtugasta og Firsta Aare, kom Demetrius Seleuci Son, fra Rom, heim aptur j sitt Rijke, og vann eirn Stad vid Hafed, med litlu Lidi, og rijkte þar sem eirn Kongur.

2. Og sem hann kom jnn j Hofud-Stadenn Antiochiam, þa handtook Strijds-Folked Antiochum og Lysiam, og villdu j Hendur selia þa Demetrio.

3. Enn þa Demetrio var þad sagt, þa baud hann, ad þeir skylldu ecke koma honum fyrer Augu.

4. Þar fyrer sloo Strijds-Folked þa jhel.

5. Þa

5. Þa Demetrius hafde nu innteked Rijked, komu þar til hans marger Ogudleger, og af-fallner af Jsrael, og Alcimus var hinn hellste af þeim, hann villde giarnann verda Ædste Prestur.

6. Þesser kløgudu uppa Judam, og sitt eigid Folk, segiande, Judas og hans Brædur hafa jhel sleigid, edur af Landi burt reked, alla þa sem þier villdu hlydner vera.

7. Þar fyrer send þangad einhvorn, þann sem þu truer, og lꜳt skoda Hvorninn þeir hafa fordiarfad oss og Kongsins Land, og lꜳt straffa þa, og alla þeirra Fielaga.

8. Þar fyrer giorde Kongurinn Bacchidem sinn Vin, sem var megtugur j Rijkenu, og mikell Trunadar-Madur Kongsins, ad Hofuds-Manne yfer øllu Landenu, þessumeiginn Evphratis.

9. Og sende med hønum Nijdingenn Alcimum, hvorn hann hafdi skickad til Kiennemanna-Hofdingia, og skipade hønum ad straffa Jsraels Folk.

10. Og þeir reistu inn j Landid Juda med miklu Lide, og sendu Bod til Juda, og hans Brædra, um Fridargiord þeirra a mille.

11. Og lietust vilia hallda Frid vid hann, enn þad voru einsømun Svik, Þar fyrer trude Judas þeim ecke, þviad hann sꜳ, ad þeir voru vel bryniader, og høfdu mikinn Hers-Fiolda med sier.

12. Enn marger af Prestunum komu til Alcimum og Bacchidem, og marger goder Menn j Jsrael vonudu gods til Alcimum.

13. Bꜳdu um Frid segiande.

14. Alcimus er eirn Prestur utaf Aarons Ætt, hann syner oss øngvann O-Truleika.

15. Og Alcimus lofade þeim Fride, og soor þeim eirn Eyd, segiande, Vier villium ecke giøra ydur nie ydar Vinum illt.

16. Og þa þeir so trudu hønum þa liet hann griipa Sextiiger af þeim, og liet slꜳ alla jhel a einum Dege, so sem Skriftinn *seger. *Ps. 79, 1. 2. 3.

17. Þeir hafa giefid Dyrum Holld Þinna Heilagra, þeir hafa uthellt Blodenu j kring um Jerusalem, lijka sem Vatne, og þar var einginn sa sem þa jardade.

18. Þar fyrer kom ein stor-mikel Hrædsla og Skielfing a medal Folksins, sem klagade, ad med Alcimo være hvørke Tru nie Tryggd, þviad hann hiellt ecke sinn Eyd.

19. Og Bacchides reiste fra Jerusalem, og settest um Bethzecha, og hann sende ut, og liet griipa marga af þeim sem ꜳdur høfdu giefid sig til hans, og flydu fra hønum aptur, vegna hans O-Truleika, og hann liet drepa marga af þeim, og kastade þeim j eina stora Gryfiu.

20. Þvi nærst bijfalade Bacchides Alcimo Landid, og liet epter Striids-Folk hiꜳ hønum, og reiste til Kongsins.

21. Og Alcimus ꜳsette sier med Vallde ad vera Ædste Kiennemadur.

22. Og hann safnade ad sier øllum Af-føllnum j Jsrael, og braut Landid Juda under sig med Magt, og ꜳ-þiꜳde Jsraels Folk miøg hardlega.

23. Þa Judas sꜳ nu, ad Alcimus, og þeir sem af-fallner voru fra Jsrael, giørdu so stormikinn Skada j Jsrael,

24. Þa reiste hann enn um kring j giegnum allt Landid Juda, og straffade þa Af-føllnu, og varde þeim, so ad þeir þordu ecke þadann j fra ad fara hingad og þangad j Landenu.

25. Enn sem Alcimus sꜳ, ad Judas, og hans Folk, efldest aptur ad Stirk, so ad hann gat ei stadid j mote þeim, þa for hann til Kongsins aptur, og klagade hardlega uppa þa.

26. Þar fyrer sende Kongurinn þangad eirn megtugann Hofdingia, sem hiet Nicanor, sa sem var miøg reidur uppa Jsraels Folk, og skipade hønum ad afmꜳ allt Jsraels Folk.

27. Og Nicanor før med mikid Herlid til Jerusalem, og giorde Menn til Judam og hans Brædra, sviksamlega, hvørier ed lꜳta skyllde, so sem villde hann hallda Frid vid þa, segiande,

28. Vier

28. Vier vilium hafa Frid hvor vid annann, Eg og þier, og eg vil koma fridsamlega med soa=eina Menn, ad eg meige tala vid þig.

29. So kom Nicanor til Judam, og þeir heilsuduſt, og toluduſt vid fridſamlega, Enn ſo var oaſett, ad Menn ſkylldu þar handtaka Judam.

30. Þeſſa vard Judas vijs af Njoſnar=Monnunum, ad Nicanor være þar fyrer til hans kominn, ad hann villde grijpa hann ſvikſamlega, þar fyrer fordadiſt Judas hann, og villdi ecke framar til hans koma.

31. Og þa Nicanor formerkte, ad hans Fyreretlun var auglios ordinn, reiſte hann j moote Juda, og hiellt Bardaga vid hann, hioa Caphar Salama.

32. Þar fiellu af Nicanor Fimm Þuſund Manna, og hans Herlid vard ad flya uppa Davids Slot.

33. Epter þad kom Nicanor og til Helgedomſins, Og Preſtarner og Olldungarner geingu ut, ad medtaka hann fridſamlega, og ad ſyna honum, ad þeir fornſærdu ſtoorar Foorner fyrer Kongenn.

34. Enn Nicanor ſpottadi þa, og þeirra Guds=Þionuſtu, og laſtade og vanhelgade Foornernar, og ſoor eirn Eyd ſegiande.

35. Ef ad þier ecke j Hendur ſelied mier Judam, og hans Lid, þa ſkal Eg uppbrenna þetta Hus, jafnſnart ſem Eg kiem med Lucku hingad aptur, og hann foor j burtu med ſtoorum Grimmdar=Huga.

36. Enn Preſtarner geingu jnn, og ſtoodu fyrer Alltarenu j Muſterenu groatande, og ſogdu.

37. O DROTTinn! Med þvi, ad Þu utvalder þetta Hus, ad Menn ſkylldu þar oakalla Þig, og predika um Þig,

38. Þa bidium vier, ad Þu vilier hefnaſt a þeſſum Nicanor, og hans Herlide, Og minnaſt þar a, ad þeir hafa laſtad Þinn Helgedom, og Þig, og ad Þu villder utreka og afmoa þa af Landenu!

39. Og Nicanor reiſte fra Jeruſalem, og ſette ſijnar Herbuder hioa Bethoron, Þangad kom til hans enn meira Lid ur Syr=Lande, honum til Hioalpar.

40. Enn Judas ſetti ſijnar Herbuder gagnvart honum, hioa Adaſar, med Þriu Þuſund Manna, og bad til Guds ſo ſegiande.

41. DROTTenn Gud! Þa Kongſins Senacheribs Sendebodar laſtudu Þig, þa utſender Þu einn Eingel, hann ſloo j hel Hundrad, Fim og oattatijge Þuſund Manna.

42. Sloa Þu! Og eins a þeſſum Dege vora Ovine, fyrer vorum Augum, og dæm þennann Nicanor epter ſijnum mikla Miſgiorninge, ſo ad adrir þecke, ad Þu hefur ſtraffad hann fyrer þad hann laſtade Þinn Helgedom.

43. Og a þeim Þrettanda Dege Moanadarins Adar (a) oattu þeir Oruſtu til ſamans, og Nicanor fiell Firſtur.

(a) (Adar) Er Februarius Moanudur.

44. Enn þa hans Her ſoa þad, þa koſtudu þeir Vertunum fra ſier, og flydu.

45. Enn Judas rak Flottann eina Dag=Reiſu, fra Adaſar, allt til Gaza, og liet trometa.

46. So ad Folkid af ollum Stodum umhverfis j Landenu ſkyllde koma ut til hans, og hioalpa til ad ſloa Ovinena, Og þeir komu til Judam, og hiellldu ſier til hans ad nyu. So fiell Nicanors Her, og þar komſt ecke eirn undann.

47. Og Judas rænte þa, og burt flutte Herfoangid med ſier. Og hann liet hoggva Hofudid af Nicanor, og Hægre Hondena, ſem hann hafde utriett til Eidſins, þa ad hann laſtade, og hootade Helgedomenum, og hann liet flytia bæde Hofudid og Hondena med (ſier) og uppheingde þad j Jeruſalem.

48. Þa vard Folkid ſtorlega gladt ad nyu, og hiellt þennann Dag helgann med miklum Fognude.

49. Og þeir ſkipudu, ad Menn ſkylldu oarlega hallda þennann Dag heilagann, ſem er þann Þrettanda Dag Moanadarins Adar.

50. So vard Fridur ad nyu j Landenu Juda, um litla Stund.

## VIII. Capitule.

Pa heyrde Judas ut af Romverium, ad þeir være miøg Megtuger, og tæke giarnann Framande Folk j sijna Vernd, sem leitade Hiaalpar til þeirra, og ad þeir hielldi Tryggd og Truskap.

2. Þviad hann heyrde Hvørsu ærlega Giørninga þeir høfdu giort vid Gallos, hvøria þeir høfdu þvingad, og sier undergiefna giort.

3. Og Hvørsu storar Orustur þeir hefdu aatt j Hispania, og unnid Maalm-Bergid, þar sem Menn grafa bæde Gull og Silfur, og ad þeir høfdu unnid mørg Lønd fiarlæg Rom, med mikelle Kiænsku og Alvøru, og hielldu þeim.

4. Og ad þeir hefdu j hel slegid og ur Lande rekid marga Megtuga Konga, sem med Magt jnn-reistu j þeirra Lønd, og unnu þeirra Kongarijke under sig.

5. Og ad þeir hefdu nylega yferunnid Philippum, Konginn af Kithim, og sijdann hans Son Persen.

6. Somuleidis utaf þeim stora Antiocho, Asia Konge, sem utreiste j mote Romverium med Hundrad og Tuttugu Fijlum, med miklu Riddara-Lide og Vøgnum, Enn þeir Romversku høfdu slegid hans Her, og þreyngdu ad hønum, so hann vard ad bidiast Fridar.

7. Og þeir løgdu a hann, og hans Erfingia epter hann, eitt miked Skattgialld, hvørt þeir skylldu giefa aarlega þeim Romversku, þar til hlaut hann ad giefa þeim Romversku Gislinga.

8. Þeir toku fra hønum Jonian, Asiam, og Lydiam, þaug bestu Lønd, og gaafu þaug Evmeni Konge.

9. Grickiar reistu sig og eirninn þeim j moti, med mikellre Magt,

10. En þeir sendu eirn Høfuds-Mann a moti Grickium, hann yfervann þa, og jnntook Landid, og liet nidurbriota Murveggena j Stødunum, so ad þeir urdu ad hallda Frid og vera hlyduger.

11. Slijka Alvøru syndu þeir øllum sijnum Ovinum, so ad þeir þvingudu þa alla, sem uppreistu sig j mote þeim.

12. Enn vid sijna Vine og Fielagahielldu þeir godann Frid, og hielldu Tru, og voru Megtuger, og j øllum Londum voru Menn hræddir vid þa.

13. Hvørium þeir Hiaalp veittu, hann var holpinn, og hiellt sijnu Rijke, Enn hvørn þeir villdu straffa, hann var fra Lande og Lydum burtrekinn, og þeir urdu miøg Megtuger.

14. Og slijk Dygd var med þeim, ad eingin þeirra giorde sig ad Konge.

15. Og einginn Kongur var þar, utann Raadid, þad var Þriu Hundrud Manns og Tuttugu, þeir stiornudu vel.

16. Og aarlega utvøldu þeir eirn Høfuds-Mann, sem hafa skyllde Vijfalning yfer øllum þeirra Løndum, hønum urdu aller ad hlyda, og einginn Drambseme, Hatur, eda Osamþycke var a mille þeirra.

17. Og Judas utvallde Evpolemum, Son Johannis, Sonar Jacobs, og Jason, Eleazar Son, og sende þa til Rom, ad giøra Vinaattu og Soattmaala vid Romveria, so ad þeir hiaalpudu þeim.

18. So ad Jsraels Rijke skyllde ecke nidur-þrickiast af Grickium.

19. Þesser foru til Rom langa Reisu, og komu fyrer Raadid, og søgdu so.

20. Judas Maccabeus og hans Brædur, og Gydinga Folk, hafa sendt oss til ydar, ad giøra Frid og Soattmaala vid ydur, ad þier villdud taka oss j Vernd, so sem Vine og Fielaga.

21. Þetta þocknadist Romverium, Og þeir lietu skrifa þennann Soattmaala a Messings Spiolld.

22. Hvørn þeir sendu til Jerusalem, til

eirnrar Minningar um þann Frid og Soattmoala sem giordur vär, sem so hliodar.

23. Gud giefe Romverium og Gydingum Lucku og Frid til Lands og Sioasar, og vardveite þa fyrer O-Fride og Ovinum, ad eylifu!

24. Enn ef Romveriar hafa O-Frid j Rom, edur j þeirra Londum, og þar sem þeir eiga yfer ad raada,

25. Pa skulu Gydingar trulega hioalpa Romverium, so sem Porf krefur.

26. Og þeir skulu ecke senda Ovinum Romveria Vister, Vopn, Fie, Skip, edur adra Hlute. Petta girnast Romveriar af Gydingum, Og Gydingar skulu trulega hallda þessa Hlute, Svikalaust, og oan Hindrunar.

27. Par j mote, Ef ad Gydingar hafa O-Frid, þa skulu Romveriar trulega hioalpa þeim, so sem Þorf krefur.

28 Og þeir skulu ecke senda Ovinum Gydinga Vister, Vopn, Fie, Skip, nie adra Hlute, þessu lofa Romveriar, viliande þennann Soattmoala trulega hallda, og oan Underhyggiu.

29. So var soa Soattmoale giordur a millum Romveria og Gydinga.

30. Enn ef adrer-hvorier hugsa siidarmeir ad setia fleyre Greiner vid, edur ad umbreyta nockru, edur af ad taka, þa skulu hvorutveggiu hafa þar Magt til, Og hvad þar verdur vid-aukid, eda af-tekid, þad skal alltsamann halldast ætijd og stadfastlega.

31. Og þar sem Demetrius Kongur veiter Gydingum Yfervalld, þar um hofum vier honum so tilskrifad, Hvar fyrer plaagar þu vora Vine og Tilheingiara?

32. Ef ad þeir klaga yfer þier optar þar um, þa hliotum vier ad vernda þa, og vera j mot þier, bædi til Lands og Sioasar.

# IX. Capitule.

Pess a mille, þa Demetrius formerkte, ad Nicanor, og hans Herlid var fallid, og j hel slegid, þa sende hann enn aptur j Judeam þessa tvo, Bacchidem og Alcimum, og med þeim sitt valdasta Lid, þad sem j Orustum var vant ad vera j hægra Fylkingar Arme.

2. Pesser reistu til Galgala, og settust um Masloth j Arbela, og unnu hana, og j hel slou þar Fiolda Folks.

3. Pvi nærst, a Pvi Hundradasta, Fimmtugasta og odru aare, j firsta Maanade, reistu þeir til Jerusalem.

4. Og þadan til Berea, med Tuttugu Pusunder Fotgaungu Lids, og Tvo Pusund Riddara.

5. Og Judas sette sijnar Herbuder hioa Laisa, med Priu Pusund Manna.

6. Enn þa hans Menn soau, ad Ovinerner hofdu so stor-mikla Magt, þa skielfdust þeir og flydu j burt, so ad ecke voru epter hioa Juda, nema aatta Hundrud Manna.

7. Pa Judas soa, ad sitt Lid hiellt ei til samans, og Ovinerner þreyngdu þo ad honum, þa fieck honum þad A-hyggiu, Og er hann soa, ad hann hafde ecke Tijma til ad hugga sitt Lid, og safna þvi til samans aptur,

8. Pa talade hann j þessare Angist til þeirra sem epter voru, Risum upp! og laatum oss reyna til, ef ad vier kunnum ad taka a mote Ovinunum, og sloa þa.

9. En þeir villdu ei, og vornudu honum, segande, Ei er þad mogulegt, ad vier orkum nockru, Helldur vijkium ad Sinne, og forum burt, og sofnum vorum Brædrum til samans aptur, sem fra oss hafa fluid, þa vilium vier snua aptur a mote Ovinunum, og yferfalla þa, enn ad Sinne erum vier of foa-lidader.

10. Enn Judas sagde, Fiærri sie þvi, ad vier skulum flya, Sie vor Tijme kominn, þa vilium vier deya Karlmannlega, vegna vorra Brædra, og laata ecke vora Æru verda til Skammar.

11. Og Ovinerner voru uppe, og fylktu sijnu Lide so, ad Skytturnar voru fremst, og þad besta Strijds-Folk var j ondverdre Fylkingu.

12. Enn Riddara-Lide var skipt j tvennt,

finn Flockur var hiꝗ hvorium Fylkingar Arme, Hofuds-Madurinn Bacchides var j hinn Hægra Fylkingar Arm.

13. Med so skipudu Lide reistu þeir framm med miklu Heroope, og trometudu. Pa liet Judas og eirnenn trometa, og riedst j moti þeim. Og þeir borduſt upp fra Morgne allt til Kvollds, so Jordinn skalf af miklu Harke.

14. Enn þegar Judas ſaa, ad Bacchides ſioalfur, og hans ſtærſta Magt, var j þeim Hægra Fylkingar Arme, þa fiell hann hangad, hann og adrer, þeir ſem vogudu ſijnu Lijfe, og hrædду þa ſem voru til Hægre Handar.

15. Og ſlou hann ſama Hoop a Flotta, og elltu þa allt ad Bergenu hiꝗ Asdod.

16 Enn þa hiner j Vinſtra Arm ſaau þetta, ad Judas ellte þa, þa flyttu þeir ſier og eirnenn epter Judas.

17. Pa vard Judas ad ſnuaſt vid þeim, og hann vardiſt leinge, og þar vard hardur Bardage, ſo ad marger urdu ſaarer, og fiellu af beggia Lide.

18. Par til Judas fiell og eirninn um ſijder, þa flydu hiner ſem epter voru.

19. Og Jonathas og Simon toku ſijns Brodurs Lijkama Judæ, og grofu hann j hans Fedra Grof.

20. Og allt Iſraels Folk griet Judam langann Tijma, og harmadi hann miog, og ſagde,

21. Auvi! Kappinn er fallenn! Sa ſem verndade og frelſte Iſrael.

22. Petta er Sagann um Juda, Enn hann giorde þo miklu fleyre Stor-Virke, ſem ecke eru oll ſkrifud, fyrer Fiolda ſaker.

23. Epter Dauda Judæ, urdu þeir Ogudlegu og þeir Af-follnu aptur ad nyu Megtuger j ollu Iſraels Lande.

24. Og um þann Tijma var mikid Hallære j Landenu, ſo ad allt Folk gaf ſig under Bacchidem.

25. Pa utvalde Bacchides Ogudlega Menn, þeſſa ſette hann til Foveta.

26. Og hann liet allavegana leita epter Vinum og Filgdar-Monnum Judas, og hafa þa fyrer ſig, ſo ad hann giæte hefnſt a þeim, og frammkomid Illſku ſinne vid þa.

27. Og þar var ſoddann Hriggd og Eymd j Iſrael, hvorrar Lijke ecke hafde verid, ſijdann þad Menn hofdu ongvann Propheta haft.

28. Par fyrer komu Filgdar-Menn Judæ til ſamans, og ſogdu til Jonathas.

29. Epter þijns Brodurs Judæ Dauda, þa hofum vier ongvann hans Lijka, ſem oſs kann ad vernda fyrer vorum Ovinum, og Bacchide, ſem oſs offæker.

30. Par fyrer kioſum vier þig j hans Stad, til ad vera Hofdinge, og Hofuds-Madur, ad hallda þetta Strijd.

31. So vard Jonathas þeirra Hofdinge, og Stiornare, j Stadenn ſijns Brodurs.

32. Pa Bacchides friette þad, þa liet hann leita hans, og villde lijfloata hann.

33. Enn ſem Jonathas, og hans Broder Simon, feingu þad ad vita, þa flydu, þeir og aller þeir ſem hiꝗ þeim voru, til Eydemerkur Thecoe, og ſettu ſijnar Herbuder vid Vatnid Aſpar.

34. Petta ſpurde Bacchides, og hann bioo ſig til, og foor j moote þeim.

35. Nu hafde Jonathas ſendt ſinn Brodur Johannem, ſem var eirn Hofuds-Madur, til ſinna Vina Nabatheos, ad bidia þa, ad þeir villdu taka þeirra Fie og Gots j ſijna Borg, og vardveita þad.

36. Enn Born Jambri fooru ut af Madaba, og yferfiellu Johannem, og gripu hann, og tooku allt þad ſem hann hafde med ſier, og fluttu þad j ſijna Borg.

37. Par epter var þeim Jonathe, og Simone ſagt, ad Jambri Born biuggu til eitt mikid Brudkaup, og ættu ad flytia Brudena fra Nadabath med ſtooru Bramle, Pviad hun var Dotter eins Hofdingia af Canaan.

38. Nu minntiſt Jonathas, og Simon, ad

ad þesser hofdu drepid þeirra Brodur Johannem, þar fyrer risu þeir upp, og geymdu sig under Fiallenu, og saatu um Jambri Born.

39. Enn þegar Brudgumenn reiste þar framm hiaa med sijnum Vinum, og med Fielda Folks, og Audæfum miklum, med Bumbum og Pipum, og forkostulegu Skraute,

40. Þa stoodu þeir Jonathas, og Simon upp, undann Fiallenu, og fiellu yfer þa, og slou marga jhel, so ad þeir sem epter voru flydu a Fioll, Og ræntu ollu þeirra Gotse.

41. Þa vard af Brudkaupenu eitt Hiartans Angur, og Pijpu-Hliodenn urdu ad Sorgar-Graat.

42. So hefndu þeir Dauda þeirra Brodurs, og hvurfu aptur, og fooru til Jordanar.

43. Þa kom Bacchides og til Jordanar med miklu Lide, a Sabbaths-Dege.

44. Þa sagde Jonathas til sijns Folks, Standed upp og buist til Bardaga! Þviad nu kunned þier ei hier kirrer ad liggia so sem fyrre.

45. Þviad Ovinerner eru þar fyrer Hende, og vier hliotum ad veria oss, med þvi vier gietum ecke undann komist. Þviad vier hofum Ovine bæde a Bak og fyrer, So er Jordan til eirnrar Handar, enn til annarar eru Fioll og Flooar.

46. Þar fyrer skulud þier kalla j Himnenn, so ad þier verdid frelsader, fra Ovinunum.

47. Og þeir bordust, og Jonathas sloo til Bacchidem, eñ Bacchides veik aptur a Bak.

48. Og Jonathas, og hans Folk gaafu sig j Jordan, og komust yfer Vatnid, Enn Bacchides Folk var ecki so hugdiarft, ad þad þyrde ad giefa sig j Vatnid.

49. Og þar draapust a þeim Dege Þusund Manna af Bacchides Lide.

50. Þar fyrer reiste Bacchides j burt aptur, og kom til Jerusalem, og took til ad giora sterkar Borgernar j Landenu, Hann liet biggia Port, og haafa Murvegge kringum Jericho, Amao, Bethoron, Bethel, Thamnata, Phara, Topo.

51. Og sette þar jnn Strijds-Folk til Verndar, sem plaaga skylldu Jsrael.

52. Somuleidis liet hann stirkia Bethzura, Gaza, og Kastalann til Jerusalem, og sette þar jnn Strijds-Folk, og forsorgade þeim Fædslu.

53. Og hann took Born þeirra yppurstu Manna j Gisling, og vardveitte þau j Kastalanum til Jerusalem.

54. A þvi Hundradasta, Fimmtugasta, og Þridia aare, a odrum Maanude, skipade Alcimus nidur ad rijfa þann jnnsta Murveggenn For-Hussins, sem var nærst Musterenu, hvorn þeir Heilogu Prophetar hofdu biggia laatid.

55. Og þa þeir tooku til þess, þa straffadi GUd Alcimum, so ad þad uppbyriada Erfide vard forhindrad, Þviad hann vard sleginn med Limna-Falls Sott, so ad hann kunne ei neitt ad tala, sticka nie skipa, af sijnum Erindum.

56. Og hann andadest med miklum Harmkvælum.

57. Enn þa Bacchides saa, ad Alcimus var daudur, Þa reiste hann burt aptur til Kongsins. So vard Fridur og Spekt j Landenu um Tvo aar.

58. Enn þeir Af-follnu j Landinu tooku Raad samann, og sogdu, Jonathas og hans Selskapur eru nu j Kirrsetu, og hafa Frid, og eru athugalauser, vier vilium kalla a Bacchidem aptur, hann giæte nu veidt þa alla a eirnre Nottu.

59. So fooru þeir til Bacchidem, og sogdu honum sijna Raadagiord.

60. Þa took Bacchides sig upp med miklu Herlide, og sende heimuglegt Brief til sinna Tilheingiara j Gydinga-Lande, ad þeir skylldu naa Jonathas, og ollum þeim sem med honum være. Enn Jonathas fieck Vitneskiu af þessare Raadagiord, þvi vard þar eckert af.

61. Enn Jonathas fangade nær Fimmtyger Menn, þa Nafnkunnugustu af Nijdingum, og þeim Ogudlega Selskap, og hann liet lijflaata þa.

62. Þvi nærst viku þeir Jonathas, og Simon, og þeirra Folk, burt j Eydemorku, til eins nidurbrotins Stadar sem hiet Bethbesen, þennann biggde hann upp aptur, og giorde hann sterkann.

63. Þa nu Bacchides spurde þetta, þa var hann uppe med allt sitt Herlid, og hann liet og so utbioda Gydingum.

64. Og reiste fyrer Bethbesen, og settist þar leinge um, og hann stormade og strijdde þar uppa, og giorde Skot-Vopn, og Vijg-Vielar þar fyrer.

65. Enn Jonathas bijfalade sijnum Brodur Simone Stadinn, og hann reiste ut med eirn Flock-Manna,

66. Og sloo Odaren, og hans Brodur, og Phaserons Born j þeirra Land-Tiolldum. Og af þvi, ad þetta luckadest honum, þa safnadist enn meira Folk til hans, so ad hann efldist ad Stirk.

67. Þess a millum fiell Simon ut af Stadnum jnn j Ovinanna Herbuder, og uppbrennde þeirra Vijg-Vielar, og rak Bacchidem a Flotta.

68. Og Bacchides gramdist miog, ad hans Asetningur og Reisa var til forgiefins.

69. Og hann vard æfa-reidur þeim Afsollnu Gydingum, sem hann hofdu eggiad a þad, ad koma aptur j Landid, og liet jhelsloa marga af þeim, Og hann bioo sig til ad fara heim aptur j sitt Land.

70. Þa Jonathas merkte þetta, sende hann Bodskap til hans, ad hann villde giora Frid vid hann, og bad hann leggia aptur Herfangid, og giefa lausa Bandingiana.

71. Þetta samþyckte Bacchides giarnann, og giorde so sem Jonathas bad, og soor honum eirn Eid, ad hann skyllde ecki giora honum leingur jllt um sijna Lijf-Daga.

72. Og hann lagde honum aptur Herfangid, og liet Bandingiana af Juda lausa, og snere aptur, og foor j sitt Land, og kom ecke j Juda-Land þadann j fra.

73. So vard Fridur j Jsrael ad nyu, Og Jonathas bioo j Machmas, og stiornade Folkenu, og j Eyde lagde þa Af-follnu fra Jsrael.

## X. Capitule.

A þvi Hundradasta, og Sextugasta are kom Alexander, Son Antiochi hins Gofga, og vann Borgena Ptolemais, og Rijkte þar.

2. Enn þa ed Demetrius merkte þad, safnade hann miklum Her til samans, og riedst j moot Alexandro, ad reka hann ut.

3. Þar fyrer skrifade Demetrius til Jonathas, og lofade honum, ad hann villde hallda Frid vid hann, og ad hann villde giora honum allt Gott.

4. Þviad hann hugsade med sier, Betra er, ad eg lade hann First til mijn, oadur hann giefur sig til Alexandrum a moote mier.

5. Af þvi ad eg drap hans Brodur, og giorde honum, og hans Folke þar ad auk, margt jllt.

6. Og Demetrius sende Skrif til Jonathas, og leyfde honum til sijn ad taka og hallda Strijds-Folk, og ad smijda Strijds Vidurbunad, og ad hann skyllde vera j hans Scattmoala. Og baud, ad Menn skylldu giefa honum lausa þa sem j Gisling voru j Kastalanum.

7. Þar fyrer kom Jonathas til Jerusalem, og liet lesa þesse Brief fyrer ollu Folkenu, og fyrer þeim j Kastalanum.

8. Og er þeir heyrdu, ad Kongurinn leyfde honum ad taka til sijn Strijds-Folk, og ad giora Verinr til Strijds, og ad Kongurinn hafde giort Scattmoala vid hann, þa ottudust þeir hann miog.

9. Og goafu þa lausa sem j Gisling voru, Og Jonathas gaf þa sijnum Forelldrum aptur.

10. So

10. So took Jonathas ad bua j Jerusalem, og ad biggia, og ad endurbæta Borgena ad nyu.

11. Og hann liet uppreisa Murvegge ad nyu, og stirkt giora Sions Fiall ad nyu, med godum sterkum Steinveggium af einum samann hoggnum Steinum.

12. So var Jerusalem ad nyu sterklega uppbiggd.

13. Og Heidingiarner j þeim Þorpum sem Bacchides hafde latid sterklega biggia, flydu burt þadann j þeirra Lond.

14. Enn þeir hielldu alleinasta Bethzura, og þangad flydu Nijdingarner, Þviad þeir hofdu þar sitt Adhvarf.

15. Þa Alexander merkti nu, ad Demetrius leitade Vinaattu til Jonathas, og heyrde þa Loflegu Giorninga, sem Jonathas og hans Brædur hofdu giort, þa sagde hann.

16. Þess Ærlega Manns Jafninge finnst ecke, þar fyrer vilium vier skrifa honum til, ad hann sie vor Vinur og Fielage.

17. Og hann skrifade a þennann Haatt.

18. Alexander Kongur bydur sijnum Brodur Jonathe sijna Kvediu!

19. Vier heyrum, ad þu ert prijsadur fyrer eirn loflegann Mann, og þess maklegur ad þu siert vor Vinur.

20. Þar fyrer setium vier þig til Hæsta Prests yfer þitt Folk, og þu skallt heita Kongsins Vinur, og vier sendum þier hier med eitt Purpura-Klæde, og eina Gull-Koronu. Ad þu þar j Stadinn halldir þig trulega vid oss, og siert vor Vinur.

21. So skryddist Jonathas þeim Prestlega Skruda, a þvi Hundradasta og Sextugasta aare, a Siounda Maanade, a Laufskaala-Haatijdenne, og hann safnade Her saman, og liet smijda mørg Vopn og Verium til Bardaga.

22. Enn þa Demetrius formerkti þetta, vard hann miog hriggur vid,

23. Ad Alexander snere Gydingum fra honum til sijn, og efldist ad Stirk þar med.

24. Og hugsade med sier, ad hann villde og eirnenn skrifa þeim vinsamlega til, og lofa þeim Gotse og Æru, so ad þeir skyllde lofa honum ad veita honum Stirk.

25. Og hann skrifade þeim til a þennann Haatt.

26. Demetrius Kongur bijdur Gydingum sijna Kvediu!

27. Vier hofum giarnann heyrt, og þad er oss mikel Glede, ad þier erud ecke fallner fra oss, til vorra Ovina, helldur ad þier hallded med oss med allre Tryggd.

28. Þar fyrer bidium vier, ad þier og so frammveigis halldid og so trulega med mier, og latid ecke snua ydur fra mier.

29. Þessa ydar Tryggd vilium vier umbuna, og lietta af ydur miklum Þyngslum, og giefa ydur meire Frijheit, og audsyna ydur Naad.

30 Og eg gief nu ollum Gydingum upp Skattinn, Sallt-Tollinn, Krunu-Skattinn, þann Þridia Korn-Mæler, þann Helming Avaxtarins sem mier til heyrer. Af þessum Þyngslum skal nu hiedan af Landed Juda, og þau Þriu Hierod sem þar til heyra, j Samaria og Galilæa Lande, frij vera alla Tijma.

31. Og Jerusalem skal vera Heileg og frij fyrer ollum Þyngslum, Skattgiallde og Tijundum.

32. Eg vil og giefa upp Kastalann til Jerusalem, og afhenda þeim Ypparsta Preste, ad hann skal inntaka hann, og setia þangad Folk, þegar hann vill, hann ad vardveita.

33. Og aller Hertekner Gydingar, j mijnu Rijke, skulu lauser latnir verda, og vera frij, og þeir og þeirra Kvikfie skulu vera Skattfrij.

34 Þeir skulu og hafa Frijheit j ollu mijnu Rijke, ad hallda þeirra Sabbaths-Daga, Tunglkomu-Helgar, og atkvædar Haatijder.

35. Og þeir skulu vera o-hindrader fyrer hvorium Manne j þeirra Guds-Þionustu, Þria Daga fyrer og epter Haatijdena.

36 Og þar skulu utveliast Þriatijger Þusund Manna j Judea, þeim vil eg giefa Maala so sem odru mijnu Strijds-Folke, og þeir skulu skiptast j Kongsins fastar Borger.

37 Og

37. Og ut af þeim skulu nockrer veliast, hvoria Kongurinn kunne ad hafa til sinna stærstu Erinda, so sem trufasta Raadgiafa. Gydingar skulu og ecke hafa utlendska Hosfuds-Menn, helldur þeirra sialfs eiginn, sem eru utvalder af þeim sialfum, so ad þeir kunne ad hallda þeirra Logmaal, so sem j Lande Juda.

38. Og þaug Þriu Hierod j Samaria og Galilæa, sem heyra til Gydinga Lande, þaug skulu ongvum undergiefinn vera, utann alleina þeim Ædsta Preste, ad menn vite, ad hann sie alleina þar Herra yfer.

39. Stadenn Ptolemais, og þær Landsaalfur sem þar til heyra, gief eg Musterenu til Jerusalem, til Kostnadar sem þarf til Fornfæringanna.

40. Eg vil og aarlega skicka til Musteresins Uppbiggingar Fimmtan Þusund Sikla Silfurs, af minne eiginn Rentu.

41. Og hvad sem eg er skylldugur ad fornu ad giefa til Musteresins, af mijnum Forlieningum, þad skal strax afgreidast þeim.

42. Og þeir Fimm Þusund Siklar Silfurs, sem mijner Embættis-Menn hafa undann komid af Musteresins Innteektum, þeir skulu giefast aptur Prestonum aarlega.

43. Musterid skal og hafa þetta Privilegium, ad hver sem j ollu mijnu Rijki forskulldad hefur nockurt Straff, og hann flyr j Musterid, hann skal vera þar frij, med Lijfi og Gotse.

45. Til Musteresins Biggingar og Forbetrunar, og til Muranna, og Turnanna j Jerusalem, og annarstadar j Landenu, vill Kongurinn utleggia Kostnad af sinne eiginn Innteekt.

46. Þa þetta Brief var lesid fyrer Jonathas og Folkenu, þa villdu þeir ecke trua honum, og þeir medtoku þad ecke, þviad þeir vissu vel Hvilijka Otru og hrædelegann Tyrannaskap hann hafde framid aadur j mote Israel.

47. Og þeir samtoku ad hialpa Alexandro, sem fyrre leitade Vinaattu til þeirra, og hiet þeim Fride, honum veittu þeir Stirk, so leinge sem hann lifde.

48. Þa Alexander og Demetrius reistu hver j moti odrum og berdust, þa flyde Demetrii Her.

49. Og Alexander hastade sier epter honum.

50. Og veitte honum eitt hrædelegt Slag, fra Morgne allt til Kvollds, og Demetrius fiell a þeim sama Dege.

51. Þvi nærst sende Alexander Bod til Ptolomeum Kongs j Egyptalande, med þessum Erendum.

52. Med þvi, ad eg em kominn aptur j mitt Rijke, og sit j Konglegu Haasæti, og hefe Rijkis-Stiornena tekid til mijn aptur, og hefe burtrekid Demetrium, og unned mitt Arfland aptur,

53. Þa girntist eg ad binda Vinaattu vid þig, og bidia, ad þu giptir mier þijna Dottur,

54. Þa vil eg hegda mier vid þig sem einn Dottur-Maagur, og vera þacknæmur, og skicka henne eitt Konunglegt Lijfs Uppheldе.

55. Hier til andsvarade Ptolomeus, og oskade Alexandro Lucku, ad hann var aptur kominn j sitt Fodurland, og hafde unnid sitt Rijke.

56. Og hiet ad veita honum þad hann girntist. Enn bad, ad hann villde koma til hans j Ptolemais Borg, þar skylldu þeir sialfer talast vid, og fullgiora þar þetta Booners-Maal.

57. A þvi Hundradasta, Sextugasta og odru aare, reiste Ptolomeus, med sijna Dottur Cleopatra, ur Egyptalande, og kom til Ptolemais, þangad kom og Alexander Kongur.

58. Og Cleopatra var trulofud Alexandro, og Brudkaupid var halldid med mikellre Konglegre Prakt.

59. Og Alexander Kongur sende Skrif til Jonathas, ad hann kiæme til hans.

60. Þa

60. Pa kom Jonathas med mikillre Vegsemd til Ptolemais, til beggia Konganna, og skeinkti þeim, og þeirra Vinum, forkostulegar Gaafur af Gulle og Silfre, og fann Naad hiaa honum.

61. Og nockrer afsallner fra Israel komu þangad, ad klaga Jonathan, Enn Kongurinn villde ei heyra þeim.

62. Og hann baud, ad Jonathas skyllde afleggia sijn Klæde, og jklædast Purpura, hvad og skiede.

63. Pa sette Kongurinn hann hid nærsta sier, og baud sijnum Høfdingium, ad þeir skylldu fara um kring med hønum um Stadinn, og laata uthropa, ad einginn skyllde hann aaklaga, edur j annann Maata nockud Vondt hønum giøra.

64. Enn þa hans Aklagendur saau, ad Kongurinn veitte hønum so haa Virding, ad hann skipade hønum ad jklædast Purpura, og liet slijkt uthropa um hann, þa flydu þeir aller j burt þadann.

65. Og Kongurinn veitte hønum stora Eru, og liet skrifa hann a medal sinna ypparstu Vina, og giørde hann ad Hofuds-Manne, og ad sijnu nærsta Raade.

66. Pvi nærst reiste Jonathas heim aptur til Jerusalem, med Glede, og j godum Fride.

67. A Pvi Hundradasta, septugasta og Fimta aare, kom Demetrius Kongur, Sonur hins fyrra Demetrii, ur Creta, j sitt Erfdar-Rijke.

68. Pa skielfdist Alexander miøg, og settist j Antiochiam.

69. Enn Demetrius ladadi til sijn Apollonium, Hofuds-Mann j Nedra Syrlande, þesse safnade hans vegna Strijds-Folke til samans, og sette sijnar Herbuder vid Jamnia.

70. Og hann sende til Jonathan þess Ypparsta Prests, og liet segia hønum, Einginn veiter oss Motstødu utan þu alleina, og þu velldur þvi, ad Menn forakta mig.

71. Pu treyster ad sønnu uppa Fiall-Byggdernar, Enn vilier þu giøra Manndoms Verk, þa far þu ofaun hingad a Sliettlendid, og reynum med ockur.

72. Vilier þu adspyria Hvørn Lidsafla vier høfum, og þeir sem med mier reisa til Stirktar mier? Pa mun þier þad sagt verda, Pier munud ecke standast fyrer þessu Folke, af hvoriu ydar Fedur eru j Tvær Reisur slegner j ydar eiginn Lande.

73. Enn sijdur muntu stadid gieta j mote so miklum Folks-Fiolda, a Hestum og a Fæte, a þeim sliettu Vollum, þar einginn Fioll edur Klettar eru, þar Menn meige tilflya.

74. Pa Jonathas heyrde soddann Raup, þa gramdist hann, og utvalde Tiju Pusund Manna, og for fra Jerusalem, og hans Broder Simon kom hønum til Hialpar, og þeir settu sijnar Herbuder fyrer Joppe.

75. Enn þeir j Stadnum Joppe villdu ei upplaata Borgena fyrer hønum, þviad Apollonius hafde sendt þangad Folk, Stadnum til Varnar, þar fyrer stormadi Jonathas uppa Stadinn.

76. Pa urdu Borgar-Mennerner skielfder, og lietu upp Portenn, Og so vann Jonathas þann Stad Joppe.

77. Pa Apollonius fornam þad, þa settist hann um Joppe med Þriu Pusund Riddara, og med miklum Her Fotgaungu-Lids.

78. Og liet, so sem villde hann reisa til Asdod, so ad hann feinge lockad Jonathan ut a Sliettlendid, þviad hann hafde Fiolda Riddara-Lids, þar uppa treyste hann. Jonathas skundade epter hønum til Asdod, og for framm forsiaalega, med fylktu Lide, buinn til Bardaga.

79. Enn Apollonius hafde epterlaatid j Herbudunum Pusund Riddara heimuglega.

80. Nu formerkte Jonathas, ad Menn voru leynelega a Bak til vid hann, þar fyrer þa þeir komu nu ad hans Her, þa hiellt Jonathas sinne Fylkingu.

81. Og Riddararner skutu allann Dag til Kvollds ad Folkenu, þar til ad þeirra Hestar urdu þreytter.

82. Pvi nærst tok Simon sitt Lid, og fiell yfer Ovinena. Pa flyde Riddara-Lided, þvi þeir voru mædder.

83. Og ridluduſt hingad og þangad um Vellena, og flydu til Asdod, og ſkundudu jnn j Musterid Skurgodsins Dagon, ad biarga þar ſijnu Lijfe.

84. Enn Jonathas rænte Stadinn Asdod og Porpenn þar umhverfis, og kveikte þar j Elld.

85. Hann brennde og upp Afguds Mustered, med ollum þeim sem þangad hofdu flúid, Og Talann þeirra sem i helſleguer og brennder urdu, var nær aatta Pusund Manna.

86. Pvi nærst reiste Jonathas med sitt Lid fyrer Afcalon. Pa geingu Borgar-Mennerner Stadarins honum j mote, og gaafu sig upp, og toku vid honum mieg Vegsamlega.

87. So reiste Jonathas heim aptur til Jeruſalem, med ſijnu Lide, og Herfaange.

88. Enn þa Alexander heyrde þetta, þa heidrade hann Jonathan enn meir, og sende honum eirn Gull-Linda, hvorn alleina Plagsidur er ad giefa Kong-bornum Vinum.

89 Par til gaf hann honum Accaron, med ollu þvi sem þar til heyrer, til Eignar.

## XI. Capitule.

Og Kongurinn j Egyptalande safnadi miklu Lide, so sem þa er Sioafar-Sandur, og miklum Skipa-Fiolda, og feste med ſier þa Etlan, ad vinna Alexandri Rijke under ſig med Svikum, ſo ad hann hefde bæde Rijkenn.

2. Par fyrer reiste hann j Syrland med þvi Yfervarpe, ad hann lietſt vera komenn so sem hans Vinur. Pa lietu þeir upp fyrer honum allar Borger, og foru ut j mote honum, og fognudu honum Veglega, so sem Alexander hafde bodid, þviad hann var Fader hans Kvinnu.

3. Enn j hvorn þann Stad sem Ptolomeus jnnkom, þa liet hann þar epter Eirn Flock Strijds-Manna til Varnar.

4. Og þa ed hann kom til Asdod, þa syndu þeir honum Hvornenn Jonathas hafde uppbrennt og foreydt Musterid Dagon, og þar ad auk Stadinn, og hvorſu ad Lijkamer þeirra Daudu laau hier og hvar dreifder, og ad Haugar voru giorder vid Veginn, j hverium þeir hofdu dyſiad þa helſlegnu j Hopum samann.

5. Og þeir ſogdu Kongenum fra, ad Jonathas hefde giort þennann Skada, Hvar af Kongurinn fieck Ovilld til hans.

6. Enn Kongurinn þagde þar vid.

7. Og Jonathas reiste og so j mooti Kongenum til Joppe, Par toluduſt þeir vid, og voru þar baader um Nott. Og Jonathas filgde Kongenum allt ad þvi Vatne sem kallaſt Eleutherus, Epter þad foor hann heim aptur til Jeruſalem.

8. Og Kongurinn Ptolomeus jnntook Borgernar allt ad Seleucia, vid Hafid, Og took ſier fyrer þa Etlan, at utreka Alexandrum.

9. Og hann giorde Demetrio Bod, ad koma til ſijn, og giora Saattmaala vid sig, þa villde hann giefa honum ſijna Dottur, þa sem Alexander aatti, og efla hann til Kongs-Rijkis.

10. Og ſagde ſig angra þad, ad hann hefde giefid ſijna Dottur Alexandro.

11. Og hann gaf Alexandro þad ad Sok, ad hann hefde ſtundad eptir ſijnu Lijfe og Kongs-Rijke.

12. Hann liet og sitt Hatur opinnberlega j Lioſi, og bakhverfdiſt Alexandro, og took fra honum ſijna Dottur, og gaf hana Demetrio.

13. Og þa Ptolomeus kom til Antiochiam, þa ſette hann upp baadar Koronur, bæde Egypta-Lands Rijkis, og Asia-Rijkis.

14. Enn j þann Tijma var Alexander Kongur j Cilicia, þviad nockrar Borgir hofdu þar ſnuid ſier fra honum.

15. Pa hann heyrde nu af Ptolomeo, þa foor

foor hann j mooti honum aptur, ad strijda, Enn Ptolomeus hafde Lids-afla mikenn, og riedst j mooti honum, og rak hann a Flotta.

16. Og Alexander flyde til Arabia, ad hann mætte vera þar Ohræddur, Enn Ptolomeus Kongur var miog megtugur.

17. Þar fyrer liet Zabdiel sa Arabianske halshoggva sinn Giest Alexandrum, og sende Ptolomeo hans Hofud.

18. Og a Pridia Dege þar epter deyde Ptolomeus. Pa urdu og Strijds-Mennerner, sem Ptolomeus hafde sett j Borgernar, og so jhel slegner af Borgar-Monnum.

19. So took Demetrius Rijkid ad sier, a þvi Hundradasta, Sextugasta, og Siounda aare.

20. A þeim Tijma samansafnade Jonathas sijnu Folke j Lande Juda, ad vinna Kastalann aptur j Jerusalem, og hañ liet uppreisa Trie-Kastala, og onnur Vopn þar fyrer.

21. Pa fooru nockrer Rijdingar til Demetrium Kongs, og klogudu a mooti Jonatha, segiande, ad hann hefde setst um Kastalann.

22. Pa vard Kongurinn miog reidur, og reiste skiotlega til Ptolemais, og skrifade til Jonathas, ad hann skylldi ei setiast um Kastalann, Og ad hann skyllde koma strax til sijn j Ptolemais, þar villde hann vid hann tala um nockur Erinde.

23. Enn þegar Jonathas fieck þennann Bodskap, liet hann ecke af ad umsitia Kastalann, og utvalde hann nockra af Olldungunum, og Prestunum, j Jsrael, þeir sem med honum fara skylldu, og hann took sig upp, og hætte sijnu Lijfe.

24. Og hann took med sier marga kostulega Dyrgripe af Gulli, Silfre, og Klædum, og þeir fooru til Ptolemais, til Kongsins, og fundu Naad fyrer honum.

25. Og þegar þeir Frafnunu af hans Folke klogudu hann,

26. Pa hiellt Kongurinn hann ærlega, so sem hann var halldinn aadur fyrre, og veitte honum miklar Virdingar fyrer ollum sijnum Hofdingium.

27. Og staðfeste hann j hans Hofud-Prestskapar Embætte, og j ollum odrum Virdingum, sem hann hafde þangad til haft, og hiellt hann fyrer sinn ypparsta Vin.

28. Og Jonathas badst af Kongenum, ad hann liete allt Gydinga-Land, og þa Þria Fogvitadoma j Samaria, og Galilea, vera frij fra Skatte, og baudst til ad greida fyrer þetta Frelse Þriu Hundrud * Centener Gulls.

* Centener er Talentum, og Þriu Hundrud Talenta eru Hundrad og aattatijgu Þusund Kronur.

29. Þessu jaatade Kongurinn, og gaf Jonathe þar uppa eitt Brief, so hliodande.

30. Demetrius Kongur tilbydur sijnum Brodur Jonathe, og Gydinga Folke, sijna Kvediu!

31. Vier sendum ydur eina Utskrift af þvi Briefe, sem vier hofum skrifad vorum Fodur Lasthenen til, ydar Vegna, so ad þier vitid þad.

32. Demetrius Kongur tilbydur Lastheni sijnum Fodur sijna Kvediu!

33. Vier hugsum ad giora gott vorum Vinum, og truum Lags-Monnum Gydingum, vegna þeirra Truskapar og Vinaattu vid oss.

34. Þar fyrer stadfestum vier, ad Kiennes-Mennerner j Jerusalem skule eignast alla Judeam, og þær Þriar Borger, Aphærema, Lyda, og Ramatha, og þad sem þeim tilheyrer.

35. Vier giefum þeim og eirnenn kvitt, allt þad sem þeir hafa aadur ordid ad giefa Kongenum aarlega, Korn, Avoxt, Tijunder, Skatt, Sallt-Skatt, og Koronu Peninga.

36. Um allt þetta skulu þeir hier epter kvitter vera, og slijkum Frijheitum skulu þeir hallda, ætijd obrigdanlega.

37. Utskrift þessa Briefs skal j Hendur seliast Jonathe, so ad þad verde utslegid a þvi Heilaga Fialle, so sem a einum ærlegum og opinnberum Stad.

38. Þegar Demetrius Kongur saa nu, ad Fridur var j ollu hans Rijki, og enginn reisti

 sig

sig framar upp j mooti honum, þa liet hann fra sier Strijds-Folked, þad sem heima atti j Rijkenu, og liet hvorn fara aptur til sinnar Borgar. Enn þad Utlendska Strijds-Folk, sem hann hafdi til sijn tekid, hier og hvar, j Eyunum, Þvi hiellt hann hioa sier, Þar fyrer reiddest þad innlendska Folkid honum miøg.

39. Enn þegar Hofuds-Madurinn Tryphon, sa sem fyrrmeir hafde verid Vinur Alexandri, saa þad, ad Strijds-Folkid hafde feingid Hatur til Demetrius Kongs, þa foor hann til þess Arabianska Emalkuel, hvor ed hafde þann unga Antiochum, Alexandri Son, ad Fostre.

40. Og hann hiellt sier til hans, ad hann skyllde faa sier j Hendur þann unga Svein, þa villde hann setia hann aptur inn j sijns Fodurs Rijke, og hann tioade fyrer þeim sama Arabianska, Hvornenn og Hvar fyrer ad Strijds-Folkid hefde Hatur til Demetrius Kongs, Og hann var leinge hioa þeim Arabianska.

41. Þess a mille skrifade Jonathas Demetrio Konge til, og beiddist af honum, ad hann villde skipa þeim sem j Kastalanum voru, ad þeir skylldu fara j burt, og skylldu giefa Kastalann j hans Valld, Þviad þeir giordu Israel stoorann Skada.

42. Þa skrifade Demetrius Jonathas til, so lioodandi, Ecke ad eins þetta sem þu girnest, Helldur vil eg giora þier og þijnu Folke miklu meire Sæmd og Velgiørninga, Þad Firsta eg kann vid ad komast.

43. Enn nu er eg j miklum Voda staddur, Þar fyrer giordu so vel mier til, og send mier Styrk, Þviad allt mitt Strijds-Folk er mier frahorfid ordid, og setur sig upp j moote mier.

44. Þar fyrer sende Jonathas til hans Þriu Þusund einvala Lids, þeir komu til Antiochia, til Kongsins, og Kongurinn vard miøg feigenn þeirra Komu.

45. Nu byriade Folkid j Stadnum eitt Upphlaup, nær Hundrad og Tuttugu Þusunder Manna, og villde sloa Konginn jhel.

46. Enn Kongurinn flude uppa sitt Slot. Þa took Folkid Strætinn inn, og villde storma uppa Slotid.

47. Þvi kallade Kongurinn Gydingana til sijn, ad þeir skylldu vernda hann. Þa hlupu aller Gydingarner til Kongsins, og skiptust um Strætinn.

48. Og jhelslou a þeim Dege Hundrad Þusunder Manna, og settu Elld j Borgena, og rændu hana, So hialpudu þeir Konginum.

49. Enn þegar Borgar-Mennerner saau, ad Gydingar høfdu feingid Valld yfer Borgenne, þa orvæntu þeir sier, kølludu til Kongsins, og baadust Fridar, ad Gydingar skylldu laata af, ad vega Folkid, og foreyda ecke Borgena med øllu.

50. Þa vard Fridur, og Gydingar løgdu fra sier sijn Vopn, og þeir feingu stoorann Heidur af Kongenum, og urdu prijsader j øllu Rijkenu.

51. Og þeir reistu heim aptur til Jerusalem, og fluttu med sier Nægd Fiaar, sem þeim hafde aflast j Bardaganum.

52. Þa Demetrius var nu ohræddur ordinn aptur, og hiellt Rijke sijnu med Spekt,

53. Þa hiellt hann eckert af þeim Hlutum, sem hann hafde lofad Jonathe, og hann snere sier fra honum med øllu, og var honum ohackláatur fyrer sijna Velgiørninga, og synde honum alla O-Tru.

54. Skamt eptir þetta kom Tryphon aptur med hinn unga Antiochum, Þesse Antiochus vard Kongur, og sette upp Koronuna.

55. Og allt Strijds-Folkid kom til hans, hvoriu Demetrius hafde Orlof giefid. Og þa þeir bordust vid Demetrium, þa slou þeir hann a Flotta, og raku hann a burt.

56. Og Tryphon took Fijlana til sijn, og vann Antiochiam.

57. Og sa unge Antiochus skrifade til Jonathas, og stadfeste hann j sijnu Hærsta

Prests-

Presis-Embætte, og sambyckte, ad hann skyllde eignast, og bijhallda þeim Fiorum Stødum, og vera Kongsins Vinur.

58. Og sende honum Gull-Kier, og leyfde honum ad hafa Gull-Kier a Borde, og ad bera Purpura, og Bellte af Gulle.

59. Og Simon, Jonathas Brodur, sette hann til Hofuds-Manns yfer Løndenn fra Tyro allt til Egypta-Lands.

60. Pa Jonathas reiste nu ut yfer um Euphraten, og foor um kring j Borgunum, þa foor allt Striids-Folkid j Syr-Lande til hans, honum til Fulltings, Og þa hann kom til Ascalon þa geingu Borgar-Menner-ner ut j moote honum, og medtooku hann Heidarlega, og goafu sig under hans Valld.

61. Pvi nærst reiste hann fyrer Gaza, enn þeir af Gaza villdu ei upp loata fyrer honum, þar fyrer settist hann um Stadenn, og uppbrenndde Under-Borgernar allt j kring, og rænti þær.

62. Pa boadust þeir af Gaza Fridar, og Jonathas giorde eirn Frid vid þa, og took nockra af þeirra Sonum j Gisling, og sende þa til Jerusalem, Enn hann reiste frammveigis giegnum Landid, allt til Damascum.

63. Enn þa hann friette, ad Demetrii Kongs Hofuds-Menn voru komner j Kedes, j Galilæa, med miklum Her, þau Lond ad jnntaka, sem Kongurinn hafde honum giefed,

64. Pa reiste hann j mooti þeim, og liet sinn Brodur Simon epter j Landenu.

65. Hann reiste fyrer Bethzura, og umsat hana j langann Tijma, so hardlega, ad þeir þordu ecke ad giefa sig ut.

66. Pvi beiddust þeir Fridar, og Simon gaf þeim Frid, og liet þa fara j burt med Frelsi, og vann Stadenn, og sette þar jnn Striids-Folk til Varnar.

67. Enn Jonathas med siinu Lide foor til Sioafarins Genesara, og var oarla Morguns uppe, og kom til Hasar Sliettlendis.

68. Pa riedust Heidingiar a moote honum a Sliettlendenu, og hofdu falid eirn Flock Manna a medal Fiallanna.

69. Pa Jonathas riedst nu a mooti einum Flockenum, þa fiell sa leynde Flockur, sa sem sig hafde falid, framm undan Fiollunum, og riedst eirninn til Bardaga.

70. Pa flyde allt Lid fra Jonatha, og þar vard einginn epter, utann alleinasta Hofuds-Mennerner, Matathias, Absalomi Son, og Judas, Calphi Son.

71. Pa sundurreif Jonathas siin Klæde, og dreifde Molldu yfer Hofud sier, og badst fyrer.

72. Og hann renndde ad Ovinunum aptur, og slo þa a Flotta.

73. Enn sem hans Folk, sem oadur hafde flúid, soa þad, þa snere þad eirninn aptur, ad veita Jonathe Fullting, og þeir roaku Flottann Ovinanna, allt til Kedes j þeirra Herbuder, og þeir giordu sier og so þar Herbuder.

74. Og þar fiellu a þeim Dege nær Priar Pusunder Heidingia. Pvi nærst for Jonathas aptur til Jerusalem.

## XII. Capitule.

Enn þa Jonathas soa sig nu hafa Tomstund, þa utvalde hann nockra Menn, sem hann sende til Rom, ad endurnya og uppaptur rietta Soattmoalann vid þa Romversku.

2. Hann skrifade og eirninn til þeirra j Sparta, og til annara fleyre Borga.

3. Pegar nu Sende-Mennerner komu til Romam, geingu þeir fyrer Roadid, og sogdu, Jonathas Sa Ypparste Prestur, og Gydinga Lydur, hafa sendt oss, ad endurnya þad Soattmoal, sem fyrrmeir er giort vor a mille.

4. Og Romveriar goafu þeim Brief og Fararleyfe, so ad þeir reistu hættulaust heim aptur.

5. Og Jonathas skrifade a þennann Hoatt til þeirra j Sparta.

6. Jonathas Sa Ypparste Prestur, og Olldungar Folksins, og Prestarner, og Gy-

dinga Lydur, biooda þeirra Brædrum, þeim af Sparta, siina Kvediu!

7. Fyrer nockrum Aarum skrifade ydar Kongur Areus til vors Ypparsta Prests Oniam, ad þier værud vorer Brædur, so sem þad sama Brief utviisar.

8. Og Onias tok Heidarlega ydar Sende-Menn, og tok vid þeim Vinskap og Sættmaala, hvar um ad Briefid hliodade.

9. Og þo ad vier nu a þessum Tiima hofum ecke Þorf annarlegrar Hialpar, og hofum Huggun af Guds Orde, hvort vier Daglega lesum,

10. Þo samt sendum vier vorn Bodskap til ydar, ad endurnya og stadfesta þad Broderne, og Vinskap a millum vor, so ad vier gleymum þvi ecke, þviad þar er nu langt siidann er þier sendud til vor.

11. Þar fyrer skulud þier vita, ad ætiid a Hatiidunum, og øllum ødrum Døgum, þegar Menn Offra, þa minnunst vier ydar j vorum Bænum, og j vorum Fornum, so sem til heyrelegt er Brædra ad minnast.

12. Og ydar Heidur og Velferd er oss eirn Fognudur.

13. Enn vier høfum siidann lidid stora Neyd, Og ætt miklar Orustur vid Kongana j kring um oss.

14. Enn vier villdum ecke giora ydur og ødrum vorum Vinum og Lags-Mønnum Þyngsl, j þessum vorum Ofride.

15. Þviad vier høfum haft Hialp af Himne, Og Gud hefur hliift oss fyrer vorum Ovinum, og Ovinena nidurþrickt.

16. Enn af þvi, ad vier sendum nu þessa vora Sendeboda, Numenium, Antiochi Son, og Antipatrum, Jasonis Son, til Romveria, ad endurnya Vinskap og Sættmaala vid þa upp aptur,

17. Þa høfum vier bodid þeim þar med, ad þeir skylldu og so reisa til ydar, og segia ydur vora Kvediu, og afhenda ydur þetta Brief.

18. Til ad endurnya vort Broderne, og ad beidast Andsvars.

19. Enn þetta er Utskriftenn af þvi Briefi sem Areus Sparta Kongur sende oss fyrrmeir.

20.* Areus Kongur j Sparta, sender Onie Ypparsta Preste siina Kvediu!

* Areus var sa Pridie Kongur j Sparta, fra þeim seinasta, og hann ætti vid Konginn of Macedonia, stoort Striid, og hafde Luckn, og haun hiaalpade þeim af Athenis a moti Antigono, og lifde til Daga Antiochi hins Mikla, Skamt epter þennann Are..m kom Sparta under Romveria.

21. Vier finnum j vorum gømlum Ritningum, ad þeir af Sparta og Gydingar sieu Brædur (med þvi hvortveggia Folkid er komid af Abraham.)

22. Nu med þvi vier vitum þetta, þa bidium vier, ad þier villed skrifa oss til, Hvornenn þad ydur geingur.

23. Og ef ydur liikar þad, þa skal vort Kvikfie, Gots, og Griper, og hvad sem j vorum Vallde er, vera so sem være þad ydart eigid, og þad ydart er, so sem være þad vort eigid. Þetta høfum vier bifalad ad undervijsa ydur.

24. Þvi næst spurde Jonathas, ad Demetrij Høfuds-Menn kiæmi enn aptur med meira Lid enn fyrr, og villdu yferfalla hann.

25. Þar fyrer reisti hann fra Jerusalem, j moti þeim, j Landid Hemath, þviad hann villdi ei biida þess, ad þeir skylldu ødur junfalla j hans Land.

26. Og þa hann sendi nu Niosnar-Menn til Ovina Herbuda, þa komu þeir, og søgdu, ad Ovinerner ætludu sier ad yferfalla hann a þeirre somu Nott.

27. Þar fyrer baud Jonathas siinu Lidi um Kvølldid, ad þeir skylldu vaka, og vera bryniader, og vidur-buner alla þa Nott, og hann sette Menn til ad hallda Skialld-Vorn j kring um Herbudernar.

28. Enn þa Ovinerner saau, ad Jonathas var buenn til Bardaga, þa kom ein Hrædsla yfer þa, so ad þeir svipptu Herbudunum og forn j burt, Og ad þad skylldi ei merkiast, þa lietu þeir kynda marga Ellda hier og hvar j Herbudunum.

29. Þar

29. Þar fyrer hugsade Jonathas ecke, ad þeir sære j burt fyrr enn um Morguninn snemma, þviad hann sa Elldinn hier og þar j Herbudunum.

30. Enn um Morguninn for hann epter þeim, og finne ei nu þeim, þviad þeir voru þa allareidu komner yfer um Vatned Eleutherum.

31. Þa snere Jonathas Leid sinne til þeirra j Arabia, sem kolluduſt Zabdei, hann slo þa, og rænte, og snere so aptur til Damascum, og eydde þad Land allt um kring.

32. Enn Simon reiste til Ascalon, og til þeirra sterku Borga, þar j kring.

33. Þar nærst snere hann til Joppen.

34. Þviad hann merkte, ad þeir villdu giefa sig under Demetrii Hofuds-Menn, þar fyrer vard hann fyrre og vann Joppe, og liet þar epter Strijds-Folk til ad vardveita Stadinn.

35. Þvi nærst kom Jonathas heim aptur, og hiellt Raad vid Olldungana Folksins, ad menn skylldu stirkia nockrar Borger j Judea.

36. Og giora Murveggena hærri j Jerusalem, og uppbiggia eirn haaann Steinvegg a mille Kastalans og Borgarennar, til ad skilia Borgena fra Kastalanum, so ad þeir giæte ecke utfallid ur Kastalanum j Borgena, og Menn skylldu ecke flytia nockud til þeirra, nie selia þeim.

37. Þa Folkid kom nu til samans, og tok til ad biggia, Epter þvi ad sa Steinveggurinn j moti Austrenu, yfer um Lækinn, var fallinn, þvi biggdu þeir upp aptur þann sama Spol, sem kallast Caphnatha.

38. Og Simon biggde upp Kastalann Adida j Sephela, og giorde hann sterkann, og vardveitte hann med einu sterku Porte.

39. Nu hafde Tryphon einsett sier, ad taka under sig Asia Rijke, og setia Koronuna upp a sialfann sig, og ad lijflaata þann unga Antiochum Kong.

40. Enn af þvi hann ottadest, ad Jonathas munde giora honum Hindran, og raadast j mote honum, þa leitadest hann vid Hverninn hann giæte fangad Jonatham, og drepid hann, þar fyrer reiste hann til Bethsan.

41. Jonathas kom eirninn þangad, med Fiorutijger Þusund Manns vel buna.

42. Enn þa Tryphon saa þad, ad Jonathas hafde so mikla Magt hia sier, þa ottadest hann, og þorde ecke ad uppbyria nockud honum j mote opinnberlega.

43. Helldur tok hann honum vegsamlega, og baud sijnum Vinum ad hafa hann j Heidre, og gaf honum Giafur, og baud sijnu Lide, ad þad skyllde vera hlydid Jonathe, so sem sialfum sier.

44. Og hann sagde til Jonathas, Þvi giorer þu Folkenu soddan Þvingun, þar sem vid hofum ongvann Ofrid?

45. Laat þa fara heim aptur, og vel þier ad eins faa-eina Menn, ad vera epter hia þier, og far med mier til Ptolemais, þann Stad vil eg afhenda þier, og so fleyre adrar sterkar Borger, og eg vil bijfala þier allt Strijds-Folkid, og Embættis-Mennena, þviad eg hlyt ad reisa j burt aptur, og em nu hingad kominn alleina þess vegna, þar fyrer bid eg þig, ad þu farer med mier.

46. Jonathas trude honum, og liet folkid fara heim aptur fra sier til Gydinga Lands.

47. Og hiellt epter hia sier ad eins Þrem Þusundum Manna, þar af sende hann Tvær Þusunder j Galilæam, enn eitt Þusund for med honum.

48. Þa Jonathas kom nu j Stadinn Ptolemais, þa liet Tryphon byrgia aptur Borgar-Hlidenn, og tok Jonatham til Fanga, og liet j helslaa hans Menn.

49. Og hann sende Fotgaungu-Lid og Riddara j Galilæam, a þa vijdu Vollu, ad þeir skyllde og drepa þad annad Jonathe Strijds-Folk.

50. Enn er þeir formerktu, ad Jonathas var gripenn, og fallenn med sijnu Folke, þa upphvatte hvor annann, og biugguſt til Bar-

daga,

daga, og riedust alldiarflega j mote Ovinunum.

51. Enn þa Ovinerner sau, ad þad munde gillda þeirra Lijf, med þvi ad hiner villdu veria sig, þa sneru þeir aptur og foru j burt.

52. Þa reiste og Folkid heim aptur j Landid Juda, med Fride, og grietu Jonathan, og þa adra sem j hel voru slegner med honum, Og allur Jsraels Lydur harmade Jonathan miøg.

53. Og aller Heidingiar um kring, toku til ad metnast, og ad plaaga Folkid, og søgdu.

54. Þeir hafa nu ecke leingur neitt Høfud, nie nockurn Verndara, Nu vilium vier yferfalla þa, og upprycki þeim, og afmaa þeirra Nafn af Jordunne.

## XIII. Capitule.

Þa Simon heyrde nu ad Tryphon hafde safnad miklum Her, til ad yferfalla og fordiarfa Landid Juda,

2. Og hann saa, ad Folkid hafde mikla Ahyggiu og Angist, þa kom hann til Jerusalem, og huggade Folkid, og sagde.

3. Þier vitid Hvorsu þungar Orustur eg og mijner Brædur, og minn Fader, hofum aatt vegna Løgmaalsins og Helgedomsins, og þier hafid sied þa Neyd alls Jsraels Lyds,

4. J hvorre aller mijner Brædur hafa farist vegna Jsrael, og þar lifer nu eingenn epter utan eg.

5. Nu girnest eg ecke ad spara mitt Lijf j þessare Hormungu, þviad eg er ecke betre Brædrum mijnum, og ei girnist eg ad hafa betra enn þeir.

6. Helldur vil eg hefna mijns Folks, vors Helgedoms, og vorra Kvenna og Barna, þviad aller Heidingiar umhverfis eru gramer uppa oss, og safnast til samans ad afmaa oss.

7. Af þessare Huggun fieck Folkid aptur ad nyu eitt Hiarta, og vard Hughraust.

8. Og svarade þar til, og hropade, Þu skallt vera vor Høfuds-Mann, j Stadinn Judas og Jonathas, þinna Brædra, ad framm-fylgia voru Strijde.

9. Og vier vilium vera þier hlydner, j øllu þvi sem þu bydur oss.

10. Þa kallade Simon Strijds-Folked til samans, og hann skipade, ad þar skyllde jafnsnart uppbiggiast Murveggerner til Jerusalem, so ad Borgenn være allt umkring sterk og vel forvorud.

11. Og hann sende Jonathan, Absaloms Son, med Lide til Joppen. Og Jonathas rak Ovinena af Joppe, og hiellt Stadnum.

12. Þa reiste Tryphon ut af Ptolemais med mikellre Magt, og villde innfalla j Landed Juda, og hann flutte Jonathan med sier fangadann.

13. Enn Simon riedst j moote honum, og sette sijnar Herbuder framanverdt a þeim sliettu Vollum hiaa Addus.

14. Enn þa Tryphon formerkte, ad Simon var ordinn Hofuds-Madur j Stadinn sijns Brodurs Jonathe, og ad hann ætlade sier ad hallda Orustur vid hann, þa sende hann Menn til Simonar, og liet segia honum.

15. Eg hefi Jonathan j Hallde vegna þess Fiaar, sem hann er Kongenum skylldugur ordenn af Forlieningum.

16. Vilier þu nu senda mier * Hundrad Centener, og giefa mier hans Sonu Tvo j Gisling, so ad hann snue sier ei fra oss, og setie sig upp j mooti oss, þegar hann er laus ordinn, þa vil eg giefa þier hann lausann.

* Hundrad Centener, edur Talenta, eru so miked sem Sextiju Þusund Kronur.

17. Enn þo Simon vel visse ad þetta var eige utann Underhyggia, þa liet hann senda Fied og Borninn til Tryphon, so ad Folkid skyllde ecke klaga yfer honum,

18. Ad Jonathas yrde þvi lijflaatinn ad verda, ad hann villde ecke leysa hann.

19. Þar fyrer sende hann Borninn, og Hundrad Centener til Tryphons, Enn Tryphon hiellt ongva Lofan, og villde ecke giefa Jonathan lausann.

20. Þar ad auk reiste Tryphon framm

a Ve-

a Beginn, ad hann kynne ad komast j Landid, og giora Skada, og hann reisti med Landenu, a þeim Vege sem liggur til Ador. Enn Simon, med sijnu Lide, var ætijd a adra Hønd hønum, og hvar hann villde innfalla þa hamlade Simon hønum.

21. Og þeir j Kastalanum sendu Bod til Tryphon, ad hann skyllde reisa j giegnum Eydemørk, og koma til þeirra aadur enn Simon yrde var vid, og hann skyllde laata flytia til þeirra Vister.

22. Þar fyrer villde Tryphon braadlega reisa af Stad, med allt sitt Riddara-Lid, og koma til þeirra. Enn a þeirre sømu Nott fiell miøg diupur Snior, þad hamlade ad hann kom ecke.

23. Þvi nærst reiste hann j Galaad, og liet myrda Jonathan, og hans Sonu, hiaa Baschama, þar voru þeir grafner.

24. Epter þetta reiste Tryphon heim aptur j sitt Land.

25. Þa sende Simon þangad, og liet sækia sijns Broodurs Lijkama, og lagde hann j syns Fødurs Grøf j Modin.

26. Og allur Israels Lydur griet Jonathan saarlega, j langann Tijma.

27. Og Simon liet giora haafa Grøf af høggnum Steinum, sijnum Fødur, og sijnum Brædrum.

28. Og liet þar yfer reisa Siø Stolpa, hvørn hiaa ødrum, handa Fødurnum, Modurenne, og þeim Fiorum Brædrum.

29. Og hann liet byggia stoora Pilara þar um kring, þar uppa feste hann þeirra Harneskiur, til eirnrar Eylijfrar Minningar, Og upp yfer Harneskiunum liet hann setia uthøggvenn Skip, hvør ad siaast mætti af Sionum.

30. Þesse Grøf j Modin stendur enn nu a þessum Deige.

31. Enn Tryphon flutte Antiochum hinn unga aptur og framm um Landid sviksamlega, allt þangad til hann drap hann leynelega.

32. Þvi nærst sette hann Koronuna a sialfann sig, og vard Kongur j Asia, og plaagade Landid Juda þunglega.

33. Enn Simon uppbiggde, og stirkte margar Borger j Lande Juda, med þickvum Stein-Veggium, og haafum Turnum, og sterkum Borgar-Hlidum, og liet Vister j þær sterku Borgernar.

34. Og hann sende Bod til Demetrium Kongs, og bad um Uppgiøf a þeim Þyngslum sem Tryphon hafde uppa þa lagt, þviad Tryphon framde ecke utann Raan, og Mord j Landenu.

35. Þar til svarade Demetrius, og sagde so.

36. Demetrius Kongur til-bydur þeim Ypparsta Preste Simone, og Olldungunum, og Gydinga-Lyd, sijna Kvediu!

37. Þa Gull-Koronu, og Palmana sem þier sendud mier, høfum vier medtekid, Og erum reidubuner ad giora goodann Frid vid ydur, og ad tilskrifa Bijfalnings-Mønnunum, ad þeir aftake øll þaug Þyngsl sem vier fyrrmeir lofudum ad taka af ydur.

38. Og hvad vier høfum heitid ydur, þad skal trulega, ætijd og fastlega, halldid verda.

39. Øllum Kostulum skulud þier bijhallda, sem þier hafid uppbiggt, og eignast þa, Og vier giefum ydur kvitt þad sem þier hafid oss a mooti giort þar a mille. Þann Krunu-Skatt, og adra Tolla, sem Jerusalem hlaut ad giefa, þa giefum vier ydur kvitta.

40. Og þeir sem oss vilia þiona, þa viliam vier taka þa til vor, og þar skal vera goodur Fridur, og Samþycke vor a medal.

41. A Hundradasta og Siøtugasta aare var Israel First frij fra Heidingium.

42. Og took til ad skrifa so j þeirra Briefum og Giørningum, A Firsta aare Simonis Ypparsta Prests, og Høfdingia Gydinga.

43. A þeim Tijma settist Simon um Borgena Gaza, og uppreiste j mooti henne Vijg-

Walar; og Skot-Vopn, og stormade til Borgarinnar, og vann eirn Turn.

44. Og þeir somu sem j Turninn komust stucku jnn j Stadinn.

45. Þa skielfdist Folkid j Stadnum, og gaf sig olldungis, og þeir hlupu uppa Murinn med Kvinnum og Bornum, og sundurrifu sijn Klæde, og kølludu med hvarri Rodu, og bꝏdust Nꝏdar, segiande.

46. Straffa þu oss ecke epter vorre Jllsku, helldur vert oss nꝏdugur, þa vilium vier giarnann hlydner vera!

47. Þar af sꝏ Simon aumur a þeim, so ad hann sloo þa ecke jhel, Enn hann baud þeim ad fara ur Borginne, og liet hreinsa Husinn aptur, þar sem þeir høfdu sett sijn Skurgod.

48. Þvi nærst reiste hann jnn j Stadenn, og liet burt taka, og upprœta allar Svijvirdingar, og sette þangad þa Menn sem hielldu Guds Løgmꝏl. Og hann eflde Stadenn, og biggde þar eitt Hus fyrer sialfann sig.

49. Og þeir sem voru j Kastalanum til Jerusalem voru umkringder, so ad einginn komst hvorke ut nie jnn, og hvorke gꝏtu þeir keypt nie sellt, og þeir lidu so stoort Hungur, ad þeir forust marger af Hungre.

50. Þar fyrer kølludu þeir til Simonar, og bꝏdu um Frid, og gꝏfu sig upp. Þa synde Simon þeim Nꝏd, og liet þa lifa, enn þeir urdu strax ad ryma Kastalann.

51. Og Simon liet hreinsa Kastalann aptur af ollum Svijvirdingum, Og hann jnntook hann a þeim Pridia og Tuttugasta Deige j odrum Mꝏnude, a þvi Hundradasta Siotugasta, og Firsta * Aare. Og hann reiste þangad jnn med Lof-Saungvum, og Palm-Vidar-Greinum, og allra-handa Hliodfærum, Packande Gude, ad Jsrael var kvittur ordinn þess mikla Tyrannaskapar.

(*) (Aare) Antiochus inntook Slotid a Hundradasta Fertugasta, og Fimmta Aari, so høfdu Heidingiar Hond yfer þvi uppi 25. ꝏr, allt til 171. ꝏrs.

52. Og hann baud, ad Menn skylldu ꝏrlega Aars hallda þann Dag med Fognude.

53. Og hann biggde Stein-Vegge a Fiallenu, j kringum Musterid, fyrer nedann Kastalann, og giorde hann enn sterkara, og bio þar uppa, hann og þeir sem hann hafde hiꝏ sier.

54. Og med þvi, ad hann sꝏ, ad hans Son Johannes var duganlegur Madur, þa sette hann hann til Høfuds-Manns yfer allt Strijds-Folkid, og liet hann bua j Gaza.

# XIV. Capitule.

A þvi Hundradasta, Siotugasta og odru aare, bio Demetrius Kongur sig til, og reiste j Meden, ad afla Stirks j moote Tryphon.

2. Enn þa (a) Arsaces, Kongur j Persia og Meden, formerkte þad, ad Demetrius var kominn j hans Rijke, þa sende hann ut eirn Høfuds-Mann, honum jmoote, og baud honum, ad hann skyllde nꝏ honum lifande, og hafa hann til sijn.

(a) (Arsaces) Fra þessum Tijma eru þeir Parthi j Austur Vege, ordner megtuger, og Gricker hafa misst þesse Lond, þvi Arsaces var eirn Parthus.

3. Þesse Høfuds-Madur sloo Demetrii Folk, og fangade hann, og hafde hann fyrer sinn Kong Arsacen. Þa hafde Arsaces hann j Hallde, og liet vardveita hann.

4. Þa kom Landid Juda til Hvijldar, og þar vard goodur Fridur a medan Simon lifde. Og Simon stiornade hardla vel, og giorde Landenu mikid gott, so ad þeir høfdu hann giarnsamlega sier til Herra, sijna Lijfs Daga.

5. Hann vann og Borgena Joppe, med mikellre Æru, og Høfnena þar j hiꝏ, ur hvorre Menn skipferdudust ut a Hafid til Eyanna.

6. Og hann vann fleyre Lond sijnu Folke, og ut-vijkkade þeirra Landamerke, Og frelsade marga, sem ꝏdur voru nidurþrickter og Hertekner.

7. Hann hafde Valld yfer Gaza og Bethzura, og Kastalanum til Jerusalem, og hreinsade

haug ad nyu, og einginn dyrfdist ad reisa sig upp j moote honum.

8. Hvør Madur yrkte sinn Akur, j goodum Fride, og Landid var Avaxtarsamt, og Alldeu-Trien voru frioßom.

9. Olldungarner stiornudu ohindrader, og hielldu goodre Skickan, og Borgernar audguduft mieg, og biuggu til Vopn, og og Veriur til Strijds.

10. Simon liet og j Borgernar noglegt Korn, ad þeir skylldu hafa Nægd Vista, þegar a læge, og hann vard Nafnfrægur um allann Heim.

11. Hann hiellt Fride j Landenu, so ad Einsamall Fognudur var j Jsrael.

12. So ad hvør og einn hiellt sijnum Vijn-Garde, og sijnum Alldinn-Garde j Fride, og þurfte eckert ad ottast, þviad eingeun þorde þa ad yferfalla.

13. Og Kongarner j Syr-Lande kunnu ecke a þeim Tijma ad giora þeim meira Skada.

14. Og hann hiellt Riett j Landenu, og frelsade hann Fcatæka a medal sijns Folks fra Ofrijke, og straffade oll Ranginde, og afmoade þa Ogudlegu.

15. Hann tilbioo og so Helgedomenn ad nyu forprydelega, og liet giora fleyre Heilog Verkfære þar jnne.

16. Og þa þad spurdest j Rom, og j Sparta, Hvørnenn ad Jonathas deyde, þa var þad hvorium Manne leidt.

17. Enn þegar Romveriar spurdu, ad Broder hans Simon var Ypparste Prestur, og hafde Valld yfer Landenu, og hafde utreked Ovinena,

18. Þa endurnyudu þeir þann Scattmoala, sem þeir hofdu fyrr meir giort vid Judam, og Jonathan hans Brædur, og skrifudu honum til, uppa Meßings Spiolld, og sendu þad til hans.

19. Þesse Skrift var lesenn j Jerusalem fyrer Folkenu. Þeir af Sparta skrifudu og til Simonar, a þennann Hoatt.

20. Raaded og Borgar-Mennerner j Sparta til bioda Simone þeim Ypparsta Preste, Olldungunum, Prestunum, og Gydinga Folke, þeirra Brædrum, sijna Kvediu!

21. Ydar Sendemenn eru komner til vor, og hafa rædt vid ofs, og frammsagt, ad þier hafid niderdempad ydar Ovine, med storum Prijs, og ad þier hafid nu godann Frid, þad er ofs mikell Fognudur! Vier hofum og læatid innskrifa j vora almennelega Stadar-Bok, hvort þeirra Erinde var, a þennann Hoatt.

22. Sende-Menn Gydinga, Numenius, Antiochi Son, og Antipater, Jasonis Son, eru komner til vor, ad endurnya þann Vinskap a mille Gydinganna og vor.

23. Og vier hofum samteked, ad þesser Sende-Menn skulu heidarlega medtekner verda, og þeirra Ræda skal skrifast j vora Stadar-Bok, til eilifrar Eylijfrar Minningar. Þetta Andsvar skrifudu þeir til Simonar þeß Ypparsta Prests.

24. Þvi næst sende Simon Numenium aptur til Rom, ad hafa þangad eirn mikinn Gull-Skiolld, sem ed vo Þusund (b) Pund, og ad endurnya Scattmoalann.

(b) (Pund) Þusund Minæ eru Tiju Þusund Kronur.

25. Þa Romveriar heyrdu nu þennann Bodskap, þa sogdu þeir, Vier skulum med riettu veita Simone og hans Bornum Æru.

26. Þviad hann, og hans Brædur hafa Manulega hallded sig, og hlijft Jsrael, og burt reked Ovinena, þar fyrer samþycktu Romveriar, ad Gydingar skylldu vera frij, og þetta lietu þeir skrifa uppa Meßings Spiolld, ad þad skyllde festast uppa Pilarana a Sions Fialle.

27. Þesse epterfilgiande Skrift var uppsett a oatianda Dege Moanadarins (c) Elul, a Hundradasta, Siotugasta og Odru oare, a Pridia oare þeß Ypparsta Prests Simonar.

(c) (Elul) Er Augustus Moanudur.

28. J Saramel, j þeim mikla Sofnude Olldunganna, Prestanna og Folksins, ur ollu Judalande.

29. Hvorium Manne skal vera viturlegt og opennbert, ad j þeim þunga mikla Ofride sem verid hefur j voru Lande, þa hefur Simon, Matathie son, af Jaribs Ætt, og hans Brædur, vogad sijnu Lijfe, og veitt Fiand-Monnum sijns Folks Motstodu, So ad Helgedomurinn og Guds Logmaal yrde ecke afmaad, og þeir hafa aflad sijnu Folke mikils Lofstyrs.

30. Þviad Jonathas kom Folkenu til samans aptur, og tok a sig Valld-Stiornena, og vard Ypparste Prestur.

31. Enn epter hans Afgang komu Ovinerner aptur, og villdu fordiarfa Landid, og foreyda Helgedominn.

32. Þa tok Simon sig upp, og hiellt Strijd j mote vorum Ovinum, og liet vort Herlid faa Vopn, og gaf þeim Maala af sijnu eiginn Fie og Gotse.

33. Hann stirkte Borgernar j Landenu Juda, og Bethzura, sem er vid Landamerkenn, hvar Ovinerner hofdu adur sijn Vopn og Veriur, og hann sette þangad Gydinga til Varnar.

34. Hann stirkte og Joppen vid Hafid, og Gaza giegnt Asdod, þviad Gaza hafde verid adur Stirktar-Vijge Ovinanna, Enn Simon vann hana, og skipade hana med Gydinga, og kom þar a godre Stiornan.

35. Og nu of þvi, ad Folkid hafde reynt þa miklu Tryggd Simonis, og vijsse þa Velgiorninga sem hann hafde Folkenu veitt, þa utvalde Folkid hann til sijns Hofdingia og Ypparsta Prests, vegna sinnar Godmennsku og Trulyndis, sem hann hafde synt ollu Folke, og kostade Kapps a j allann Maata, ad giora sijnu Folke til goda.

36. Þviad a hans Dogum gaf Gud Lucku, fyrer hans Heidur, ad Heidingiarner urdu ur voru Lande, og ur Jerusalem, og ur Kastalanum burt rekner, hvar þeir hielldu sig, og flycktust ut, og foreyddu Helgedomenn, og hindrudu hreina Guds-Þionustugiord.

37. Enn Simon vann Kastalann, og skipade hann med Gydinga, til Verndar vid Borgena Jerusalem, og Landid, og hann hæckade Stein-Veggena um Jerusalem.

38. Og Demetrius Kongur stadfeste hann j sijnu Ypparsta Prests-Embætte,

39. Og hiellt hann fyrer sinn Vin, og veitte honum storann Heidur.

40. Þviad hann spurde, ad Romveriar hefde heidarlega hlydt Sende-Monnum Gydinga, og hefde giort Saattmaala vid þa, og teked þa under sijna Vernd.

41. Og ad Gydinga-Lydur, og þeirra Prestar hefde samþyckt, ad Simon skyllde vera þeirra Hofdinge og Ypparste Prestur, ad Alld-Odle, þangad til ad Gud uppvekte þeim þann Rietta Propheta.

42. Og ad hann skyllde vera Hofuds-Madur, og skyllde vardveita Helgedomenn, og skicka Valldstiornar-Menn j Landenu, og j sijnu Vallde ad hafa oll Vopn og Kastala.

43. Og skal hvor Madur honum hlydinn vera, og allar Skipaner skulu under hans Nafne utganga, og hann skal bera Purpura og Gyllene Sticke.

44. Allt þetta skal trulega og stadfastlega halldast af ollu Folke, og ollum Prestum, og einginn skal reisa sig þar uppa mote. Þar skal og einginn hafa Magt til ad stefna Land-Folkenu til samans, edur ad bera Purpura og Gull-Linda, utann hann alleina.

45. Enn hvor hann giorer þar j mote, edur dirfist þessa Skipan ad briota, edur burt taka, sa skal vera j Banne.

46. So hiet allt Folkid ad vera Simone hlydugt.

47. Og Simon samþickte þetta, og vard Ædste Prestur, og Hofdinge Gydinga.

48. Og Folkid baud ad skrifa þessa Skrift a Messings Spiolld, og hengia þau uppa Umgaung Musteresins, a einum opinnberum Stad,

49. Og

49. Og ad leggia eina Utkrift þar af j Fiesioda Hirdsluna, so ad Simon, og aller hans Epterkomendur, mætti alla Tijma hana þar finna.

# XV. Capitule.

Antiochus Kongur, Son Demetrij, skrifade og eirninn ur Eyunum til Simonar, og til Gydinga Folks, med þessum Hætte.

2. (a) Antiochus Kongur tilbijdur þeim Ypparsta Preste Simone, og Gydinga Folke, sijna Kvediu!

(a) Þesse Antiochus var ad Vidurnefne Grypkus, og hann hiellt sidann Strijd vid Gydinga, enn vann lijtid a.

3. Med þvi, ad nockrer Styrialldar-Menn hafa tekid fra mier mitt Erfdar-Rijke, þa hef eg fyrer ad naa þvi aptur, og ad koma þvi aptur under rietta Arfa.

4. Og þess vegna hef eg tekid til mijn framande Strijds-Folk, og lood smijda Skip, og vil reisa jnn j Rijkid, so ad eg straffe þa Styrialldar-Menn, sem mikinn Skada giora mijnu Rijke, og margar Borger Eydelagt hafa.

5. Þar fyrer leyfi eg þier, ad bihallda ollu þvi sem þeir fyrre Kongar hafa þier veitt.

6. Og eg gief þier Magt, ad laata slaa eiginn Mynt j þijnu Lande, og Jerusalem, og Helgedomurinn skal vera frij.

7. Þu skallt og hallda ollum þeim Kostulum, sem þu hefur uppbiggt, og þu hefur hingad til haft, og ollum Strijds-Vopnum sem þu hefur giort.

8. Og eg gief þig kvittann fyrer ollu þvi sem Menn eru Konginum skyllduger, eda Konginum kann til ad heyra, fra þessu, og Ut jd hier epter.

9. Og ef vier vinnum aptur vort Rijke, þa villium vier enn meire Heidur veita þier, og þijnu Folke, og Musterenu, so ad þier skulud prijsader verda j ollu Rijkenu.

10. A þvi Hundradasta, Siotugasta og Fiorda Are, kom Antiochus aptur j sitt Erfda-Land, og allt Strijds-Folkid fiell fra Tryphon, og til hans, og miog faatt Lid var epter hia Tryphon.

11. Pa Antiochus Kongur reiste nu epter honum, þa flyde hann til Dora vid Hafid.

12. Þviad hann saa, ad þad var utgiort med sier, og Strijds-Folked fiell fra honum.

13. Enn Antiochus reiste epter honum til Dora, med Hundrad og Tuttugu Þusunder Fotgaungu-Lids, og aatta Þusunder Riddara.

14. Og settist um Borgena, til Lands og Siooar, so ad einginn komst hvorke ut nie jnn.

15. Um þennann Tijma kom fra Rom Numenius, og þeir adrer sem med honum sender voru, og hofdu Brief til Konganna, og Lands-Herranna, so laatande.

16. Lucius, Consul j Rom, tilbijdur Ptolomeo Konge sijna Kvediu!

17. Simon, Ypparste Prestur, og Gydinga Folk, hafa sendt Menn til Vor, ad endurnya þa Vinaattu og Saattmaal vor a medal.

18. Og hafa þar med sendt oss eitt Gullegann Skiolld, Þusund Punda þungann.

19. Þar fyrer tilskrifum vier Kongunum, og odrum Lands-Herrum, ad þeir giore eckert j mot Gydingum, og falle ecke yfer þa, þeirra Lond og Borger.

20. Og ad þeir efle ongvann Stirk þeim j mote, þviad vier hofum þennann Skiolld af þeim medtekid.

21. Og ef ad nockrer Ohlyduger eru fluner ur þeirra Lande til ydar, þa sendid þa somu þeim Ypparsta Preste Simone, so ad hann straffe þa epter sijnu Logmaale.

22. Med sama Hætte hofum vier skrifad til Demetrium Kongs, til Attalum, til Aretham, til Arsacen.

23. Og til allra Landa, eirninn til Sampsac. og þeim j Sparta, til Delo, Mindo, Sycion, Caria, Samos, Pamphylia, Lycia, Salicarnasso, Rhodus, Faselis, Co, Side, Gortyna, Gnido, Cypro, og Cyrene,

24. Og Utskrift þessara Briefa hofum vier sendt þeim Ypparsta Preste Simone, og Gydinga Folke.

25. Þess j millie flutte Antiochus enn meira Lyd fyrer Dora, ad þreyngia enn hardara ad Stadnum, og giorde Wijg-Velar þar fyrer, og stormade fastlega uppa Borgena, so ad Tryphon var þar jnne byrgdur, og kunne hvorke ad komast ut nie jnn.

26. Og Simon sende Antiocho til Hialpar Tvo Þusund Manns, med gott ein-vala Lid, og mikid Gull og Silfur, og Vopn.

27. Enn Antiochus tok ei vid þessu, og hiellt eckert af þvi sem hann hafde adur talad, og snere sier olldungis fra Simone.

28. Og hann sende til hans eirn sinn Vin, sa hiet Athenobius, ad hann skyllde hondla vid hann, og segia so, Þier hafid tekid til ydar Joppe og Gaza, og Kastalann j Jerusalem, hvad allt mijnu Rijke tilheyrer.

29. Og hafid eydt Landid umhverfis, og giort mikinn Skada j mijnu Rijke, og tekid fra mier mitt Erfda-Land.

30. Þar fyrer kref eg af ydur aptur þessara Stada, sem þier hafid fra mier tekid, og alls þess Afgiallds af þeim Stodum sem þier hafid, frateknu Landenu Juda.

31. Enn ef þier vilied ecke leggia mier þad aptur, þa giefid mier fyrer þær Borger, Fimm Hundrud (b) Centener Silfurs, og fyrer Skadann og Skattgialldid eirninn Fimm Hundrud Centener. Enn ef þier hugsid ei ad giora þetta, þa vilium vier yfer-falla ydur.

(b) (Centener) Allt til samans reiknad er Sex Tunnur Gulls.

32. Þa Athenobius Kongs Vinur kom nu til Jerusalem, og sa Dijrd Simonar, og hans Skraut med Gulli og Silfre, og hans Vidurbunad, þa undradist hann þad miog, og sagde honum Kongsins Ord.

33. Þar uppa gaf Simon honum þetta Andsvar, Þetta Land sem vier hofum unnid aptur, er vorra Fedra Erfd, og heyrer ongvum odrum til.

34. Enn vorer Oviner hielldu þvi um Stund, med Vallde og Oriette, Þar fyrer hofum vier nu under oss teked aptur þad sem vier attum, enn ecke tekid fra odrum.

35. Enn þar þu klagar, ad vier hofum jnntekid Joppe, og Gaza, þar til er þesse Ordsok, ad þeir giordu mikinn Skada voru Lande, og voru Folke.

36. Þo vilium vier þar fyrer bitala Hundrad (c) Centener. Hier til gaf Athenobius eckert Andsvar, helldur reiddist, og foor j burt þadann aptur til Kongsins, og sagde honum Andsvar Simonis, og af hans Dijrd, og hvad hann hafde sied, þa vard Kongurenn miog reidur.

(c) (Centener) Hundrad Talenta eru Sextijn Þusund Kronur.

37. Enn Tryphon took sig upp til Siofar, og flyde til Orthosia.

38. Þa giorde Kongurenn Cendebeum ad Hofuds-Manne yfer þeim Londum sem vid Hafid liggia, og liet epter hia honum Strijds-Folk, bæde Fotgaungu-Lid og Riddara.

39. Og skipade honum, ad hann skyllde setia sijnar Herbuder vid Landamerke Gydinga-Lands, og skyllde efla Stadinn Cedron, og uppbiggia eirn Kastala hia Fiollunum, og skyllde jnnfalla j Landid Juda. Enn Kongurinn sokte epter Tryphon, ad na honum.

40. Þa Cendebeus kom til Jamnia, fiell hann yfer Gydinga, foreydde þeirra Land, og liet drepa Fiolda Folks, og hertook margt Manna, og flutte j burt.

41. Og hann uppbiggde Stadenn Cedron, og sette þar jnn Strijds-Folk, ad þeir skylldu utfalla þadann j Landamerkenn, og eydeleggia Þiod-Brauternar, so sem Kongurinn hafde skipad.

## XVI. Capitule.

Þar fyrer reiste Johannes fra Gaza, upp til sijns Fodurs Simonar, og sagde honum fra, ad Cendebeus være jnnfallinn j Landed, og hefde giort Skada.

2. Þa kallade Simon sijna Tvo Sonu Ellstu til sijn, Judam og Johannem, og sagde til þeirra, Eg og mijner Brædur, og mijns Fodurs Hus, hofum fra Barndome, allt til þessa Dags, ꜳtt Orustur vid Jsraels Folks Fiand-Menn, og GUD hefur giefid oss Lucku, so ad Jsrael er opt frelstur fyrer vorar Hendur.

3. Enn af þvi, ad eg er nu gamall, og veikur, þa skulud þid ganga j minn Stad, og minna Brædra, og þid skulud reisa ut, og beriast fyrer ydart Folk, GUD af Himnum hialpe yckur, og vere med yckur!

4. Og hann liet utvelia j Landenu Tuttugu Þusund Manna, og nockra Riddara, med þetta Lid riedust Johannes og Judas j moote Cendebeo, og lꜳu um Nottena j Modin.

5. Enn ad Morgne, þa þeir reistu fra Modin, og komu a þa sliettu Velle, þa riedst eirn mikill Her rijdande Manna, og Fotgaungu-Lids, a moote þeim. Nu var eitt Vatns-Fall a millum hvortveggia Hersins,

6. Þa reiste Johannes ad Vatninu, og sneri sier a moote Ovinunum. Enn þegar hann sꜳ, ad Folkid felmtrade sier ad giefa sig j Vatnid, þa hætte hann sier Firstum, og komst yfer um Vatns-Fallid. Þa Lidid sꜳ þad, þa filgde þad honum epter.

7. Þvi næst fylkte Johannes Lide sijnu til Bardaga, og skickade Riddarana hiꜳ Fotgaungu-Lidenu. Enn Ovinerner voru langtum megtugre ad Riddara-Lide.

8. Enn þa Johannes liet Trometa med Prestanna Basunum, og riedst j moote Ovinunum, þa flyde Cendebeus og hans Her, og urdu marger særder og drepner, enn hiner adrer flydu j eirn sterkann Stad.

9. J þessum Bardaga vard Judas Johannes Broder og so sꜳr. Enn Johannes rak Flottann Ovinanna allt til Kastalans Cedron.

10. Og Ovinerner flydu uppa Kastala Landsins hiꜳ Asdod. Þa uppbrennde Johannes þa sömu Kastala, so ad þar fiellu nær Tvo Þusund Ovina. Þvi næst reiste Johannes heim aptur j Landid Juda.

11. Enn þar var eirn Hofuds-Madur yfer Landenu Jericho, sa hiet Ptolomeus, Sonur Abobi, hann var miög Audugur.

12. Og Sa Ædste Prestur Simon hafde giefid honum sijna Dottur.

13. Þar fyrer var hann drambsamur, og leitade epter ad verda Herra yfer Landenu, og feste med sier þa Ætlan, ad lijfloata Simon, og hans Sonu, med Svikum.

14. Og þa Simon reiste um kring j Landenu Juda, ad umskoda, og ad skicka Landsins Stiornan, og er hann kom til Jericho med sijnum Tveimur Sonum, Matathia og Juda, a Þvi Hundradasta, Siotugasta og Siounda ꜳre, a þeim Ellefta Mꜳnade, sem kallast (*) Sabat,

(*) Sabat er Januarius Mꜳnudur.

15. Þa medtok Sonur Abobi þa uppa sitt Slot, sem kallast Doch, og bio þeim til eitt veglegt Giestabod, enn þetta var einsömun Underhyggia, þviad hann falde Strijds-Folk leynelega þar jnne.

16. Og þa Simon, og hans Syner voru glader, og hofdu vel druckid, þa reis Ptolomeus upp med sijnum Þienurum, tok sijn Vopn, og jnn fiell j Giestabodid til Simons, og slo hann, og hans Tvo Sonu, og Þienara, j hel.

17. Þessa skiemmelega O-Tru framde Ptolomeus j Jsrael, og synde honum soddann Jllsku fyrer sijna Velgiorninga.

18. Þar epter skrifadi hann þetta til Kongs Antiochum, og bad hann ad senda sier Strijds-Folk til Hialpar, so ad hann nædi Landenu, og Borgunum, med allre þeirra Rentu.

19. Hann sendi og eirn Flock til Gaza, ad þeir skylldu drepa Johannem, og skrifade til Hofuds-Mønnunum, ad þeir skyllde koma til hans, Þa villde hann giefa þeim mikinn Moala og Skeinkingar.

20. Sømuleidis utsende hann Striijds-Folk, ad jnntaka Jerusalem og Helgedomenn.

21. Enn þar kom eirn Sende-Madur fyrr til Gaza, sem sagde Johanne, ad hans Fader, og hans Brædur være jhelslegner, og ad so være oasett, ad hann skyllde og eirninn jhel sloast.

22. Þa Johannes heyrde þad, vard hann miøg skielfdur, og liet grijpa þa Menn sem utsender voru til ad sloa hann jhel. Og þa hann reynde þad, ad þeir villdu hafa myrdt hann, þa liet hann sloa þa jhel.

23. Enn hvad Johannes hefur giørt meira epter þetta, og þær Orustur sem hann oatte, og hvørninn hann stiornade, og uppbiggde,

24. Þad er alltsamann skrifad j eirnre sierlegre Book, fra hans Valldstiornar-Tijma, so leinge sem hann var Ypparste Prestur epter sinn Fodur.

Ending þeirrar Firstu Bookar Maccabeorum.

# Formaale yfer þa Adra Book Maccabeorum.

Þesse nefnest og skal vera Su ønnur Book Maccabeorum, so sem hennar Titill utvijsar, Enn þad kann ecke ad vera riett, med þvi hun talar um nockra Giørninga og Høndlaner, sem fyrr hafa vid borid, enn þeir Giørningar, um hvøria Su Firsta Bookenn talar, Og hun tekur ecke leingra framm enn til Judam Maccabeum, sem er til hins VII. Cap: hinnar Firstu Bookar, So ad hun ætte med riettu ad nefnast Su Firsta Book, helldur enn Su Ønnur, Utann Menn vilie loata hana heita, Ein Ønnur Book, enn ecke Su Ønnur Book Maccabeorum, Alium, vel Alienum scilicet, non Secundum. Enn vier loatum hana hier fara med, vegna þeirra Sjø Piijslar-Votta Maccabeorum, og þeirra Moodur, og Annara Fleyre oagiætlegra Giørninga. Enn so er ad sioa, sem hann hafe eingenn Meistare verid sem hana hefur skrifad, helldur þa sie hun samanntekenn af mørgum Bookum.

Hun hefur og eirn hardann Knut j þeim XIV. Cap: um Rasias, sem drap sig sioalfur, hvar og eirnenn S. Augustinus, og þeir Gømlu Forfedur steita sig a, Þviad soddann Dæme duga ecke, og eru ecke løfleg, þo ad Þaug sie Lidinn, og kunne vel ad utleggiast, So og skrifar hun um Dauda Antiochi, j Firsta Capitule, nockud odruvijs, enn j þeirre Firstu Bookinne.

Snøggt ad segia, So sem Su Firsta Bookinn ætte med Riettu ad vera j Tølu Annara Booka Heilagrar Ritningar, so ætte þesse med Riettu ad vera þar, fyrer utann, þo ad þar stande jnne nockud Gott, Enn þad sie under goodum Lesara komid, þar um ad dæma, og rannsaka.

# Aunnur Book Maccabeorum.

## I. Capitule.

Vier Gydingar, ydar Brædur, sem erum til Jerusalem, og um allt Gydinga-Land, oskum ydur Gydingum, vorum Brædrum, sem erud j Egypta-Lande, Luckn og Velferdar!

2. GUD blesse ydur, og minnist a Sinn Soattmoala, sem Hann hefur lofad Abraham, Isaac og Jacob sijnum Truum Pienurum.

3. Og giefe ydur eitt riettelegt Hiarta, so ad þier bliifed stoduger, og stadfaster i hans Logmoale. 4. Og

4. Og unne ydur þess, ad þier stundid Hans Bod-Ord, og hugge ydur.

5. Hann heyre ydar Bœn, og sie ydur Lijknsamur, og ysergiefe ydur ecke j Neydenne.

6. So bidium vier fyrer ydur med Jafnade.

7. Vier høfum skrifad ydur til j vorre stærstu Neyd, þa Jason, og hans Selskapur fiell fra þvi Heilaga Lande, og fra Rijkenu, og uppbrenndе vor Borgar-Hlid, og uthellte Saklausu Blode.

8. Pa bœdum vier, og DROTTenn Bænheyrde oss, Og vier Offrudum Honum Simliu-Miole, og kveiktum a Lompunum, og løgdum upp Skodunar-Braudenn.

9. Og vier øskum, ad þier villdud nu hallda Kyrkiu-Vijgsluna med oss, j Mœnudenum Casleu.

10. Giefid a þvi Hundradasta, Sextugasta og Nijunda care, j Kong Demetrii Tijd.

11. Vier j Jerusalem og ellu Gydinga-Landi, aasamt med Olldungunum, og Johannes, Offum Aristobulo, Kongsins Ptolomei Skolameistara, hvor ad er af Prestlegre Ætt, og þeim ødrum Gydingum sem eru a Egyptalande, Lucku og Velferdar! Vier þøckum Gude, sem vel er verdugt, ad Hann hefur frelst oss ur storre Neyd, þar sem vier urdum ad veria oss fyrer so Megtugum Konge.

12. Þviad Gud hefur burt rekid vora Ovine, ur þeim Heilaga Stad, allt j Persia Land.

13. Þar vard Kongurinn med sijnum Oyfervinnanlegum Her myrdtur j Musterenu Nane, med Klokskap Prestanna Nane.

14. Þviad þa Antiochus kom þangad med sijnum Vinum, til Gydiunnar Diane, so sem villde hann giptast henne, og taka allt Fied ur Musterenu til Morgun-Gioafu,

15. Og þa Prestarner Nane bœru þad framm, og hann var geinginn med nockrum Mønnum j Capelluna, þa lietu þeir Kyrkiuna aptur epter hønum,

16. Og lømdu hann til Dauds, med Griote, og alla þa sem med hønum voru, þvi nærst hiuggu þeir þa j Sticke, og køstudu þeim ut.

17. Gude sie æfijd Lof, ad Hann hefur so burt-dæmt þa O-gudlegu!

18. Epter þvi, ad vier hugsum þa ad hallda Hreinsunar Hœtijd Musteresins a þeim Tuttugasta og Fimta Deige Mœnadarins Casleu, þa høfum vier viliad lœta ydur þad vita, so ad þier hielldud med oss þa somu Hœtijd, Lijka sem sa Dagur er halldinn, a hvørium Nehemias fann Elldinn, þa hann uppbiggde Musterid og Alltarid, og fornfærde ad nyu.

19. Þviad þa vorer Fedur voru burt flutter j Persia Land, þa føldu Prestarner og bivorudu Elldinn Alltarisins j eirnre diupre þurre Gryfiu, so ad einginn visse þad.

20. Þa Nehemias var nu, nockrum œrum seirna, epter Guds Vilia heim sendur af Kongenum, þa skipade hann Epterkomendum þeirra somu Presta sem Elldinn høfdu falid, ad þeir skylldu leita hann upp. Enn epter þvi sem þeir hafa sagt oss, þa fundu þeir øngvann Elld, helldur eitt þyckt Vatn.

21. Þad sama baud hann þeim upp ad ausa, og framm ad bera. Þa aller Hluter voru nu buner til Offursins, þa baud Nehemias, ad þeir skylldu uthella Vatnenu a Videnn, og yfer Offred sem lœ a Vidnum.

22. Þegar þeir høfdu þad giort, og Soolenn var vel uppkominn, og Skijenn lidu j burt, þa kviknade þar eirn mikell Elldur, þad undrudust þeir aller.

23. Þa toku Prestarner, og Folkid, til ad bidiast fyrer, þangad til ad Fornenn var uppbrennd. Og Jonathas saung fyrer, enn hiner adrer sungu þad epter hønum, med Nehemia.

24. Og þesse var Nehemie Bœn, DROTTinn, Vor Gud! Þu sem skapader alla Hlute, og ert Hrædelegur, Stirkur, og Riettlœtur, og Miskunsamur, og Alleina Sa Riette Kongur og Smurdur!

25. Þu sem Alleina giefur allar Gioafur,

Þu sem Alleina ert Riettlaatur, Almaattugur, og Eylijfur, Þu sem frelsader Jsrael af ollu Illu, Þu sem utvallder vora Fedur og helgader þa,

26. Medtak þetta Offur vegna alls Jsraels Folks, og vardveit og helga Þinn Arf!

27. Kom Þu oss til samans aptur sem sundurdreifder erum, Frelsa þa sem þiona verda Heidingiunum, og lijt til vor Fyrerlitenna, a hvorium hvor Madur hefur Andstyggd, So ad Heidingiarner mættu formerkia, ad Þu ert Vor Gud.

28. Straffa þa sem nidurþrickia oss, og af miklum Metnade veita oss alla Vanvirdu.

29. Grodurset Þu þitt Folk ad nyu, j Þijnum heilaga Stad, sem Moyses hefur talad!

30. Þvi næst sungu Prestarner Lofsaungva þar til, þangad til ad Forninn var brunninn.

31. Epter þad baud Nehemias ad hella þvi Vatne sem epter var, yfer þa storu Steina.

32. Þar kom og eirnenn Elldur upp, Enn hann vard fortærdur af Ells-Loganum, sem var a Alltarenu.

33. Þetta barst strax ut, og kom fyrer Konginn j Persia, hvorsu ad fundist hefde Vatn j þeim Stad, sem Menn hofdu Elld faled, og þad sama Vatn hefde uppbrennt Fornena.

34. Og Kongurinn liet og so reyna þad, og hann liet fra skilia, og j Frid taka þann Stad.

35. Og gaf þangad mikid Fie.

36. Og Nehemie Lags-Menn kolludu þann Stad Nechpar, a Norrænu Hreinsun, sumer nefndu hann og so Nephthar.

## II. Capitule.

Menn finna og so j Skriftenne, ad Jeremias Spaamadur baud þeim sem burt voru flutter, Ad þeir skylldu taka med sier Elldinn, sem aadur er sagt.

2. Og hann fieck þeim j Hendur Logmaalid, og baud þeim, ad þeir ecke skylldu gleyma Bodordum DROTTins, og laata ecke villa sig, þa þeir sæe Afgude af Gulle, og Silfre, og þeirra Pryde.

3. Og hann baud þeim margt fleyra þvilijkt, ad þeir skylldu ei laata Logmaalid koma ur sijnu Hiarta.

4. Þad stod og j þeirre somu Skrift, ad Spaamadurinn baud þeim epter Guds Byfalningu, ad þeir skylldu taka med sier Vitnisburdarins Tialldbudena, og Orkena.

5. Og þa þeir komu nu til Fiallsins, a hvoriu Moyses hafde verid, og sied Erfdarland DROTTins, þar fann Jeremias eirn Heller, þar geymde hann j Tialldbudena og Orkena, og Reykelsis Alltarid, og byrgde aptur Munnann.

6. Enn nockrer þeir sem med foru, villdu marka og giora Teikn hiaa Munnanum, Enn þeir gaatu hann ecke fundid.

7. Og þa Jeremias fornam þad, þa aavijtade hann þa, og sagde, Einginn Madur skal finna edur vita af þessum Stad, fyrre enn DROttinn samansafnar sijnu Folke aptur ad nyu, og verdur þvi naadugur, Þa mun DROTTinn vel opinberast þeim.

8. Og þa mun Dijrd DROTTins siaast j einu Skije, so sem hann byrtist j Moysis Tijd, og so sem Salomon bad, ad hann villde helga þann Stad.

9. Og Jeremias sagde þeim og so fra, Hvorninn Salomon offrade, þa Kyrkiann var vijgd, og Musterid var buid.

10. So og, Hvorninn Moyses bad til DROTTins, og Elldur af Himnum uppbrennde Fornena. So bad og Salomon, og Elldur uppbrennde og so Brenne-Fornena.

11. Og lijka sem Moyses hafde sagt, ad hans Offur uppbrenndest af Elldenum, og þess var ecke neytt,

12. So fornfærde Salomon og eirninn j aatta Daga.

13. Þetta finnst alltsamann j þvi Skrift sem j Tijd Nehemie skrifad var, Og lijka so

sem

sem hann samansafnadi Bokum Konganna, Spoamannanna, og Davids, og Briefum Konganna, um Fornfæringarnar, og tilreidde Fiølda Booka,

14. So giorde og Judas, Og hvad fyrer Bækur, sem fargast høfdu a medan O-fridur var j Landenu, þeim safnade hann til samans aptur.

15. Og vier høfum þær hier, Vilied þier nu þær lesa, þa loatid sækia þær til vor.

16. Nu med þvi vær vilium hallda slijka Hoatijd, þa vilium vier hafa skrifad ydur þad til, þviad tilheyrelegt er, ad þier halldid hana og eirninn.

17. Og vier vonum til Guds, ad DROTTinn, sem hioalpar sijnu Folke, og giefur oss Erfdena aptur,

18 Sem er Rijkid og Prests-Skapurinn, sem Hann hefur lofad j Løgmoalenu, Hann mun snarlega lijkna oss, og samansafna oss ad nyu, ur þeirre vijdu Verolldu, til þess Heilaga Stadar.

19. Lijka sem Hann hefur allareidu frelst oss fra mikellri Ogiæfu, og hreinsad Stadenn.

20. Enn Historiann um Judam Maccabeum og hans Brædur, og um Hreinsan Høfud Prestsins, og hvørsu Alltarid var vijgt,

21. Og um þær Orustur j mote Antiocho hinum Gøsga, og hans Syne Evpator,

22. Og af þeim Toaknum Himensins er þeim birtust, sem Gydingadomenn Mannlega vørdu, Ad Þier, so foa-einer Menn, ræntud allt Landid, og roakud a Flotta mikenn Fiølda Heidingia, og elltud þa,

23. Og enn framnveigis um Musterid, Hvørsu þad var uppbiggt aptur, hvørsu Menn vita af þvi allstadar nu þegar, og ad Borgenn noade sijnu Frelsi aptur, ad allshoattad annad Løgmoal skule afleggiast, enn DRottins Alleina halldast, Hver nu hefur godann Vilia til vor, og er oss lijknsamur,

24. Þetta og annad fleyra sem Jason hefur uppteiknad j sijnum Bokum, þad hugsum vier ad draga hier til samans, med styttstu Moale.

25. Þviad vier sioaum, hvørninn Tølunne er samannslegid, So ad þad vill vera þungt, ad semia Historiuna riett, med þvi ad henne er so samannsleingt.

26. Þar fyrer vilium vier giøra þad so, ad þad sie betra ad lesa, og audvelldara ad minnast, og ad þad meige vera hvørium Manne nytsamlegt.

27. Og sannlega merkium vier, ad þad vill vera oss jafnþungt, ad vier høfum tekid uppa oss slijkt Omak, þvi þar heyrir til mikid Erfide, og stor Idne.

28. So sem þad er ecke Erfidislaust, þa nockur vill tilbua eitt Giestabod, og veita Giestunum vel. Þo vilium vier ecke hugsa þar um, og vilium giarnan hafa þetta Omak, ødrum til Þienustu.

29. Vier vilium øngvu umbreyta j Historiunne sioalfre, helldur loata hana vera so sem hun var skrifud fyrr, Nema ad vier vilium giøra hana styttre.

30. Og lijka sem eirn Trie-Smidur, þa hann bigger upp nytt Hus, þa hugsar hann ei leingra framm, enn ad hann giete so giørt þad, ad þad kunni ad vera stødugt, Enn hvørninn þad skal prydast, og utmoalast, þar lætur hann eirn annann hafa Umhyggiu fyrer,

31. So vilium vier og giøra, Og loata þann sem first skrifade Historiuna, hafa þar Ahyggiu fyrer, hvørninn hann hefur alla Hlute talad, og allar Greiner sett, og samed med godre Giætni, allt til Enda.

32. Enn vilium ecke annad giøra, enn taka samann Sumuna med færstum Ordum.

33. Og vilium nu uppbyria Historiuna, og høfum þetta sett so sem annann Inngang, so ad Formoalenn verde ei leingre enn øll Historiann.

## III. Capitule.

Þa Menn biuggu nu j godum Fride ad nyu j Jerusalem, og Løgmoalid hafdi godann Frammgang, med þvi ad Høfud-Presturinn

Onias var so fromur, og giætte þar ad so kostgiæfelega,

2. Pa urdu og Kongarner hrærder, ad veita Stadnum Heidur, og sendu vegligar Presentur Musterenu.

3. So ad Seleucus, Kongur j Asia, liet skicka, af sijnum Lienum, allann Kostnad sem þurfte til Fornfæringanna.

4 Nu var j þad Sinn eirn Fovite Musteresins, Sa Simon hiet, af Benjamins Ætt, hann hafdi Ovinskap a þeim Ædsta Preste, af þvi hann villde ecke leysa honum hans Oblutvendni j Stadnum.

5. Enn af þvi ad Onias var honum megtugre, þa foor hann til Apollonium, Thrasei Sonar, Hofuds-Manns j Nedra Syrlande, og Phenice,

6. Og sagde honum fra, Hvorsu ad Guds Kistann j Jerusalem være ur Hofe rijk af Peningum, og ad þar være langtum meira enn Þorf giorde til Forn-Færinganna, og Kongurinn mætte vel taka þad til sijn.

7. Pa nu Apollonius kom til Kongsins, þa skyrde hann honum fra Ordum Simonar um Fied. Þa sende Kongurinn sinn Drottseta Heliodorum, og gaf honum þa Bijfalning, ad hann skyllde sækia þa somu Peninga.

8. Hann took sig upp jafnsnart, og liet, so sem skyllde hann taka Rentu j Nedre Syria og Phenice, Enn hans Meining var, ad fullkomna Kongsins Skipun.

9. Sem Heliodorus kom nu til Jerusalem, og Hofud-Presturinn took hann Vingiarnlega, þa sagde hann honum fra Hvad hans Herra hefde honum bijfalad, og hvar fyrer hann være þar, Og spurde hann ad, Ef þetta være so, edur ecke?

10. Þa svarade Kiennemanna-Hofdinginn honum, Sumt er oss tiltruad, og j Hendur feingid til goodrar Geymslu, sem heyrer til Eckium og Fodurlausum Bornum.

11. Sumt heyrer Tobias Hircani til, hvor ed var eirn merkelegur Madur, Og þad er j ongvann Maata so sem Sa Svikare Simon hefur sagt, Þviad þar er ecke meira enn Fiogur Hundrud Centener Silfurs, og Tvo Hundrud Centener Gulls!

12. So være þad mikil Naanginde ad taka þad so j burt, og svikia þad af þeim, sem þvi Heilaga Mustere hafa truad til sijns, hvort ad j ollum Heime hefur so stoorann Heidur og Frijheit.

13. Enn Heliodorus stood fast a Kongsins Skipun, hann yrde ad taka þad til sijn.

14. Og hann kom a tilsettum Dege j Musterid, og villde skoda þad.

15. Pa hoofst ein stoor Hormung um allann Stadinn, Prestarner laau framme fyrer Alltarenu j þeim Heilaga Skruda, og kolludu til Guds a Himnum, hvor ed sialfur hefur skipad, ad Menn skule ecke otrulega vardveita þad sem þeim er til Geymslu feinged, Og ad Hann villde laata Folkid hallda sijnu, þvi sem þad hafde til trurrar Geymslu burt lagt j hann Stad.

16. Enn Hærste Presturinn bar sig aumlega, ad enginn leit hann so ad kiennde ei j Briost um hann, Þvi þad maatti sia a honum, ad hann var j storre Angist, med þvi ad hann var so folur j sijnu Andlite.

17. Þviad hann var med ollu Skielfdur, og þad skalf allt sem a honum var, hvar af audvelldlega maatte merkia, hvorsu jllt honum var j Sinne.

18. Og Folkid hliop hingad, og þangad j Husunum til samans, og badst fyrer, hvor med odrum, af þvi ad þeir saau, ad Musterid skyllde koma j Fyrerlitning.

19. Og Kvinnurnar jklæddust Seckium, og hlupu j kring a Strætunum, og Jungfrurnar, (sem annars ecke geingu ut a medal Folksins) hlupu under Portenn, og upp a Murveggena, Sumer laau ut um Gluggana.

20. Og upplyptu sijnum Hondum til Himens, og badust fyrer.

21. Þad var bæde Hormulegt, ad Folkid

vard

vard so skielft innbyrdis, og ad Ædste Prestinn var j slijkre Angist.

22. A medan þeir aakølludu so þann Almaattuga GUD, ad Hann villde vardveita þeim sitt Fie, sem þad hofdu þangad til Geymslu lagt,

23. Þa hugsade Heliodorus sier, ad frammkvæma sinn Asetning.

24. Og sem hann stood hiaa Guds Kistunne, med Strijds-Mønnunum, þa giørde Almaattugur GUD eitt mikid Teikn, so ad hann, og þeir sem j kringum hann voru, skielfdust fyrer Guds Magt, og þar fiell yfer þa stoor Otte, og Hrædsla.

25. Þviad þeir sa au eirn Hest, sem var vel prijddur, þar a sat eirn Oguarlegur Riddare, hann rennde med ollu Afle ad Heliodoro, og stette a hann med Framm-Footunum, Og Riddarenn a Hestenum var j eirnre forgylltre Harneskiu.

26. Þeir saau og so Tvo Unga Menn, sem bæde voru sterker, og Dægeleger, og miøg vel klædder, þeir stoodu sinn til hvorrar Handar Heliodoro, og bordu hann karskliga.

27. So ad hann fiell af Omeigenn til Jardar, og vard Sionlaus.

28. Þa tooku þeir hann sem nylega var inngeinginn j Peninga-Herberged med miklu Skraute, og med øllum sijnum Strijds-Mønnum, og baaru hann þadann a einum Stool, Og hans Magt hiaalpade honum alls ecke.

29. (So ad Menn maattu opinnberlega merkia Krapt DROTTins), og hann laa so hardt nær sem daudur, og talade eckert Ord.

30. Enn Gydingar prijsudu GUD, ad Hann hafde so vegsamad sitt Mustere, og Musterid, sem aadur var fullt af Hrædslu og Otta, þad vard fullt af Fognude og Glede, epter þetta Teikn Almaattugs Guds.

31. Enn nockrer af Vinum Heliodori, komu og baadu Oniam, ad hann villde bidia til DROTTins, ad Hann villde unna Heliodoro Lijfs, hvor nu var adframm kominn.

32. Enn af þvi ad Kienne-Manna Hofdinginn var hræddur, ad Kongurinn munde hafa Misgrun a Gydingum, ad þeir hefde giørt Heliodoro nockud, þa offrade hann fyrer honum, ad hann mætte verda heilbrigdur.

33. Og a medann hann badst fyrer, þa byrtust j annad Sinn þeir Tveir ungu Menn, j þeirra fyrra Klædnadi, og sogdu til Heliodorum, Giør þu hugarlaatlegar Packer heim Hærsta Preste Onia, Þviad hans vegna hefur DROTTinn giefid þier Lijfid.

34. Og kunngiør hvorvetna þann mikla Krapt DROTTins, med þvi þu ert af Himnum ofann hudstrijktur! Og þa þeir høfdu þetta talad, lidu þeir j burt.

35. Enn Heliodorus færde DROTTne Foorner, og hiet Honum miklu, ad Hann hefde giefid honum aptur Lijfid, og þackade Onia.

36. Og reiste þvi-nærst aptur til Kongsins, og sagde hvorium Manne fra, Hvorninn hann hefde sied Verk hins Hærsta Guds med sijnum Augum.

37. Enn er Kongurinn spurde hann ad, Hvorn hann hugsade ad senda skyllde til Jerusalem, sem nockud utvegade, Þa svarade Heliodorus honum.

38. Hafer þu Ovin edur þann nockurn, sem þier hugsar ad hrinda ur Rijkenu, þann send þangad, Þegar sa hinn same fær slijka Hyding sem eg, og kiemst med Lijfe j burt, þa maattu vel medtaka hann aptur.

39. Þviad GUD er kroptuglega j þeim Stad, og Sa sem a Himnum byr hefur þar Tilsion, og frelsar hann, og straffar þa sem honum vilia Skada giøra, og slær þa til Dauds. Þetta er fulltalad um Fiaar-Hirdslu Husid og Heliodorum.

# IV. Capitule.

Enn Simon, sa sem Fiesiodena og sitt Fødur-Land hafde forrꝍadid, talade illa um Oniam, hvorsu hann hafde giort Heliodoro þessa Olucku, sem hann skiede.

2. Og skulldade hann, ad hann stundade ad verda Herra Landsins, þar hann giørde þo Stadnum allt Gott, og unne sijnu Folke af Hiarta, og hiellt fast a Guds Bod-Ordum.

3. Og er hans Hatur og Ofund vard so stoor, ad þeir sem hiellldu med Simone slou þar fyrer nockra ihel,

4. Og Onias sꝍa, ad þar munde koma mikid Illt af slijku Osamþycke, med þvi, ad Apollonius Høfuds-Madur i nedre Syria, var so galinn, ad hann stirkte Simonem til sinnar Ohlutvendne,

5. Þa took hann sig upp, og reiste til Kongsins, ecke til þess, ad aklaga sitt Folk, helldur Landenu og Lydnum til Goda.

6. Þviad hann sꝍa, ad ef Kongurinn villde eckert giøra hier til, þa være ecke møgulegt ad hafa Frid til Leingdar, ellegar ad stilla Ohlutvendne Simonis.

7. Enn þa Selevcus var daudur, og Antiochus Hinn Gøfge fieck Rijked, þa stundade Jason, Onias Broder, epter Hæsta Prestsins Embætte.

8. Og hiet Kongenum, ef hann kiæme þvi til Leidar, Þriu Hundrud og Sextijger Centener Silfurs, og af ødrum Rentum, attatijger Centener.

9. Og hier ad auk hiet hann honum ad giefa Hundrad og Fimmtijger Centener, ef ad honum leyfdist ad upp reisa Leik-Hus, og ad venia þa til Jerusalem epter Sidum Antiochi.

10. Þegar Kongurinn vard þessu samþyckur, og Jason fieck Prests Embættid, þa vande hann jafnsnart sitt Folk til Heidinna Sida.

11. Og þeir Goodu og Loflegu Sider, sem setter voru af þeim fyrre Kongum, urdu aflagder fyrer Johannem, Fodur Evpolemi, sem sendur var til Rom, ad binda Vinꝍattu vid Romveria, Og hann afmꝍade þaug gømlu heidarlegu Løg, og upp sette adrar otierlegar Skickaner.

12. Hann uppbiggde eitt Leik-Hus i Borgenne, og sette til, ad þeir sterkustu Ungis-Menn skylldu þar inne idka sig.

13. Og Heidinna-Manna Athæfe þroadest so miøg,

14. Ad Prestarner oktudu hvørke Foornfæringar, nie Musterid, helldur hlupu i Leik-Husid, og horfdu a Sopp-Leik, og adra Leika.

15. Og yfergꝍafu so Sidu sinna Fedra, og hiellldu þo hina Heidnu mikelega.

16. Þeim vard þad og vel endurgolldid, Þviad GUD sende þa sømu yfer þa, af hvørium þeir villdu læra slijka Leika, ad þeir hinu sømu skylldu straffa þa,

17. Þviad Menn eiga ecke ad skiemta sier med Guds Orde, þad kiemur þo framm um sijder.

18. Enn þeir miklu Leikar voru halldner i Tyrus, og Kongurinn var þar sioalfur vid.

19. Þa utsende Svikarenn Jason nockra Antiochenos, og liet sem þeir være af Jerusalem, ad þeir skylldu og horfa a Leikana, og med þeim sende hann Þriu Hundrud Drachmas, ad offra Herculi þar af. Enn þeir sem þa Bijfalning høfdu sꝍau, ad þad var eige so skickanlegt, og villdu þar fyrer ecke hafa þa Peninga þar til, helldur til nockurs annars.

20. Þvi keyptu þeir Skip-Reida þar med, þo ad hann hefde þa utsendt til Herculis Offurs.

21. Enn epter þvi, ad Ptolomeus Philometor, sa unge Kongur i Egypta-Lande, villde hallda sinn Firsta Rijkis Dag, þa sende Antiochus Apollonium, Mnestei Son, til Egypta-Lands, a þann sama Herra-Dag.

22. Enn þegar hann formerkte, ad þeir villdu ecke hafa hann fyrer Forveriara, þa

reiste

reiste hann aptur, og hugsadi um, Hvorninn hann mætte hallda sijnu Rijke j Fride. Og hann kom til Joppen, og þadann reisti hann til Jerusalem, og var heidarlega medtekinn af Jason, og ollum Stadunum, og innleiddur med Blysum og mikellre Hoffrakt, þvi næst reiste hann aptur j Phenicen.

23. Enn ad þremur ærum Lidnum, sendi Jason Menelaum, Brodur Simonar, þess sem fyrr er gietid, med Fie til Kongsins, og ad minna hann a nockur Naudsynia-Erendi.

24. Og er hann kom j Vinskap vid Konginn, var hann Hræsnare, og kom þvi Ypparsta Prests Embætte til sijn, og gaf Kongenum Priu Hundrud Centener Silfurs meir enn Jason.

25. Og kom so aptur til Jerusalem med Konunglega Bifalning, og breytte ecke so sem sa Ædste Prestur, helldur so sem Olmur Tyranne, og so sem eitt hrædelegt Villudyr.

26. Pannenn vard Jason, sa sem sijnum Brodur hratt ur sijnu Embætte, af odrum aptur burthrundenn, og hlaut ad flya j burt j Amorita Land, og Menelaus hiellt Rijkis-Stiornena.

27. Enn sem hann kunne ecke ad utvega þad Fie, sem hann hafdi Kongenum lofad, þa Sostratus, Hofuds-Madur a Slotinu, krafde þess af honum, epter Kongsins Skipan,

28. Þa liet Kongurenn kalla þa baada fyrer sig.

29. Og affette Menelaum, og sette hans Brodur Lysimachum j hans Stad, og Sostratum sette hann Bijfalnings-Mann j Cypren.

30. Pa þetta var nu so skipad, þa giordu þeir j Tharsis og Mallotis eitt Upphlaup, þar fyrer, ad Kongurinn hafde skienkt þa sinne Frillu.

31. Pa tok Kongurinn sig upp skiotlega, so ad hann feinge stillt þad Upphlaup, og liet epter til Statholldara Hofdingiann Andronicum.

32. Þegar Menelaus heyrde þad, þa hugsade hann, ad nu være tiltækelegur Tijme ad naa aptur sijnu gamla Embætte, og stal nockrum Gullegum Klenodium ur Musterenu, og gaf Andronico, sumar sellde hann j Tyro, og j odrum kringum liggiande Stodum.

33. Pa Onias visse þetta, gaf hann sig j eirn frijann Stad j Daphne, sem liggur fyrer Antiochia, og aavijtade hann.

34. Enn Menelaus kom alleina til Andronicum, og bad hann ad taka Oniam Hondum.

35. Pad giorde hann, og gieck til hans, og talade vid hann svikfamlega, og gaf honum sijna Hond, og sinn Eid þar uppa, ad hann kiæme til hans med Frijlegheit, þviad hann visse, ad Onias vænte sier *Gods af honum, Og þa hann hafde so umtalid fyrer honum, þa stack hann hann j hel, j mote ollum Riette. Pad angrade ei ad eins Gydingana, helldur mislijkade þad morgum af Heidingiunum, ad hann hafde so drepid þann froma Mann. (*ecke)

36. Pa Kongurinn hafde nu utriett allar Saker j Cilicia, og reiste heim aptur, þa hlupu Gydingarner til hans ur ollum Stodum, og so marger af Heidingium, og klogudu fyrer honum, ad Onias hefde saklaus drepenn verid.

37. Og Antiochus hriggdist af Hiarta þess vegna, og þad aumkade hann, ad sa frome heidarlege Madur var so hormulega drepenn.

38. Og hann vard gramur Andronico, og liet fletta hann Purpura Klædenu, og ollu odru Skarte, og liet leida hann um kring j ollum Stadnum, og drepa hann ad sijdurstu j þeim sama Stad, sem hann hafde j hel stungid Oniam, So straffade Gud hann aptur epter sinne Forþienan.

39. Enn þegar Lysimachus hafde stoled miklu ur Musterenu, epter Raadum sijns Brodurs Menelai, og þa þetta Rykte barst ut a medal Folksins, þa safnadest Almugenn til samans a mote Lysimacho, þa þeir Gullegu Dyrgriper voru allareidu marger j burt tekner.

40. Pe-

40. Þegar Mannfiølldenn kom nu til samans, og var miøg reidur, þa bryniade Lysimachus Þriu Þusund Manna, og villde veriast med Vallde, og hann sette eirn gamlann kyndugann Høfuds-Mann yfer þa.

41. Þa Borgar-Mennerner sꜳu þad, gripu sumer Steina, sumer sterkar Steingur, sumer køstudu Øsku þeim j Augu.

42. So ad sumer af þeim urdu sꜳrer, og sumer med øllu nidurslegner til Jardar, og hiner adrer hlupu j burt þadann, og þeir nꜳdu so Kirkiu-Reifaranum vid Fie-Hirdslu Husid.

43. Epter þad høfdu þeir hann framm fyrer Riettenn.

44. Og med þvi ad Kongurenn var komenn til Tyro, þa sendu þeir Þria Menn utaf Rꜳdenu, ad tiꜳ fyrer honum þetta Mꜳlefne, ad hann segde þar Dom yfer.

45. Enn sem Mꜳlid gieck a Menelaum, þa hiet hann ad giefa Ptolomeo miked Fie, ef hann feinge hann lausann af Kongenum.

46. Þa gieck Ptolomeus alleina til Kongsins uppa hans Sal, þar sem hann svalade sier, og talade um fyrer Kongenum.

47. So ad hann liet Menelaum lausann, sem var eitt Upphaf allrar Olucku, og dæmde þad Fꜳtæka Folk til Dauda, hvort jafnvel j hiꜳ Tatrum hefde fundest og þott saklaust vera.

48. So urdu þeir saklausu lijflꜳtner, sem hid trulegasta høfdu handtierad Folksins og Musteresins Mꜳlefne.

49. Þad misþocknadist nockrum j Tyro, og veittu þeim ærlegann Grøft.

50. Enn Menelaus var vid sitt Embætte, fyrer Tilløgur nockra Magtar-Manna j Hof-Gardenum, sem Gagn høfdu af honum, og var þess verre sem hann var leingur, og lagde a Borgarana allskins O-giæfu.

## V. Capitule.

Um þennann sama Tijma reiste Antiochus j annad Sinn til Egyptalands.

2. Og Menn sꜳu um alla Borgena, Fiorutijger Daga, hvad epter annad, j Loptenu, Riddara j forgylltum Bryninum, med løngum Spiotum j Fylkingu.

3. Og Menn sꜳu Hvørsu ad þeir renndu til samans, og hlijfdu sier med Skiølldunum og Spiotunum, og hversu ad þeir rycktu Sverdunum, og skutu hvorier ad ødrum, og hversu ad skein a þaug forgylltu Vopn, og hversu ad þeir høfdu ødskilianlegar Bryniur.

4. Þa bad hver Madur, ad þad skyllde ecke neitt Ille merkia.

5. Enn þar komu upp O-sonn Tijdende, hversu ad Antiochus skyllde vera daudur. Þa tok Jason til sijn Þusund Manns, og fiell oforvarandis yfer Stadenn, Og þa hann stie uppa Murenn med sijna Menn, og took jnn Stadenn, þa flyde Menelaus j Kastalann.

6. Enn Jason myrdte sijna Borgar-Menn sꜳrgrætelega, og hugsade ei, ad þetta var hans eiginn stoor Olucka, ad hann hafde sodann Lucku j mote sijnum Vinum, Helldur liet hann sier þykia, ad hann ynne Sigur a sijnum Fiand-Mønnum, þar hann vann Sigur a sijnum Borgar-Mønnum.

7. Og þo gat hann ei nꜳd Vallds-Stiornenne, helldur fieck hann sijn Laun, so sem hann hafde forþienad, og flyde med Sneypu aptur til Amorita Lands.

8. Ad sijdurstu vard hann klagadur fyrer Areta Arabia Konge, so ad hann vard ad flya fra einum Stad til annars, og var hvørge ohræddur. Og hver Madur var honum gramur, so sem þeim ed fallenn var fra sijnu Løgmꜳle, Og hver Madur formællte honum, so sem ødrum Forrædara og Fiand-Manne sijns eigenn Fødur-Lands, Og so vard hann utflæmdur til Egyptalands.

9. Og so sem hann hafde marga rekid af sijnu Fødur-Lande, so vard og hann sialfur ad deya j Eymd j Lacedemonia, þar hann vonade, ad hann munde finna Upphellde, med þvi ad þeir være Ætt-Menn sijn a mille.

10. Enn so sem hann hafde mørgum j burt

kastad ꜳn Greftrunar, so og doo hann, ad
einginn bar Harm epter hann. Og hann
hafde ecke alleinasta ecke þa Lucku, ad hann
være grafenn j sijnu Fodur-Lande, helldur
fieck hann og eirnenn ongva Grof j framande
Lande.

11. Þa þetta kom fyrer Konginn, þa
hugsade hann, ad allt Gydinga-Land munde
fallid fra honum, Og hann reiste med grim-
mum Huga j burtu ur Egypta-Lande,
og inntook Jerusalem med Vallde.

12. Og baud Strijds-Monnunum jhel
ad slꜳ, ꜳn allrar Vægdar, allt hvad þeir
fundu a Strætunum, og j Husunum.

13. Þa voru jhel slegner Unger og Gam-
ler, Menn og Kvinnur, Born og Jungfrur,
Jꜳ, og so Bornenn j Voggunum.

14. So ad a þremur Dogum lietust þar
ꜳttatijgu Þusund Manna, Fiorutijger
Þusund voru hertekner, og nær ꜳttatijgu
Þusund sellder.

15. Enn Antiochus liet sier ecke þetta næ-
gia, helldur yferfiell hann og so þann Heila-
gasta Stad a Jordunne, Og Svikarenn
Menelaus leidde hann jnn þangad.

16. Þa rænte hann med sijnum bolvo-
dum Hondum þeim Heilogu Kierum, og ollu
þvi sem adrer Kongar hofdu giefid Musterenu,
til Fegurdar og Prijde, þad reyf hann j burt
med sijnum syndugum Hondum, og upphof
sig miog.

17. Og sꜳ ei, ad DRottinn leyfde, ad slijkt
kiæme yfer þa sem j Stadnum voru, vegna
þeirra Synda.

18. Þetta var Sokenn, ad Gud liet so
skammlega fara med þann Heilaga Stad, elle-
gar munde þad so hafa geingid Antiocho, so
sem þad gieck Heliodoro, hvor ad ut sendur var
af Seleuco Konge, ad rannsaka Fiꜳrsioda
Herbergid, og vard hardlega slegenn þar fyrer,
so ad hann neyddest til ad lꜳta af sinne Of-frij-
kis Upptekt.

19. Þviad Gud hefur ei utvalid Folkid
Stadarins vegna, helldur Stadenn Folksins
vegna.

20. Þar fyrer hlaut þad Heilaga Mustere
ad lijda eirnenn, þa Folkid var straffad, Lijka
so sem þad þar j mote hafde Gagn af Folkenu,
Þviad lijka so sem Mustered var unnid af O-
vinunum, þa DRottinn var reidur, lijka so
fieck þad aptur Heidur og Riett, þa DRot-
tenn vard þeim aptur Lijknsamur.

21. Summann a ollu þvi sem Antiochus
rænte ur Musterenu, var ꜳtian Hundrud
Centener Silfurs, þad tok hann med sier, og
reiste strax til Antiochiam, med soddann
Drambseme og Metnade, ad hann hugsade
sier nu ad giora Jordena, so ad Menn mættu
sigla um hana, so sem um Sioenn, Og Hafid,
ad Menn skylldu ganga þar a, so sem a Jor-
dunne.

22. Og hann liet epter nockra Bijfalnings-
Menn j Jerusalem, vonda Skalka, sem var
Philippus ur Phrygialande, sa enn var ver-
re og argare, enn hans Herra.

23. Andronicum j Garizim, og Menelaum
med þeim bꜳdum, hvor ed var yfer ollum
odrum, so ad hann þvingadi sitt eigid Folk.

24. Og af þvi, ad Antiochus var so hard-
lega gramur uppa Gydingana, sende hann
til þeirra eirn skammlegann Skalk, Apollo-
nium, j Landed, med Tvo og Tuttugu Þu-
sund Manna, og baud honum, ad hann skyllde
j hel slꜳ alla fullvaxna Karlmenn, enn ad
selia Kvinnurnar, og þad yngra Folkid.

25. Þa hann kom nu fyrer Jerusalem,
stickade hann sier fridsamlega, allt til Sab-
baths Dagsins, a hvorium Gydingar hallda
Heilagt, Þa baud hann strax sijnu Folke ad
vopnast.

26. Og sem hvor Madur hliop nu þangad
ad, og villde siꜳ hvad þar skyllde skie, þa
liet hann j helslꜳ þa alla, og kom so j Sta-
dinn med allann sinn Her, og j hel slo mikenn
Fiolda.

27. Enn Judas Maccabeus tok sig þar
fra med Niju Brædrum, burt j Eydemork,
og a Fioll, og hiellt sig þar, med ollum þeim
sem sig hofdu giefid til hans, og lifde vid

y Jurter,

Jucter, So ad hann skyllde ecke lifa a medal þeirra O-hreinu Heidingia.

## VI. Capitule.

Skammt epter þetta, þa sende Kongurinn eirn gamlann Mann, fra Antiochia, ad hann skyllde naudga Gydingum, ad falla fra Logmaale sinna Fedra, og hallda ei leingur Guds Logmaal.

2. Og ad hann skyllde saurga Musterid j Jerusalem, og skyllde kalla þad Jovis Kirkiu Olympii, og Musterid j Garizim skyllde nefnast Jovis Kirkia Xenii, af þvi þar byggde framande Folk.

3. Slijkt Villt Athæfi fieck hverium Manne Hugar-Angurs.

4. Þviad Heidingiar aatu og druck u sig galda j Musterenu, og drijgdu med Kvinnum allskins Blygdunarleysi j þeim Heilaga Stad, og baaru inn þangad margt þad sem ecke var hæfilegt.

5. Menn offrudu yfer Alltarenu forbodnum Foornum j Logmaalenu.

6. Og hielldu hvorke Sabbaths-Daga, nie adrar vanalegar Hatijder, og einginn þorde ad laata a sier merkia, ad hann være Gydingur.

7. Og þeir naudgudu þeim til med Vallde, ad offra j hverium Maanude, þegar Kongsins Fædingar Dagur var. Og þegar Menn hielldu Bacchi Hatijd, þa neyddu þeir Gydinga til, ad ganga framm med Kransa af Lauerber-Trie, Baccho til Vegsemdar.

8. Þar var og af Raadum Ptolomei utgeinged eitt Bod um Heidingianna Stade, sem voru kringum Jerusalem, ad þeir skylldu hvorvetna naudga Gydingum til ad offra.

9. Og ef ad nockrer være stoduger j þvi, ad þeir villdu ecke hallda þad med Heidingium, þa skyllde Menn jafnsnart leggia þa til Dauds, þa maatte sioo eina mikla Hormung.

10. Þar urdu frammleiddar Tvær Kvinnur, af þvi ad þær hefdu umskorid Sonu sina, vid þeirra Briost bundu þeir Bornenn, og leiddu þær um kring j giegnum allann Stadinn, og ad sijdurstu kostudu þeir þeim ofann fyrer Murenn.

11. Nockrer hofdu falid sig þar j Naand j Holum, so ad þeir mætte hallda Sabbaths-Dagenn, þegar þad var sagt Philippo, þa voru þeir brennder, þvi þeir villdu ei veriast, so ad þeir bryte ecke Sabbaths-Dagenn.

12. Enn hier verd eg ad aaminna Lesarann, ad hann hneixle sig ecke a þessare Hormungu, helldur hugse, ad þetta Straff er yfer þa komid, ei þeim til Fordiorfunar, helldur til Vidvorunar.

13. Þviad þad er ein stoor Lijkn, ad Gud hindrar Syndarana, so ad þeir faae ei Frammgang, og straffar þa jafnsnart.

14. Þviad Vor DROttenn Gud hefur ecke slijkt Langlundar-Gied vid oss, so sem vid adra Heidingia, hvoria hann lætur frammganga, þangad til þeir hafa fyllt Mæler sinna Synda, so ad hann straffe þa þar epter.

15. Helldur varnar Hann oss vid, so ad vier skulum ei hafa ofmikid vid, og ad Hann ad sijdurstu ei hefne sijn a oss.

16. Þar fyrer hefur Hann enn nu alldrei j burttekid med ollu fra oss sijna Miskunseme. Og þo hann hafi tyftad oss med eirnre Ogiæfu, þa hefur hann þo eigi helldur med ollu yfergiefid sitt Folk.

17. Þetta hef eg sagt til eirnrar aaminningar, Nu vilium vier koma aptur til Historiunnar.

18. Þar var eirn Mann af þeim Yppurstu Skrift-Lærdu, sa hiet Eleasar, eirn alldradur Madur, og þo miog Frijdur, a honum sperrtu þeir Munnenn upp med Valldi, ad hann skylldi eta Svijna-Kiot.

19. Enn hann villde helldur deya ærlega, helldur enn ad lifa so skammlega, og hann leid þad med Þolinnmæde.

20. Og þa hann gieck til Pijnunnar, þa aavijtade hann þa sem aatu forbodid Kiot, af Elsku þessa stundlega Lijfs.

21. Þeir

21. Þeir sem nu voru setter til ad þvijnga Folkid til ad eta Svijna-Kiotid a moote Logmaalenu, af þvi ad þeir hofdu þeckt hann leinge, þa tooku þeir hann afsijdis ut af, og sogdust vilia bera honum þad Kiot, sem honum være vel etande, enn hann skylldi laata lijka sem þad være offrad Svijns-Kiot, og skylldi eta þad Kongenum til Villia.

22. Ad hann mætte so Lijfe hallda, og niota gamalls Vinskapar.

23. Enn hann hugsade so sem somde hans Elle, og Graa-Hærdu Hofdi, og epter hans goodu Frammferde, sem hann hafde haft fra Ungdome, og epter þvi Heilaga Guds Logmaale, og sagde berlega framm, Sended mig strax under Jordena ofann j Grofena.

24. Þviad jlla hæfer þad minne Elle, ad eg skule soddann Hræsne hafa, so ad þeir enu Ungu hugse so, Eleasar hinn Nijræde er og ordenn eirn Heidinge,

25. Og mundu þa verda afvega leidder fyrer minn Hræsnaraskap, og ad eg hegdade mier so fyrer Folkenu, og frelste so mitt Lijf um litla Stund, sem eg hefe enn nu olifad, þad være mier ein Evlijf Skomm.

26. Og ad vijsu, Hvad kann eg ad hafa þar af, þo ad eg nu allareidu komist undann Mannanna Straffe, med þvi ad eg ecke kann ad komast undann GUds Hondum, hvort helldur eg er Lijfs eda Daudur?

27. Þar fyrer vil eg nu gladlega deya, so sem þad hæfer mier gomlum Manne,

28. Og laata good Dæme epter mig, hiaa þeim Ungu, so ad þeir deye viliuger og hreystelega, vegna þess Dijrdlega og Heilaga Logmaals.

29. Þa hann hafde talad þesse Ord, þa leiddu þeir hann til Pijnunnar, Enn þeir sem hann leiddu, og aadur hofdu verid hans Viner, þeir reiddust honum fyrer slijk Ord, þvi þeir meintu, ad hann hefde af Metnade talad þetta.

30. Og þa þeir hofdu sleged hann, so ad hann var ad Dauda komenn, þa andvarpade hann og sagde, DROTTinn fyrer hvorium eckert er hulid, Hann veit, ad eg maatte vera aan þessara Slaga og storrar Pijnu, sem eg ber a mijnum Lijkama, hefde eg viliad. Enn Saalarennar vegna lijd eg þad giarnann, fyrer Guds Skulld.

31. Og hann gaf so upp Andann, og liet med sijnum Dauda epter sig eitt Huggunar-samlegt Epterdæme, hvort ecke alleinasta Ungdomenn aaminna skal til Mannkosta, helldur og eirnenn sierhvorn Mann.

## VII. Capitule.

Þa urdu og gripner Sio Brædur, og þeirra Mooder, og voru hudstrykter med Svipum og Dolum, og af Kongenum þvijngadir, til ad eta Svijna-Kiot sem þeim var bannad j Logmaalenu.

2. Þa sagde hinn Ellsti so a medal þeirra, Hvad villtu spyria margs, og vita af oss? Vier vilium helldur deya enn giora nockud j moote vorra Fedra Logmaale.

3. Þa reiddest Kongurenn, og baud ad setia strax Ponnur og Katla yfer Elldenn.

4. Þa þad var giort, þa skipade hann ad skiera Tunguna ur þeim Ellsta, og hoggva af honum Hendur og Fætur, ad aasiaaande odrum Brædrunum, og Moodurinne.

5. Þa hann var nu so Af-Limadur, þa liet hann bera hann ad Elldenum, og steikia hann j Ponnunne. Og þegar Logann lagde allstadar jnn j Ponnuna, þa aaminnte hvor annann, aasamt Moodurinne, ad þeir skylldu hraustlega deya.

6. Og sogdu, GUd DROTTenn mun aalijta Riettindinn, og vera oss Miskunsamur, so sem Moses vitnar j sijnum Saung, Og hann er sijnum Þienurum Lijknsamur.

7. Þegar Sa Firste hafde nu so Ondena uppgiefid, þa leiddu þeir hinn Annann framm, ad syna þeirra Grimmd a honum, og þeir flettu Hudenne med Haarenu af hans Hofde, spyriande hann ad, Hvort hann villde eta Svijna-Kiot, eda laata pijna allann sinn

Lijkama og Lidu. Enn hann svarade a sitt Moal, og sagde, Eg vil ecke giøra þad.

8. Pa tooku þeir hann, og kvøldu hann, so sem þann hinn Firsta.

9 Og þa hann var nu ad Dauda komenn, þa sagde hann, Þu bølvud Manneskia! Þu tekur ad sønnu fra mier þad stundlega Lijf, Enn DROTTenn allrar Veralldar mun uppvekia oss til Eylijfs Lijfs, vier sem deyum fyrer hans Løgmoals Saker.

10. Þvi næst tooku þeir þann Pridia, og fromdu vid hann sinn Moot-Þroa. Og er þeir skipudu hønum, þa riette hann ut Tunguna frijviliuglega, og breidde ut Hendurnar, og sagde med Hreyste,

11. Þessa Lime hefur GUD af Himne giefid mier, þar fyrer vil eg giarnann missa þa fyrer Hans Løgmoals Saker, þvi eg vona ad Hann skal giefa mier þa aptur.

12. Enn Konginn furdade, og hans Pienara, ad sa unge Sveirn var so hughrauftur, og aktade so alldeilis eckert um Mooderena.

13. Pa þesse var og daudur, þa pijndu þeir og so þann Fiorda, og hudflettu hann.

14. Enn sem hann skyllde deya, þa sagde hann, þad er oss mikel Huggun, ad vier vonum, þad GUD mune vekia oss upp aptur, þegar Mennernar drepa oss, enn þu skallt ei uppvaktur verda til Lijfsins.

15. Epter þad tooku þeir hinn Fimmta, og hudstryktu hann eirnenn. Hann leit til Antiochum, og sagde til hans.

16. Þu ert ein Manneskia, og skallt deya! Enn med þvi, ad þu ert Vollduguꝛ a Jordunne, þa giorer þu hvad þu villt. Enn þu skallt ecke hugsa ad GUD hafi med øllu yfergiefid oss.

17. Bijd eina litla Stund, þa skalltu finna Hvorsu Megtugur GUD er, sem skal plaaga þig og þijna Ætt.

18. Epter þennann leiddu þeir hinn Siotta framm, Hann sagde og so j sijnu Andlaate, Þu skallt ecke so svijkia mig, þviad vier hofum vel verdskulldad þessa Pijnu, af þvi vier hofum syndgad a mooti Vorum GUdi, og Hann breyter hrædelega vid oss.

19. Enn þad skal ecke so ganga þier, ad þu æder so j moote GUde.

20. Enn þad voru stoor undur um Moodurena, og er eitt Epterdæme sem vel er verdugt ad skrifast skuli um hana, þviad hun saa sijna Sis Sonu alla Pijnda a einum Deige, hvorn epter annann, og leid þad med mikellre Polennmæde, vegna þeirrar Vonar sem hun hafde til Guds.

21. Af þvi vard hun hughraust, so ad hun huggade hvorn Sonenn epter annann, a sitt Tungumoal, og took Manns Hiarta til sijn, og sagde til þeirra.

22. Eg er ad vijsu ydar Mooder, og fædde ydur, enn Anda og Lijf gaf eg ydur ecke, eige helldur giørdi eg ydar Limu.

23. Þar fyrer skal Sa sem skapade Heimenn og allar Manneskiur, Miskunsamlega giefa ydur aptur Anda og Lijf, Lijka so sem nu voged þier þvi ut, og laated þad fara vegna Hans Løgmoals.

24. Pa Antiochus heyrde þad, þa meinte hann, ad hun hefde foraktad og spottad hann a sitt Moal, og hann took þann Yngsta Son fyrer sig, sem enn var epter, og aaminnte hann med goodum Ordum, og lofade hønum med Eide, ad ef hann villde ganga fra sinna Fedra Løgmoale, þa villde hann vera hønum eirn naadugur Herra, og hann villde giøra hann rijkann, og ad einum Herra.

25. Enn sem hann villde ecke laata sier segiast, þa liet Kongurinn Moodurena koma fyrer sig, og bad hana, ad tala um fyrer Syne sijnum, so ad hann mætte Lijfe hallda.

26. Pa hann hafde bedid hana þar um med mørgum Ordum, so lofade hun þad ad giøra, enn hun daarade ad eins Vijkinginn.

27. Þviad hun gieck til Sonarins, og talade vid hann heimuglega a sitt Moal, og sagde, Þu mitt Hiartans Barn! sem eg bar

Niju Mcanude under mijnu Hiarta, og hafde þig Þriu Aar a Brioste, og uppfædde þig med storu Omake, Sioa þu aumur a mier!

28. Sioa þu! Himenenn og Jordena, og allt þad sem þar er jnni þad hefur Gud allt-samann giort af sngvu, og vier Manneskiur-nar erum so giordar.

29. Þar fyrer hrædstu ecke Kvalarann, helldur deydu giarnann, lijka so sem þijner Brædur, so ad Sa Noaduge Gud giore þig Lifanda aptur med þijnum Brædrum, og giefe mier ydur aptur!

30. Þegar Moderinn var enn nu ad tala so vid sinn Son, þa sagde Barnid, Epter hvoriu bijded þier? Hugsed þier ecke þad, ad eg mune hlijdenn vera þeim Vijkinge j þessu, helldur vil eg hallda Logmoalid, sem vorum Fedrum er giefid fyrer Mosen.

31. Enn þu sem giorer Gydingum allt Illt, þu skallt ecke flya undan DROTTne Gude Vorum!

32. Vier lijdum vegna vorra Synda, þad er vijst.

33. Og þo ad Sa Lifande Gud sie oss rei-dur um stundarsaker, og straffe og hirte oss, þa mun hann þo verda sijnum Þienurum Lijknsamur ad nyu.

34. Enn þu hin Ogudlega Bolvada Man-neskia! Upphroka þier ecke ofmiog af þinne Magt, og stær þig ecke af þinne fallvolltu Von, ad þu offæker Guds Born.

35. Þviad þu hefur enn nu ecke umfluid þess Almoattuga Guds Dom, sem alla Hlute sier.

36. Mijner Brædur, sem lietu Pijna sig um litla Stund, þeir vænta nu Eylijfs Lijfs, epter Guds Fyrerheite, enn þu munt straffast epter Guds Dome, lijka so sem þu hefur forskull-dad med þijnum Metnade.

37. Eg vil utgiefa minn Lijkama og Lijf vegna minna Fedra Logmoals, so sem mijner Brædur, og kalla til Guds, ad hann verde snarlega Miskunsamur sijnu Folke. Enn þu munt verda ad medkienna sialfur, ut af storre Kvol og Pijnu, ad hann sie alleinasta Sa Sanne Gud.

38. Enn Guds Reide skal snuast til mijn og minna Brædra, hvor ed maklega er geingenn yfer allt vort Folk.

39. Þegar Kongurinn heyrde þetta, þa vard hann Odur og ær, og liet kvelia þennann meir enn hina adra, þviad honum gramdist þad, ad þeir doarudu hann þar ad auk.

40. So andadist og Þesse Agiætligum Dauda, og sette allt sitt Traust til Guds. Ad sijdurstu var og Modurinn af-lijfud.

41. Þetta er nu nog sagt um þær Heidnu Fornfæringar, og þær hrædelegu Pijsler.

## VIII. Capitule.

Enn Judas Maccabeus, og hans Lags-Menn, geingu heimuglega hingad og þangad um Borger, og kolludu sijna Ett-Menn til samans, og adra þa sem stoduger voru j Gydinganna Tru, so ad hann fieck nær Sex Þusund Manna til samans.

2. Og þeir badu til Guds, ed Hann villde aalijta þad auma Folk sem plagad var af hvorium Manne, og miskuna sig yfer Musterid, hvert ed þeir O-gudlegu Menn hofdu saurgad, og yfer þa fordiorfudu Borg, sem med ollu var j Eyde.

3. Og ad Hann villde þo heyra þad saklausa Blod, sem til Hans hroopade.

4. Og minnast a þaug saklausu Smoa-Born sem j mote ollum Riette voru myrdt, og hefna Hoadungar Sijns Nafns.

5. Og Judas Maccabeus, og hans Flockur ploagade þa Heidnu miog, þviad DROttenn liet af sinne Reide, og vard þeim Lijknsamur ad nyu.

6. Hann yferfiell ovarlega Stade og Kauptun, og sette Elld þar j, og jnntok þa Hagkvæmustu Stade, og giorde storann Skada Ovinunum.

7. Enn optast giorde hann þetta um Nætur, so ad Menn vissu vijdt og breidt af hans Manndoms-Verkum ad segia.

8. Enn sem Philippus sca, ad hann vard sterkare og sterkare, med þvi ad hønum luckadist þetta, þa skrifade hann til Ptolomeum, Høfuds-Manns j Nedra Syrlande og Phenice, og bad hann um Lids-Afla, þviad Konginum læge þar stor Magt a.

9. Da sende Ptolomeus ut sinn besta Vin, sa hiet Nicanor, Patrocli Son, og med hønum Tuttugu Pusunder Manna, ad asmoa Gydinga-Lyd med ollu, og fieck hønum eirn Høfuds-Mann til sijn, sa hiet Gorgias, eirn reyndur Bardaga-Madur.

10. Enn Nicanor hugsade sier, ad utvega þa Peninga af þeim Herteknu Gydingum, sem Kongurinn var þeim Romverium aarlega skylldugur ad giefa, sem var Tvo Pusund Centener.

11. Þar fyrer sende hann jafnsnart Bod, hingad og þangad um Borgernar vid Sioenn, og liet uthropa, Hvorsu ad hann villde selia Gydingana, Nijutijger Gydinga fyrer eitt Centener, þviad hann hugsadi ei ad Guds Hefndar Straff være hønum so naalægt.

12. Da Judas spurde þesse Hernadar-Tijdinde, um Nicanor, þa tioade hann þad sijnum Gydingum sem hioa hønum voru, ad þar kiæme eirn Her.

13. Og þeir sem voru Blaud-Hiartader, og høfdu ecke Traust a Gude, ad Hann munde straffa, þeir hlupu og flydu j burt.

14. Enn hiner adrer selldu allt þad þeir aattu, og badu til DROTTins, ad Hann villde frelsa þa, hvoria Nicanor hafdi sellt, aadur enn þad hann hafdi þa hertekid.

15. Og ef Hann villde ei giora þetta þeirra vegna, þa villde hann þad þo giora vegna þess Saattmaala sem Hann giort hafde vid Fedur þeirra, og fyrer sakir sijns Dijrdarsamlega mikla Nafns, epter hvoriu þeir eru nefnder.

16. Da Maccabeus hafde nu samannsafnad sijnum Mønnum, sem voru nær Sex Pusunder, þa aaminti hann þa j firstu, ad þeir skylldu ei vera hrædder fyrer Ovinunum, og ottast ei þann mikla Fiølda Heidingianna, sem þa plaagudu Orettelega.

17. Helldur veria sig dreingelega, og hugsa um þa Smaan, sem þeir høfdu giort þeim Heilaga Stad, og Hvorsu þeir høfdu hædt og plaagad Stadinn, og aftekid Løgmaalid.

18. Þeir treysta (sagde hann) a sijnar Bryniur, og eru fuller Osstopa, Enn vier treystum uppa Þann Almaattuga Gud, hvort ed a einu Augabragde kann nidur til Jardar ad slaa, ei ad eins þa sem nu raadast j moti oss, helldur jafnvel allann Heimenn.

19. Hann frammtalde og fyrer þeim allar Historiur, Hvorsu Gud optlega Miskunsamlega hiaalpad hefde þeirra Fedrum, Hvorsu ad Senacherib, med Hundrad Fimm og aattatijger Pusunder Manns, var a eirnre Nott slegenn.

20. Hvorsu þad gieck til j Babylon, j Orustunne, mote þeim Galatis, j hvilijka Neyd þeir komu aller, aatta Pusund af Gydingum, og Fiogur Pusund af Macedonium, Hvorsu þeir Macedonii stodu kirrer af Hrædslu, Enn aatta Pusund Gydinga alleina, med Hiaalp Guds, felldu Hundrad og Tuttugu Pusunder Manna, og feingu so Ofur-Fioar þar med.

21. Da hann hafde nu med soddann Ordum uppherdt þeirra Hug, so ad þeir voru Reidubuner ad deya vegna Løgmaalsins og sijns Fosturlands,

22. Da giorde hann Fiorar Fylkingar, og skipade sijna Brædur fremst j Briost-Fylkingar, ad þeir skylldu silgia þeim framm, sem voru þeir, Simon, Joseph, og Jonathas, og fieck hvorium þeirra Fimmtan Hundrud Manns.

23. Þvi næst liet hann Eleazarum lesa þa Heilogu Book, og gaf þeim eitt Teikn, ad Gud munde hiaalpa þeim, og for so undann ødrum, fremst j Fylkingu, og riedst a vid Nicanor.

24. Enn Almaattugur Gud stod hioa þeim, so ad þeir raaku a Flotta allann þann Her,

Her, og særdu marga, og felldu nær Niju Pusunder Manna.

25. Og foru epter hinum ødrum, sem komner voru til ad kaupa Gydingana, og toku Fied af þeim.

26. Po urdu þeir ad snua aptur samt, þviad þetta var Sabbaths Aftan hinn fyrre, þad var Søkenn, hvar fyrer þeir lietu af ad reka Flottann.

27. Þvi næst ræntu þeir, og toku Vopn og Veriur, og hielldu Sabbaths-Dagenn, Lofande og Vegsamande Gud, sa sem þa hafde vardveitt a þeim Deige, og til var tekenn aptur ad syna þeim Naad.

28. Ad umlidnum Sabbaths-Deigenum skiptu þeir Herfangenu, ut a medal Fatækra Ekkna og Fødurlausra Barna, enn þad auk var, þad høfdu þeir fyrer sig og sijn Børn.

29. Og þeir hielldu eina almennelega Bæn, ad Sa Miskunsame Gud villde olldungis burtsnua sinne Reide fra þeim.

30. Epter þetta attu þeir margar Orustur vid Timotheum og Bacchidem, og j hel slou meir enn Tuttugu Pusunder Manna, og unnu Kastalana, og skiptu Herfangenu med sier, og med udrifnum Fødurlausum Børnum, Eckium og Olldrudum Mønnum, til Jafnadar.

31. Og þa þeir høfdu rænt þa, fluttu þeir Vopnenn j Kastalana, og fluttu eirnenn mikid Herfang til Jerusalem.

32. Og drapu eirn Høfuds-Mann af Timotheo, eirn O-gudlegann Mann, sa ed hardlega plagad hafde Gydingana.

## IX. Capitule.

Um þetta Bil vard Antiochus ad fara ur Persia Lande med Skomm.

2. Þviad þa hann var kominn til Persepolin, og hugdist ad ræna Musterid, og vinna Stadenn, þa toku Borgar-Menn sig upp, og vorduft, og raku Antiochum til Baka, so ad hann hlaut ad snua fra med Skømm.

3. Enn þegar hann var j Ecbatana, þa komu honum þau Tijdinde, Hvornenn þeim Nicanor og Timotheo hafde geingid.

4. Pa vard hann gramur, og hugsade, ad hefna þessarar Smanar a Gydingum, og reiste Dag og Nott, ad hann kiæme sem first þangad, þviad Reide Guds rak hann, af þvi hann hafde so drambsamlega talad, ad jafnsnart sem hann kiæme til Jerusalem, þa skyllde hann giora Stadenn ad eirnre Daudra Manna Gryfiu.

5. Þar fyrer straffade Almattugur DROTTinn Israels Gud hann, med Leynnelegre Plagu, hvoria einginn kunne ad græda. Þviad jafnsnart sem hann hafde ut talad þaug Ord, þa fieck hann soddann Slit j Lijfid, og so storann Verk j Idrenn, ad einginn kunne honum Bot ad rada.

6. Og ad vijsu kom þad maklega yfer hann, af þvi ad hann hafde adra Lyde med marghattudum og fa-heyrdum Pijslum pijndt.

7. Po samt liet hann ei af sinne Drambseme, Helldur var hann þess Olmare, og brann af Illsku til Gydinga, og flytte sier, og j þvi Bile, hann rennde framm, þa fiell hann so hardt af Vagnenum, ad þad tok ut j hvorn hans Lid.

8. Pa vard hann (sem fyrr, af miklum Metnade, liet sier þykia, ad hann villde bioda Siofar-Hafenu, og setia Fiollenn hvort a annad ofann) af einu Falle ad lata bera sig a Børum, so ad hvor sa liosslega Guds Magt a honum.

9. Par uxu og Madkar af þeim bolvada Lijkama, og hann funade med storre Pijnu, ad heil Styckenn fiellu af Lijkamanum, og slijk O-Lykt var af honum, ad einginn kunne hana ad lijda.

10. Og sa sem fyrr liet sier þykia, ad næde uppi Himeninn, þann gat einginn borid vegna olijdanlegrar Fylu.

11. Pa vard hann ad lata af sinne Drambseme, og jata sig, af þvi Gud hafde

so

so ploagad hann, og hans Kvol vard Aetijd meire.

12. Og ad sijdurstu, þa hann gat ei sioalfur leingur lidid þa Olykt, þa sagde hann, Riett er ad Menn audmyke sig fyrer GUde, og ad daudlegur Madur drambe ecke so, ad hann loate sier þykia hann sie Lijkur GUde.

13. Og sa arge Skoalkur hoof upp, og bad til DROTTins, Hvor ecke villde nu leingur vera Honum Lijknsamur.

14. Og hiet, ad þann Heilaga Stad, sem hann hafde oadur hugsad ad asmoa, og ad eirnre Daudra Manna Grof ad giora, villde hann frioalsann loata.

15. Og Gydingana, hvoria Hann hiellt ecke verduga Greftrunar, helldur ad þeir skylldu giefast Fuglum og Dyrum ad oatu, þa villde Hann nu med frij loata vera, so sem Athenu Borgar-Menn.

16. Og þad Heilaga Mustere, sem hann hafde oadur rænt, þad villde Hann pryda med allskins Fegurd, og giefa þangad miklu fleyre Heilog Verkfære, enn þar hofdu fyrr verid, Og hvad þar þurfte til Offurs oarlega, þad villde hann til-loata af sinne eiginn Rentu.

17. Par ad auk skylldi hann vera sioalfur eirn Gydingur, og j ollum Stodum prijsa, og boda Guds Vellde.

18. Enn þegar Siukdomenum villde ecke af honum lietta, þviad Guds Riettlætis Reide var so hardlega yfer hann kominn, þa orvænte hann sier Lijfs, Og skrifade þetta Audmyktar-Brief til Gydinga, sem hier epter filger.

19. Antiochus Kongur og Hofdinge tilbijdur þeim fromu Gydingum sijna Kvediu!

20. Ef ad þier med ydrum Bornum erud hrauster og heilbrigder, og ydur geingur, vel, þad þacka eg GUde, Enn eg em miog siukur.

21. Med þvi ad eg giarnan vil hallda Almennelegann Frid, sem þad gioerest vel Þorf, med þvi eg em nu ordinn siukur a þessare Reisu fra Persia Lande, þa hugsa eg noaduglega uppa ydar Tru og Vinskap.

22. Po ad eg vone ad mier nune batna.

23. Og so sem minn Fader, þa hann reiste um Upp-Lond, þa sette hann Kong epter sig,

24. So ad Menn vissu (ef hann kynne nockud ad skada, edur ef Ofridur uppkiæme) Hvor Herrann skyllde vera, og ad Rijkid ecke skyllde sturlast.

25. So og eg, med þvi eg sie, ad noalæger Hofdingiar stunda epter mijnu Rijke, ef mier jlla geingur, þa hef eg giort minn Son Antiochum ad Konge, Hvorn eg hefe optsinnis ydur trulega bifalad, þa eg hefe j Upplondenn reist, þennann sama bifala eg ydur enn nu.

26. Par fyrer oaminne og bid eg ydur fyrer allra Velgiorninga Saker, sem eg hefe almennelega, og einum og sierhvorium audsynt, Ad þier frammveigis hallded Vinoattu og Tru vid mig og minn Son.

27. Þviad eg vona þess til hans, ad hann skal hegda sier noaduglega, og vinsamlega vid ydur, og filgia mijnum Sidum.

28. So deyde þesse Mordinge, og Gudlastare Antiochus, med stoorum Harm-Kvælum, so sem hann hafdi odrum Monnum giort, j okunnu Lande, og j Eydemorku, med einum Hormulegum Afgange.

29. Og Philippus, sem med honum var uppfostradur, liet jarda hann, Og af þvi ad hann ottadist Antiochi Son, flyde hann j Egypta-Land, til Kongsins Ptolomeum Philometor.

## X. Capitule.

So gaf GUd Maccabeo, og hans Lids-Monnum, þann Hug, ad þeir inntooku Mustered og Borgena aptur.

2. Og nidur rifu hin onnur Olltorinn, og Kirkiur, sem Heidingiar hofdu hier og hvar a Strætunum uppreist.

3. Og

3. Og þa þeir hofdu Musterid hreinsad, þa smijdudu þeir eitt annad Alltare, tooku Elld-Stein og slou Elld, og Foornfærdu ad nyu, hvad ecke var giert j Tvo Aar, og Sex Maanude, og offrudu Reykelsi, og tveiktu a Lompunum, og frammsettu Skodunar-Braudenn.

4. Þa þetta var allt buid, fiellu þeir framm a sijnar Asionur fyrer DROTTne, og baadust fyrer, Ad Hann ecke leingur liete þa koma j slijka Hormung. Helldur ef þeir misgiordu optar Honum a moote, þa villde Hann miskunsamlega straffa þa, enn giefa þa ecke þeim Exulosturum, og grimmum Heidingium j Hendur.

5. Og GUd liet þad so skie, ad Musterid var hreinsad a þeim sama Deige, a hvorium þad var aadur af Heidingium saurgad, sem ad var a þann Tuttugasta, og Fimmta Dag Maanadarins Casleu. Og þeir hielldu Heilagt med Fognude j aatta Daga, so sem Lauf-Skaala Haatijd.

6. Og minntust þar a, ad þeir fyrer litlu hofdu halldid þeirra Lauf-Skaala Haatijd j Eyde-Stodum, og j Hellerum, so sem Villu-Dyr.

7. Og þeir baaru Brum, og græna Kvistu, og Palm-Vidu, lofandi GUd, sem þeim hafdi Sigurinn giefid, ad hreinsa Hans Mustere.

8. Þeir lietu og eitt Bod utganga um allt Juda Umdæme, ad Menn skylldu hallda aarlega Haatijd a þessum Dege.

9. So hafde Antiochus hinn Gofge eirn Enda-Dag.

10. Nu epter-filger um Antiochum Evpator, Hins Ogudlega Antiochi Son, hvad fyrer Ofridi verid hefur under honum, Atijd.

11. Þa Evpator var Kongur, sette hann Lysiam til hins hærsta Hofdingia, sa fyrr var Hofuds-Madur j Phenice, og Coelo-Syria.

12. Enn Ptolomeus Macron, sa sem giarnann hlijft hefde Gydingum med Riette, af þvi ad þeir hofdu þangad til lidid so mikid Ofrijke og Oriettinde, hann kostade Kapps a, ad Menn skylldu laata þa j Fride vera.

13. Þar fyrer klogudu hans Viner hann fyrer Evpator, og kolludu hann opinnberlega eirn Forrædara, af þvi, ad hann hafde uppgiefid Eyna Cyprus fyrer Antiocho hinum Gofga, hvoria Philometor hafde honum bifalad, og hann hlaut ad hafa minne Bifalning, þad fieck honum slijks Hugar-Angurs, ad hann deydde sialfann sig med Eytre.

14. Þa Gorgias var nu Hofuds-Madur yfer þeim somu Stodum, safnade hann Strijds-Folke, og lagde sig sierdeilis j moote Gydingum.

15. Þad sama giordu og Edomitar, hvar sem þeir gaatu, þa utraaku þeir Gydingana af Kostolunum, og hagstædum Borgum, og tooku til sijn þa af-follnu Gydinga, sem utrekner voru af Jerusalem.

16. Þa kom Maccabeus og hans Flockur til samans, og baadu, ad Gud villde hiaalpa þeim.

17. Og þeir fiellu jnn j fastar Borger þeirra Edomita, og unnu þær med Vallde, og j helslou alla þa sem gripu til Vopna a Murunum, og adra þa sem þeir gaatu yfer-komist, so ad þad voru Tuttugu Þusunder.

18. Enn Niju Þusunder flydu undann þeim j Tvo sterka Turna, hvorier ed buist hofdu vid Ofridar-Storme.

19. Þa sette Judas Maccabeus, Simon, Joseph og Zacheum, og liet epter hia þeim so mikid Folk, ad þeir hofdu nogann Lids-Afla ad storma, enn hann reiste sialfur fyrer adrar Borger.

20. Enn sa Flockur sem var hia Simon liet snua sier med Fie, af þeim sem j Turnunum voru, og medtoku af þeim Fimtan og Tuttugu Þusunder Gyllene, og lietu þa fara burt.

21. Þa Maccabeus spurde þad, kallade

hann Hofuds-Mennena til samans, og aakla gade þessa, ad þeir hefde sellt sijna Brædur fyrer Fie, og lietu Ovinena komast j burt.

22. Og hann liet lijflaata þa so sem Svikara, og stormade jafnsnart til þeirra Tveggia Turna.

23. Og þad luckadist honum, og hann j hel slo, j þeim baadum Kostulum, meir enn Tuttugu Þusunder Manna.

24. Enn Timotheus, hvor Gydinga hafde aadur slegid, bioo sig til med miklu Lide af Utlendsku Folke, og safnade miklu Riddara-Lide ur Asia, og kom þeirrar Meiningar, ad hann villdeølldungis afmaa Gydinga.

25. Og þa hann kom til Landsins, þa bad Maccabeus og hans Flockur til DROttins, dreifande Osku yfer Hofud sier, og jklæddest Seckium.

26. Og fiellu framm fyrer Alltarenu, og baadu, ad Gud villde vera þeim miskunsamur, enn Ovinunum gramur, og setia sig j mote þeim, sem sig uppreiste j mot þeim, so sem j Logmaalenu skrifad stendur.

27. Þa þeir hofdu nu so lokid sinne Bæn, toku þeir sijnar Veriur, og reistu langann Veg ut af Stadnum, þar til þeir mættu Ovinunum.

28. Og jafnsnart sem Soolenn gieck upp, tokst þar Bardage, þo þar være Lids-Munur, þviad Gydingarner hofdu oruggt Traust til DROttins (sem er Vijst Sigur-Merke) enn hiner adrer hofdu þad uppbyriad af einum samann Offstopa og Drambseme.

29. Þegar Bardagenn var nu sem hardastur, þa birtust Ovinunum af Himne Fimm Menn vegleiger, a Hestum, hafande Gull Beisl, Þeir foru framm undann Gydingum, og Tveir voru hiaa Maccabeo, og hlijfdu honum med sijnum Vopnum, so ad eingenn gat komid Skare a hann.

30. Og þeir skutu Orvum og Elldingum ad Ovinunum, so ad þeir urdu blinder, og flydu.

31. Og þar fiellu Tuttugu Þusunder og Fimm Hundrud Fotgaungu Lids, og Sex Hundrud Riddarar.

32. Þa flyde Timotheus til Gazara, j eina sterka Borg, hvoria Hofuds-Madurinn Chereas hafde jnne ad hallda.

33. Maccabeus og hans Lid laa þar fyrer j Fiora Daga.

34. Enn Borgar-Menn treystu þar a, ad Borgenn laa so haatt, og hæddu og spottudu þa miog ur Maata.

35. Enn a þeim Fimta Dege urdu Tuttugu Unger Menn reider, vegna slijkrar Haadungar, og hlupu all-dreingelega ad Murveggnum, og stormudu uppa hann, og þeir draapu, j sinne Grimmd, allt þad sem fyrer þeim vard.

36. Hiner adrer komu þa epter þeim, og komust j Stadinn, og settu Elld j Turnenn, og uppbrenndu þa Guds Spottara.

37. Adrer hiuggu upp Portinn, so ad allt Lidid kiæmist jnn, og so unnu þeir Stadinn, og draapu Timotheum þar hann hafde geymt sig, j einne Gryfiu, og Cheram, hans Brodur, og Apollophanem.

38. Epter þetta allt giort Vegsomudu þeir Gud med Lof-Saungum, sem Israel hafdi veitt slijka Velgiorninga, og giefid þeim Sigur.

## XI. Capitule.

Þa Lysias Kongsins Fostre og Frænde, og Ypparsta Raad friette allt þetta, mislijkade honum þad miog.

2. Og hann safnade aattatijger Þusundum Manna, og ollu Riddara-Lidenu, og reiste j mote Gydingum, þeirrar Meiningar, ad hann villde skipa Borgena med Heidingia.

3. Og hafa Mustered til sinnar Gagnsemdar aarlega, so sem onnur Heidinn Mustere, og Prests-Embættid aarlega ad veita.

4. Enn hann hugsade ei, ad Gud er megtugre, Helldur dreissade hann af sijnu mikla Lide, sem hann hafde rijdande og gangande, og af aattatijgu Fijlum.

5. Þa hann var nu komenn jnn j Gydingaland, setteſt hann um eirn Stad sem kal-

last Bethzura, sem l☐a fra Jerusalem nær Fimm Skeida Rum, hi☐a einu Fialle.

6. Enn þegar Maccabeus, og hans Lid, heyrde, ad hann stormade uppa Stadenn, þa bad hann, og allt Lidid, med Andvarpan og Grꝏte til DROTTens, ad Hann villde senda eirn Eingel sem hi☐alpade Israel.

7. Og Maccabeus var hinn firste sem bio sig til, og ☐aminnte adra, ad þeir skylldu voga sier med honum, og hi☐alpa þeirra Brædrum, Og þeir foru so ut hvør med ødrum.

8. Og jafnsnart sem þeir komu ut fyrer Borgena Jerusalem, þa byrtest þeim eirn Madur rijdande, Hann var klæddur hvijtu Klæde, og hafde eina Gullega Bryniu, og reid undann þeim.

9. Þa vegsømudu þeir aller þann Miskunsama Gud, og urdu hugdiarfer ad sl☐a Ovinena, þo ad þeir være þaug Olmustu Dyr, og hefde Jarn-Vegge fyrer sier.

10. Med slijkre Hugar-hreyste for allur Herenn framm, med sijnum Hi☐alpar-Manne, er Sa Miskunsame Gud hafde sendt þeim.

11. Og þeir fiellu yfer Ovinena, so sem Leon, og slou j hel af þeim Ellefu Þusunder Fotgaungu-Lids, og Sextan Hundrud Riddara.

12. Og þeir r☐aku alla hina adra a Flotta, so ad flester af þeim sem undann komust urdu s☐arer.

13. Og Lysias flyde si☐alfur med Sneipu, og komst undann. Enn Lysias var eirn forstandigur Madur. Þa hann hugsade nu med si☐alfum sier um sinn O-Sigur, og s☐a, ad Gydinga-Folk var O-vinnande, med þvi, ad Alm☐attugur GUD stood so hi☐a þeim,

14. Þa sende hann til þeirra, og baud þeim Frid, og hiet þeim þar med, ad hann villde koma þvi til Leidar hi☐a Kongenum, ad hann yrde þeirra goodur Vinur.

15. Þetta liet Maccabeus sier vel lynda, þviad hann s☐a, ad þad var best, og Kongurinn samþyckte þessa S☐att, sem Lysias hafde giort vid Maccabeum og Gydinga.

16. Og þad Brief sem Lysias skrifade til Gydingum, var so l☐atande. Lysias sender Gydingum sijna Kvediu!

17. Johannes og Absalom, ydrer Sende-Menn, hafa borid oss eitt Brief, og bedid um þad M☐alefne, Hvørs vegna þeir voru utsender.

18. Hvad sem nu var Kongenum undervijsande, þad hef eg giort, og hann hefur samþyckt allt þad sem nytsamlegt er.

19. Ef þier halldid nu Tru og Tryggd, þa vil eg frammveigis Kapps a kosta, ad vera ydur til hins Besta.

20. Og miner og ydrer Sende-Menn, hafa enn meire Bifalning ad undervijsa ydur, um hvøria Grein sierdeilis, Hier med ydur GUde bifalande!

21. Giefid a þvi Hundradasta, Fertugasta og ☐attunda Aare, a þann Tuttugasta og Fiorda Dag Dioscori M☐anadar.

22. Kongsins Brief var so l☐atandi. Kong Antiochus tilbydur sijnum Brodur Lysia sijnu Kvediu!

23. Med þvi ad vor Fader er hier vidskilenn, og eirn Gud ordenn, þa er oss eingenn Hlutur kiærare, enn ad þar kunne ad blijfa Fridur j voru Rijke, so ad hvør Madur meige sijns giæta.

24. Nu heyrum vier, ad Gydingar hafa ecke viliad samþyckia Umbreiting sinnar Guds-Þionustu j Heidna Sidu, vilia helldur blifa vid sijna Tru, og bidia þess-vegna, ad þeir meige þar vid blijfa.

25. Nu med þvi, ad oss lijkar vel, ad þetta Folk life med Fride, og sie kirrt, Þa er vor Meining su, ad þeim sie giefid aptur þeirra Mustere, og þeir hafe sijna Valld-Stiorn og Sidveniur, so sem þeirra Forfedur hafa halldid.

26. Þar fyrer send nockra Menn til þeirra, og gior Frid vid þa, so ad þeir meige vera ohrædder um sig, og taka Vara uppa þvi sem þeir eiga ad giora ☐ahyggiulaust, þegar þeir vita vora Meining.

27. Kongs Brief til Gydinga hlyder so. Antiochus Kongur tilbydur R☐adenu, og Almuganum Gydinga-Lyds sijna Kvediu!

28. Ef ydur geingur ollum vel, þad heyrum vier giarnann, oss geingur enn nu vel.

29. Menelaus hefur undervijsad oss, ad þier girnest ad reisa j vort Land, ydar Erinde hioa oss ad frammkvæma.

30. Þvi skulu aller Gydingar, sem ferdast fra þessu, og til hins Prijtugasta Dags Aprilis, hafa frij og fullkomlegt Fararleyfe, ad hallda sig med Mat og adra Hlute, epter þeirra Logmaale, so sem aadur.

31. Einginn skal og þess giallda, sem hier til Dags hefur giort verid oss a moote.

32. Til Merkis hier um, sende eg Menelaum til ydar, ad hann skal enn framar meir undervijsa ydur hier um.

33. Hier med ydur Gude bifalande! A þvi Hundradasta, Fertugasta og aattunda Aare, þann Fimmtanda Dag Aprilis.

34. Romveriar sendu og eirnenn Gydingum so laatande Brief.

35. Qvintus Mutius, Titus Manlius, Sende-Menn Romveria, tilsegia Gydingum sijna Kvediu!

36. Allt þad sem Lysias, Kongsins Frænde hefur ydur unnt, þa samþyckium vier og eirnenn. Og af þvi, ad honum þyker raadlegt vera, ad Menn laate senda med nockrar Greiner til Kongsins, þa takid ydar Raad samann, og sendid nockra Menn til vor, med þad Firsta, so ad oss meige samann koma, Þviad vier reisum nu til Antiochiam.

37. Þvi hradid ydur, og sendid nockra Menn hingad, so ad vier skaum ad vita hvad ydur er til Sinnis.

38. Hier med ydur Gude bifalande!

## XII. Capitule.

A þvi Hundradasta, Fertugasta og aattunda aare, þann Fimmtanda Dag Aprilis, Þa þesse Saattargiord var so samþyckt, reiste Lysias til Kongsins, Og Gydingar giættu sinnar Akur-Vinnu og Næringar.

2. Enn Hofuds-Menuerner yfer þeim somu Takmorkum, Timotheus og Apollonius, Sonur Apollonii hins Gofga, og Hieronymus og Demophon, aasamt Nicanor, Hofuds-Manne j Cyprus, lietu þa ongvann Frid nie Hvijld hafa.

3. Og þeir j Joppen giordu eitt Nijdings-Verk, Þviad þeir toludu um fyrer þeim Gydingum sem a medal þeirra bioggu, ad þeir skylldu stijga a þaug Skip, sem af þeim voru tilbuenn, med þeirra Kvinnum og Bornum, lijka so sem ad hefdu þeir verid þeirra gooder Viner.

4. Þa ed Gydingar giordu nu þetta, so sem ad samþyckt var j Stadnum, og ottudust ongvann Ofrid, og er þeir komu ut a Sioenn, þa dreckttu þeir þeim ollum, og þeir voru nær Tvo Hundrud Personur.

5. Þa Judas heyrde þetta, Hvorsu grimmlega þeir hofdu handtierad vid hans Brædur; þa baud hann sijnum Monnum ad vera uppe, og kallade til Guds Þess Riettlaata Domara.

6. Og riedist j moote þeim sem myrdt hofdu hans Brædur, og sette Elld j Borgar-Hlidenn um Nott, og uppbrennde oll Skipenn, og alla þa sem j Borgar-Hlidenu voru drap hann med Sverde.

7. Enn af þvi, ad Stadurinn var tilluktur, þa reiste hann þar fra, j þeirre Meiningu, ad hann villde snart aptur koma, og nidurbriota Stadenn.

8. Honum var og sagt, ad þeir j Jamnia hefde slijkt j Sinne, ad giora þeim Gydingum sem medal þeirra bioggu.

9. Þar fyrer fiell hann og eirnenn yfer þa um Nott, og uppbrennde þeirra Borgar-Hlid og oll Skip, So ad Elldurinn saast til Jerusalem, Hvor ed þo liggur þar fra Tvo Hundrud og Fiorutijger Renne-Skeid ad Vega-Leingd.

10. Epter þad reiste hann enn niju Renne-Skeid framm leingra, j moot Timotheo, Þar mættu honum Fimm Þusund Arabiar, og Fimm Hundrud Riddarar, og aattu Orustu vid hann, og þar vard mikid Mann-fall.

11. Enn Judas og hans Lid hafde Sigur, fyrer Gudlega Til-Hiaalp. Og af þvi, ad þeir Arabiar fiellu, þa baadu þeir um Frid, og hietu ad giefa honum Kvik-Fie, og veita honum eirninn adra Hiaalp.

12. Enn Judas hugsade, sem og satt var, ad þeir mundu vera honum nytsamleger, og gaf þeim Grid. Og þa þeir hofdu þad med Fastmælum bunded, reistu þeir heim aptur.

13. Hann fiell og yfer eina þa Borg, sem med Bryggium var vel umverndud, og tilluкt med einum Stein-Vegg, j hvorium Stad ad margra-handa Folk byggde, og Stadurinn hiet Caspin.

14. Enn Borgar-Menn treystu uppa sijna sterku Mur-Vegge, og sijnar miklar Vister, og skeyttu ei miked Juda, nie hans Monnum, Joa, þeir daarudu hann þar ad auk, og lostudu hann, og formælltu honum þunglega.

15. Þa aakallade Judas, og hans Lid, Þañ Maattuga DROttinn allrar Verolldar, Sa sem j Josua Tijd um Koll kastade Jericho, aan allra Strijds-Vopna.

16. Og þeir renndu ad Murveggnum med Grimmd, og unnu so Stadinn, og draapu oteliande Menn þar jnne, so ad Fiske-Vatnid sem þar laa j Naand, og var Tveggia Renne-Skeida breidt, syndist allt so sem Blood.

17. Epter þetta droogu þeir enn leingra-framm, Sio Hundrud og Fimmtijger Renne-Skeid, og komu til þeirra Gydinga j Charah, sem kallast Thubiani.

18. Enn Timotheum fundu þeir ecke, þviad hann hafde haft sig þadann erendislaust, utann þad hann hafde setst hardlega um eirn Stad.

19. Þa tooku sig Tveir Hofuds-Menn upp, af Maccabei Selskap, sem var Dositheus og Sosipater, og draapu nidur alla þa sem Timotheus hafde epter laatid Stadnum til Varnar, meir enn Tiju Þusund ad Fielda.

20. Þa skipade Maccabeus Lide sijnu, og skipte þvi j nockra Flocka, og reiste j moot Timotheo, hvor ed hafde Hundrad og Tuttugu Þusund Foot-Gaungu-Lids hia sier, og Fimtan Hundrud Riddara.

21. Eñ sem Timotheus formerkte, ad Judas riedst j moote honum, þa sende hann Born og Kvinnur, og þad sem ecke var duganlegt til Strijds, j eirn Stad sem hiet Carnion, hann laa a medal þrongra Fialla, so ad hann vard ecke umkringdur.

22. Enn sem hann fieck ad sia þa Firstu Fylking Maccabei, þa fiell ein Hrædsla og Otte yfer Ovinena. Af þvi, ad Sa var j moote þeim, og liet sig sia, sem alla Hlute sier, og þeir tooku til ad flya, eirn hingad, enn annar þangad, so ad þeir skodudu og særdu sialfa sig jnnbyrdis.

23. Enn Judas filgde fastlega a epter, og sloo þa O-gudlegu, og drap af þeim nær Þriatijger Þusunder Manna.

24. Og Timotheus kom j Hendur þeim Dositheo og Sosipatro, og bad þa mikelega, ad þeir slæge sig ecke j hel, þviad hann hafde marga af þeirra Fedrum og Brædrum, sem og eirnenn hefde drepner vered, hefde hann vered lijflaatenn.

25. Þa hann hafde nu trulega þvi lofad, ad hann villde giefa þa lausa, oskaddada, a tilsettann Dag, þa lietu þeir hann lausann vegna sinna Brædra.

26. Epter þad reiste Maccabeus til Carnion, og Atargation, og draapu þar nær Fimm og Tuttugu Þusunder Manna.

27. Epter þessa Reisu og þennann Bardaga, reiste Judas fyrer þann sterka Stad Ephron, j hvorium ad Lysias var, og Fiolde annars Folks. Enn þeir Yngis-Menn, sem fyrer Stadnum stoodu, vordust dreingelega, þviad þeir hofdu Skot-Vopn og Verjur nogar.

28. Þa kolludu þeir til DROttins Sa ed med Vallde sundurbrytur Ovinanna Styrkleika, og unnu Stadenn, og draapu þar Fimm og Tuttugu Þusunder Manna.



29. Þvi

29. Þvi nærſt reiſtu þeir þadann til Borgar þeirra Scythis, ſem liggur fra Jeruſalem Sex Hundrud Skeida-Rum.

30. Enn af þvi, ad Gydingar, þeir ſem hioa þeim Scythis biuggu, baaru þeim þad Vitne, ad þeir hefde alla Vinaattu ſynt þeim j þeirre aafellis-Tijd, þa voru þeir og vid þa Vinſamleger.

31. Og þackudu þeim þar fyrer, bidiande þa, ad þeir og ſo frammveigis være godviliader vid þeirra Folk, Og þeir komu ſo aptur til Jeruſalem, riett a ſiaalfa Hvijtaſunnu.

32. Enn epter Hvijtaſunnu riedust þeir j mote Gorgia, ſem var Hofuds-Madur þeirra Edomita.

33. Hann mætte þeim med Þriu Þuſund Fotgaungu-Lids, og Fiogur Hundrud Riddara Lids.

34. Og þa er Bardagenn hooſſt, þa fiellu faaer Gydingar.

35. Og Doſitheus, eirn öflugur Riddare, af Flocke Bacenoris, naade Gorgias, og hiellt j hans Kyrtil, og leidde hann med Vallde, viliande fanga hann lifande, Enn eirn Riddare af Thracia rennde ad honum, og hio af honum Hondena, ſo ad Gorgias flyde þadann til Moreſa.

36. Nu ſem Gorgias Lid vardiſt leinge, og Neyd var fyrer Hondum, þa kallade Judas til DROTTins,

37 Ad Hann villde hiaalpa þeim, og beriaſt fyrer þa, og hann kallade til ſijns Folks a Hebreſku, og uppbyriade eirn Lof-Saung, þa ſnere Gorgias Lid a Flotta oforvarandis.

38. Og Judas reiſte med ſijnu Lide j þann Stad Odollam, Og med þvi, ad Hvijtaſunnu Vika var, þa hreinſudu þeir ſig epter Logmaalenu, og hielldu þar j ſama Stad Sabbaths-Dagenn.

39. Annars Dags þar epter komu þeir til Juda, ad ſækia ſijna enu frammlidnu, ſo ſem Sidur er til, og grafa þa hioa þeirra Fedrum.

40. Þa þeir foru nu ut, þa fundu þeir hioa ſierhvorium þeirra ſem ſlegner voru, under Skyrtunne, Hnoſs, af Skurgodum ur Jamnia, hvad Gydingum var j Logmaalenu fyrerbodid. Þa vard hvorium Manne auglioſt, hvar fyrer þeir hofdu fallid.

41. Og þeir giordu Gude Þeim Riettlaata Domara Þacker, Sa ſem liet þad leynda ſo opinnbert verda.

42. Og baadu Hann, ad hann ecke fyrer þeſſa Synd afmaade þa alla, Og Kappenn Judas aaminnte Flockenn huggunarſamlega, ad þeir ſkylldu giæta ſijn frammveigis fyrer Syndenne, þad firſt þeir ſæe þad fyrer ſijnum Augum, ad þeſſer hefde vegna ſinna Synda j hel ſlegner verid.

43. Þvi nærſt bad hann þa ad leggiá nockurn Peninga-Stirk til ſamans, Tvo Þuſund Drachmas Silfurs, þad ſende hann til Jeruſalem til Synda-Offurs, Og hann giorde þad vel og fijnlega, ad hann giorde eina Aminning um Uppriſuna.

44. Þviad hefde hann ei vonad, ad þeir j hel ſlegnu munde uppaptur rijſa, þa være þad til Onytis, og ein Heimſka ad bidia fyrer þeim framnlidnu.

45. Enn af þvi hann hugſade, ad þeir ſem deya j riettre Tru, eiga Fagnadar og Saaluhiaalpar ad vænta, þa hefur þetta verid ein god og heilog Meining.

46. Þvi hefur hann og ſo bedid fyrer þeſſum frammlidnu, ſo ad þeim yrde Syndernar fyrergiefnar.

## XIII. Capitule.

A Þvi Hundradaſta, Fertugaſta og Nijunda Aare, ſpurde Judas og hans Menn þau Tijdende, ad Antiochus Evpator fære med mikellre Magt j Gydinga-Land.

2. Og Lyſias, hans Foſtre, og Ædſta Raad med honum, og hann hefde Hundrad og Tiju Þuſunder af Griſku Fotgaungu-Lide, og Fimm Þuſund og Þriu Hundrud Riddara, og Tvo og Tuttugu Fijla, og Þriu Hundrud Vagna Jaatne ſlegna.

3. Me-

3. Menelaus gaf sig og so til þeirra, og manade Antiochum til med miklum Fagurmælum, ad fordiarfa sitt Fodurland, so ad hann a þann Hꜳtt feinge þad Ypparsta Prests-Embætte.

4. Enn Kongurenn allra Konga uppvakte Antiochi Sinne, so ad hann straffadi þann fraſnuenn Skalk, þviad Lysias ꜳvijsade honum, Hvørnenn hañ være Søk og Efne til alls þessa Skirrleika. Þar fyrer liet hann flytia hann til Berea, og j þeim sama Stad lijflꜳta hann, epter þeirra Lands Vijsu,

5. Þviad þar var eirn Turn, Fimmtiju Alna ad Hæd, fullur Øsku, og ofan a þeirre Øsku stod eitt umhlaupande og Jarnsleiged Hiol.

6. Þar uppa voru steglder Gudlastarar, og Storbrota Menn.

7. Slijkum Dauda hlaut sa Nijdingur Menelaus ad deya, og verda ecke jardadur, og þad skiede hann maklega.

8. Þviad med þvi hann so optsinnis syndgade j mote Herrans Alltare, þar sem var Sa Heilage Elldurenn og Askann, þvi hlaut hann og a Øsku lijflꜳtenn ad verda.

9. Enn Kongurenn var miøg gramur ordenn Gydingum, og ætlade sier ad plꜳga þa eins grimmlega, og hans Fader hafde giort.

10. Þetta merkte Judas, og hann baud ollu Folkenu, ad þad skyllde Dag og Nꜳtt ꜳkalla DROTTinn, ad Hann villde so nu, sem opt ꜳdur, veita þeim Hiꜳlp j mote þeim sem ræna villdu þa Løgmꜳlenu, Fosturlandenu, og þvi Heilaga Mustere.

11. Og Hann villde ecke giefa bølvudum Heidingium j Hendur þad Folk sem litla Vidrietting hefde feinged.

12. Þa þeir hofdu nu med einum Huga þetta giort, aller hver med odrum, og bꜳdu þann Miskunsama Gud med Tꜳrum, fastande, og lꜳgu heila þria Daga a Jordu, þa huggade Judas þa, og baud þeim til sijn ad koma.

13. Og þa hann og Ølldungarner voru til samans komner, þa kom þad ꜳsamt med þeim, ad hann skyllde reisa j mote Kongenum, og lꜳta sverfa til Stꜳls med Guds Hiꜳlp, fyrr enn hann kiæme j Gydinga Land, med sinn Her, og ynne Borgena.

14. Og hann fal sig so Gude, og Hugreyste so sitt Lid, ad þeir skylldu beriast hreystelega, allt til Dauda, so þeir næde ad hallda Løgmꜳlenu, Musterenu, Borgenne, Fosturlandenu, og Rijkis-Stiornenne.

15. Og hann sette sijnar Herbuder hiꜳ Modin, og hann gaf þeim þesse Ord til (a) Leysingiar, Gud giefur Sigur! Þvi næst tok hann sig upp um Nottena, med besta Strijds-Folk, og fiell jnn j Kongsins Herbuder, og slo j hel Fiorar Þusunder Manna, og þann Fijlinn sem fremstur var, med øllum þeim sem j Kastalanum voru.

(a) Leysing kallast serleg Ord og Mꜳltæke, sem Menn hafa j Orustum, so þeir þeckest fra Ovinunum, Symbolum a Latinu.

16. Med þessu komu þeir mikellre Skielfingu og Hrædslu j allar Herbudernar.

17. Og komust med Heidur og Lucku þadañ j burt um Morgunenn, þa lyste, þviad Gud var þeirra Hiꜳlpare.

18. Enn þegar Kongurenn hafde reynt, ad Gydingar voru so einhugader, þa snere hann sinne Ferd og reiste j giegnum Ø-Vegu.

19. Og flutte sinn Her fyrer Bethzura, sem var Vijge Gydinga, og ei var umkringt. Enn hann var þar og eirnenn a Flotta rekenn, og frammkvæmde eckert, og fieck Skada.

20. Þviad Judas sende j Kastalann allt þad þeir vid þurftu.

21. Enn eirn Madur var a medal Gydinga, ad Nafne Rodocus, hann sagde Ovinum med Svikum, allann þeirra Heimugleik, Enn þeir hofdu Niosn af honum, nꜳdu honum, og rꜳku hann a burt.

22. Þvi næst vard Kongurenn odruvijs til Sinnis, og giorde Frid vid þa j Bethzura, og

og reiſte þadann, og oatte Oruſtu vid Judam, og fieck O-Sigur.

23. Og med þvi hann hafde ſpurt, ad Philippus var fallenn fra honum, hvorn hann liet epter j Antiochia, til Land-Varnar, þa vard hann miøg ſkielfdur, Og hann leitade um Soatter vid Gydinga, og giørde vid þa Frid, og vann Eid, ad hallda þa Soattar-giørd, og vard ſo þeirra Vinur.

24. Og hann færde Foorner, og vegſamade Muſtered, og audſynde ſig Vinſamlegann vid Stadenn, took Maccabeum j Vinoattu, og giørde hann ad Hofuds-Manne, fra Ptolomaide, allt til þeirra Gerrener.

25. Enn þegar Kongurenn kom til Ptolemais, lijkade þeim j Ptolomais ecke vel þeſſe Soattar-giørd, þviad þeir voru hrædder um þad, ad þeſſe Soatt munde ei vid þa halldenn verda, ſo ſem þeir hofdu ecke hallded ſijna Tru.

26. Þa gieck framm Lyſias opennberlega, og affſakade Kongenn, og talde um fyrer þeim, ſo ad þeir voru til Frids, og ſtillte þa, ſo ad þeir ſkylldu vænta alls Gods til þeirra, Þvi næſt reiſte hann a Bak aptur til Antiochiam, og ſo gieck þad til med Kongſins Herfør og Heim-Reiſu.

## XIV. Capitule.

Og þremur Aarum þar epter, friette Judas, og þeir ſem med honum voru, ad Demetrius Seleuci Son, var komenn til Tripoli, med miklu Lide, og Skipa-Fiolda miklum.

2. Og hafde unned Landed under ſig, og ſleged Antiochum, og hans Foſtra Lyſiam.

3. Enn Alcimus, ſa fyrr hafde vered Kiennemanna-Hofdinge, og ſvijvirdelega var affallenn, a þeim Offoknar-Tijma, og nu hugſade hvorke ad lifa, nie aptur ad noa þvi Hæſta Kiennemans Embætte,

4. Hann reiſte fyrer Demetrium Kong, a þvi Hundradaſta, Fimmtugaſta, og Firſta Aare, og færde honum eina Gullega Koronu, Palm-Vid, og Vidſmiørs-Vidar Greiner, ſem Muſterenu til-heyrde.

5. Og þann Firſta Dag gaf hann ſig ecke framm, þar til hann ſoa ſier Fære, til ad fremia ſinn Galenſkap.

6. Þa Demetrius kallade hann nu fyrer Roaded, og liet hann ad-ſpyria, Hvornenn Gydingum geinge, og hvad þeir hefde j Sinne? Þa ſvarade hann ſo, Þeir Gydingar ſem kalla ſig gooda, hvorra Hofuds-Madur Judas Maccabeus er, þeir byria ætijd Strijd og Styriolld, og loata þitt Rijke ecki j Fride.

7. Mig hafa þeir og eirnenn ſvipt minne Fodurlegre Vegſemd, ſem er Preſtdomenu, þvi er eg hingad kominn, Firſt Konſgenum til gooda, og j hina beſtu Meinung.

8. Jannann Moata, af þvi, ad eg villde giarnann ſioa gott Road mijnu Folke, Þviad fyrer ſlijka Van-Skickun verdur oll vor Ætt ad ongvu!

9. Villde þvi Kongurinn oalijta þetta Moalefne, og epter ſinne Frægu Godvilid giefa good Road, og hidalpa Landenu og allré vorre Ætt, j þeſſu Moalefne.

10. Þviad a medan Judas er a Lijfe, þa er ecke mogulegt ad Fridur verde j Landenu.

11. Og er hann hafde lokid ſijnu Moale, urdu hiner adrer gramer uppa Judam, og upphvottu Demetrium honum j moote.

12. So ad hann jafnſnart heimte a Tal vid ſig Nicanor, ſem var Hofuds-Madur yfer Fijla-Hernum, og ſkipade hann til Hofuds-Manns j moote Gydingum.

13. Og baud honum ad drepa Judam, og j ſundur tvijſtra hans Lide, og ſetia Alcimum til Ypparſta Preſts.

14. Þa goafu aller Heidingiar ſig j Ferd med Nicanor, ſem Judas hafde ur Lande reked, ætlande, ad Gydinganna Ogiæfa munde þeim ad Giæfu verda.

15. Þegar Judas, og þeir ſem med honum voru, heyrdu, ad Nicanor reiſte j moote þeim, og ad Heidingiar ſofnuduſt til hans ur ollum

Stødum, þa dreifdu þeir Ösku yfer Höfud sier, og kølludu til Guds, sem fra Veralldar Upphafi hafde vardveitt sitt Folk, og sijnum litla Hoop opinnberlega hiaalpad hafde.

16. Og þa þeirra Hofuds-Mann baud þeim, þa tooku þeir sig upp, og mættu Ovinunum hiaa þvi Kauptune Dessa.

17. Enn Simon Judas Broder gaf sig j moote Nicanor, og Nicanor var so nær og sleginn, þegar Ovinerner fiellu a mooti honum, aadur hann vard þeirra var.

18. Þa Nicanor heyrde nu, ad Judas hefde med sier so hughrausta Menn, sem diarflega vogudu Lijfe og Gotsi fyrer sitt Fodur-Land, þa ottadest hann, og villde ei eiga Bardaga vid þa.

19. Helldur sende til hans Possidonium, Theodotum, og Matathiam, ad semia Frid vid hann.

20. Og epter laanga Raadagiørd, þa þeirra Hofuds-Madur hafde tiaad fyrer Folkenu Søkena alla, og þeim kom samann, samþycktust þeir þessare Saattargiørd.

21. Og tilsettu eirn Dag, a hvørium þeir skylldu finnast baader, alleina.

22. Enn þegar sa Dagur kom, vard sinn Stoll settur handa hvørium fyrer sig. Og Judas tilsette nockra bryniada Menn, eige langt þar fra, So ad Ovinerner giørdu honum oforvarandis eingenn Svik, og ræddust so vid sijn a mille um þeirra Naudsyniar.

23. Og Nicanor var til Jerusalem nockra Stund, og byriade eckert þeim j moote, og liet sitt Strijds-Folk reisa j burt.

24. Og heidradi Judam fyrer Folkenu, og tiede sig vingiarnlegann vid hann.

25. Og riede honum ad Kvongast, og afla sier Afkvæmis, So kvongadest Judas, og var j goodum Fride, og took Vara a sinne Næringu.

26. Enn þegar Alcimus saa nu þad, ad þesser Tveir voru nu Viner ordner, og hofdu giørt Frid sijn a mille, reiste hann aptur til Demetrium, og aaklagade Nicanor, ad hann være Otrur ordinn, þvi hann hefde Kongsins Ovin Judam sett til hins Hærsta Prests j sinn Stad.

27. Þa styggdist Kongurinn, og vard miøg reidur, af Lygum þessa Ill-Mennis, og skrifadi Nicanor til, ad sier lijkade ecke j neirn Maata su Fridargiørd sem hann hafde giørt vid Gydinga, og baud honum hann skyllde snarlega grijpa Maccabeum, og senda hann til Antiochiam.

28. Þa slijk Bifalning kom til Nicanor, þa hriggdest hann, og hann angrade, ad hann vard ad bregda sijna Tru, þar sem Judas hafde ecke til Saka giørt.

29. Enn af þvi hann dirfdest ecke ad giøra j moote Kongenum, þa hugsade hann, ad grijpa hann med Svikum.

30. Enn þegar Maccabeus merkte, ad hann var ecke so Vingiarnlegur vid hann sem fyrr, þa hugsade hann, ad þad mundi ecke neitt gott merkia, og hann took nockra Menn til sijn, og geymde sig fyrer honum.

31. Enn þa Nicanor saa þad, ad Maccabeus hafde so kloklega undann komest, þa gieck hann upp til hins Fagra Heilaga Musteris, og baud Prestunum, sem þar fornsærdu, ad þeir skylldu framm selia honum þann Mann.

32. Enn þeir sooru dyrann Eyd, ad þeir vissu ecke hvar hann være, þa utriette hann sijna Hægre Hønd j moote Musterenu, og soor.

33. Ef so er, ad þier ofurselied mier ei Judam j Hendur bundenn, þa skal eg nidurbriota þetta Guds Hus, og slaa nidur Alltarid, og setia þar upp j Stadenn Baccho eina prijdelega Kyrkiu, Og þa hann hafde þetta talad, þa gieck hann j burt þadann.

34. Þa upplyptu Prestarner sijnum Høndum til Himens, og kølludu til Hans sem alltijd hefur verndad vort Folk, og sogdu,

35. DROTTinn! Þo Þu hafer ei Þørf a nockrum Hlut, þa hefur Þu samt laatid

pier liika, ad Pitt Mustere, j hvoriu Pu byr, sie a medal vor.

36. Par fyrer Pu Heilagi GUD! Hvorium alleina tilheyrer allt pad sem Heilagt er, vardveittu framveges Pitt Hus, hvort vier nu fyrer litlu hofum hreinsad, so ad pad saurgest ei aptur ad nyu, Og uppstappa vonda Munna!

37. Pa var Nicanor sagt fra einum af Olldungunum j Jerusalem, Sa hiet Rhazis, ad hann være eirn sa Madur sem elskade peirra Fedra Logmaal, og hafde alla-vegana goodann Lof-Styr, og slijka aast af sijnum Borgar-Monnum, ad hvor Madur nefnde hann Gydinganna Fodur.

38. Hann var og aadur par fyrer klagadur og offoktur, og hafde mannlega vogad sijnu Lijfe og Lucku, vegna Gydinganna Truar.

39. Pegar Nicanor villde nu laata sioa, Hvad pungann Fiandskap hann hafde til Gydinganna, pa sende hann meir enn Fimm Hundrud Strijds-Menn ad grijpa hann.

40. Pviad hann hugsade, pegar hann hefde hann fangad, pa hefde hann giort peim eirn stooran Skada.

41. Og peir stormudu uppa Portid a Turninum sem hann var jnne, og skipudu ad sækia Elld, og leggia j Ported, Og hann merkte, ad hann var fangadur, pa villde hann hafa lagt sig j giegnum (a) sialfur.

(a) (Sialfur) Petta fordæmer S. Augustinus med Riettu, Hvar fyrer pesse Book hefur ecke gillt hiaa peim gomlu Fedrum, po annars sieu par fleyre adrar Gydinga Meiningar j.

42. Pviad hann villde helldur ærlega deya, enn ad koma j Hendur peim Ogudlegu, og verda med Hæadung hæddur af peim, Enn j peirre Angist hæfde hann sig ecke riett.

43. Pegar peir brutust nu jnn uppa hann, Hoopum saman, pa komst hann fra peim uppa Murinn, og fleygde sier haustlega par ofann syrer, a medal Folksins.

44. Enn Folkid veik sier undann, so ad hann hafdi Rum.

45. Og hann fiell nidur a Lendarnar, og var pa enn Lijfs, Reis upp Reidugleja, po ad honum blædde miog, og være miog saar, braust framm a medal Folksins, og foor uppa eirn haaann Klett.

46. Og pa honum hafde utblædt, pa took hann Garnirnar ur Lijfenu, og kastade ad Strijds-Monnunum, og hann kallade til Guds, Hvor ad er DROTTinn Lijfsins og Andans, ad hann villde giefa honum aptur allt petta, og so do hann.

# XV. Capitule.

Enn pegar Nicanor heyrde, ad Judas, og peir sem med honum voru, hielldu sig j Samaria, pa hugsade hann ad yferfalla pa, a Sabbaths-Deige hættulaust.

2. Og sem peir Gydingar, hvorium hann hafde naudgad med ad reisa, aaminntu hann, ad hann skyllde ei peim so hriggelega fyrerfara, helldur hlijfast vid ad giora pad a peim Helga Deige, Hvorn GUD sialfur hafde Heidrad og Helgad,

3. Pa spurde pesse Hofud-Skalkur pa, Sa sem bodid hefur Sabbaths-Dagenn, er hann Herra a Himnum?

4. Og pa peir svorudu, Jaa, pad er Sa Lifande DROTTenn, Hann er Herra a Himnum, sem bodid hefur ad hallda Helgann pann Siounda Dag.

5. Pa svarade hann, Pa er eg Herra a Jordunne, og Eg byd ydur ad brynia ydur, og giora Kongsins Skipan. Enn hann kunne po ecke ad frammkvæma sitt aaform.

6. Og Nicanor hældest um og hrosade, og lietst fullvijs par uti, ad hann skyllde vinna stoort Frægdar-Verk a Juda.

7. Enn Maccabeus hafde eitt stodugt Trunadar-Traust og Von, ad DROTTinn munde hiaalpa honum.

8. Og huggade pa sem hiaa honum voru, ad peir skylldu ecke vera hrædder vid pa Heidingia sem riedust j moote peim, helldur

hugsa uppa þad Fulltijng, sem fyrr meir offtlldann, skied var vid þa af Himnum ofann.

9. Og enn nu vona a þann tilkomanda Sigur, og þa Hialp sem DROTTinn munde senda þeim.

10. So huggade hann þa ur Logmaalenu og Spaa-Monnunum, og minnte þa a þær Sigur-Sælu Orustur, sem þeir hofdu fyrr aatt, og giørde þa so hugdiarfa. Og þa hann hafde so aaminnt þa, þa tioade hann fyrer honum, Hvorninn Heidingiar hofdu forbrotid, og giort j moote þeirra Eide.

11. Og bryniade þa so, ecke med Traasstan uppa Spiot nie Skiolld, helldur med Trauste uppa Guds Ord.

12. Hann sagde þeim og so fra eirnre Syn, sem trulegt var ad hann hafde sied, hvar af þeir urdu aller Hugdiarfer, enn Synenn var þesse. Onias sa Hærste Prestur, eirn merkelegur, heidarlegur, goodvilldarsamur, nükell Maalsnilldar-Madur, Sa ed fra Barndome vande sig til allra Mann-Kosta, hann upphoof sijnar Hendur, og bad fyrer ollu Gydinga Folke.

13. Þvi næst byrtest honum eirn annar gamall Dijrdlegur Madur, j kostulegum Klædnade, hafande miog dijrdlegt Yferbragd.

14. Og Onias talade til Judam, Þesse er Jeremias Spaa-Madur Guds, sem miog elskar þijna Brædur, og jafnann bidur fyrer þessu Folke og þeim Heilaga Stad.

15. Þvi næst fieck Jeremias Juda med sijnum Hondum eitt Gullbuid Sverd, og sagde til hans.

16. Tak vid þessu Heilaga Sverde, sem GUD giefur þier, med þvi skalltu slaa Ovinena.

17. Þa Judas hafde nu huggad þa, med so fogrum Ordum, hvar af þeir feingu Hug og Hiarta, þa kom aasamt med þeim, ad reisa ongvar Herbuder, helldur raadast strax j mooti Ovinunum, og yfer falla þa hreystelega, og laata so sverfa til Staals, Þviad Borgenn, Guds Þionustann, og Musterid være stadt j Vooda.

18. Og ad vijsu, þa hugsudu þeir ei so frekt um Hvastañ sinna Kvenna og Barna, Brædra og Vina, helldur var þeirra mesta aahyggia fyrer þvi Heilaga Mustere.

19. Og þeir sem j Borgenne voru hofdu stoora Sorg fyrer þeirra Strijds-Folke.

20. Þa Orustann skyllde nu takast, og Ovinerner voru tilsamans komner, og hofdu fylkt Lide sijnu, og sett Fijlana þar þeir skylldu vera, og Riddara-Lidid j baada Fylkingar-Arma,

21. Og þa Maccabeus saa Ovinena, og þeirra margfalldann Strijds-Vidurbunad, og þaug ognarlegu Dyrenn, þa upplypte hann sijnum Hondum til Himens, og tilbad þann Dasamlega Gud, sem alla Hluti sier, þviad hann visse vel, ad Sigurinn kiemur ecke fyrer Bryniu, helldur giefur Gud hann þeim sem Hann vill hans unna, og hann bad so.

22. DROTTenn! Þu utsender Þinn Eingel, j Tijd Ezechie Gydinga Kongs, og hann slo j Herbudum Senacherib, Hundrad, Fimm og aattatijger Þusunder Manna.

23. So send nu og so (Þu DROttenn a Himnum) eirn godann Eingel undann oss, ad skielfa Ovinena.

24. Laat þa skielfast fyrer Þijnum Sterkum Armlegg, sem reisa med Gudlastan j mote Þijnu Heilaga Folke! Og þar med hætte Judas.

25. So reiste Nicanor framm med sijnu Herlide, med Trametum, og miklu Herope.

26. Enn Judas og hans Menn hofu Orustuna med Bæn og aakalle til Guds.

27. Med Hondunum vogu þeir, enn med Hiartanu kolludu þeir til Guds, og þeir felldu Fimtan og Tuttugu Þusunder Manna, og voru miog glader, ad Gud hafde so Miskunsamann audsynt sig.

28. Þegar Orustann var ute, og þeir reistu

reistu j burtu, þa þecktu þeir Nicanor af hans Bryniu, ad hann var og so slegenn.

29. Pa upphofst eitt mikid Sigur-oop og Fagnadar Kall, og þeir lofudu Gud a sitt Tungumaal.

30. Og Judas, sa sem Lijfe og Gotse hafde vogad fyrer sitt Folk, og fra Barndome hafde sijnu Folke margt Gott giort, hann baud ad hoggva Hofudid og Hondena med Oxlenne af Nicanor, og flytia til Jerusalem.

31. Pa hann kom nu þangad, samankallade hann sitt Folk, og sette Prestana fyrer Alltarid, og sende epter Ovinunum uppa Kastalann.

32. Og synde Nicanors Hofud, og Hondena þess Gudlastara, hvoria hann hafde upphafid j gegn þvi Heilaga Husi hins Almaattuga, med miklum Metnade.

33. Hann skar og Tunguna ur Hofde hins O-gudlega Nicanors, og baud ad saxa hana j smaatt og giefa Fuglum. Og þa Hond sem hann hafdi haft til þess Galennskapar, baud hann upp ad heingia gagnvart Musterenu.

34. Og allt Folkid vegsamade Gud a Himnum, segiande, Lofadur sie Sa sem sinn Stad hefur vardveitt, so ad hann er ei saurgadur ordinn!

35. Og hann uppfeste Nicanors Hofud, so ad hvor Madur maatte sia þad ur Kastalanum, til eins opinberlegs Merkis, ad Gud hafde hiaalpad þeim.

36. Og þad var med Eindrægne samþyckt af þeim ollum, ad gleyma ecke þessum Deige.

37. Helldur skylldu Menn hann heigann hallda, sem er þann Prettanda Dag hins Tolfta Maanadar, hvor ed kallast Adar a Syrlendsku, næsta Deige fyrer Hoatijd Mardochei.

38. So vil eg nu hier med enda þessa Book, epter Fall Nicanors, og epter þad ad Gydingar hofdu unned aptur Stadinn.

39. Og hafe eg sett og samed hana vel, þad villda eg giarnann giort hafa, Enn hafe þad midur ordid, þa hefe eg þo giort so mikid þar ad, so sem eg kunne.

40. Þviad ecke er lystelegt ad drecka alla Tijma Vijn, eda Vatn, helldur ad drecka stundum Vijn, stundum Vatn, þad er lystelegt. So er þad lystelegt ad lesa margt, Petta skal vera Endenn.

Endar a Annare Book Maccabeorum.



# Formaale yfer þær Greiner af Esther og Daniel.

Hier epter filgia nockrar Greiner, hvoria vier hofum ecke viliad utleggia, j Prophetans Daniels, og Esthers Book, Þviad vier hofum soddann Blaa-Korn uppslitid (med þvi ad þaug standa ei j þeim Ebreska Daniel og Esther) og þo so ad þaug ecke spillist, þa hofum vier sett þau hier j eirn sierdeilis Stad, edur Jurta-Gard, med þvi, ad þar finnst margt Gott inne, sierdeilis Lof-Saungurinn Benedicite. Enn Textenn um Susonnu, Bel, Abacuc, og Drekann, synest ad vera so sem þeir fogru andlegu Diektar, eins og Judith og Tobias, þviad Nofnenn hlyda og so þar uppa. Susanna þydest ein Rosa, þad er eitt Fagurt og fromt Land og Folk, edur eirn vesslugur Hoopur a medal Þyrna. Daniel þydest eirn Domare, og so frammveigis, Petta kann allt saman hæglega ad utleggiast, um eina Lijd-Stiornan, Hus-Stiornan, edur um godann Selskap þeirra Truudu, hvorneun sem um Giorningiun er vared.

Grei-

# Greiner af Esthers Book.

Þessa Grein maa lesa, nærst epter Þridia Cap: j Book Esther.

Enn so er þad Brief hliodande Hinn mikle Kongur Artaxerxes fra Indialandi til Morlands, sender þeim Hundrad Sio og Tuttugu Høfdingium, og þeirra Under-Mønnum, sijna Kvediu!

2. Enn þo ad eg sie Megtugur Kongur, og sa stærste Herra a Jordunne, þa hefe eg þo ecke viliad upphroka mier af minne Magt, heldur hef eg kostgiæst, ad rijkia Naadarsamlega og Spektarsamlega, og ad hallda ætijd þann goda-Frid, af hvorium hvor Madur gledst, So ad hvor Madur meige lifa roolega og giæta sijns Verknadar.

3. Þar um hiellt eg Raad vid mijna Høfdingia, Hvorninn slijkt mætte verda?

4. Þa skijrde Aman mier fra, Minn sa hiñ Hyggnaste, Elskulegaste og Truaste Raadgiafe, sem nærst Kongenum er hærstur, Ad þar være eitt Folk utdreift um øll Lond, sem hefur sierdeilis Løgmaal, þvert j mote Sidveniu allra Landa og Pioda, og fyrerlyte jafnann Konganna Bod, hvar med þeir hindra Frid og Samþycke j Rijkenu.

5. Þa vier nu merktum þad, ad eitt Einstaka Folk sette sig j mote øllum Heimenum, og hiellde sijnar eigennlegar Sidveniur, og fyrerlyte vor Bod, Hvar med þeir giora storann Skada, og spilla Frid og Samhellde j voru Rijke,

6. Þvi budum vier, ad hvoria sem Aman sa ypparste Høfdinge, og Ædstur er nærst Kongenum, vor Fader, tilnefner, þeir skulu med Kvinnum og Børnum jhel slegner verda, af sinna Ovina Sverde, oan allrar Miskunar, og øngvum skal þyrmt verda.

7. Og þetta skal skie þann Fiortanda Dag j Tolfta Maanude Adar, a þessu Aare, so ad þeir Ohlydnu verde jhel slegner aller a einum Deige, og ad þar kunne ad verda stadfastur Fridur j vorum Rijkium.

Þessa Grein maa lesa epter Ending þess Fiorda Cap:

Mardochei Bæn.

8. Og Mardocheus bad til DROTTins, og upptalde hans Daadsemdar-Verk, segiande, DROTTinn Gud! Þu ert Sa Almaattuge Kongur.

9. Aller Hluter eru j Þijnu Vallde, og eingenn kann ad standa j moote Þijnum Vilia, þegar Þu villt hialpa Israel.

10. Þu hefur skapad Himen og Jord, og allt þad sem þar er jnne.

11. Þu ert DROTTINN allra, og eingenn kann Þier j moote ad standa.

12. Þu veitst alla Hlute, og hefur þad sied, ad þad hefur ecke verid af neinnre Drambseme nie Metnade, þo eg villde ei tilbidia hinn stollta Aman.

13. Þviad eg hefde vered reidu-buinn, Israel til gooda, vel-viliuglega ad kyssa a hans Fætur.

14. Helldur hef eg giort þad af Otta, so ad eg ecke giefe þa Æru nockrum Manne, sem mijnum Gude til-heyrer, og ad eg tilbidie øngvann annann, enn minn Gud.

15. Og nu DROTTinn! Þu Kongur og Gud Abrahams, Miskuna Þu Þijnu Folke! Þviad vorer Oviner vilia afmaa oss, og Þinn Arf uppræta, þann Þu hefur haft fra Upphafe.

16. Fyrerlijt Þu ecke Þinn litla Hoop, sem Þu frelster af Egypta-Lande.

17. Heyr mijna Bæn, og vertu Lijknsamur Þijnu Folke, og snu Þu vorre Hriggd j Glede, So ad vier lifum, og prijsum Þitt Nafn,

Nafn, Asmoa Þu ecke Munna þeirra sem Þig lofa!

18. Og allur Israels Lydur kallade til DROTTins af ollu Megne, Þviad þeir voru j Daudans Neyd.

Bæn Esthers.

1. Og Drottningenn Esther snere sier og til DROTTins, j þessare Daudans Hættu.

2. Og hun lagde af sier sijn Konunglegu Klæde, og jklæddest Hriggdar-Klædum, og j Stadenn dyrmæts Vatns og Balsams, þa dreifde hun Osku og Dupte yfer sitt Hofud, og audmykte sinn Lijkama med Fostu.

3. Og allstadar, þar hun hafde ødur haft Gladværd, þa reitte hun sitt Hoar af sier, og tilbad Israels GUD, segiande.

4. O DROTTenn! Þu sem ert Alleina Vor Kongur, hiaalpa Þu mier Aumre! Eg hefe øngvann annann Hiaalpar-Mann, utann Þig, og Neydenn er fyrer Augunum.

5. Eg hefe heyrt af mijnum Fodur, DROTTinn! ad Þu utvalid hafer Israel fra ollum Heidingium, og hafer tekid vora Fedur fra gamallre Tijd til Eylijfs Arfs, og Þu hefur halldid vid þa hvad sem Þu hefur talad.

6. Vier hofum syndgast fyrer Þier, Þar fyrer hefur Þu yfergiefid oss j vorra Ovina Hendur.

7. DROTTinn! Þu ert Riettlaatur, Þviad vier hofum heidrad þeirra Skurgod.

8. Enn nu laata þeir sier ecke þar med nægia, ad þeir hallda oss j so stoorre Þiaaningu,

9. Helldur eigna þeir Magtinne sinna Skurgoda þeirra Sigur, og vilia giora Þitt Fyrerheit ad ongvo, og uppræta Þinn Arf, og aptur-byrgia Munninn a þeim sem Þig lofa, og afmaa Vegsemd Þijns Musteris, og Alltaris.

10. Og þeir vilia uppliuka Heidingianna Munne, til ad vegsama Magt Skurgodanna, og ad veita einum daudlegum Konge Eylijfa Hroosan.

11. DROTTINN! gief þeim ei Þinn Velldis-Sprota sem eckert eru, so ad þeir hæde ecke ad vorre Hriggd, helldur laat þeirra Uppsæatur koma yfer þa, og merk þa sem þetta uppbyria j moote oss.

12. Minnstu a oss, DROTTinn! og audsyn Þig j vorre Neyd, Og stirk mig, DROTTinn! Þu Kongur allra Guda og Herra.

13. Kienn Þu mier, hvorninn eg skal tala fyrer Leonenu, og snu þu hans Hiarta, so ad hann verde gramur vorum Ovinum, so ad hann fyrerfarist sialfur med ollum þeim sem honum tilheyra.

14. Og frelsa oss fyrer Þijna Hond, og hiaalp mier Þinne Ambaatt, sem ongva adra Hiaalp hefer utan Þig, DROttinn! alleina.

15. Þu sem alla Hlute veitst og skilur, ad eg hef ongva Glede af þeirre Vegsemd, sem eg hefe j hiaa þeim O-gudlegu, og ad eg hef ongva Lysting a þeim Heidna og framanda Hiuskap.

16. Þu veitst, ad eg hlyt ad giora þad, og eige akta eg þa Vegsamlegu Fegurdar-Pryde, sem eg ber a mijnu Hofde, þegar eg verd ad skarta, Helldur halld eg þad so sem eitt saurugt Klæde, og ber þad ecke utan þegar eg skal skarta.

17. Eg hef og enn alldrei samneytt Aman, og eige helldur haft Gladværd vid þad Konunglega Bord, og ecke druckid af Fornar-Vijne.

18. Og þijn Ambaatt hefur alldrei Gladvær verid, sijdann eg var hingad leidd, allt til þessa Tijma, utan alleina j Þier, DROttenn! Þu Gud Abrahams.

19. Bænheyrdu Rodd þeirra Forlaatinn, Þu stirkur Gud yfer ollum Hlutum, og frelsa oss fra Hende þeirra O-gudlegu, og hiaalp mier af minne Neyd!

Þesse

Þesse Grein maa vera ein Gloseran til Upphaffsins hins V. Capitula.

4. Og a hinum Pridia Deigi lagde hun af sier sinn Daglega Klædaburd, og skryddest sijnu Konunglega Skarte.

5. Og var miøg frijd, og hun aakallade Gud, Pann Frelsarann sem alla Hlute sier.

6. Og hun tok med sier Tvær Jungfrur, og studde sig so hægt vid þa eina.

7. Enn hin aunnur gieck a epter, og hiellt upp Fallde hennar Klæda.

8. Hennar Andlits Fegurd var miøg væn, blijdleg og gledeleg ad sioa, Enn hennar Hiarta var fullt af Angist og Harme.

9. Og þa hun kom j gegnum allar Dyrnar, þa gieck hun, og stod gagnvart Kongenum, þar hann sat j sijnu Konunglegu Haasæte, j sijnum Konunglegum Skruda, sem var af Gulle og Gimsteinum og var Ognarlegur a ad lijta.

10. Pa hann nu upplypte sijnum Augum, og leit reiduglega til hennar, þa leid yfer Drottningena, og hun fiell j Ongvit, og lagde Hofudid uppa Jungfruna.

11. Pa snere Gud Kougsins Hiarta til goda, og hann vard hriggur hennar vegna, og stock ur sijnum Stole, og tok hana sier j Fadm, þar til hun raknade vid aptur, og talade blijdlega til hennar. Hvad er þier Esther?

12. Eg er þinn Broder, ottast ecke!

13. Þu skallt ecke deya.

14. Pviad þetta Forbod aahrærer alla adra, enn þig ecke, kom hingad!

15. Og hann upplypte þeim Gullega Sprota, og lagde hann uppa hennar Axler, minntist vid hana, og sagde, Seigdu framm.

16. Og hun andsvarade, Pa eg leit þig, þa þotte mier sem eg sæe Eingel Guds, þar fyrer skielfdest eg fyrer þijnu mikla Vellde.

17. Pviad þu ert miøg hrædelegur, og þinn Yferlitur miøg dijrdarlegur.

18. Og þegar hun hafdi so talad, kom yfer hana Omegenn j annad Sinn, og fiell nidur.

19. Pa vard Kongurinn skielfdur, og hans Pienarar, og huggudu hana.

Þetta maa lesa epter Endina VIII. Capitulans, fyrer hinn IX.

A Pvi Fiorda Aare Ptolomei Kongs og Cleopatre, hofdu þeir Dositheus (hvor ed hiellt sig vera Prest, af Levi Ætt) og hans Sonur Ptolomeus, þetta Purims Brief, og sogdu, Ad Lysimachus, þess sama Ptolomei Sonur, hefde utlagt þad j Jerusalem.

1. Artaxerxes hinn mikle Kongur, fra India Lande allt til Morlands, sender Hundrad, Sio og Tuttugu Høfdingium, og þeirra Under-Monnum sijna Kvediu!

2. Vier formerkium, ad þeir eru marger sem misbruka Hofdingianna Naad, og verda Metnadarsamer og vonder, af þeim Heidre sem þeim veitist.

3. So ad þeir ei ad eins yferfalla þa Undergiefnu Helldur hugsa þeir, ad (a) troda Herrann sioalfann under Fætur þeim, af hvorium þeir eru upphafder.

(a) (Troda) So sagde og Mar-greifinn j Meissen, Einn Hofdinge þarf ecke so ad ottast miøg fyrer þeim sem langt er j burt fra honum, helldur miklu meir fyrer þeim sem epter honum ganga, þvi þeir ganga giarnann uppa Høfudid a honum, ef þeir kynne.

4. Og giøra ei ad eins a moti Naatturlegum Riettindum, med þvi O-þacklæte, helldur eru þeir so blindader af Drambsemenne, ad þeir hugsa eirninn, ad Gud (hvor ed aalijtur þa godu) straffe ecke slijka Otru.

5. Peir svijkia og eirninn goda Hofdingia, og koma þeim til ad uthella Saklausu Blode.

6. Og þeir sem þiona þeim trulega og ærlega, þa særa þeir j allskins Olucku.

7. Pvijlijk Dæme finna Menn, ei alleina j þeim Giorningum sem skied hafa fordum, Helldur reyna Menn enn nu þad daglega, Hvad mikellre O-giæfu ad slijker otruir Raadgiafar af stad koma.

8. Af þvi ad oss ber ad sioa og so til, ad þar meige frammveigis halldast Fridur j Rijkenu.

9. Pa neydunst vier stundum epter Moala-vortum ad umbreyta vorum Skipununi, þa vier formerkium ad þad er odruvijs, enn sem oss er undervijsad, og rasa ei fyrer Road framm ofmiøg.

10. Nu af þvi, ad Aman, Hamadathi Son, sem er af Macedonia, enn ecke af Persa Blode, og ei vorrar Giædsku Tegundar, helldur er eirn Giestur hioa oss,

11. Hvorium vier (so sem vier pløgum ad giora ollum Piodum) syndum alla Noad, og upphoofum hann, so ad vier nefndum hann vorn Fødur, so ad hann vard af hvorium Manne heidradur, nærst Kongenum,

12. Pa vard hann so drambsamur, ad hann hugde sier, ad skilia oss bæde vid vort Kongarijke og Lijf.

13. Pviad hann hefur Mardocheum (sem fyrer sijna Tru og Velgiord frelsade vort Lijf) og vora saklausa Husfru Drottning Esther, oasamt med ollu hennar Folke, falsklega og hreckvijslega rægt, so ad þeir yrde allir Lijfi svipter.

14. Og þegar þeir hefde nu j burt verid sem oss vardveita, þa ætlade hann sier ad Lijfloata oss eirninn, og koma Persa-Rijke under þa Macedonios.

15. Enn vier formerkium, ad Gydingar, hvoria sa utflæmde Skalkur villde drepa loata, eru saklauser, hafa god Log,

16. Og eru Børn hins Hærsta, Stærsta og Eylijfa Guds, hvor ed vorum Forfedrum og oss hefur giefid þetta Rijke, og enn þvi vid Magt helldur.

17. Par fyrer skulud þier ei hallda ydur epter þvi Briefe, sem Aman utfærde.

18. Pviad fyrer slijks Giornings Saker er hann med ollum sijnum Ætt-Monnum a Goalga heingdur fyrer Susans Port, Og so hefur Gud fliotlega endurgolldid honum, so sem hann hefur forskulldad.

19. Enn þessa Skipun, sem nu sendum vier til ydar, skulud þier loata kunngiora j ollum Borgum, ad Gydingar meige med Frelsi hallda sijnu Logmoale.

20. Og ef nockur vill veita þeim Ofrijki, a þeim Þrettanda Deige hins Tolfta Moanadar, sem kallast Adar, þa skulud þier vernda þa, so ad þeir meige hefnast a hinum.

21. Pviad þann sama Dag hefur Gud Allmoattugur giort þeim ad Fognude, a hvorium þad Utvalda Folk oatte Lijfloatid ad verda.

22. Par fyrer skulud þier og so hallda þennann Dag helgann, med odrum Hoatijdum, med ollum Fognude.

23. So ad oss vel gange, og ollum þeim sem holler eru Persum, Og þad skal vera Epterdæme, hvorsu ad O-Truleike verdur straffadur.

24. Enn hvort þad Land, edur Borg, sem ecke helldur þetta Bod, þad skal med Sverde og Ellde afmoad verda, so þadan j fra skulu þar hvorke Menn, nie Dyr, nie Fuglar gieta jnne buid.

Þetta moa lesast fyrst edur seinast, hviad Draumurenn var fyrer Giorningenn, Utþydingenn epter.

1. A odru Aare hins mikla Kongs Artaxerxis, a hinum Firsta Deige Moanadarins Nisan,

2. Hafde Mardocheus eirn Draum, sem var eirn Gydingur, Sonur Jairi, Sonar Semei, Sonar Kis, af Ætt BenJamin,

3. Og bio j Borgenne Susan, eirn Heidarlegur Madur, og vel halldinn j Kongsins Garde.

4. Enn hann var eirn af þeim Hertekinu, sem Nabogodonosor, Kongurenn af Babylon, hafde flutt fra Jerusalem, med Jechonia, Konge Juda, og þetta var hans Draumur.

5. Par hofst upp Hop og mikid Hoareysti, Reidar-þrumur og Jardskioalfte, og eirn Hrædsla a Jordunne.

6. Og

6. Og ſioadu! Þar voru Tveir ſtorer
Drekar, þeir rieduſt til Bardaga hvor j
mote odrum.
7. Og þad Hoareyſte var ſo mikid, ad oll
Lond toku ſig upp ad beriaſt j mote einu Hei-
logu Folke.
8. Og þad var eirn Dagur mikels Mir-
kurs, Harmkvælis og Angiſtar, og mikel
Þormung og Hrædſla var a Jordunne.
9. Og þad Heilaga Folk var j mikellre
Hriggd, og hræddeſt ſijna Ogiæfu, og hafde
Roadagiorder um ſitt Lijf, og þad oakallade
Gud.
10. Og epter ſlijkt Kall, ſpratt upp eirn
mikell Vatns-Straumur ur einum litlum
Brunne.
11. Og Soolenn gieck upp, og ſkein fagurt,
og þeir Veſolu feingu Sigur, og droapu þa
enu Drambſomu.
12. Nu þegar Mardocheus vaknade epter
ſinn Draum, þa hugſade hann, Hvad Gud
munde meina hier med, og hann vardveitte
þennann Draum j Hiarta ſijnu, og hugſade
epter honum, allt til Nætur, og villde giarnan
hafa feingid ad vita hans Utſkijring.
4. Og Mardocheus ſagde, Gud hefur til-
ſkickad þad alltſaman.
5. Eg hugſade um minn Draum, og þad
hefur ſo tilgeingid ſem mig dreymdi.
6. Sa Litle Brunnur, ſem vard eitt mikid
Vatns-Fall, þa Soolenn ſkein og vard kloar,
þad er Eſther, hvoria Kongurinn tok ſier til
Eigenn-Kvinnu, og giorde hana ad Drott-
ningu.
7. Þeir Tveir Drekar, þad em Eg og
Aman.
8. Annar þeirra merker Heidingia, ſem
til ſamans komu og villdu afmoa Gydinganna
Nafn.
9. Annar merker mitt Folk Iſrael, hvort
ed til DROttins kallade, og DROttinn
hioalpade ſijnu Folke, og frelſade oſs fra þeirre
Ogiæfu. Hann giorer mikel Takn og Stor-
merke a medal Heidingianna.
10. Þviad Hann hefur ætijd giort Miſmun
a millum ſijns Folks og Heidingia.
11. Og þegar ſu Stund kom, þa Heidin-
giarner voru ſem ſtolltaſter, enn vier ſem vei-
kaſter, og Gud ſkyllde dæma,
12. Þa minntiſt Hann a ſitt Folk, og gaf
ſijnum Arfe Sigurvinningena.
13. Og þennann Dag ſkulu Menn hallda
j Moanudenum Adar, þann Fiortanda og
Fimmtanda Dag þeſs Moanadar, med allre
Glede, og med allre Giætne, þegar Folkid
kiemur til ſamans, Og þad ſkal ſo halldaſt
æfinnlega, a medal Iſraels
Folks.

Hier endaſt þær Greiner af Eſther.

# Hiſtoriann af Suſanna og Daniel.

I Babylon var eirn Madur, ſa hiet
Joakim.
2. Hann oatte ſier Kvinnu, hun
hiet Suſanna, Helkie Dotter, hun var miog
Væn, og þar med Gudhrædd.
3. Þviad hun oatte gooda Foreldra, ſem
hana hofdu mentad epter Moſis Logmoale.
4. Og hennar Madur Joakim var ſtoor-
audugur, og hafde eirn fagrann Alldein-
Gard, hioa ſijnu Huſe. Og ætijd komu
Gydingar til ſamans, j hioa honum, þviad
hann var hellſtur Madur a medal allra þeirra.
5. Og a þvi ſama Aare, voru Tveir Oll-
dungar ſetter af Folkenu, til Domenda, þad
voru þeſs-hoattar Menn um hvoria DROt-

tenn hafde talad, Peirra Domendur drijgia allskins Vondsku j Babylon.

6. Pesser komu daglega til Joakim, og hvor sem nockud hafde ad moal-þarfa hann hlaut ad koma fyrer þa.

7. Þegar Folkid var nu burt geinged um Middeiged, þa var Susanna von ad ganga j Alldenn-Gard Manns sijns.

8 Og þa Olldungarner soau, ad hun gieck þangad daglega, þa kveiktest þeim Vond Girnd til hennar.

9. Og urdu þar utaf Doarar, og so renndu þeir Augum til hennar, ad eige kunnu þeir ad lijta til Himensins, og hvorke hugsudu þeir um Guds Ord nie Hegning.

10. Enn boader brunnu þeir af hennar Aast.

11. Og skammadist hvor um sig ad segia þad odrum, og hvor fyrer sig villde segenn henne samlagast.

12. Og daglega tooku þeir kostgæfelega Vara a, ad þeir mætte ad eins sioa hana.

13. Og hvor sagde til Annars, Forum heim, þviad Moaltijdar-Tijme er komenn.

14. Og þa hvor þeirra var vid Annann skilenn, þa snere aptur hvor fyrer sig, og fundust ad nyu. Þegar hvor spurde nu Annan ad, þa geingu þeir boader vid sinne vondre Girnd. Þvi nærst kom þeim þad saman, ad þeir skylldu stunda þar uppa, ad þeir mætte finna Kvinnuna einsamla.

15. Og þa þeir hofdu nu tilsett eirn tiltækelegann Dag, ad umsitia hana, þa kom Susanna med Tveimur sijnum Amboattum j Alldin-Gardenn epter Vana sijnum ad þvo sier, þviad mikell Hite var.

16. Og eingenn Madur var j Alldin-Gardenum, nema þesser Tveir Olldungar, sem sig hofdu falid leynelega, og um hana soatu.

17. Og hun mællte til Amboatta sinna, Sæked mier Balsamum og Soapu, og loated aptur Alldin-Gardenn, so eg meige þvo mig.

18. Þionustu-Pijkurnar giordu so sem hun baud, og lietu aptur Alldin-Gardenn, og geingu ut um nockrar Leyne-Dyr, ad sækia þad sem hun villde hafa, Og ecke soau þær Mennena, þviad þeir hofdu falid sig.

19. Þa Þionustu-Pijkurnar voru nu j burtu, Þa komu þesser Tveir Olldungar þar framm, hlupu ad henne, og sogdu.

20. Sioa! Alldin-Gardurinn er aptur-lycktur, og eingenn sier oss, og vier brennum af þinne Ast, þvi giordu ockarn Vilia.

21. Enn ef þu villt þad ecke, þa vilium vid vitna j moote þier, ad vid hofum funded eirn ungann Mann hioa þier einsamlann, og þar fyrer hafer þu j burtu sendt þijnar Þionustu-Pijkur fra þier.

22. Þa andvarpade Susanna, og sagde, Æ Hvad mikla Angist hefe eg! þviad ef eg giore þetta, þa hef eg forskulldad Daudann, Enn giore eg þad ecke, þa mun eg ei komast undann yckar Hondum.

23. Þo vil eg helldur falla Saklaus j Mannanna Hendur, enn ad syndgast j moote DROttne.

24. Og hun took til ad kalla hoarre Roddu.

25. Enn Olldungarner kelludu og so yfer henne. Og Annar þeirra hliop a Dyr Alldin-Gardsins, og liet þær upp.

26. Þegar Þionustu-Folkid heyrde nu slijkt Kall, þa hliop þad ut i Alldin-Gardinn, um Leyne-Dyrnar, ad sioa, Hvad henne være ad Hondum komid.

27. Og Olldungarner hoofu upp, og sogdu fra henne, so ad Þienararner skommudust sijn hennar vegna, þviad slijkt hafde alldrei heyrst fyrre um Susonnu.

28. Annars Dags, þegar Folkid var til samans komid, j Huse Joakims, Manns hennar, þa komu og þar þesser Tveir Olldungar, fuller Flærdar og Svika j giegn Susonnu, ad þeir kiæme henne j Daudann.

29. Og

29. Og þeir mælltu til alls Folksins, Sended burt, og læted hingad koma Susonnu, Dottur Helchie, Kvinnu Joakims.

30. Og þegar hun var kolluð, þa kom hun med sijnum Forelldrum, Bornum, og allre sinne Ætt.

31. Enn hun var miog Nertug og Frijd.

32. Þar fyrer skipudu þeir Skalkar, ad taka Lijnid fra henne, hvar med hun hafde hulid sig, so ad þeir mætte skiemta sier af hennar Fegurd.

33. Og aller þeir sem þar vid voru, og hana þecktu, grietu yfer henne.

34. Og þeir Tveir Olldungar stoodu upp midt a medal Folksins, og logdu sijnar Hendur yfer hennar Hofud.

35. Enn hun griet, og lypti upp sijnum Augum til Himins, þviad hennar Hiarta hafdi Trunadar-Traust a DROTTne.

36. Og Olldungarner hoofu upp, og sogdu, Þa vid geingum alleina baader um kring j Alldin-Gardenum, þa kom hun þangad med Tveimur Pionustu-Pijkum, og liet aptur Alldin-Gardenn, og sende j burt Pionustu-Pijkurnar fra sier.

37. Þa kom til hennar eirn ungur Madur, sa sem sig hafde faled, og lagdist med henne.

38. Enn þegar vid ur eirnre Hyrningu Allden-Gardsins saaum slijka Skomm, þa hlupum vid jafn-snart þangad ad, og fundum þaug bæde hvort hia odru.

39. Enn Yngis-Mannenn gaatum vid ecke hondlad, þviad hann var ockur yferstterkare, og hratt upp Dyrunum, og stock j burt.

40. Enn hana tookum vid Hondum, og spurdum epter, Hvor-sa enn unge Madur var? Enn hun villde ecke segia ockur þad, þetta vottum vid.

41. Og Folkid trude þeim Tveimur, so sem Domendum, og Yppurstum a medal Folksins, og dæmdu Susannam til Dauda.

42. Enn hun kallade upp med hæfrre Roddu, og sagde, DROTTenn Eylijfur GUD! Þu sem þecker alla heimuglega Hlute, og veitst alla Hlute aadur enn þeir verda.

43. Þu veitst, ad þesser hafa borid falskann Vitnisburd j mooti mier. Og nu sioa Þu! eg hlijt ad deya, þo ad eg sie Saklaus af þessu, sem þeir hafa jlla uppa mig loged!

44. Og GUD bænheyrde hennar Kall.

45. Þegar hun var nu utleidd til Daudans, þa uppvakte GUD Anda eins Ungmennis, sa hiet Daniel.

46. Hann hoof upp, og kallade med hæfrre Roddu, Eg vil vera saklaus af þessu Blode!

47. Og allt Folkid snere sier vid til hans, og spurde Hvad hann meinte med þessum Ordum? Enn hann gieck framm ad, og sagde.

48. Erud þier af Jsrael so heimsker, ad þier fordæmed eina af Jsraels Dætrum, aadur enn þier rannsaked Sokena, og vitid hana?

49. Snuid aptur fyrer Dominn, þviad þesser hafa borid Fals-Vitni j moote henne, Og allt Folkid snere aptur jafn-snart.

50. Og Olldungarner toludu vid Daniel, Set þig hier nidur hioa oss, og undervijsa oss, First ad GUD kallar þig til þessa Domara Embættis.

51. Og Daniel sagde til þeirra, Skilied þa ad hvorn fra odrum, þa vil eg yferheyra hvorn fyrer sig sierdeilis.

52. Og þa þeir voru nu adskilder, þa kallade hann a þann eina, og sagde til hans,

53. Þu hinn Vonde gamle Skalkur! Nu koma yfer þig Synder þijnar, sem þu hefur fyrr-meir giort, þa þu uppsagder Rangar Doma, og fordæmder Saklausa, enn lietst Sakada lausa, Þar DROTTinn hefur þo sagt, Þu skallt ecke deyda þa Goodu, og Saklausu!

54. Hafer þu nu sied þesse, þa segdu framm, Under hvoriu Trie fannstu þau til samans? Enn hann svarade, under einu (a) Linde-Trie.

(a) (Linde-Trie) J þeim Grisku Textanum stendur, under

under einum Schino, þad heiter a Latinu, Lentiscus, og er þad Trie af hvoriu ad Gummi utflytur, sem kallast Mastyeh. Enn af þvi, þad Trie er ei kunnugt hia oss, þa blivtum vier ad setia annad j stadinn.

55. Pa svarade Daniel, Riett! Eingell DROTTins mun finna þig, og sundur snijda þig, þviad med þijnum Lygum gierer þu þig sialfur Lijflausann.

56. Þegar þesse var j burtu, baud hann ad hinn Annar skyllde koma fyrer hann, og sagde til hans, Þu Canaans Art enn ecke Juda! Fegurdinn hefur heimskad þig, og su vonda Fysnenn hefur umsnuid þijnu Hiarta.

57. So hafid þid farid med Israels Dætur, og þær hafa ordid af Hrædslu ad giora ydarn Vilia, Enn þesse Dotter Juda hefur ecke samþyckst ydar Hreckvijsi.

58. Segdu nu framm, Under hvoriu Trie fannstu þau bæde somun?

59. Enn hann svarade, under eirnre Eik. Pa svarade Daniel, Riett! Eingill DROTtins skal uppteikna þig, og j sundur hoggva þig, þviad med þijnum Lygum gierer þu þig sialfur Lijflausann.

60. Pa hoof allt Folkid upp, og kallade med hvarre Roddu, og prijsade GUd, sem þeim hialpar er uppa Hann vona og treysta.

61. Og risu upp j moote þeim Tveimur Ölldungum, med þvi ad Daniel hafde yfervunnid þa, af þeirra eigenn Ordum, ad þeir voru Lygi-Vottar.

62. Og giordu vid þa epter Mosis Logmaale, so sem þeir hofdu forskulldad vid sinn Naunga, og draapu þa. So vard a þeim Deige frelsad saklaust Blood.

63. Enn Helkia, og hans Kvinna, lofudu GUd fyrer sijna Dottur Susanna, og Joakim, hennar Madur, og aller þeirra Ætt-Menn, ad eckert O-ærlegt var med henni fundid.

64. Og Daniel var mikels virdtur hia Folkenu, upp fra þeim Deige, og jafnann þar epter.

# Um Bel i Babylon.

65. Epter Dauda Astyagis, kom Kongs-Rijkid af Persia til Cyrum.

1. Og Daniel var jafnann hia Kongenum, og meir virdtur enn aller Kongs Viner.

2. Enn þeir j Babylon hofdu eirn Afgud, hann nefndest Bel, honum urdu Menn daglega ad offra Tolf Mæler Hveitis, Fiorutijger Saude, og Priar Ylamur Vijns.

3. Og Kongurenn þionade þessum Afgud sialfur, og gieck daglega ofann til hans, ad tilbidia hann, Enn Daniel tilbad GUd sinn.

4. Kongurinn sagde til hans, Hvar fyrer tilbidur þu ecke Bel? Pa sagde hann, Eg þiona ecke Skurgodum, sem med Hondum eru giord, helldur þeim Lifanda Gude, sem Himen og Jord hefur giort, og eirn DROttinn er alls þess sem lifer.

5. Pa sagde Kongurinn til hans, Helldur þu þa ecke Bel fyrer Eirn Lifanda Gud? Sier þu ecke Hvorsu mikid hann etur og dreckur daglega?

6. Enn Daniel broste ad, og sagde, Herra Kongur! Laat ecke villa þig, þviad þesse Bel er ecke hid jnnra nema Leir, enn utann til af Kopar, og hefur enn nu alldrei nockud etid.

7. Pa vard Kongurenn reidur, og liet kalla

kalla a alla sijna Presta, og sagde til þeirra, Ef þier seged mier ei Hvor ad neyter þessa Offurs, þa skulud þier deya.

8. Enn gieted þier Bivijsad, ad Bel neyte þess, þa skal Daniel deya, þviad hann hefur lastad Bel. Og Daniel sagde, Jaa Herra Kongur, verde so sem þu hefur talad!

9. Enn Prestar Bel voru Siotijger, fyrer utann þeirra Kvinnur og Born. Og Kongurinn gieck med Daniel j Mustere Bel.

10. Pa sogdu Prestarner, Siaa! Vier villum ganga j burt, og Pu Herra Kongur! skallt sialfur leggia Fædu og Dryck fyrer hann, og læsa aptur Dyrunum epter þier, og innsigla þær med þijnum Hring.

11. Og a Morgun aarla, þa þu kiemur aptur, og finnur þu ecke, ad Bel hafe neytt alls þessa, þa vilium vier giarnann deya, Ella Daniel skal drepenn verda, sem slijkt hefur loged a oss.

12. Enn þeir treystu þar uppa, ad þeir hofdu giort eirn heimuglegann Nidurgang, under Bordenu, þar geingu þeir jafnan jnn, og aatu allt þad sem þar var til.

13. Pa Prestarner voru nu utgeingner, þa liet Kongurinn setia Fæduna fyrer Bel. Enn Daniel baud sijnum Pienurum ad sækia Osku, og liet dreisa henne um allt Musteris Golfid fyrer Konginum. Pvi nærst geingu þeir ut, og læstu aptur Dyrunum, og innsigludu þær med Kongsins Hring, og geingu j burt.

14. Enn Prestarner geingu um Nott þar jnn, epter þeirra Vana, med þeirra Kvinnum og Bornum, aatu og drucku upp allt þad sem þar var.

15. Ad Morgne Dags miog snemma, var Kongurinn uppe, og Daniel med honum.

16. Og Kongurenn sagde, Er Innsiglid oskadad? Enn hann svarade, Jaa, Herra Kongur!

17. Og jafnsnart sem Dyrnar voru upploatnar, þa leit Kongurinn uppa Bordid, og kallade upp med hoarre Roddu, Bel! Pu ert eirn mikell Gud, og einginn Svik eru med þier!

18. Enn Daniel broste, og hiellt Konginum, so ad hann skylldi ecke ganga jnn, og sagde, Horfid a Golfid, og hyggid ad, hvada Fotspor þetta eru!

19. Kongurinn sagde, Eg sie Fotspor Karl-Manna, Kvenna og Barna.

20. Pa vard Kongurinn reidur, og liet taka Prestana, þeirra Kvinnur og Born, Og þeir urdu ad syna honum þaug heimuglegu Gaung hvar um þeir geingu ut og jnn, og hofdu uppetid allt þad sem a Bordenu var.

21. Og Kongurinn liet drepa þa, Og gaf Bel j Valld Daniels, hann nidurbraut hann, og hans Mustere.

# Um Drekann j Babylon.

22. Par var og j þeim sama Stad eirn mikell Dreke, hvorn þeir j Babylon tilbaadu.

23. Og Kongurinn sagde til Daniel, Hvad? Villtu og segia um þennann, ad hann sie ecke annad enn Skurgod af Kopar? Siaadu? Hann lifer ad vijsu, þviad hann etur og dreckur, og ei kanntu ad segia, ad hann sie ecke eirn Lifande Gud, þar fyrer tilbid þu hann!

24 En Daniel svarade, Eg vil tilbidia DROTTinn Minn Gud, þviad Hann er Sa Lifande Gud.



25. Enn

25. Enn þu, Herra Kongur! Leyfdu mier, þa vil eg drepa þennann Dreka, enn hvorke med Sverde, nie med Stongum, Og Kongurinn sagde, Joa, þad leyfest þier.

26. Þa tok Daniel Bik, Feite og Hoar, og saud þad til samans, og giorde þar af Smaa-Kokur, og kastade þeim j Munnenn a Drekanum, og Drekenn brast þar af sundur j midiu j Tvo Hlute. Þa sagde Daniel, Sioaid! Þetta eru ydrer Guder!

27. Þegar þeir j Babylon heyrdu nu þetta, þa lijkade þeim þad stor-illa, og giordu Upphlaup j mote Kongenum, og sogdu, Vor Kongur er ordenn eirn Gydingur, hviad hann hefur nidurbrotid Bel, og drepid Drekann, og j helslegid Prestana.

28. Og þeir geingu fyrer Konginn, og sogdu, Gief oss framm Daniel, Ellegar skulum vier drepa þig og allt þitt Hus!

29. Þegar Kongurenn saa, ad þeir þreyngdu ad honum med Vallde, þa vard hann ad giefa þeim Danielem.

30. Og þeir kostudu honum nidur til Leonanna j Grofena, þar laa hann j Sex Daga.

31. Og j þeirre Grof voru Sio Leon, þeim gaafu Menn daglega Tvo Menn og Tvo Saude. Enn a þessum Dogum var þeim eckert giefid, so ad þaug skylldu eta Danielem.

32. Enn j Gydinga-Lande var eirn Prophete, Abacuc, hann hafdi soded eitt Juck, og brotid þar Braud ofan j, a einu diupu Fate, og gieck med þetta ut a Akurenn, ad færa þad sijnum Korn-Skieru-Monnum.

33. Og Eingell DROTTins sagde til Abacuc, Þu skallt færa Daniel þann Mat sem þu ber, til Babylon, j Leona-Grofena!

34. Og Abacuc svarade, DROTTinn! Eg hefe alldrei sied Stadenn Babylon, og eige veit eg hvar Grofinn er.

35. Þa greip Eingellenn ofan j Hvirfilenn a honum, og flutte hann sem eirn sterkur Storm-Vindur til Grafarennar j Babylon.

36. Og Abacuc kallade og sagde, Daniel! Daniel! Medtak þessa Fædu sem Gud hefur sendt þier.

37. Og Daniel sagde, DROTTinn Gud! Þu minnist enn nu a mig, og yfergiefur þa ecke sem Þig aakalla, og Þig elska.

38. Og hann reis upp og aat. Enn Eingell DROTTins flutte Abacuc jafnsnart aptur j sinn Stad.

39. Og a hinum Siounda Deige kom Kongurinn, ad syrgia Daniel. Og þegar hann kom til Grafarennar, og leit þar jnn, Sioa þu, þa sat Daniel midt a mille Leonanna.

40. Og Kongurinn kallade upp hꜳrre Roddu, og sagde, O DROTTenn! Þu Gud Danielis, Þu ert eirn mikell Gud, og þar er einginn Gud nema Þu!

41. Og hann liet taka hann upp ur Grofinne. Enn hinum odrum, sem honum villdu hafa fyrerkomid, liet hann kasta j Grofina, og þeir urdu jafnsnart fyrer hans Augum af Leonunum uppsvelgder.

# Bæn Asarie.

Daniel: III.

Utlogd ur Grisku̅ne.

25. Og Asarias stod midt j Brennanda Ofnenum, lauk sijnum Munne upp, badst fyrer, og sagde.

26. Lofadur siertu, DROTTinn! Gud Fedra Vorra, og Þitt Nafn hlytur Loflegt og Dijrdarsamlegt ad vera Eylijflega!

27.

27. Hviad Þu ert Riettlaatur j ollu þvi sem Þu hefur oss giort, Oll þijn Verk eru rietteleg, og hvad Þu giorer þad er riett, og oller þijner Domar eru ostraffanleger.

28. Þu giorer oss riett, j þvi, þad Þu hefur straffad oss, med slijkre Hegning, sem Þu hefur laated yfer oss koma, og yfer Jerusalem þa Heilogu Borg Fedra vorra, Jaa, Þu giorer riett og vel j þvi, fyrer vorra Synda saker.

29. Hviad vier hofum syndgast, og jlla giort, j þvi, ad vier vikum fra Þier, og hofum allavegana Þier a mote giort.

30. Og hlydt ecke Þijnum Bodordum, nie skeytt þeim, so ad vier giordum þar epter, sem Þu hefur bodid oss, so þad oss mætte vel vegna.

31. Þar fyrer þa hefur Þu riettelega giort, ad Þu hefur laatid allt þetta koma yfer oss.

32. Og giefed oss ut j Hendur Ovinum vorum, þeim Ogudlegum vondum Monnum, og þeim Rangloata Grimmasta Konge a Jardrijke.

33. Og vier dirfunst ecke vorum Munne upp ad luka, So erum vier skammader, og ad Hæadung ordner fyrer Þijnum Þionustu-Monnum, og fyrer ollum þeim sem Þig ottast.

34. Enn utskufa oss þo ei med ollu fyrer Þijns Heilaga Nafns saker, og j burtkasta ei Þijnum Saattmaala!

35. Og tak ecke Þijna Miskunseme fra oss, vegna Abrahams Þijns elskulega Vinar, og Þijns Þions Jsaacs, og Jsraels Þijns hins Heilaga.

36. Hvorium Þu hefur fyrerheitid, ad fiølga hans Sæde lijka sem Stiornur a Himne, og so sem Sand j Sioafar-Hafe.

37. Hviad vier erum ordner færre enn aller Heidingiar, og erum nu þiner Allra-fyrerlitnustu a Jordunne, fyrer vorra Synda saker.

38. So þad vier hofum nu ecke framar meir nockra Hofdingia, Spaamenn, nie Kiennemenn, og ecke neitt Brenne-Offur, nie Daglegt Offur, eige Mat-Offur nie Reykelse, og hofum ongvann þann Stad þar ed vær gietum Offrad fyrer Þier, og fundid Naad.

39. Helldur med einu sorgfullu Hiarta og sundurknosudum Anda, þa komum vier fyrer Þig.

40. So sem ad Offrudum vier Brenne-Forner af Hrutum og Uxum, og morgum Þusundum feitra Sauda, lijka so þa laattu vort Offur j Dag verda fyrer Þier þacknæmelegt, þviad Þu lætur þa ecke til Skammar verda, sem uppa Þig treysta.

41. Og nu komum vier med ollu Hiarta, og leitum Þijns Auglitis med Hrædslu.

42. Þar fyrer þa laat Þu oss ecke til Skammar verda, helldur gior Þu vid oss, DROTTinn! epter Þinne Millde, og epter Þinne mikellre Miskunseme.

43. Og frelsa oss epter Þijnum Daadsemdum, og gief þijnu Nafne Dijrdena.

44. So ad sijn skammest aller þeir sem Þijnum Þionustu-Monnum til Miska giora, og verde til Skammar fyrer Þinne storre Magt og Vellde, so ad þeirra Magt verde foreydd.

45. Hvar med þeir munu reyna, þad Þu siert DROTTinn Alleina Gud, Dijrdlegur a Jardrijke!

46. Og Kongsins Þionustu-Menn, þeir ed hofdu innkastad þeim j Ofnenn, lietu ei af ad kasta jafnann Brenne-Steine, Bike, og Tør, og þurru Hrijse ad.

47. So þad Loganum slo upp ur Ofnenum, so hatt sem Niju Alner og Fiorutijger.

48. Og oat j kringum sig, og uppbrennde þa Chaldeos sem hann gat til noad fyrer mann Ofnenn.

49. Enn Eingell DROTTins gieck med þeim sem hioa Asaria voru j Ofnenum,

50. Og keirde ut Ellds-Boalid ur Ofnenum, og giorde so j Ofnenum, lijka sem ad bleşi Vindur med Doggu, so þad Ellduriñ snerte þa olldungiß ecke, nie Pijnde þa, eda giorde þeim neirn Skada.

# Lof-Saungur Þeirra Þriggia Manna j Elldenum.

Daniel: III.

Af Griskunne.

51. Þa hoofu upp þesser Þrijr od syngia hvor med odrum, Prijsudu og Lofudu Gud j Ofnenum, og sogdu.

52. Lofadur siertu, DROTTinn! Gud Fedra vorra, og Þu skallt prijsadur og hoatt lofadur verda æfinnlega!

53. Lofud sie Þijn Dijrd og Heilagt Nafn, og þad verde prijsad og hoatt lofad æfinnlega!

54. Lofadur siertu j Þijnu Heilogu Dijrdarsamlegu Mustere, og Þu skallt prijsadur og hoatt lofadur vera æfinnlega!

55. Lofadur siertu Hvor ed situr yfer Cherubim, og sier j Underdiuped, og Þu skallt prijsadur og hoatt lofadur vera æfinnlega!

56. Lofadur siertu a Þijnum veglega Konunglega Stoole, og Þu skallt prijsadur og hoatt-lofadur vera æfinnlega!

57. Lofadur siertu a Himensins Festingu, og Þu skallt prijsadur og hoatt-lofadur vera æfinnlega!

58. Aull Verk DROTTens lofe Hann, og þaug skulu prijsa Hann, og hroosa Honum æfinnlega!

59. Þier Himnarner, Lofid DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

60. Lofid DROTTinn þier Einglar DROTTins, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

61. Oll Votn, uppa Himnum, Lofed þier DROTTinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

62. Allar Her-Sveiter DROttins, Lofid þier DROTTinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

63. Sool og Tungl, Lofid þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

64. Allar Stiornur a Himnenum, Lofid þier DROTTinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

65. Regn og Dogg, Lofid þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

66. Aller Vindar, Lofed þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega.

67. Elldur og Hite, Lofed þier DROTTinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

68. Hregg-Vidre og Hagl, Lofed þier DROTTinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

69. Dagur og Nott, Lofed þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

70. Lioos og Mirkur, Lofed þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

71. Jis og Frost! Lofed þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

72. Hiela og Snior! Lofed þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

73. Elldingar og Skij, Lofed þier DRottinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

74. Jordenn lofe DROTTinn, Prijsi Hann, og hroosi Honum æfinnlega!

75. Fiollenn og Hoalsarner! Lofed þier DROTTinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

76. Allt þad af Jordunne vex Lofe DROTTinn, Prijsi Hann, og hroosi Honum æfinnlega!

77. Þier Brunnar! Lofed þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

78. Sioafar-Hafid og rennande Votn! Lofid þier DROTTinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

79. Þier Hvalfiskar, og Allt hvad hræriſt j Vatnenu! Lofed þier DROttinn, Prijsid Hann, og hroosid Honum æfinnlega!

80. Aller Fuglar under Himnenum! Lofid þier DROTTinn, Prijsid og hroosid Honum æfinnlega.

81. Oll Villu-Dyr og Fienadur! Lofid þier DROTTinn, prijsid og hroosid Honum æfinnlega!

82. Þier Mannanna Born! Lofid þier DROTTinn, prijsid og hroosid Honum æfinnlega!

83. Jsrael Lofi DROTTinn, Prijsi og hroosi Honum æfinnlega!

84. Þier Prestar DROttins! Lofid þier DROTTinn, Prijsid og hroosid Honum æfinnlega!

85. Þier Þionustu-Menn DROTTins, Lofid þier DROTTinn, prijsid og hroosid Honum æfinnlega!

86. Þier Andar og Saaler Riettlaatra! Lofid DROTTinn, Prijsid og hroosid Honum æfinnlega!

87. Þier Heilager, sem aumer erud og hriggver! Lofid þier DROTTenn, Prijsid og hroosid Honum æfinnlega!

88. Anania, Asaria, og Misael! Lofid þier DROTTinn, Prijsid og hroosid Honum æfinnlega! Þviad Hann hefur leyst oss ut af Helvijte, og hiaalpad oss fra Daudanum. Og Hann hefur frelsad oss af þeim Brennande Ofne, og midt j Elldenum vardveitte Hann oss.

89. Packed þier DROTTne, þviad Hann er Goodur, og Hans Giædska varer ad Eylijfu!

90. Aller þier sem otteſt DROTTinn, Lofid Þann GUD sem er yfer Ollum Gudum, Prijsid og hroosid Honum, þviad Hans Giædska varer ad Eylijfu!

# Bæn Manasse, Konungsins Juda,

**þa hann var Fangadur j Babylon.**

DROTTinn Almaattugur GUD vorra Fedra, Abrahams, Jsaacs og Jacobs, og þeirra Riettferdugs Sædis!

2. Þu sem giort hefur Himen og Jord, og allt þad sem þar er jnne.

3. Og Þu hefur Hafed innsiglad med

Þijnu Bode, og hefur Underdiupenn inneluckt og innsiglad,

4. Til Þijrdar Þijnu Hrædelega og Þijrdlega Nafne, so ad hvor Madur ottest Þig, og hrædest fyrer Þinne stooru Magt.

5. Þviad Þijn Reide er O-bæreleg, hvar med Þu Ognar þeim Syndugu.

6. Enn Su Miskunsemi sem Þu lofar er Omæleleg og Orannsakanleg. Þviad Þu ert DROTTenn, Sa Allra-Hærsti, yfer ollu Jard-Rijke, Mikellrar Þolinmæde, og miog Miskunsamur, og straffar Ogiarnann Mennena, og hefur, epter Þinne Giædsku, fyrerheitid Jdran, til Fyrergiefningar Syndanna.

7. Enn af þvi Þu ert GUd Þeirra Riettferdugu, þa hefur Þu ecke sett Jdran þeim Riettlaatu, Abraham, Isaac og Jacob, hvorier ecke syndgudust j moote Þier,

8. Enn eg hefe syndgast, og mijnar Synder eru fleyre enn Sandur j Sionum, og eg er beygdur j þungum Jaarn-Bondum, og hefe ongva Hvijld,

9. Af þvi, ad eg uppvakte Þijna Reide, og giorde margt Illt fyrer Þier, þar med, ad eg uppbyriade slijkar Svijvirdingar, og so margar Hneixlaner.

10. Þar fyrer beyge eg nu Knie mijns Hiarta, og bid Þig DROttinn! um Naad.

11. O DROTTinn! Eg hefe syndgast! Jaa, eg hefe syndgast! og eg medkienne mijnar Misgiorder!

12. Eg bid, og graat-bæne Þig, Fyrergief Þu mier, O DROTTenn! Fyrergief Þu mier þad, Laat mig ei fyrerfarast j mijnum Syndum!

13. Og laat Straffed ecke Eylijflega liggia a mier. Helldur hiaalpa mier O-maklegum, epter Þinne Mikellre Miskunseme!

14. Þa vil eg vegsama Þig alla mijna Lijfs-Daga. Þviad Þig lofa aller Himensins Herskarar, og Þig skulu Menn prijsa Ætijd og Eylijflega!
Amen!

# Ending Booka þess Gamla Testamentesins.

